# HŒNSA-ÞÓRIS SAGA.

---

ÞÓRLEIFR JÓNSSON
GAF ÚT.



REYKJAVÍK.

KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1892.

# FORMÁLI.

Hænsa-Þóris saga var, að minsta kosti á ofanverðri 17. öld, öll til á skinni (Vatnshyrna). Hefir þá Ketill prófastr Jörundarson í Hvammi í Hvammssveit (sjá um hann í „Æfi Árna Magnússonar“ framanvið Snorra-Eddu, Kh. 1875, og „Formála“ fyrir Flóamannasögu, Rv. 1884) tekið endrrit af sögunni eftir þessari skinnbók. Síra Ketill hefir eins og hans var vandi vandað mjög eftirrit sitt. Síðan hefir þetta pappírshandrit sögunnar komist í eigu dóttursonar síra Ketils, Árna prófessors Magnússonar, svo sem sjá má af hinni fornu „Bókskrá“ *(Catalogus)* Árna, því að þar er þetta handrit tilfœrt (nr. 554, a$\alpha$ 4o). Hefir þá Ásgeir Jónsson, handritari Þórmóðar Torfasonar og síðan Árna, tekið *tvö endrrit* af því og eru þau enn til. Enn sjálft handrit síra Ketils hefir glatast; að líkindum brunnið í eldsvoðanum mikla í Höfn 1728.

Af skinnhandriti sögunnar, að líkindum því er nú var getið um, er enn til í safni Árna *tvö blöð;* hitt af skinnbók þessari er glatað. Enn hvergi finst í skjölum Árna, hvar hann hefir náð í þessi 2 skinnblöð. Þó má tilgeta, að þau sé einhversstaðar að vestan ættuð; og að líkindum hefir Árni aldrei náð í meira af skinnbókinni, er

síra Ketill reit eftir, heldr enn þetta. Tæplega mun og síra Ketill sjálfr hafa átt skinnbókina, er hann reit upp, því að naumast hefði hann tortímt henni eðr aldrtila veitt, einsog raun hefir orðið á. Til sliks var síra Ketill Jörundarson ofmikill hirðumaðr.

Hið fyrra skinnblað, er til er, byrjar allra síðast í 4. kap. (á orðunum: ... *„láta svá búit. Ok er nú kyrrt“* o. s. frv.) og nær síðan yfir 5. og 6. kap. og endar fremst í 7. kap. (á orðunum: *„býr heiman ferð sína ok Helgi fóstri hans“* ... ). — Síðara blaðið byrjar fremst í 16. kap. (á orðunum: ... *„ðu til þingsins; ferr hann þá í Örnólfsdal“* o. s. frv.) og heldr síðan áfram aftr í miðjan 19. kap. (endar á orðunum: *„Þóroddr svarar: ‚satt er þat at þú“* ... ); þar hættir það alveg. — Skinnbókina, er blöð þessi eru úr, telr einhver hinn glöggvasti maðr í þeim efnum, Jón sál. Sigurðsson, vera ritaða skömmu eftir Svartadauða, á fyrri hluta 15. aldar. Fremr er og ritháttr þessara tveggja blaða slœmr og sjálfum sér víða ósamkvæmr.

Á pappír eru til fjölda-mörg handrit af sögu þessari, og eru eflaust best af þeim hin 2 áðrnefndu handrit eftir Ásgeir Jónsson, enn hann hefir víst, einsog þegar var drepið á, ritað þau eftir handriti síra Ketils.

Auk þessara tveggja eru til á bókasöfnunum í Kaupmannahöfn *sex pappírshandrit* af sögu þessari og þaraðauki eitt brot *(1 blað)* hið sjöunda. Eitt *handrit á pappír* er og til í konungsbókhlöðu í Stokkhólmi. Bókmentafélagið á ein *fjögur pappírshandrit* hennar. Og víða munu handrit af henni enn þá vera til í eigu söguvina

hér á landi. Sýnir þetta alt, hversu saga þessi hefir verið vinsæl hjá þjóð vorri, þóað hún sé ekki lengi enn þetta. Og hún á þessa vinsæld skilda, þvíað sagan er bæði mjög skemtileg og sönn í grundvallaratriðunum og œrið kjarnyrt, og bendir því á snemmindis uppruna, enda hafa sumir fornfrœðingar viljað telja hana fyrst skrásetta á öndverðri 12. öld; enn það er nú líklega heldr tímanlega sett. Enn þó er sagan gömul.

Saga þessi er ein með hinum merkilegri fyrir það, hvernig hún í stuttu og sönnu og ljósu máli setr fram mannlegt líf, og það hjá heiðingjum. Hún leiðir skýrt í ljós: Guð og andskotann (*Heilög ritning)*, eðr: lífið og vöntun gœða *(Njóla)*, eðr: hið góða og illa í heiminum *(Rationalistar)*.

Öll handrit, er nú eru til af sögunni, eru nauða-lík, og getr eigi heitið nema ómerkilegr orðamunr á þeim. Alt bendir því á það, að langalengi hafi aðeins hið eina skinnhandrit, er framan er getið, verið til.

Hœnsa-Þóris saga hefir aðeins einusinni áðr útkomið fyrir almennings sjónir, og var það að þakka „Fornfrœðafélagi Norðrlanda“, er Karl Kristján Rafn kom á fót á öndverðri þessari öld. Hún er prentuð samanvið fleiri (5 aðrar) sögur í dýrri bók: Íslendingasögur, annað bindi; Kh. 1847, gr. 8to, er Jón sál. Sigurðsson bjó undir prentun. Einsog við er að búast, er þessi útgáfa sögunnar eftir Jón sál. einkar vönduð og af allri snild gør að öllum frágangi. — Enn dýrleiki bókar þessarar mun hafa valdið því, að fáir hafa getað keypt hana hér á landi.

Þessar þýðingar sögunnar veit ég um (báðar á dönsku): 1. Sagaer eller Fortællinger om Nordmænds og Islænderes Bedrifter i Oldtiden; overs. af P. A. Munch; Chria, 1845, II: Hönse-Thorers Saga eller Fortælling om Hönse-Thorer. 36 bls. — 2. Billeder af Livet på Island; ved F. Winkel-Horn; Kh. 1871, I. bls. 61—90: Hønsetorers Saga.[1]

Aðferðin við útgáfu þá, er hér kemr fram, hefir verið hin sama og hjá Jóni sál., enda var þar eigi miklu á að bœta. Hin 2 skinnblöð (í A. M. 162. fol.) og hin 2 handrit Ásgeirs (AM. 501. 4to og AM. 157. F. fol.) eru lögð til grundvallar fyrir þessari textútgáfu. Enn svosem vera bar eru lesmátar bœttir eftir hinum öðrum handritum, þarer þess þurfti. Rithætti hefir og orðið að breyta frá því, er í handritunum er, samkvæmt því er nú er talið réttast. Eg hefi og fœrt mig lengra uppá skaftið enn hingað til hefir gert verið að því leyti, að ég hefi hvergi ritað *zeta*, þvíað sá bókstafr er með öllu óþarfr í íslenskunni.

Eg hefi og vikið frá útgáfu Jóns og sumum handritunum að því, er skiftingu niðr í kapítula snertir. Þeir

---

1) Af Hœnsa-Þóris sögu orktu þeir rímur saman Sveinn lögmaðr Sölvason og séra Jón Þorláksson að Bægisá. Þær eru níu að tölu, og hætti Sveinn lögmaðr í 5. rímu á þessari vísu óbotnaðri:

Laufarunnar lögðust niður,
lúnir þiggja ró.
Árla Gunnar bregða (J. Þ.:) biður
blundi rekka þó.

*V. Á.*

eru 17 hjá Jóni og í allmörgum handritunum; enn eg kunni betr við að hafa söguna í 20 kapítulum, enda er það samkvæmt sumum handritunum.

Þess er og að geta, að eg hefi aftr tekið uppí textann kafla þann, er prentaðr var neðanmáls í fyrri útg. af þeim sökum, að Jón taldi hann ekki heyra sögunni til að upphafi (áleit hann vera *óegta*). Jón hafði mest á móti honum fyrir það, að honum líkir mjög til þess, er stendr í „Íslendingabók Ara prests“ (5. kap.), og er heldr eigi laus við samruglun. Þetta er síðari helmingr 15. kapítula í þessari minni útgáfu (:„Þórðr gellir talaði þá“ — „Nú er setit at málum“ . . . ). Kafli þessi stendr í öllum bestu handritunum, er nú eru til, og hefir því vafalaust staðið í þeiri einu skinnbók sögunnar, er vér þekkjum. Fann eg því øngva sanna ástœðu til að útbyggja honum eðr útskúfa, hvernig svosem á honum stendr.

Þess skal og að endingu getið, að hinn ágæti vinr vor Íslendinga og mikli vísindamaðr Dr. Konráð Maurer í München á Bajaralandi hefir ritað alllanga ritgjörð um sögu þessa á þýsku máli, er heitir: „*Ueber die* Hœnsa-Þóris saga“, München 1871, 60 bls., 4to. Því miðr hefi eg enn eigi séð hana, enn það má svosem auðvitað ganga að því vísu, að hún er ágæt eftir slíkan mann.

*Þorleifr Jónsson.*

## TÍMATAL
### Í HŒNSA-ÞÓRIS SÖGU.

---

912. Útkoma þeira feðga: Ketils blunds og Geirs auðga, föður Blund-Ketils.

920. Fœddr Tungu-Oddr.

951. Fœdd Jófríðr Gunnarsdóttir Hlífarsonar.

963. Útkoma Arnar austmanns syðra og Þórvaldar Tungu-Oddssonar nyrðra.

964. Blund-Ketils brenna. Hersteinn Blund-Ketilsson kvænist.

965. Brennendr Blund-Ketils gerðir sekir. Fjórðungsþingin sett. Drepinn Hœnsa-Þórir.

966. Jófríðr Gunnarsdóttir gift Þóroddi Tungu-Oddssyni.

970. Þórsteinn Egilsson gengr að eiga Jófríði Gunnarsdóttur.

988. Deyr Tungu-Oddr og er heygðr í Skáneyjarfjalli.



# Hœnsa-Þóris saga.

Oddr hét maðr Önundarson breiðskeggs, Úlfarssonar, Úlfssonar á Fitjum, Skeggjasonar, Þórissonar hlammanda. Hann bjó á Breiðabólsstað í Reykjardal í Borgarfirði. Hann átti þá konu, er Jórunn hét; hon var vitr kona ok vel látin. Þau áttu fjögur börn: sonu tvá vel mannaða ok dœtr tvær. Annarr son þeira hét Þóroddr, enn annarr Þórvaldr. Þuríðr hét dóttir Odds, enn önnur Jófríðr. Hann var kallaðr Tungu-Oddr. Eingi var hann kallaðr jafnaðarmaðr. Torfi hét maðr ok var Valbrandsson, Valþjófssonar, Örlygssonar frá Esjubergi; hann átti Þuríði Tungu-Oddsdóttur; þau bjuggu á öðrum Breiðabólsstað. Arngrímr hét maðr, Helgason, Högnasonar, er út kom með Hrómundi; hann bjó í Norðrtungu; hann var kallaðr Arngrímr goði. Helgi hét son hans. Blund-Ketill hét maðr,

son Geirs hins auðga ór Geirshlíð, Ketilssonar blunds, er Blundsvatn er við kennt. Hann bjó í Örnólfsdal; þat var nökkuru ofar enn nú stendr bœrinn. Var þar mart bœa upp í frá. Hersteinn hét son hans. Blund-Ketill var manna auðgastr ok bezt að sér í fornum sið; hann átti þrjá tigu leigulanda. Hann var hinn vinsælasti maðr í heraðinu. Þórkell trefill hét maðr; hann var Rauða-Bjarnarson; hann bjó í Svignaskarði fyrir útan Norðrá. Helgi var bróðir Þórkels, er bjó í Hvammi í Norðrárdal. Annarr var Gunnvaldr faðir Þórkels, er átti Helgu, dóttur Þórgeirs á Víðimýri. Þórkell trefill var vitr maðr ok vel vinsæll, stórauðigr at fé. Þórir hét maðr; hann var snauðr at fé ok eigi mjök vinsæll af alþýðu manna. Hann lagði þat í vana sinn, at hann fór með sumarkaup sitt heraða í milli, ok seldi þat í öðru, er hann keypti í öðru, ok grœddist honum brátt fé af kaupum sínum. Ok eitt sinn, er Þórir fór sunnan um heiði, hafði hann með sér hœns í för norðr um land, ok seldi þau með öðrum kaupskap, ok því var hann kallaðr Hœnsa-Þórir. Nú grœðir Þórir svá mikit, at hann kaupir sér land, er at Vatni heitir upp frá Norðrtungu; ok fá vetr hafði hann búit áðr hann gerðist svá mikill auðmaðr, at hann átti undir vel hverjum manni stórfé. Enn þó at honum grœddist fé mikit, þá heldust þó óvinsældir hans, þvíat

varla var til óþokkasælli maðr enn Hœnsa-Þórir var.

2. Einn dag gørir Þórir heiman ferð sína ok ríðr í Norðrtungu ok hitti Arngrím goða ok bauð honum barnfóstr: „vil ek taka við Helga syni þínum ok geyma sem ek kann; enn ek vil hafa vináttu þína í mót ok fylgi, til þess at ek nái réttu af mönnum“. Arngrímr svarar: „svá líst mér sem lítill höfuðburðr muni mér at þessu barnfóstri“. Þórir svarar: „ek vil gefa sveininum hálft fé mitt, heldr enn ek nái eigi barnfóstrinu; enn þú skalt rétta hluta minn ok vera skyldr til, við hvern sem ek á um“. Arngrímr svarar: „þat ætla ek mála sannast, at neita eigi því, er svá vel er boðit“. Fór þá Helgi heim með Þóri, ok heitir þar nú síðan bœrinn at Helgavatni. Arngrímr veitti Þóri umsjá, ok þykkir þegar ódælla við hann, ok náir hann nú réttu máli af hverjum manni. Grœðist honum nú stórmikit fé ok gørist hinn mesti auðmaðr. Helst honum enn óvinsældin.

3. Þat var eitt sumar, at skip kom af hafi í Borgarfjörð, ok lögðu þeir eigi inn í ósinn, enn lögðu útarliga á höfnina. Örn hét stýrimaðr; hann var vinsæll maðr ok hinn besti kaupdrengr. Oddr frétti skipkomuna; hann var vanr í fyrra lagi í kaupstefnur at koma ok leggja lag á varning manna, þvíat hann hafði heraðsstjórn. Þótti engum dælt fyrr at kaupa

enn vissi, hvat hann vildi at gøra. Nú hittir hann kaupmenn, ok fréttir eftir, hversu þeir ætla sína ferð, eðr hve skjótar sölur þeir vildu hafa, ok sagði þann vanda, at hann legði lag á varning manna. Örn svarar: „sjálfir ætlum vér at ráða vorri eigu fyrir þér, þvíat þú átt öngan pening með vorum varnaði, ok muntu ráða at sinni eigi meira enn þú mælir“. Oddr svarar: „þat grunar mik, at þat gegni þér verr enn mér, ok svá skal ok vera. Er því at lýsa, at vér bönnum öllum mönnum kaup við yðr at eiga ok svá flutningar allar, svá at ek skal fé af þeim taka, sem yðr veita nökkura björg; enn ek veit at þér flytist eigi ór höfninni fyrir misgöngin“. Örn svarar: „ráða máttu ummælum þínum, enn eigi látum vér kúgast at heldr“. Oddr ríðr nú heim, enn Austmenn liggja þar í höfninni, ok gefr þeim eigi í brottu.

4. Annan dag eftir reið Hersteinn Blund-Ketilsson út á Nes. Hann fann Austmenn, er hann reið útan; kannast hann við stýrimann, ok varð vel at skapi. Örn sagði Hersteini, hversu mikinn ójafnað Oddr bauð þeim, „ok þykkjumst vér eigi vita, hversu vér skulum með fara voru máli“. Þeir talast við um daginn ok at kveldi ríðr Hersteinn heim, ok segir föður sínum frá farmönnum ok hvar nú er komit þeira máli. Blund-Ketill svarar: „viðkennumst ek mann þenna at þinni frásögu, at því at ek var

með föður hans, þá *er* ek var barn, ok hefir ek eigi nýtari dreng fundit enn hans föður, ok er þat illa, at hans kosti er þröngt, ok þat mundi faðir hans ætla, at ek mundi nökkut líta á hans mál, ef hann þyrfti þess við, ok á morgin snemma skaltu ríða út í Höfn, ok bjóða honum hingat með svá marga menn sem hann vill; enn ef hann vill annat heldr, þá skal flytja hann hvert er hann vill, suðr eða norðr, ok skal ek leggja á allan hug, sem ek hefir föng á, honum við at hjálpa. Hersteinn kvað þat gott ráð ok drengilegt, enn þó er meiri ván, at þarfyrir hafim vér óvingan annarra“. Blund-Ketill svarar: „þar sem vér berum eigi verra mál til enn Oddr, þá kann vera at oss falli þat létt“. Nú líðr nóttin; enn þegar um morgininn snemma lætr Blund-Ketill safna hrossum ór haga, ok er þá búin ferðin, ok rekr Hersteinn hundrað hrossa í móti kaupmönnum, ok þurfti einkis á bú at biðja. Hann kemr út þangat, ok sagði Erni tillag föður síns. Örn kvaðst gjarna þenna kost þiggja vilja, enn kvaðst þó hyggja at þeir feðgar mundi fá óvingan annarra manna fyrir þetta. Hersteinn kvað þá eigi verða farit at því. Örn mælti: „þá skulu hásetar mínir flytja sik í önnur heruð, ok er þó œrit í ábyrgð, þóat vér sém eigi allir í einu heraði“. Hersteinn flytr nú Örn heim með sér ok varning hans, ok skilst eigi fyrr við enn allir kaupmenn eru í burtu,

ok búit um skip ok öllu til skila komit. Blund-Ketill tekr æfar-vel við Erni; sat hann þar í góðum fagnaði; komu nú tíðindi þessi fyrir Odd, hvat Blund-Ketill hefir ráðs tekit; ok tala menn nú um, at hann hafi sýnt sik í mótgangi við hann. Oddr svarar: „kalla má þat svá, enn þar er sá maðr, er bæði er vinsæll ok kappsamr, ok vil ek enn vera láta svá búit“. Ok er nú kyrrt.

5. Sumar þetta var lítill grasvöxtr, ok eigi góðr fyrir því, at lítt þornaði, ok varð alllítil heybjörg manna. Blund-Ketill fór um haustit til landseta sinna, ok segir, at hann vill heyleigur hafa á öllum löndum sínum: „eigum vér margt fé at fóðra, enn hey fást lítil; ek vil ok ráða fyrir, hversu miklu slátrað er í haust á hverju búi allra minna landseta, ok mun þá vel hlýða“. Nú líðr sumar af hendi ok kemr vetr, ok er snemma nauðamikill norðr um Hlíðina, enn viðrbúningr lítill; fellr mönnum þungt. Ferr svá fram um jól; ok er Þorri kemr, þá ekr hart at mönnum, ok eru margir þá upptefldir. Ok at kveldi eins dags kemr landseti Blund-Ketils, ok segir sik vera í heyþroti, ok krefr órlausna. Bóndi svarar: „hverju gegnir þat? ek þóttumst svá til ætla á hausti, at ek hugða at vel mundi hlýða“. Sjá svarar: at færra var slátrat enn hann sagði fyrir. Blund-Ketill mælti: „vit skulum eiga kaup saman; ek mun leysa

þik ór vandræði þessu um sinn, enn þú seg þetta engum manni, þvíat ek vil eigi venja menn upp á mik, allrahelst síðan þér hafit þó eigi haft mín tillög“. Sá fór heim ok sagði sínum vin, at Blund-Ketill sé afbragð annarra manna í öllum viðskiftum, ok kvað hann sik ór vandræði leyst hafa; enn sá sagði sínum vin, ok verðr þat svo víst um alt heraðit. Líðr stund ok kemr Gói; þá koma tveir landsetar hans ok segja sik heyþrota. Blund-Ketill svarar: „illa hafit þér gert, at þér hafit afbrugðit mínum ráðum, þvíat þat er þann veg, þóat vér hafim nú hey mikil, þá höfum vér ok fé því fleira; nú ef ek miðla yðr, þá hefi ek ekki til míns fjár; er nú hér um at kjósa“. Þeir ala á málit ok tjá vesöld sína, enn honum þótti hörmuligt at heyra þeira veinan, ok lét reka heim fjóra tigu hrossa ok hundrað, ok lét drepa fjóra tigu hrossa, þau er verst voru, enn gaf landsetum sínum þat fóðr, sem hrossunum var ætlat áðr; fara þeir heim fegnir. Vetrinn gørist því verri sem meir leið á, ok verðr ørkola fyrir mörgum.

**6.** Nú kemr einmánuðr, ok koma tveir landsetar Blund-Ketils. Þeir áttu hóti helst sér nökkura kosti í fémunum, enn þó voru þeir nú í heyþroti ok biðja hann órlausna. Hann svarar þá, ok kveðst eigi til hafa, enda lést hann eigi vilja drepa fleira fé. Þeir frétta, ef hann viti

nökkura þá menn, er hey hefði til sölu. Hann kveðst eigi víst vita. Þeir sækja fast eftir, ok segja nú, at fé þeira muni deya, ef þeir fá enga hjálp af honum. Hann sagði þat af sjálfs dáðnm orðit hafa; „enn sagt er mér, at Hœnsa-Þórir muni hafa hey til sölu“. Þeir svara: „Af honum munu vér ekki fá, nema þú farir með oss, ok mun hann þá þegar selja, ef þú gengr í vörslu fyrir oss um kaupin“. Hann svarar: „Þat má ek gøra, at fara með yðr; enn þat er sannligt, at þeir seli, er til hafa“. Þeir fara snemma um morgininn, ok var á norðan strykr sá ok heldr kaldr. Þórir bóndi var úti staddr í þat mund, sér mennina fara at garði, gengr inn síðan ok rekr aftr hurð ok lætr fyrir loku; ferr til dagverðar. Nú er drepit á dyr. Sveinninn Helgi tekr til orða: „Gakktu út, fóstri, þvíat menn munu vilja hitta þik“. Þórir kveðst mundu matast fyrst, enn sveinninn hleypr undan borðum, ok gengr til hurðar, ok heilsar þeim vel, er komnir voru. Blund-Ketill spurði, hvárt Þórir væri inni. Hann sagði at svá var. „Bið þú hann útgöngu“, sagði hann. Sveinninn gørði svá, ok sagði, at Blund-Ketill var kominn úti, ok vildi hitta hann. Þórir svaraði: „Af hverju mun Blund-Ketill draga nasirnar; kynligt, ef hann ferr at góðu; ekki eyrindi á ek við hann“. Sveinninn ferr ok sagði, at Þórir vildi eigi útganga. „Já“, sagði Blund-Ketill,

„þá skulum vér innganga“. Þeir ganga til stofu, ok er þeim heilsat, enn Þórir þagði. „Svá er viðvaxit“, segir Blund-Ketill, „at vér viljum kaupa hey at þér, Þórir“. Þórir svarar: „eigi er mér þitt fé betra enn mitt“. Blund-Ketill mælti: „ýmist veitir þat“. Þórir svarar: „hví ertu í heyþroti, auðigr maðr?“ Blund-Ketill segir: „eigi er ek greiðliga í heyþroti, ok fala ek fyrir landseta mína, er þurfa þykkjast órlausna; vilda ek gjarnan fá þeim, ef til væri“. „Þat muntu eiga allra heimilast at veita öðrum þitt enn eigi mitt“, sagði Þórir. Blund-Ketill svarar: „eigi skulum vér gjafar at biðja; lát Odd ok Arngrím gøra verð fyrir þína hönd, enn þar á ofan vil ek gefa þér gjafir“. Þórir kveðst eigi hey til hafa at selja, „enda vil ek eigi selja“. Þá gengr Blund-Ketill út ok þeir félagar ok sveinninn með þeim. Þá tekr Blund-Ketill til orða: „hvárt er heldr, at fóstri þinn hefir engin hey til sölu, eðr vill hann eigi selja?“ Sveinninn svarar: „hefir hann víst, ef hann vill“. Blund-Ketill mælti: „fylgdu oss þangat til sem heyin eru“. Hann gørir svá. Nú gørir Blund-Ketill fóðr til fjár Þóris, ok hugðist svá at, þó at algæfta væri til alþingis, at þó mundi afganga fimm stakkar; ok eftir þetta ganga þeir inn. Blund-Ketill mælti: „svá hyggst mér at, Þórir, um heykost þinn, at góðr fengr mun afganga, þóat fé þínu öllu sé inni gefit til al-

þingis, ok vil ek þat kaupa“. Þórir svarar: „hvat skal ek þá hafa annan vetr, ef þá er slíkr vetr eðr verri?“ Blund-Ketill svarar: „gøra mun ek þér þann kost, at fá þér jafnmikinn kost í heyum í sumar, ok þó at engu verri, ok fœra í garða þína“. Þórir svarar: „ef þér hafit nú yðr eigi heybjörg, hvat munu þér þá heldr hafa í sumar; enn veit ek, at er sá ríkismunr okkar, at þú munt taka mega hey fyrir mér, ef þú vill“. Blund-Ketill svarar: „eigi er þann veg upp at taka; þat veistu, at silfr gengr í allar skuldir hér á landi, ok gef ek þér þat við“. Þórir svarar: „eigi vil ek silfr þitt“. „Þá tak þú þvílíka vöru, sem þeir gøra til handa þér, Oddr ok Arngrímr“. „Fátt er hér verkmanna“, segir Þórir, „enn ek nenni lítt ferðum, ok vil ek eigi vasast í slíku“. Blund-Ketill svarar: „þá skal ek láta fœra þér heim“. Þórir mælti: „eigi hefi ek húsakost til þess, at órvænt sé at eigi spillist“. Blund-Ketill svarar: „ek skal fá til húðir, ok búa um svá at vel sé“. Þórir svarar: „eigi vil ek spark annarra manna í húsum mínum“. Blund-Ketill svarar: „þá skal vera hjá oss í vetr, ok mun ek varðveita. „Veit ek gjálgrun þína“, segir Þórir, „ok vil ek engu við þik kaupa“. Blund-Ketill mælti: „þá mun fara verr, ok munu vér alt at einu hafa heyit, þóat þú bannir, enn leggja verð í staðinn, ok njóta þess at vér erum fleiri“. Þá þagnar

Þórir ok gørir eigi gott í skapi. Blund-Ketill lætr taka reip ok binda heyit. Eftir þat hefja þeir upp klyfjar ok bera í burt heyit; enn ætla vel til alls fjár.

7. Nú skal segja, hvat Þórir hefst at; hann býr heiman ferð sína ok Helgi fóstri hans með honum. Þeir ríða í Norðrtungu, ok var þar tekit við þeim afarvel. Spurði Arngrímr tíðenda. Þórir svarar: „ekki hefir ek nú nýligra spurt enn ránit“. „Hvat var ránit?“ sagði Arngrímr. Þórir svarar: „Blund-Ketill hefir rænt mik öllum heyjum, svá at eigi ætlag forkost eftir nautum í köldu veðri“. „Er svá, Helgi“, segir Arngrímr. „Engu gegnir þat“, segir Helgi; „fór Blund-Ketill vel með sínu máli“; sagði Helgi þá, hversu farit hafði með þeim. Þá sagði Arngrímr: „Þat var líkara; betr er þat hey komit, at hann hefir, enn hitt er fúnar fyrir þér“. Þórir svarar: „illu heilli bauð ek þér barnfóstr; skal oss aldri þat illbýli gørt, at oss sé hér tilgangr at heldr, ok at vorr hlutr sé réttr, ok eru slíkt firrn mikil“. Arngrímr svarar: „þat var þegar ófyrirsynju, því*at* ek ætla þat vondum manni at duga sem þú ert“. Þórir svarar: „eigi er ek orðsjúkr maðr, enn illa uni ek, at þú launar svo mína gørð, eðr þat þóat menn ræna mik, því*at* eigi er þetta síðr frá þér tekit“. Ok skildust við svá búit. Ríðr Þórir á burt ok kom á Breiðabólsstað, ok

heilsar Oddr honum vel ok spyrr tíðinda. „Ekki hefir ek nýligra frétt enn ránit“. „Hvat ráni var þat?“ sagði Oddr. Þórir svarar: „Blund-Ketill tók hey mín öll, svá at ek er nú með öllu óbirgr; vilda ek gjarna hafa þína ásjá; enn þetta mál kemr ok til þín, þarsem þú ert forráðsmaðr heraðsins, at rétta þat sem rangt er gørt, ok máttu þat áminnast, at hann gørðist þinn fjandmaðr“. Oddr spurði: „er svá, Helgi?“ Hann sagði, at Þórir affœrði stórmjök; greinir nú alt, hversu fór. Oddr svarar: „eigi vil ek mér afskifta; munda ek svá hafa gørt, ef ek þyrfta“. Þórir svarar: „satt er þat, er mælt er, at spyrja er best til voligra þegna“, ok „án er illt um gengi, nema heiman hafi“. Ríðr Þórir í burt við svá búit ok Helgi með honum, ok ferr heim ok unir illa við.

8. Þórvaldr son Tungu-Odds hafði útkomit um sumarit fyrir norðan land, ok þar vistaðist hann um vetrinn. Hann fór norðan, er leið at sumri á fund föður síns, ok gisti um nótt í Norðrtungu í góðum beina. Sá maðr var þar fyrir á gistingu, er Víðfari hét; hann var reikunarmaðr; hljóp hann á milli landshorna; hann var frændi Þóris náinn ok áþekkr honum í skapmunum. Þetta sama kveld tekr Víðfari föt sín ok støkkr á burt, ok létti eigi fyrr enn hann kemr til Þóris. Hann tekr við honum báðum höndum. „Veit ek ok, at nökkut gott mun

mér leiða af þinni kvomu“. Hann svarar: „gørast mætti þat, þvíat nú er Þórvaldr Oddsson kominn í Norðrtungu ok er þar nú á gistingu“. Þórir svarar: „þat vissa ek at sjá, at mér mundi nökkut gott at höndum koma, þvíat mér varð allgott við, er ek sá þik“. Nú líðr nóttin af hendi, ok þegar um morguninn ríðr Þórir ok þeir fóstrar í Norðrtungu, er þar fjöldi manna kominn, ok var sveininum gefit seturúm, enn Þórir reikar á gólfinu. Þat getr Þórvaldr at líta, er hann sitr á pallinum ok þeir Arngrímr, ok töluðu sín á milli. „Hverr er sá maðr, er reikar um gólfit?“ segir Þórvaldr. Arngrímr svarar: „hann er barnfóstri minn“. „Já“, segir Þórvaldr, „hví skal honum eigi rúm gefast?“ Arngrímr kvað hann eigi varða. „Eigi skal svo vera“, sagði Þórvaldr, ok lætr kalla hann til sín, ok gefr honum rúm at sitja hjá sér; spyrjast síðan almæltra tíðinda. Þórir segir: „raun var þetta, er Blund-Ketill rænti mik“. Þórvaldr spurði: „er sætst á?“. „Fjarri ferr um þat“, segir Þórir. „Hví gegnir þat, Arngrímr“, sagði Þórvaldr, „at þér höfðingjar látit þá skömm framfara?“ Arngrímr svarar: „lýgr hann mestan hlut frá, ok er alllítit tilhaft“. „Var þat þó satt, at hann hafði heyit“, segir Þórvaldr. „Hafði hann víst“, segir Arngrímr. „Bærr er hverr at ráða sínu“, sagði Þórvaldr, „ok kemr honum fyrir lítit vinfengi við þik, ef

hann skal þó undir fótum troðinn“. Þórir mælti: „allvel líst mér á þik, Þórvaldr, ok svá segir mér hugr um, at þú munir nökkut leiðrétta mitt mál“. Þórvaldr mælti: „ek hefir lítit traust undir mér“. Þórir mælti: „ek vil gefa þér fé mitt hálft til þess at þú réttir málit, ok hafir annathvort sektir eðr sjálfdœmi, svoat óvinir mínir siti eigi yfir mínu“. Arngrímr mælti: „gør eigi þetta, Þórvaldr, þvíat eigi er góðum dreng at duga, þar sem hann er; enn þú átt við þann um, er bæði er vitr ok vel at sér ok at öllu vinsæll“. „Sé ek“, segir Þórvaldr, „at þér leikr öfund á, ef ek tek við fé hans, ok anntu mér þess eigi“. Þórir mælti: „svo er at hyggja, Þórvaldr, at fé mitt mun reynast frítt, ok aðrir menn vitu, at mér er eigi fé goldit víða fyrir mitt eigin“. Arngrímr mælti: „letja vil ek þik enn, Þórvaldr, at þú takir við máli þessu, enn þú munt gøra sem þér líkar; uggir mik at mikit hljótist af“. Þórvaldr svarar: „eigi mun ek neita fjárviðtökunni“. Nú handsalar Þórir honum fé sitt hálft, ok þar með málit á hendr Blund-Katli. Arngrímr mælti þá enn: „hversu ætlar þú með at fara máli þessu?“ Þórvaldr svarar: „ek mun fara fyrst á fund föður míns, ok hyggja þaðan at ráðum“. Þórir mælti: „eigi hugnar mér þat; vil ek eigi hinkr; hefir ek mikit til unnit, ok vil ek þegar á morgin láta fara ok stefna Blund-Katli“. Þórvaldr

svarar: „þetta mun vera reyndar, at þú munt vera engi gæfumaðr, ok illt mun af þér hljótast; enn svá mun nú vera verða“. Ok binda þeir Þórir, at hittast á ákveðnum stað um morgininn.

9. Þegar snemma um morgininn ríðr Þórvaldr ok Arngrímr með honum með þrjá tigu manna; hittu þeir Þóri, ok var hann við þriðja mann; þar var Helgi Arngrímsson ok Víðfari frændi Þóris. Þórvaldr mælti: „hví ertu svá fámennr?“ Hann svarar: „ek vissa, at þik mundi eigi lið skorta“. Þeir ríða nú upp eftir hlíðinni. Mannferðin var sén af bœunum ok hleypir hverr af sínum bœ; þykkist sá best hafa er fyrst kemr til Blund-Ketils, ok er þar margt manna fyrir. Þeir Þórvaldr ríða at garði, ok stíga þar af hestum sínum ok ganga heim at bœnum. Þegar Blund-Ketill sér þetta, gengr hann móti þeim ok býðr þeim þar at þiggja allan greiða. Þórvaldr mælti: „annat er erindi hingat enn eta mat; ek vil vita, hverju þú vilt svara fyrir mál þat, er þú tókt upp hey Þóris“. Blund-Ketill svarar: „slíku þér sem honum; gør einn fyrir svá mikit sem þér líkar, ok þó skal ek gefa þér gjafir ofan á, því betri ok meiri sem þú ert meira verðr enn Þórir, ok svá mikinn skal ek þinn sóma gøra, at þat sé allra manna mál, at þú sér vel sœmdr af“. Þórvaldr þagnar, ok þótti vel boðit. Þórir svarar þá:

„eigi er þetta at þiggja, ok þarf eigi at hugsa um þat; löngu átta ek þenna kost, ok kalla ek mér lið eigi veitt, þó at slíkt sé, ok til lítils kom mér at gefa þér fé mitt“. Þá mælti Þórvaldr: „hvat viltu þá gøra fyrir lögmálsstaðinn?“ Blund-Ketill mælti: „eigi annat enn þú gørir ok einn skapar slíkt er þú vilt“. Þá svarar Þórvaldr: „svá líst mér sem engi sé annarr á gørr enn at stefna“. Hann stefnir þá Blund-Katli um rán ok nefnir sér votta, ok hefir þau orð ok umkvæði sem hann fekk frekust haft. Nú snýr Blund-Ketill heim at húsum, ok mœtir austmanninum Erni, er hann gekk at varnaði sínum. Örn spurði: „ertu sárr, bóndi, er þú ert svá rauðr sem blóð?“ Hann svarar: „eigi em ek sárr, enn eigi er þetta betra; þau orð eru töluð við mik, sem aldri hafa áðr töluð verit; ek er kallaðr þjófr ok ránsmaðr“. Örn tekr boga sinn ok lætr koma ör á streng, ok kemr þá út í því þeir stigu á bak. Hann skaut ok varð maðr fyrir, ok lætr sígast niðr af hestinum, ok var þat Helgi, son Arngríms goða. Þeir hlaupa at honum. Þórir otar sér fram milli manna, ok hratt mönnum frá sér ok biðr gefa sér rúm; því*at* mér mun mest umhugat“. Hann laut at Helga niðr, ok var hann þá dauðr. Þórir mælti: „er lítill máttrinn, fóstri minn?“ Þórir réttist þá frá honum, ok mælti: „talaði sveinninn við mik; sagði hann tysvar hit sama, þetta

hérna: „brenni, brenni Blund-Ketill inni“. Arngrímr svarar þá: „nú fór sem mik varði, at oft hlýtr illt af illum, ok grunaði mik at mikit illt mundi af þér hljótast, Þórir, ok eigi veit ek hvat sveinninn hefir sagt, þóat þú fleiprir eitthvert; enn þó er eigi ólíkligt, at slíkt verði gørt; hófst þetta mál illa; kann ok vera at svá lúkist“. Þórir svarar: „eiga þykki mér þú nökkut nauðsynligra enn ávíta mik“. Þeir Arngrímr ríða nú burt undir skógarnef eitt, ok stíga þar af hestum, ok eru nú þar til þess at náttar. Enn Blund-Ketill þakkar mönnum vel sitt liðsinni ok bað hvern mann ríða heimleiðis sem best gegndi.

10. Svá er sagt, at þegar er náttaði, ríða þeir Þórvaldr at bœnum í Örnólfsdal; voru þar þá allir menn í svefni. Þeir draga viðarköst at bœnum ok slá í eldi. Vakna þeir Blund-Ketill eigi fyrr enn húsin loguðu yfir þeim. Blund-Ketill spurði, hverir þar kveikti svá heitan eld? Þórir sagði, hverir voru. Blund-Ketill frétti, ef nökkut skyldi ná sáttum. Þórir sagði, at eingi er kostr annarr enn brenna. Þeir skiljast nú eigi fyrr við, enn hvert mannsbarn er þar inni brunnit. Hersteinn son Blund-Ketils hafði farit um kveldit til fóstra síns, er Þórbjörn hét ok var kallaðr stígandi. Þat er mælt, at Þórbjörn væri eigi allr jafnan, þar sem hann var sénn. Hersteinn vaknar um morgininn,

ok spurði, hvárt fóstri hans vekti? Hann kveðst vaka; „eðr hvat viltu?“ „Mik dreymdi at mér þótti“, segir Hersteinn, „sem faðir minn gengi hér inn, ok loguðu um hann klæðin öll, ok allr þótti mér sem hann væri eldr einn“. Þeir standa upp ok ganga út, ok sjá skjótt logann. Þeir taka vápn sín, ok fara hvatliga, ok voru þá allir menn á burtu, er þeir komu þar. Hersteinn mælti: „hér eru vorðin hörmulig tíðindi, eðr hvat er nú til ráða?“ Þórbjörn svarar: „nú skal neyta þess boðs, er Tungu-Oddr hefir oft mælt, at ek skyldi til hans koma, ef ek þyrfti nökkurs við“. Hersteinn svarar: „eigi þykki mér þat vænligt“. Enn þó fara þeir ok koma á Breiðabólsstað ok kalla út Odd. Hann gengr út ok tekr við þeim vel, ok spurði tíðinda. Þeir sögðu slík sem vorðin voru. Hann lætr illa yfir. Þórbjörn karl tekr þá til orða: „á þá leið er, Oddr bóndi“, sagði hann, „at þú hefir heitit mér ásjá þinni, ok vil ek nú til þess taka, at þú leggir til nökkur góð ráð ok komir til“. Oddr kvaðst svá gera mundu. Ríða þeir nú í Örnólfsdal ok koma þar fyrir dag; voru þá fallin húsin ok fölskaðr mjök eldrinn. Nú ríðr Oddr at húsi einu, því er eigi var brunnit; hann seilist til birkirafts eins ok kippir burt ór húsinu; ríðr síðan andsœlis um húsin með logandi brandinn, ok mælti: „hér nem ek mér land, fyrir því at hér sé ek nú eigi bygðan

bólstað; heyri þat vottar, þeir er hjá eru". Hann keyrir síðan hestinn ok ríðr í burt. Hersteinn mælti: „hvat er nú til ráða? eigi reyndist þessi vel". Þórbjörn mælti: „þegi þú, ef þú mátt, hvat sem í gørist". Hersteinn svarar, ok kvaðst þat eina talat hafa, er eigi var við of. Útibúr var óbrunnit, þar sem varningr austmanns var inni ok mikit fé annat. Í þessu hverfr Þórbjörn karl. Nú lítr Hersteinn heim til bœarins, ok sér útibúrit opit ok út borit féit, enn øngan sér hann manninn. Þar eru bundnar klyfjar; þar næst heyrir hann hark mikit í túnit; sér nú at heim eru rekin hross öll, þau er faðir hans hafði átt, sauðir ok naut ór fjósi ok allt gangandi fé; síðan eru klyfjar upp hafðar, ok því næst öllu á ferð snúit, ok allt fémætt í burt fœrt. Hersteinn víkr nú eftir, ok sér at Þórbjörn karl rekr féit. Þeir snúa leið sinni ofan eftir heraði í Stafholtstungur, ok svo út yfir Norðrá.

**11.** Sauðamaðr Þórkels trefils ór Svignaskarði gekk þenna morgin at fé sínu; hann sér hvar þeir fara ok reka allskyns fénað. Hann segir þetta Þórkeli; enn hann svarar: „veit ek hverju gegna muni; þat munu vera Þverhlíðingar vinir mínir; þeir hafa vetrarnauð mikla ok munu þeir reka hingat fé sitt; skal þeim þat heimilt; ek hefi hey œrin; eru hér ok nógar jarðir útifé". Hann gekk út, er þeir komu í tún, ok

fagnar þeim ok býðr allan greiða slíkan sem þeir vilja þegit hafa. Varla náðu þeir at stíga af baki; svá var bóndi beinn við þá. Þórbjörn mælti: „mikit er nú um beina þinn, ok væri mikit undir at þú efndir þetta alt vel, er þú hefir heitit okkr". „Veit ek erindi þitt", segir Þórkell, „at féit mun hér skulu eftir vera, ok skortir hér eigi jörð nóga ok góða". Þórbjörn mælti: „þiggja munu vit þat". Þá víkr hann Þórkeli hjá húsunum ok mælti: „tíðindi mikil eru at segja". Þórkell spurði, hver þau væri. „Blund-Ketill bóndi var brendr inni í nótt", sagði Þórbjörn. „Hverir gørðu þat níðingsverk?" sagði Þórkell. Þórbjörn sagði þá allt sem farit hafði; „ok þarf Hersteinn nú þinna heillaráða". Þórkell mælti: „eigi þœtti mér ráðit, hvárt ek mundi svá skjótt á boð brugðist hafa, ef ek hefði þetta vitat fyrr; enn mínum ráðum vil ek nú láta fram fara, ok förum nú til matar fyrst". Þeir játtuðu því. Þórkell trefill var þá mjök fámáligr ok nökkut hugsi, ok er þeir voru mettir, lætr hann taka hesta þeira. Síðan taka þeir vápn sín ok stíga á bak. Ríðr Þórkell fyrir þann dag, ok mælti áðr, at vel skyldi geyma fjárins í haganum, enn gefa vel því sem inni var. Þeir ríða nú út á Skógarströnd á Gunnarsstaði; þat er innarliga á Ströndinni. Þar bjó sá maðr er Gunnarr hét ok var Hlífarson, mikill maðr ok sterkr ok hinn mesti

garpr. Hann átti systur Þórðar gellis, er Helga hét. Gunnarr átti tvær dœtr; hét önnur Jófríðr, enn önnur Þuríðr. Þeir koma þar síð dags ok stíga af baki fyrir ofan hús; vindr var á norðan ok heldr kalt. Þórkell gengr at dyrum ok klappar, enn húskarl gengr til hurðar, ok heilsar vel þeim sem kominn var, ok spyrr hverr hann væri. Þórkell kvað hann eigi vita mundu at gørr, þó*at* hann segði honum; ok bið Gunnarr útganga". Hann kvað Gunnar kominn í rekkju. Hann biðr hann segja, at maðr viil hitta hann. Húskarl gørir svo, gengr inn ok segir Gunnari, at maðr vill hitta hann. Gunnarr spurði, hverr hann væri. Húskarl kvaðst þat eigi vita, „enn mikill er hann vexti". Gunnarr mælti: „far þú ok seg honum, at hann sé hér í nátt. Húskarl ferr ok gørir sem Gunnarr bauð, enn Þórkell kvaðst eigi vilja þiggja boð af þrælum, heldr at bónda sjálfum. Húskarl segir at þat væri sannligra; „enn eigi hefir Gunnarr vana til þess at standa upp um nætr. Gerðu annathvárt", sagði húskarl, „at þú far á burt eðr gakk inn ok ver hér í nátt". „Gerðu annathvárt", segir Þórkell, „at þú rek erindi duganda, eðr ek rek sverðshjöltin á nasir þér". Húskarl hleypr inn, ok rekr aftr hurðina. Gunnarr spurði, hví hann fœri svá óðliga. Hann sagðist eigi vildu tala fleira við hinn komna mann; „þvíat hann er mjök hastorðr". Gunn-

arr reis þá upp ok gekk út í túnit, hann var í skyrtu ok línbrókum, möttul yfir sér ok svarta skó á fótum, sverð í hendi. Hann fagnar vel Þórkeli ok biðr hann inn ganga. Hann segir at þeir voru fleiri saman. Gunnarr gengr út í túnit, enn Þórkell þrífr í hurðarhringinn ok rekr aftr hurðina. Þeir ganga þá á bak húsunum. Gunnarr heilsar þeim. Þórkell sagði: „setjumst vér niðr, þvíat vér eigum margt at tala við þik, Gunnarr“. Þeir gøra svá; setjast niðr á tvær hendr honum, ok svá nær, at þeir sátu á skikkjunni, er Gunnarr hafði yfir sér. Þórkell mælti þá: „svá er háttat, Gunnarr bóndi, at hér er sá maðr í ferð með mér, er Hersteinn heitir, son Blund-Ketils; er eigi því erendi at leyna, at hann vill biðja dóttur þinnar Þuríðar; hefi ek ok fyrir þessa sök með honum farit, at ek vilda eigi at þú vísaðir manninum frá, þvíat mér sýnist þetta happaráð hit mesta; þykki mér ok miklu varða, at eigi sé óvirt þetta mál ok mín tillög, eðr seint svarat“. Gunnarr mælti: „eigi er ek einhlítr um svör þessa máls, ok vil ek ráðast um við móður hennar, ok svo við dóttur mína, ok einkum við Þórð gelli frænda hennar; enn góðar einar fréttir höfum vér til þessa manns, ok svá til föður hans; ok er þetta ásjámál“. Þá svarar Trefill: „svá skaltu til ætla, at vér munum eigi lengi vonbiðlar vera konunnar; ok þykkjumst vér eigi minnr sjá fyrir þinni sœmd

enn vorri; þykki mér ok kynligt um svá vitran mann sem þú ert, at þú virðir slíka hluti fyrir þér, svá vel sem boðið er; höfum vér ok svá at eins heiman gørt ferð vora, at eigi mun til einkis ætlat; ok mun ek, Hersteinn, veita þér slíkt lið sem þú vilt, at þetta fari fram, ef hann kann eigi at sjá hvat honum sómir". Gunnarr svarar: „þat fæ ek eigi skilit, hví þér látit svá brátt at þessu, eðr haldit við heitan sjálfa, þvíat mér líst þetta mjök jafnræði, enn einkis ills örvænti ek fyrir yðr, ok mun ek þat ráð upptaka, at rétta fram hendina". Ok svá gørir hann. Enn Hersteinn nefnir sér votta ok fastnar sér konu. Eftir þat standa þeir upp ok ganga inn; er þeim veittr beini góðr. Nú spyrr Gunnarr tíðinda. Þórkell segir, at þeir hafi nú eigi annat nýligar frétt enn brennu Blund-Ketils. Gunnarr spurði, hverr því volli? Þórkell segir, at Þórvaldr Oddsson var upphafsmaðr at, ok Arngrímr goði. Gunnarr svaraði fá, lastaði lítt, enda lofaði eigi.

**12.** Þegar um morgininn í ár er Gunnarr á fótum, ok gengr at Þórkeli ok bað þá klæðast. Þeir gøra svo; ganga síðan til snœðings; eru þá ok búnir hestar þeíra, ok stíga þeir á bak, ríðr Gunnarr fyrir inn með firðinum; þá voru íslög mikil. Eigi létta þeir fyrr enn þeir koma í Hvamm til Þórðar gellis, ok fagnar hann þeim vel ok spurði tíðinda. Þeir sögðu slíkt er þeim

líkaði. Gunnarr heimtir Þórð á mál, ok segir at þar er í för Hersteinn, son Blund-Ketils, ok Þórkell trefill; „er þat erindi þeira, at Hersteinn mælir til mægða við mik, enn til samfara við Þuríði dóttur mína; eðr hversu ráðligt lízt þér þat? Maðr er vænn ok gerviligr; hann skortir ok eigi fé, *þvíat* faðir hans hefir þat mælt, at hann mundi af hendi láta búit, enn Hersteinn tœki við“. Þórðr svarar: „vel er mér við Blund-Ketil, þvíat einn tíma er vit Tungu-Oddr deildum á alþingi um þrælsgjöld, er dœmdust á hendr honum, ok fór ek að heimta í foraðs-illu veðri, ok vér þrír saman, ok komum um nótt til Blund-Ketils, ok var oss þar allvel fagnat, ok þar vorum vér viku. Hann skifti við oss hestum, ok gaf mér góð stóðhross. Slíkt reynda ek af honum, enn þó líst mér svá á, at eigi muni því misráðit, þó at eigi sé þessu keypt“. „Svá máttu ætla“, sagði Gunnarr, „at eigi mun hon föstnuð öðrum manni, þó at henni bjóðist, *þvíat* mér líst sjá maðr vaskligr, ok vel boðinn, ok mikil hætta í, hversu tiltekst, ef þessum manni er frá vísat“. Eftir þat gengr Gunnarr til fundar við dóttur sína, þvíat hon var með Þórði á fóstri, ok fréttir hana eftir, hversu henni var um gefit? Hon svarar, at eigi er henni svo mikil manngirnd í hug, at henni þœtti eigi jafngott at sitja heima; „þvíat ek á kost góðrar forsjá, þar sem Þórðr er frændi minn; enn ykkarn vilja mun ek gøra

um þetta ok annat". Nú elr Gunnarr á málit við Þórð, ok segir at honum líst þetta ráð allsœmiligt. Þórðr svarar: „hví skaltu eigi gefa honum dóttur þína, ef þér líkar". Gunnarr svarar: „þvíat eins gef ek hana, at þat sé jafn vel þinn vili sem minn". Þórðr kvað beggja þeira ráð þetta vera skyldu. „Ek vil", sagði Gunnarr, „at þú, Þórðr, fastnir Hersteini konuna". Þórðr svarar: „sjálfr skaltu þat gøra, at fastna dóttur þína". Gunnarr svarar: „mér þykir meiri virðing í, at þú fastnir hana, þvíat þat samir betr". Þórðr lét nú þetta leiðast, ok fóru nú festar fram. Þá mælti Gunnarr: „biðr ek enn at þú látir hér vera boðit í Hvammi, ok mun þá gørt verða með mestri sœmd". Þórðr bað hann því ok ráða, ef honum þœtti svá betr. Gunnarr segir: „svá munu vér til ætla, at vér látim þegar vera á viku fresti". Eftir þat stíga þeir á bak ok snúa á ferð, ok víkr Þórðr á götu með þeim, ok spurði enn, ef nökkut væri nýtt at segja. Gunnarr svarar: „ekki höfum vér nú nýligar frétt enn brennu Blund-Ketils bónda". Þórðr spurði, hversu þat varð. Enn Gunnarr sagði allan atburðinn um brennuna, ok hverr henni olli, ok svá hverir þat gørðu. Þórðr mælti: „eigi mundi þessu gjaforði svá skjótt ráðit hafa verit, ef ek hefði þetta vitat, ok þykkist þér nú allmjök hafa komist fyrir mik viti ok beittan brögðum í þessu; enn þó þykki mér

eigi víst, at þér sét yðr einhlítir at þessu máli“. Gunnarr mælti: „þar er gott til traustS at ætla sem þú ert, enda er þér nú skylt at veita mági þínum, enn vér erum skyldir at veita þér, þvíat margir heyrðu, at þú fastnaðir konuna, ok þetta var allt við þitt ráð gørt, ok er nú vel at þér reynit eitt sinn, hverr yðar drjúgastr er höfðingjanna, þvíat þér hafit lengi úlfsmunni af etist.“

13. Nú skilja þeir, ok er Þórðr hinn reiðasti, ok þykkir honum þeir hafa gabbat sik. Enn þeir ríða nú fyrst á Gunnarsstaði, ok þykkjast allvel leikit hafa, at þeir höfðu komit Þórði í málit með sér, ok vóru nú allkátir. Eigi ríða þeir nú suðr at sinni, enn bjóða mönnum til boðs, ok sœkja í Hvamm at ákveðnum tíma. Hafði Þórðr þar margt fyrir boðsmanna ok skipar mönnum í sæti um kveldit; sat hann sjálfr á annan bekk, ok Gunnarr mágr hans ok hans menn, enn Þórkell trefill hjá brúðguma á annan bekk, og þeira boðsmenn; brúðir skipuðu pall. Ok svá sem borð voru sett ok allir menn í sæti komnir, þá stökk Hersteinn brúðgumi fram yfir borðit, ok gengr þar at sem einn steinn stóð. Hann steig öðrum fœti upp á steininn ok mælti: „Þess strengi ek heit“, sagði hann, „at áðr alþingi er úti í sumar, skal ek hafa fullsektat Arngrím goða, eðr sjálfdœmi ella“. Síðan stígr hann í sæti sitt. Gunnarr

stökk þá fram ok mælti: „Þess strengi ek heit“, sagði hann, „at áðr alþingi er úti í sumar skal ek hafa sótt til útlegðar Þórvald Oddsson eðr hafa sjálfdœmi ella“. Upp stígr hann undir borð ok mælti til Þórðar: „hví sitr þú, Þórðr, ok mælir ekki um? Vitum vér at slíkt er þér í hug sem oss“. Þórðr svarar: „kyrrt mun þat at sinni“. Gunnarr svarar: „ef þú vilt at vér talim fyrir þik, þá er þat til reiðu; enn vitum vér, at þú ætlar þér Tungu-Odd“. Þórðr mælti: „þér skulut ráða yðrum ummælum, enn ek mun því ráða, hvat ek tala; endit þetta vel sem þér hafit ummælt“. Eigi varð til nýlundu fleira at boðinu, enn þó fór þat allskörugliga fram, ok er þat þraut, fór hverr sem fyrir lá, ok líðr vetrinn af hendi. Ok er vorar safna þeir at sér mönnum, ok fara suðr til Borgarfjarðar, ok koma í Norðrtungu ok stefna Arngrími til þings í Þingnes ok Hœnsa-Þóri. Nú skilst Hersteinn frá liðinu með þrem tigum manna þangat sem hann sagði hinn síðasta náttstað verit hafa Þórvaldar Oddssonar, því at hann var þá farinn af vist sinni. Nú er ókyrrt í heraðinu, ok mikil umrœða ok samandráttr liðs af hvárratveggju hendi.

14. Þat varð til tíðinda, at Hœnsa-Þórir hvarf burt ór heraðinu við tólfta mann, þegar hann spurði, hverir í málit voru komnir, ok fréttist alls ekki til hans. Oddr safnar nú liði um

dalina, Reykjardal hvárutveggja ok Skorradal, ok um allar sveitir fyrir sunnan Hvítá, ok þó hafði hann margt ór öðrum sveitum. Arngrímr goði safnaði mönnum um Þverárhlíð ok Norðrárdal at sumum hluta. Þórkell trefill safnaði mönnum hit neðra um Mýrar ok Stafholtstungur, ok suma Norðrdœli hefir hann með sér, þvíat Helgi bróðir hans bjó í Hvammi, ok hefir hann hann með sér. Nú safnar Þórðr gellir liði vestan, ok hefir eigi margt lið. Hittast nú þessir allir, er í voru málinu, ok hafa alls tvau hundruð manna. Ríða nú ofan fyrir útan Norðrá, ok yfir á at Eyavaði, fyrir ofan Stafholt, ok ætla yfir Hvítá þar sem heitir Þrælastraumr. Þá sjá þeir mannaferð mikla fyrir sunnan ána; er þar Tungu-Oddr ok hafði nær fjögur hundruð manna. Greiða nú ferðina ok vilja fyrr koma til vaðsins. Hittast nú við ána, ok hlaupa þeir Oddr af baki ok verja vaðit; enn þeim Þórði gengr ógreitt framreiðin, ok vildu þó gjarna komast á þingit; slær nú í bardaga ok verða þegar áverkar; fellu fjórir menn af Þórði. Þar fell Þórólfr refr, bróðir Álfs ór Dölum, virðuligr maðr, ok hverfa nú frá við svá búit. Einn maðr fell af Oddi, enn þrír urðu mjök sárir. Þórðr snýr nú málinu til alþingis. Þeir ríða nú heim vestr, ok þykkir mönnum hallast hafa metorð Vestanmanna. Nú ríðr Oddr á þingit. Hann sendi heim þræla sína með hross. Jór-

unn kona hans spurði tíðinda, er þeir komu heim. Þeir kváðust engin segja kunna önnur enn þau, at sá maðr var einn kominn vestan ór Breiðafirði, at svara kunni Tungu-Oddi, ok var hans hljómr ok rödd sem griðungr gelldi. Hon kvað þat engi tíðindi, þótt honum væri svarat sem öðrum manni, enn kvað þó þat hafa gørst at tíðindum, at eigi væri líkligra til. „Var þar ok bardagi“, sögðu þeir, „ok fellu fimm menn alls, enn margir urðu sárir“. Enn áðr gátu þeir þess at engu. Nú liðr þingit, ok verðr þar ekki til tíðinda. Enn er þeir mágar koma heim vestr, skifta þeir bústöðum, ferr Gunnarr í Ørnólfsdal, enn Hersteinn tekr Gunnarsstaði. Eftir þetta lætr Gunnarr fœra til sín vestan við þann allan, sem Ørn austmaðr hafði átt, ok flytja heim í Ørnólfsdal. Tekr hann til síðan ok húsar upp bœinn í annat sinn, þvíat Gunnarr var allra manna hagastr; hann var ok um alt atgervismaðr, ok manna best vígr ok hinn vaskasti í öllu.

**15.** Nú líða stundir fram allt til þess at menn ríða til þings; er nú mikill viðbúnaðr í heruðunum; ríða nú hvárirtveggju ákafa fjölmennir. Ok er þeir Þórðr gellir koma á Gunnarsstaði, er Hersteinn sjúkr, ok má eigi fara til þings; selr hann nú öðrum í hendr sakirnar. Eftir voru hjá honum þrír tigir manna. Nú ríðr Þórðr til þings. Hann safnar at sér vin-

um sínum ok frændum, ok kemr snemma til þings; enn þingit var þá undir Ármannsfelli; ok svá sem flokkar koma hefir Þórðr liðsdrátt mikinn. Nú er sén ferð Tungu-Odds. Ríðr Þórðr þá í mót honum ok vill eigi at hann nái þinghelginni. Oddr ríðr með þrjú hundruð manna. Þeir Þórðr verja þingit, ok slær þá þegar í bardaga; tekst brátt mannfall, enn allmargir urðu sárir. Þar fellu sex menn af Oddi, því*at* Þórðr var miklu fjölmennari. Þetta sjá góðgjarnir menn, at þau vandræði mundu afstanda, ef þingheimrinn berðist, at seint mundi bœtr bíða. Er þá gengit í milli ok verða skildir, ok snúit málum til sættar, ok var Oddr ofrliði borinn, ok varð undan at láta, fyrir því at bæði var, at hann þótti þyngra málahlut eiga at flytja, enda varð hann aflvani fyrir liðs sakir. Var þá þat mælt, at Oddr mundi tjalda á brottu ór þinghelgi, enn ganga til dóma ok at nauðsynjum sínum, fara með sik spakliga, sýna ønga þrjósku né hans menn. Sitja menn nú yfir málum ok reyna at sætta þá. [Þórðr gellir talaði þá langa tölu ok snjalla at lögbergi, ok tjáði þat, hversu illa at mönnum gegndi þat, at fara í ókunnig þing at sœkja um víg eðr harma sína at reka, ok sagði nú hversu mikit at honum varð fyrir, áðr hann gat þessu máli til skila komit ok kvað mörgum manni mein mundu at verða þessu vandræði, ef eigi væri bætr á ráðnar; fyrir því, sagði hann, at hér til hafa þat lög verit, at sakir skal sœkja á því þingi, er næst er vetfanginu; enn

þá er landinu var skift í fjórðunga, var svá skipat, at þrjú voru þing í fjórðungi hverjum, nema í Norðlendingafjórðungi voru fjögur, ok því svá, at þeir urðu eigi á annat sáttir; þeir er voru fyrir norðan Eyafjörð vildu eigi þangat sœkja þing, enda eigi í Skagafjörð, þeir er fyrir vestan voru; enn þó skyldi jöfn dómnefna á alþingi ór þeira fjórðungi sem ór einhverjum öðrum. Af því skal einn maðr þaðan sitja fyrir forráðsgoðorð, at þeir goðar vildu allir setit hafa. Enn síðan voru sett fjórðungsþing. Svá sagði mér Úlfheðinn Gunnarsson]. Nú er setit at málunum, ok horfir Oddi þungliga fyrir þat mest at mikit ofrefli var í móti.

**16.** Enn nú skal segja nökkut af Hersteini, at honum létti brátt sóttarinnar, er þeir riðu til þingsins; ferr hann þá í Ørnólfsdal. Þat var einn morgin snemma, at hann var í smiðju, þvíat hann var manna hagastr á járn. Þá kemr þar bóndi einn, sá er Ørnólfr hét, ok sagði svá: „sjúk er kýr mín, ok bið ek þik, Hersteinn, at þú farir at sjá hana; þykkir oss nú gott at þú ert aftr kominn, ok höfum vér þá nökkut svá iðgjöld föður þíns, er oss varð at mestu gagni“. Hersteinn svarar: „eigi hirði ek um kú þína ok kann ek eigi at sjá, hvat henni er til meins“. Bóndi svarar: „mikill er þó munr, at faðir þinn gaf mér kúna, enn þú vilt eigi sjá hana“. Hersteinn svarar: „ek gef þér aðra kú, ef þessi deyr“. Bóndi svarar: „þat vil ek fyrst þiggja, at þú sjáir þessa. Hersteinn sprettr þá upp ok verðr hermt við, ok gengr út ok bóndinn með honum; snúa síðan í veg til skógar; liggr þar

ein sneiðigata ok skógrinn á tvær hendr. Ok er Hersteinn ferr klifgötuna, nemr hann staðar; hann var allra manna skygnastr. Hann mælti þá: „kom þar fram skjöldr í skóginum“. Bóndi þagði. Hersteinn mælti: „hefir þú svikit mik, hundrinn þinn? Nú ef þú ert í nökkurum særum at leyna, þá leggst þú niðr í götuna ok tala ekki orð; enn ef þú gørir eigi þetta, þá mun ek drepa þik“. Bóndinn leggst þá niðr; enn Hersteinn snýr heim ok kallar á menn sína. Þeir taka vápn sín ok fara síðan í skóginum, ok finna Ørnólf í götunni. Þeir biðja hann fara með sér þangat, sem mælt var at þeir skyldu finnast. Nú fara þeir þar til er þeir koma í eitt rjóðr. Þá mælti Hersteinn til Ørnólfs: „eigi vil ek skylda þik til at tala, enn far nú sem fyrir þik var lagit“. Bóndi hleypr þá upp á hól einn ok blístrar hátt. Síðan hlaupa þar fram tólf menn, ok var þar Hœnsa-Þórir fyrir flokki, enn þeir Hersteinn taka þessa menn höndum ok drepa. Høggr Hersteinn sjálfr höfuð af Þóri ok hefir með sér. Ríða nú síðan suðr til þings ok segja þar þessi tíðindi. Verðr Hersteinn ágætr mjök af þessu verki ok fær af virðing mikla sem von var at. Nú er setit yfir málum manna, ok verða þær málalyktir, at Arngrímr goði verðr sekr fullri sekt, ok allir þeir er at brennunni voru, nema Þórvaldr Oddsson; hann skyldi vera útan þrjá vetr ok eiga þá útkvæmt; gefit var fé fyrir

hann ok svá til farningar öðrum mönnum. Þórvaldr fór útan um sumarit, ok var leiddr upp á Skotland ok þjáðr þar. Nú eftir þetta var slitit þinginu, ok þykkir mönnum Þórðr vel ok sköruliga hafa fylgt þessum málum. Arngrímr goði fór ok útan um sumarit, ok er þat eigi ákveðit, hversu mikit fé goldit var; lýkr á þá leið þessum málum. Ríða menn síðan heim af þingi, enn þeir fara útan sem mælt var, er sekir vóru.

17. Gunnarr Hlífarson sitr nú í Örnólfsdal ok hefir húsat vel; hann hafði selför ok var mannafátt heima. Jófríðr, dóttir Gunnars, átti sjer tjald úti, þvíat henni þótti þat ódaufligra. Einn dag berr svá til, at Þóroddr son Tungu-Odds, ríðr í Þverárhlíð. Hann kemr í Örnólfsdal um farinn veg, ok gengr inn í tjaldit til Jófríðar. Hon heilsar honum vel. Hann sest niðr hjá henni, ok taka þau tal sín á milli, ok í því kemr sveinn frá selinu ok biðr Jófríði at taka ofan klyfjar með sér. Þóroddr ferr til ok tekr ofan klyfjarnar, enn sveinninn ferr síðan í brott ok kemr til sels. Gunnarr spyrr, hví honum yrði nú svo fljótt. Hann svarar öngu. Gunnarr spurði: „sáttu nökkut til tíðinda? „Alls ekki“, kvað sveinninn. „Nei“, sagði Gunnarr, „þannig ertu í bragði, sem nökkut hafi þér fyrir augu borit, þat sem þér þykkir umrœðu vert, ok seg mér ef svá er; eðr er

nökkut manna komit til bœarins?“ „Øngan sá ek kominn“, sagði sveinninn. „Þú munt nú segja verða“, sagði Gunnarr, ok tók sviga einn mikinn, ok ætlar at berja piltinn með; ekki fekk hann af honum heldr enn áðr. Eftir þat fekk Gunnarr sér hest, ok hleypr á bak, ok ríðr skyndiliga ofan til vetrhúsa með hlíðinni. Jófríðr getr at líta ferð föður síns ok sagði Þóroddi, ok biðr hann ríða á brott; „vilda ek gjarna“, sagði hon, „at eigi hlytist illt af mér“. Þóroddr segist munu bráðliga ríða. Gunnarr ber fljótt at ok hleypr af baki; gengr þegar inn í tjaldit. Þóroddr heilsar honum vel; enn Gunnarr tók kveðju hans ok spurði síðan, hví hann væri þar kominn. Þóroddr sagði, at svá bar til um ferðir hans; „ok vil ek þó ekki gøra til fjandskapar við þik; enn vita vil ek, hverju þú vilt svara mér, ef ek bið Jófríðar dóttur þinnar“, segir hann. Gunnarr svarar: „eigi mun ek gifta þér dóttur mína við þessa meðferðina; hefir nú ok í odda staðist með oss um hríð“. Síðan reið Þóroddr heim.

18. Þat var einn dag at Oddr segir, at eigi mundi illa fallit, at hafa nökkurar landsnytjar af Örnólfsdal, „þar er aðrir menn hafa sest á eigur mínar at röngu“. Konur sögðu þat til liggja; „gørist fé harðla nytlétt, ok mun þá miklu betr mjólka ef svá er breytt“. „Þá skal þangat fénu halda“, sagði Oddr, „þvíat þar eru

hagar góðir“. Þá sagði Þóroddr: „ek mun bjóðast til at fylgja fénu ok mun þá óágengiligra þykkja“. Oddr segist þat gjarna vilja. Ok fara þeir nú með fénu; ok er þeir eru langt komnir, segir Þóroddr, at þeir skyldu þangat halda fénu, at þeir fá versta haga, ok skermsl eru mest. Nú líðr nóttin af hendi, ok reka þeir heim féit um morgininn; ok er konur hafa mjólkat, þá kveða þær aldri jafnilla nýst hafa sem þá, ok er þessa eigi oftar freistat. Líða nú svá stundir fram.

**19.** Þat var einn morgin snemma, at Oddr kemr at máli við Þórodd son sinn; „þú skalt fara“, segir hann, „ofan í sveit ok safna mönnum, ok vil ek nú reka menn af eignum vorum, enn Torfi skal fara upp um Hálsa, ok gøra þeim í kunnleika um þenna fund; vér skulum hittast við Steinsvað“. Þeir gøra nú svá; safna þeir liði; fá þeir Þóroddr níu tigi manna; ríða síðan til vaðsins. Þeir Þóroddr koma fyrri til vaðsins. Hann biðr þá ríða fyrir; „enn ek vil bíða föður míns“, segir hann. Ok er þeir koma at garði í Örnólfsdal, er Gunnarr at gøra hlass. Nú rœðir sveinninn um, er var með Gunnari: „menn fara at bœnum eigi allfáir saman“. „Já“, sagði Gunnarr, „svá er þat“, ok gengr heim til bæarins, ok tók boga, þvíat hann skaut allra manna best af honum, ok þar helst til jafnat, er var Gunnarr at Hlíðarenda. Hann hafði þá

húsat vel bœinn; enn gluggr var á útihurðinni, sváat maðr mátti rétta út höfuð sitt. Hann stóð við hurðina með bogann. Nú kemr Þóeoddr at bœnum, ok gengr at dyrum við fá menn, ok spyrr ef Gunnarr vill nökkura sætt bjóða. Hann svarar: „ek veit eigi at ek eigi nökkut at bœta; enn hitt væntir mik, áðr þér fáit mitt vald, at griðkonur mínar muni stungit hafa nökkura þína félaga svefnþorni áðr ek hnigi í gras“. Þóroddr svarar: „satt er þat, at þú ert afbragð flestra manna, þeira sem nú eru uppi; enn þó má koma svá margt lið á móti þér, at þú getir eigi við staðit, þvíat faðir minn ríðr at garði með mikit lið, ok ætlar at drepa þik“. Gunnarr svarar: „vel er þat; enn þat munda ek vilja, at ek hefða mann fyrir mik áðr ek hnigi at velli; enn eigi gruna ek þat, þótt faðir þinn haldi lítt sættirnar“. „Hina leið er“, sagði Þóroddr, „at vér viljum gjarna sættast, ok rétt nú fram höndina með góðum vilja þínum, ok gift mér Jófríði dóttur þína“. Gunnarr svarar: „eigi kúgar þú dóttur mína af mér; enn eigi væri þat fjarri jafnaði boðit sakir þín, þvíat þú ert góðr drengr“. Þóroddr svarar: „eigi mun þat svá virt af góðgjörnum mönnum, ok kann ek mikla þökk fyrir, at þú takir þenna kost með þeim máldögum sem því hœfir“. Ok nú við umtölur vina sinna, ok annat þat, at honum þótti Þóroddr jafnan vel

farit hafa með sínu máli, þá verðr þat af, at Gunnarr réttir fram höndina, ok lúka svá þessu máli.

20. Nú í þessu kemr Oddr í tún, ok snýr Þóroddr þegar í mót föður sínum, ok spyrr, hvat hann ætlar? Hann kveðst ætla at brenna bœinn ok svá mennina. Þóroddr svarar: „á aðra leið er nú komit málinu, ok eru vit Gunnarr nú sáttir“, ok segir nú allt hve komit er. „Heyr hér á endemi“, segir Oddr, „væri þér þá verra, at eiga konuna, þótt Gunnar væri drepinn áðr, er mestr var vor mótstöðumaðr, ok höfum vér illt at verki at hefja þik“. Þóroddr svarar ok mælti: „við mik skaltu nú fyrst berjast, ef eigi kemr öðru við“. Ganga menn nú í milli ok sætta þá feðga. Urðu þær málalyktir, at Jófríðr er gefin Þóroddi, ok líkar Oddi stórilla. Fara nú heim við svá búit. Eftir þat sitja menn at boði, ok unir Þóroddr allvel sínu ráði. Ok at vetri afliðnum ferr Þóroddr útan, þvíat hann hafði spurt at Þórvaldr bróðir hans var í höftum, ok vildi leysa hann með fé. Hann kemr til Noregs ok kom eigi út síðan, ok hvárgi þeira brœðra. — Oddr tók nú at eldast mjök; ok er hann spurði þat, at hvárgi sona hans mundi tilkoma, tók hann sótt mikla, ok er at honum tók at þrøngva, mælti hann við vini sína, at þeir mundi flytja hann upp á Skáneyjarfjall, þá er hann væri dauðr, ok kvaðst þaðan vildu sjá yfir tunguna alla; ok svá var gørt. Enn Jófríðr Gunnarsdóttir var síðan gefin Þórsteini Egilssyni at Borg, ok var hinn mesti kvennskörugr. Ok lýkr þar Hœnsa-Þóris sögu.

# Nöfn.

# KORMÁKS SAGA.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

**VALD. ÁSMUNDARSON.**



REYKJAVÍK.

KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1893.

# FORMÁLI.

Kormáks saga hefir áðr verið gefin út tvisvar; í fyrra skiftið af hinu norræna fornfræðafélagi í Kaupmannahöfn 1832 með latneskri þýðingu. Að þeirri útgáfu vann Þorgeir Guðmundsson, enn vísnaskýringarnar eru eftir Gunnar Pálsson og Finn Magnússon. Í síðara skiftið er sagan gefin út af próf. Th. Möbius í Kíl, og prentuð í Halle 1886. Sú útgáfa er mjög vönduð, og er textanum í henni fylgt í þessari útgáfu sem hér birtist, nema hér hafa verið teknir upp nýir leshættir á ýmsum orðum í vísunum og nýjar tilgátur.

Í „Antiquités Russes“, Kh. 1850—52, er gefinn út kafli úr Kormáks sögu (25. kap.) og dönsk þýðing af henni er í N. M. Petersens „Historiske Fortællinger“.

Saga þessi er ekki til í heilu lagi í skinnhandritum, nema að eins í skinnbókinni AM. 132 fol., sem kölluð er *Möðruvallabók*, af því að hana átti fyrst er menn vita Magnús lögmaðr Björnsson á Möðruvöllum í Eyjafirði († 1662) og gaf sonr hans, Björn sýslumaðr á Munkaþverá, Bartolin háskólakennara bókina, enn Árni Magnússon fekk hana eftir Bartolin dauðan. Á bók þessari er Njála, Egils saga, Finnboga saga, Bandamanna saga, Kormáks saga, Víga-Glúms saga, Droplaugarsona saga, Ölkofra þáttr, Laxdæla, Hallfreðar saga og Fóstbræðra

saga. Hún er rituð á fyrra hlut 14. aldar. — Auk þess er til brot af Kormáks sögu á skinni í AM. 162 F, fol., það er að eins eitt blað, og hefst í 3. kap. sögunnar á orðunum *„augun systir“* og endar í 5. kap. (í 18. vísu) á orðunum: *„þeir hafa vél at vinn(a)“*. Handrit það sem þetta blað er úr er yngra enn hitt, og ritað á síðari hlut 14. aldar. Á broti þessu og skinnbókinni er ekki mikill orðamunr; að eins ein vísa er þar réttari, 6. vísa, þar sem í brotinu stendr *„lá sölva“* í 4. vo. — Fyrir utan þessi skinnhandrit er til fjöldi af pappírshandritum af sögunni, bæði í bókasöfnum í Kaupmannahöfn og hér á landi.

Við útgáfur sögunnar hefir í hvorttveggja skiftið verið farið eftir skinnbókinni AM. 132 fol.

Við sjálfan texta sögunnar er ekki mjög margt að athuga. Orð þau sem bætt er inn í og auðsjáanlega vanta í handr. eru einkend með skáletri. — Á 4. bls. (í 2. kap.) er klausan: *„Þar var Hagbarðr á vegg, þat var líkneski Hagbarðs“*, tekin úr pappírshandriti, og sett inn í, því að annars verðr frásögnin lítt skiljanleg. Mannlíkan af Hagbarði hefir verið skorið á dyrustafinn. Frásögnin um Hagbarð er nú ekki til í íslenzkum fornritum, enn hún hefir verið alkunn á Íslandi í fornöld, því að henni bregðr fyrir í fornum skáldskap frá því á 9. öld. Þjóðólfr hinn hvinverski, skáld Haralds hárfagra, kallar snöruna (hengingarólina) „Hagbarðs höðnu leif“, og þaðan af má víða finna menjar þessarar sagnar í kenningum í skáldskap. Söguna um Hagbarð segir Saxo Grammaticus í Danmerkr sögu og um Hagbarð og Signýju unnustu

hans eru til gömul dönsk þjóðkvæði (prentuð í „Danmarks gamle Folkeviser, udgivne af Svend Grundtvig“).

Í 10. kap. er frásögnin eitthvað rugluð, þar sem stendr á bls. 23 í þessari útgáfu: *„Kormákr tók upp törguna Bersa ok laust á ok rauk ór eldr. Nú er tekinn feldr ok breiddr undir fætr þeim“*. Þessi klausa á saman við klausuna síðar í sama kapítula: *Enn þá er Sköfnungr reið ofan* o. s. frv:, og á að koma inn í frásögnina um sjálfa hólmgönguna, enn hvorki á undan né eftir, og eru því þessar klausur settar milli klofa.

Við vísurnar í sögunni er hins vegar margt að athuga. Þær eru auðsjáanlega flestar meira eða minna úr lagi færðar, og sumar svo, að varla mun unt að lagfæra þær öðruvísi enn að fylla þær með tilgátum, sem verði fjarri því sem í handritunum stendr.

Margir hafa fengizt við að rannsaka og leiðrétta vísurnar í Kormáks sögu. Dr. Möbius hefir talsvert bætt þær í útgáfu sinni, enn síðan ritaði Dr. Björn M. Ólsen um þær langt mál í „Aarböger for nordisk Oldkyndighed“ 1888, og ári síðar ritaði prófessor Sophus Bugge í Kristjaníu um þær í sama tímariti. Ennfremr hefir Dr. Jón Þorkelsson, rektor, gert við þær margar athugasemdir, og er getið um sumar tilgátur hans í ritgerð B. M. Ólsens. Loks hefir Dr. Finnr Jónsson fengizt talsvert við að leiðrétta þessar vísur.

Það hefði ef til vill verið réttast að prenta vísurnar í textanum eftir handritinu, eða því sem næst, enn hafa allar leiðréttingar eða nýja leshætti og tilgátur aftan við söguna ásamt skýringum vísnanna, enn með því móti

hefði vísurnar orðið enn óaðgengilegri fyrir almenning, og því eru í þessari útgáfu margar tilgátur teknar upp í vísurnar og einkendar með skáletri, enn grein gerð fyrir þeim í vísnaskýringunum aftan við. Þessari reglu hefir þó ekki verið fylgt í 1. örk sögunnar, bls. 1—16, þannig, að þar er að mestu leyti fylgt útgáfu Möbius, enn síðan eru hinar nýrri tilgátur teknar upp í vísurnar. Þetta er nokkur ósamkvæmni, enn skýringarnar aftan við bæta úr henni, og samkvæmt þeim og leiðréttingunum, framan við, geta þeir sem vilja lagfært vísurnar einnig í þessum kafla sögunnar og valið þá þær tilgátur sem þeim þykja líklegastar.

Aftan við söguna eru hér prentuð í viðbæti brot úr drápum eftir Kormák, sem ekki eru í sögunni og ekki heldr getið um í henni. Það eru fimm vísuhelmingar úr Snorra-Eddu og ein vísa heil úr Heimskringlu. Í Heimskringlu (Hákonar sögu góða) stendr á undan vísunni „Hafit maðr ask né eski“, „þess getr Kormákr Ögmundarson í Sigurðardrápu“, og má af því ráða, að hann hafi ort stefja-drápu um Sigurð jarl Hákonarson. Enn líkindi eru til að hann hafi einnig ort um Harald gráfeld og að vísurnar „Allgildan biðk aldar“ og „Eykr með ennidúki“ sé úr þeirri drápu, því að þær virðast ortar um konung, nema alt sé sama drápan, og er það ekki ólíklegt, þar sem stefjabálkr er í hvorumtveggja vísunum, bæði þeim sem talið er að sé úr Sigurðardrápu og hinum, sem eiga að vera úr Haralds drápu.

Í ritgerð Ólafs hvítaskálds aftan við Snorra Eddu er vísufjórðungr eftir Kormák:

því at málvinu minnar
mildr Þorketill vildir,

sem auðsjáanlega er ortr um Steingerði og Þorkel föður hennar, enn þessi vísufjórðungr er ekki í sögunni.

Margt bendir á, að Kormáks saga sé nú nokkuð úr lagi færð frá því sem hún hefir verið upphaflega. Þannig er það víst, að kaflinn um einvígi Bersa og Steinars og um Þórarinn ramma, eða 12—16 kap. í sögunni, ætti að standa síðar, því að þeir atburðir hafa farið fram síðar enn sagan segir. Ef það er rétt sem sagan segir, að Kormákr hafi andazt í Skotlandi einum eða tveim vetrum síðar enn Haraldr gráfeldr fór Bjarmalands förina (965), þá hafa allir þeir viðburðir, sem talað er um í 12.—16. kap. (þættinum um Bersa, Steinar og Þórarin), farið fram eftir dauða Kormáks, nema Kormákr hafi dáið miklu síðar enn sagan segir, sem er fult eins líklegt. — Munnmælasagnirnar láta Kormák vera heygðan í Mels (Melstaðar) landi; heitir þar enn í dag Kormákshaugr. Ef slíkt er nokkuð að marka er frásögnin um dauða Kormáks í Skotlandi óáreiðanleg, nema hann hefði dáið á leiðinni milli Skotlands og Íslands, enn svo er að sjá á sögunni, sem Þorgils hafi ekki heim farið þegar eftir dauða Kormáks, heldr verið lengi í víkingu. Í Grettis sögu stendr, að „þeir bjoggu á Mel brœðr, Kormákr ok Þorgils“ og stendr heima að þeir hafi verið synir Þorgils bróður Kormáks skálds, enn naumast gæti Kormákshaugr hafa verið við þenna Kormák kendr, því að hann mun hafa lifað fram yfir 1000. Á munnmælunum er jafnan valt að byggja, enn þegar munnmælin eru þvert á móti því sem í hinum rituðu sögum

stendr, eru þau þó athugaverð, því að sögurnar eru jafnan í hvers manns minni í því héraði sem þær hafa gerzt, og ætti því slík munnmæli varla að geta myndazt, nema þau hefðu við góð rök að styðjast frá upphafi. — Síðasti kafli sögunnar um viðreign Kormáks við risa í Skotlandi og dauða hans þar er óljós og virðist ekki fullkomlega áreiðanlegr, enda eru vísur Kormáks hinar síðustu ekki í fullu samræmi við það sem í sögunni stendr, og er auðséð, að frásögnin hefir verið orðin óljós og rugluð er sagan var rituð, enn vísurnar hafa geymzt. Þannig segir 84. vísa, að bardagi þessi var á Írlandi enn ekki á Skotlandi. Í 82. vísu, sem á að vera um viðreign Kormáks við risann, er risinn nefndr „strengmara-stýrir“, enn sú kenning á ekki við risa. Þótt 82. — 85. vísa ætti saman, er alls óvíst að Kormákr hafi dáið þá er hann orti vísurnar, þótt hann segi í 83. og 85. vísu, að hann muni deyja „kördauða“ eða „verða strádauða“. Svo mikið er að eins víst, að hann hefir barizt á Írlandi, enda hefir hann átt þangað kyn sitt að rekja, því að Kormákr er írskt nafn (Cormac), og Fróði og Þorgils hétu hinir fyrstu Norðmenn er ríki stofnuðu á Írlandi og vóru víkingar. Þeir hafa að öllum líkindum verið forfeðr Kormáks, þannig að Kormákr, faðir Ögmundar á Mel, sem sagt er að hafi verið „víkverskr að ætt“, hafi írskr verið eins og nafnið bendir á, jafnvel sonr annarshvors þeirra Fróða eða Þorgils. Í Egils sögu er Ögmundr faðir Kormáks skálds nefndr Galtason, og gæti verið að Kormákr hinn eldri hefði verið nefndr að viðrnefni „galti“, því „galti“

er til sem auknafn. Það sem menn vita nokkurn veginn víst um ætt Kormáks, má ljósast sýna þannig:

Áni á Ánabrekku
landnámsmaðr.
|
Kormákr (víkverskr?) — Önundr sjóni
írskr að ætt. — á Ánabrekku.
|
Ögmundr á Mel ‿ Dalla Önundardóttir.
landnámsmaðr.
|
Kormákr skáld. Þorgils á Mel.
|
Kormákr á Mel. Þorgils á Mel.
um 1000. um 1000.

Haukr Valdísarson kveðr svo um Kormák Ögmundarson í Íslendinga-drápu:

Kendi Kormákr stundum
*kynstórr* viðum brynju,
oft brá hann við heiftir
hrafns sút, í gras lúta;
álmr sá er hlaut hilmis
hald blóðugra skjalda,
höld frá ek hræðast aldri,
hugprúðr á sik trúði.

Orðið *kynstórr* bendir á, að Kormákr hafi verið stórættaðr, og kemr það vel heim við það sem hér hefir verið sagt.

Í engri af Íslendingasögum er jafnmikið af vísum sem í Kormáks sögu, því að vísurnar í henni eru meiri hlutr efnisins. Enn meinið er, að vísurnar eru margar svo af-

lagaðar, að þær hafa að miklu leyti mist hina upphaflegu fegrð sína. Þær vísur, sem lítið eða ekki hafa verið afbakaðar, svo sem „Brámáni skein brúna“ og „Heitar hellur fljóta“ o. s. frv., eru með hinu bezta í fornum skáldskap. Kormák má víst telja eitt hið bezta skáld íslenskt að fornu, enda er skáldskapr hans að sumu leyti frábrugðinn öðrum fornum skáldskap, og stafar það að líkindum af því að hann var írskr að kyni, enda bregðr fyrir í vísum hans ekki allfáum orðum, sem komin munu vera úr írsku eða fornensku.

## TÍMATAL.

| | |
|---|---|
| Utkoma Ögmundar Kormákssonar . . | 931—934. |
| Fæddr Kormákr Ögmundarson . um | 937. |
| Kormákr kemst í kunnleika við Steingerði . . . . . . . . . . . . . . um | 956. |
| Hólmganga Kormáks og Bersa . . . | 958. |
| Utanför Kormáks hin fyrri (fyrsta?) | 959. |
| Kormákr er í víkingu um sumarið | 960. |
| Kormákr er með Haraldi gráfeld . . | 961—962. |
| Útkoma Kormáks til Íslands . . . . | 962. |
| Hólmgöngur þeirra Kormáks og Þorvarðar . . . . . . . . . . . . . . . | 963—964. |
| Önnur utanför Kormáks . . . . . . . | 964. |
| Bjarmalandsferð Haralds konungs . . | 965. |
| Kormákr deyr (ef ekki er blandað málum) . . . . . . . . . . . . um | 967. |
| Hólmganga Bersa og Steinars ekki fyrr enn . . . . . . . . . . . | 976. |
| Bersi fellir Þorkel tanngnjóst á hólmi . . . . . . . . . . . . . fyrir | 980. |
| Viðreign Bersa og Þórarins ramma. Bersi vegr Vála . . . . . . um | 985. |

## Leiðréttingar og athugasemdir.

Bls. $1_4$ að *les:* at. — $4_{23}$ oftarr enn nú svarra *rétt:* oftarr enn nú — svarra. — $5_{13}$ gullhrings *er í Gunnlaugs s. ormstungu* gullmens *og fer betr á því.* — $9_{20}$ hví *r.* hvé. = $10_{31}$ esumk *r.* erumk. — $11_5$ Hlíu *r.* Hlín, *og* esumk *r.* erumk. — $11_{15}$ esut *r.* erut. — $13_3$ áar *r.* aar. — $17_{13}$ ör *r.* ór. — $17_{23}$ *Með orðunum:* Kormákr tók hest sinn *hefst 8. kap.* — $30_{27}$ Bjóðit ér *er tilgáta Dr. Jóns Þorkelssonar fyrir* Boðit hafa, *sem stendr í handr.* — $39_8$ fram *r.* framm. — $40_9$ bere *r.* beri. — $41_{25}$ Halldór *r.* Halldórr. — $47_3$ þás öll *r.* þás es öll. — $50_{28}$ reyni *r.* reini (reini, graðhestr). — $51_1$ garpa *r.* garða. — $61_{19}$ vífl *r.* vífi. — $62_{14}$ um *r.* of. — $64_1$ sprudi *r.* sprundi. — $69_{16}$ væra *r.* vera. — $70_7$ 162 a fol. *r.* 162 F. fol. — $70_{27}$ *ljóst hár virðist ekki geta verið rétt um Kormák, því sagan segir að* „hann var svartr á hár“; sölr *verðr hér því* = dökkr. — $80_1$ at *r.* að. — $81_{19}$ Ek vas of genginn; göngu-Gefn *o. s. frv. r.* Ek vas of genginn göngu; Gefn. — $82_{29}$ ægilegr *r.* œgilegr. — $88_9$ ölna *r.* alna, *að líkindum, þótt í handr. standi* ölna. — $93_5$ *er skýringin röng eftir því sem á undan er farið og Dr. Jón Þorkelsson hefir til getið:* skyldum við ekki heldr *o. s. frv. r.* nær sem við megum *o. s. frv. Hitt er eldri skýring og er þá vísan tekin alt öðruvísi.* — $95_5$ reyni *r.* reini. — $95_{15}$ og eg ætti að reyna hana *verðr samkvæmt þessu röng skýring, enn reyndar er það ekki víst nema* reyni *gæti verið rétt.* — $106_6$ Uðr *líklega réttara* Urðr.



# Kormáks saga.

---

Haraldr konungr hinn hárfagri réð fyrir Noregi þá er saga sjá gerðist. Í þann tíma var sá höfðingi í ríkinu er Kormákr hét, víkverskr að ætt, ríkr og kynstórr; hann var hinn mesti garpr ok hafði verit með Haraldi konungi í mörgum orrostum. Hann átti son er Ögmundr hét; hann var hinn efnilegasti maðr, snemma mikill og sterkr; þegar er hann hafði aldr og þroska, lagðist hann í víking á sumrum enn var með konungi á vetrum; hann aflaði sér góðs orðs og mikils fjár. Eitt sumar lagðist hann í vestrvíking; þar var fyrir sá maðr er Ásmundr hét *eskisíða;* hann var hinn mesti garpr; hann hafði sigrat marga víkinga og hermenn; spyrr nú hvárr til annars ok fara orð í milli þeirra ok fundust þeir sjálfir ok lögðu sér orrostustað ok börðust. Ásmundr hafði fleira lið ok lagði

eigi öllu til orrostu. Þeir börðust fjóra daga; fell mjök lið Ásmundar, enn hann flýði sjálfr; enn Ögmundr hafði sigr ok kom heim með fé og frama. Kormákr kvað Ögmund eigi mundu meira frama fá í hernaði — „ok mun ek fá þér konu, Helgu dóttur Fróða jarls“. „Þat vil ek“, segir Ögmundr. Eftir þat gera þeir ferð sína til Fróða jarls. Tók hann vel við þeim; þeir bera upp erendi sín; jarl tók því vel ok kallaði á liggja ótta nokkurn um skifti þeirra Ásmundar; enn þó tókust þessi ráð ok fóru þeir heim ok var við veizlu búizt og kom til þeirrar veizlu fjölmenni mikit. Helga dóttir Fróða jarls átti sér fóstru framsýna ok fór hon með henni. Þetta spyrr Ásmundr víkingr ok ferr til fundar við Ögmund; býðr honum hólmgöngu. Ögmundr játar því. Fóstra Helgu var því vön at þreifa um menn áðr enn til vígs færi; hon gerir svá við Ögmund áðr hann fór heiman; hon kvað hvergi stórum við hníta. Þeir fóru síðan báðir til hólms ok börðust. Víkingrinn færði við síðuna og beit ekki á. Þá brá Ögmundr upp sverðinu skjótt ok skifti síðan í höndunum ok hjó undan Ásmundi fótinn ok tók þrjár merkr gulls í hólmlausn.

2. Í þann tíma andaðist Haraldr konungr hárfagri ok tók ríki Eiríkr blóðex. Enn Ögmundr vingaðist ekki við þau Eirík ok Gunnhildi, ok býr Ögmundr skip sitt til Íslands. Ög-

mundr og Helga áttu son er Fróði hét. Þá er skip var mjök búit, tók Helga sótt ok andaðist ok Fróði son þeirra. Eftir þat sigldu þeir í haf; þá kastar Ögmundr út öndvegissúlum sínum; þeir kómu utan at Miðfirði, þar vóru áðr komnar öndvegissúlur hans, köstuðu þar akkerum. Enn í þann tíma réð þar fyrir Miðfjarðar-Skeggi; hann reri til þeirra ok bauð þeim inn í fjörðinn ok svá landskosti. Þat þá Ögmundr, mælti grundvöll undir hús. Þat var þeirra átrúnaðr, ef málit gengi saman þá er oftar væri reynt, at þess manns ráð mundi saman ganga ef málvöndrinn þyrri, enn þróast ef hann vissi til mikilleiks; enn málit gekk saman ok *var* þrem sinnum reynt. Síðan lét Ögmundr gera hús þar á melnum ok bjó þar síðan. Hann fekk Döllu dóttur Önundar sjóna; þeirra synir vóru þeir Þorgils ok Kormákr; hann var svartr á hár ok sveipr í hárinu, hörundljóss og nokkut líkr móður sinni, mikill ok sterkr, áhlaupamaðr í skapi. Þorgils var hljóðlyndr og hægr. Þá er þeir bræðr vóru fulltíða, andaðist Ögmundr; varðveitti Dalla bú með sonum sínum; annaðist Þorgils um bú við umsjá Miðfjarðar-Skeggja.

3. Þorkell hét maðr er bjó í Tungu; hann var kvángaðr ok áttu þau dóttur er Steingerðr hét; hon var í Gnúpsdal at fóstri. Þat var eitt haust, at hvalr kom út á Vatnsnes ok áttu þeir bræðr Döllusynir. Þorgils bauð Kormáki hvárt

1*

hann vildi heldr fara á fjall eða til hvals. Hann kaus at fara á fjall með húskörlum. Maðr hét Tósti; hann var verkstjóri ok skyldi skipa til um sauðaferðir, ok fóru þeir Kormákr báðir saman þar til er þeir kómu í Gnúpsdal ok vóru þar um nóttina; þar var mikill skáli ok eldar gervir fyrir mönnum. Um kveldit gekk Steingerðr frá dyngju sinni ok ambátt með henni. Þær heyrðu inn í skálann til ókunnra manna. Ambáttin mælti: „Steingerðr mín, sjám vit gestina“. Hon kvað þess enga þörf ok gekk þó at hurðinni og sté upp á þreskjöldinn ok sá fyrir ofan hlaðann; rúm var milli hlerans ok þreskjaldarins; þar kómu fram fætr hennar. Kormákr sá þat ok kvað vísu:

(1) Nú varð mér í mínu
menreið jötuns leiði,
reittumk ristin snótar
ramma ást fyr skammu;
þeir munu fœtr at fári
faldgerðar mér verða
— alls ekki veitk ella —
oftarr en nú svarra.

Nú finnr Steingerðr, at hon er sén; snýr nú í skotit *(þar var Hagbarðr á vegg, þat var líkneski Hagbarðs —)* ok sér undir skegg Hagbarði. Nú ber ljós í andlit henni. Þá mælti Tósti: „Kormákr, sér þú augun utar hjá Hagbarðs höfðinu?“ Kormákr kvað vísu:

(2) Brunnu beggja kinna
björt ljós á mik drósar

— oss hlœgir þat eigi —
eldhúss of við feldan.
Enn til ökla svanna
ítrvaxins gatk líta
— þrá muna oss of ævi
eldask — hjá þreskeldi.

Ok enn kvað hann:

(3) Brámáni skein brúna
brims und ljósum himni
Hristar hørvi glœstrar
haukfránn á mik lauka.
En sá geisli sýslir
síðan gullhrings Fríðar
hvarmatungls ok hringa
Hlínar óþurft mína.

Tósti mælti: „Starsýn gerist hon á þik“. Kormákr kvað:

(4) Hófat lind — né leyndak —
líðs hyrjar — því stríði —
— bands man ek beiða Rindi —
baugsœm af mér augu,
þás húnknarrar hjarra
happþægi-Bil krappra
helsisœm á halsi
Hagbarðs á mik starði.

Nú ganga þær í skálann ok setjast niðr. Kormákr heyrir hvat þær tala til yfirlita hans. Ambáttin kvað Kormák vera svartan og ljótan. Steingerðr kvað hann vænan ok at öllu sem bezt, — „þó at eitt er lýti á, hárit er sveipt í enninu“. Kormákr kvað vísu:

(5) Eitt lýti kvazk ‚ita‘
eldbekks á mér þekkja

Eir of aftanskœrur
allhvít ok þó lítit;
haukmœrar kvað hári
Hlín velborin mínu
— þat skyldak kyn kvinna
kenna — sveipt í enni.

Ambáttin mælti: „Svört eru augun, systir, ok samir þat eigi vel“. Þetta heyrir Kormákr ok kvað vísu:

(6) Svört augu berk Sága
‚snyrtigrund‘ til fundar
þykkik erma ilmi
allfölr ‚er la‘ sölva;
þó hefik mér hjá meyjum
mengrund komit stundum
hrings við Hörn að manga
hagr sem drengr enn fagri.

Þar vóru þeir um nóttina. Um morgininn er Kormákr reis upp, gekk hann til vatnkakka ok þó sér; síðan gekk hann til stofu ok sá þar engan mann ok heyrði mannamál í innri stofu ok snýr hann þagat; þar var Steingerðr ok konur hjá henni. Ambáttin mælti til Steingerðar: „Hér ferr nú hinn væni maðr, Steingerðr“. Hon segir: „Víst er hann vasklegr maðr“. Steingerðr kembdi sér. Kormákr mælti: „Viltu ljá mér?“ Steingerðr rétti til hans; hon var hærð kvenna bezt. Ambáttin mælti: „Þó mundir þú miklu kaupa at koña þín hefði slíkt hár sem Steingerðr eða slík augu“. Kormákr kvað vísu:

(7) Öl-Ságu metk auga
annat beðjar Nannu
þats í líki ljósu
liggr, hundraða þriggja.
Þann met ek hadd es — hodda —
hörbeiði-Sif greiðir
— dýr verðr fægi-Freyja —
fimm hundraða, snimma.

Ambáttin mælti: „Jafnaðarþokki er með ykkr, enn þó muntu dýrt meta hana alla“. Kormákr kvað vísu:

(8) Alls met ek auðar þellu
Íslands þás mér grandar
Húnalands ok handan
hugstarks sem Danmarkar,
verð es Engla iarðar
Eir háþyrnis geira,
sól-Gunni metk svinna
sunds ok Íra grundar.

Tósti kom þar ok bað Kormák gá nokkurs. Kormákr kvað vísu:

(9) Léttfœran skalt láta
— ljóst vendi mar Tósti —
móðan of miklar heiðar
minn hest und þér rinna;
makara's mér at mæla
en mórauða sauði
um afréttu elta
orð mart við Steingerði.

Tósti kvað honum þat mundi þykkja skemtilegra. Ferr hann, enn Kormákr sitr at tafli ok skemti sér. Steingerðr kvað honum betr

orð liggja enn frá var sagt. Sat hann þar um daginn. Þá kvað hann vísu:

(10) Saurfirðum kom svarðar
sefþeys at mér Freyja
— grepps reiðu mank góða —
geir teins skarar beina:
þó váru vér þeiri
þall hyltinga vallar
— minnumk Eir at unna
unnfúrs — meðalkunnir.

Tósti kemr af fjalli ok fara þeir heim. Eftir þetta venr Kormákr göngur sínar í Gnúpsdal at hitta Steingerði, ok bað móður sína gera sér góð klæði, at Steingerði mætti sem bezt á hann lítast. Dalla kvað mannamun mikinn ok þó eigi víst at til yndis yrði, ef þetta vissi Þorkell í Tungu.

4. Þorkell spyrr nú brátt hvat um er at vera ok þykkir sér horfa til óvirðingar ok dóttur sinni, ef Kormákr vill þetta eigi meirr festa; sendir eftir Steingerði ok ferr hon heim. Narfi hét maðr; hann var með Þorkeli; hann var hávaðamaðr ok skapheimskr, hælinn ok þó lítilmenni. Narfi mælti til Þorkels: „Ef þér eru óskapþekkar kvámur Kormáks hingat, þá má ek þar skjótt at gera“. Því játti Þorkell. Um haustit annaðist Narfi um slátrastarf. Þat var eitt sinn er Kormákr kom í Tungu; sá hann Steingerði í soðhúsi. Narfi stóð við ketil, ok er

lokit var at sjóða, vá Narfi upp mörbjúga ok brá fyrir nasar Kormáki ok kvað þetta:

(11) Hversu þykkja ketils þér,
Kormákr, ormar?

Hann segir:

(12) Góðr *(of)* þykkir soðinn mörr
syni Ögmundar.

Ok um kveldit, er Kormákr bjóst heim, sá hann Narfa ok mintist hans hæðiyrða. Kormákr mælti: „Þat hygg ek, Narfi, at þat mun fyrr fram koma at ek mun ljósta þik enn þú munir ráða ferðum mínum", ok laust Kormákr hann exarhamarshögg ok kvað:

(13) Hvat skalt örva Áti
ófróðr of mat rœða?
þér vas kerski þeirar
þarf eng við mik, Narfi.

Ok enn kvað hann:

(14) Spurði frenju fœðir
fréttinn hví mér þætti
— hann sýnisk mér heima
hvarmrauðr — ketilormar;
veitk at hrímugr hlúki
hrókr saurugra flóka
sás túnvöllu taddi
tíkr erendi hafði.

5. Þórveig hét kona. Hon var mjök fjölkunnig. Hon bjó á Steinsstöðum í Miðfirði. Hon átti tvá sonu; hét hinn ellri Oddr, enn hinn yngri Guðmundr; þeir vóru hávaðamenn miklir. Oddr venr kvámur sínar í Tungu til Þorkels ok sitr á tali við Steingerði. Þorkell gerir sér dátt við

þá bræðr ok eggjar þá at sitja fyrir Kormáki. Oddr kvað sér þat ekki ofrefli. Þat var einhvern dag, er Kormákr kom í Tungu; var Steingerðr í stofu og sat á palli. Þórveigarsynir sátu í stofunni ok vóru búnir at veita Kormáki tilræði er hann gengi inn; enn Þorkell hafði sett öðrum megin dyra sverð brugðit, enn öðrum megin setti Narfi ljá í langorfi. Enn þá er Kormákr kom at skáladyrum, skaraði ofan ljáinn ok mætti hann sverðinu ok brotnaði í mikit skarð. Þá kom Þorkell at ok kvað Kormák mart ilt gera ok var málóði, snýr inn skyndilega ok kveðr Steingerði af stofunni. Ganga þau út um aðrar dyrr ok lykr hann hana í einu útibúri; kvað þau Kormák aldri sjást skulu. Kormákr gengr inn ok bar hann skjótara at enn þá varði ok varð þeim bilt. Kormákr litast um ok sér eigi Steingerði, enn sér þá bræðr er þeir struku vápn sín, snýr í brott skyndilega ok kvað vísu:

(15) Hneit við Hrungnis fóta
hallvitjöndum stalli
inn vask ilmi at finna
engis lé of genginn;
vita skal hitt, ef hættir
‚handviðris' mér grandi
— né Yggs fyr lið leggjum
lítit, — meira vítis.

Kormákr finnr *eigi* Steingerði ok kvað vísu:

(16) Braut hvarf ór sal sæta,
sunns esumk hugr á Gunni

hvat merkir nú herkis
hall þverlegar alla?
rendak alt et innra
eirar geirs at þeiri
Hlíu esumk Hörn at finna
hús brágeislum fúsir.

Eftir þat gekk Kormákr at húsi *því* er Steingerðr var í ok braut upp húsit ok talaði við Steingerði. Hon mælti: Þú breytir óvarlega, sækir til tals við mik, því að Þórveigarsynir eru ætlaðir til höfuðs þér. Þá kvað Kormákr:

(17) Sitja sverð ok hvetja
sín andskotar mínir
eins karls synir inni,
esut þeir banar mínir;
enn ef á víðum velli
vega tveir at mér einum,
þás sem ær at ulfi
órœknum fjör sœki.

Þar sat Kormákr um daginn. Nú sér Þorkell at þetta ráð er farit er hann hafði stofnat; nú biðr hann Þórveigarsonu at sitja fyrir Kormáki í dal einum fyrir utan garð sinn. Þá mælti Þorkell: „Narfi skal fara með ykkr, enn ek mun vera heima ok veita yðr lið ef þér þurfit“. Um kveldit ferr Kormákr í brott ok þegar er hann kemr at dalnum, sá hann menn þrjá ok kvað vísu:

(18) Sitja menn ok meina
mér eina Gná steina,
þeir hafa vil at vinna
es vörðumk Gná borða;

því meira skalk þeiri
es þeir ala meira
öfund um órar göngur
unna sölva Gunni.

Þá hljópu Þórveigarsynir upp ok sóttu at Kormáki lengi. Narfi skrjáði um it ytra. Þorkell sér heiman at þeim sækist seint ok tekr vápn sín. Í því bili kom Steingerðr út ok sér ætlan föður síns; tekr hon hann höndum ok kemst hann ekki til liðs með þeim bræðrum. Lauk svá því máli at Oddr fell, enn Guðmundr varð óvígr ok dó þó síðan. Eftir þetta fór Kormákr heim, enn Þorkell sér fyrir þeim bræðrum. Litlu síðar ferr Kormákr at finna Þórveigu, ok kveðst ekki vilja bygð hennar þar í firðinum — „skaltu flytja þik í brott at ákveðinni stundu, enn ek vil allra bóta varna um sonu þína“. Þórveig mælti: „Þat er líkast, at því komir þú á leið, at ek verða heraðflótta, enn synir mínir óbættir, enn því skal ek þér launa, at þú skalt Steingerðar aldri njóta“. Kormákr segir: „Því mantu ekki ráða, en vánda kerling“.

6. Síðan ferr Kormákr at finna Steingerði jamt sem áðr; ok eitt sinn er þau tala um þessa atburði, lætr hon ekki illa yfir. Kormákr kvað vísu:

(19) Sitja menn ok meina
mér ásjánu þína,
þeir hafa lögðis loddu
linna fœtr at vinna;
því at upp skulu allar

ölstafns áðr þér hafnak
lýsigrund í landi
‚linns' þjóðáar rinna.

„Mæl þú eigi svá mikit um", segir Steingerðr, „mart má því bregða". Þá kvað Kormákr vísu:

(20) Hvern mundir þú hrundar
Hlín skapfrömuð línu
— líkn sýnir mér lúka —
ljós þér at ver kjósa?

Steingerðr segir:

(21) Bróður mundak blindum
bauglestir mik festa
— yrði goð ‚sem gerðist'
góð mér ok sköp — Fróða.

Kormákr segir: „Nú kaustu sem vera ætti; oft hefi ek hingat mínar kvámur lagðar". Nú biðr Steingerðr Kormák stunda til föður hennar ok fá hennar ok fyrir sakir Steingerðar gaf Kormákr Þorkeli góðar gjafir. Eftir þetta eigu margir menn hlut í, ok þar kom um síðir, at Kormákr bað Steingerðar ok var hon honum föstnuð ok ákveðin brullaupsstefna ok stendr nú kyrt um hríð. Nú fara orð á milli þeirra ok verða í nokkurar greinir um fjárfar, ok svá veik við breytilega, að síðan þessum ráðum var ráðit fanst Kormáki fátt um; enn þat var fyrir þá sök, at Þórveig seiddi til at þau skyldi eigi njótast mega. Þorkell í Tungu átti son roskinn, er Þorkell hét ok var kallaðr tanngnjóstr; hann hafði verið utan um stund; þetta sumar

kom hann út ok var með föður sínum. Kormákr sækir eigi brullaupit eftir því sem ákveðit var ok leið fram stundin. Þetta þykkir frændum Steingerðar óvirðing er hann bregðr þessum ráðahag ok leita sér ráðs.

7. Bersi hét maðr er bjó í Saurbæ, auðigr maðr ok góðr drengr, mikill fyrir sér, vígamaðr ok hólmgöngumaðr. Hann hafði átt Finnu hina fögru ok var þá önduð. Ásmundr hét son þeirra; hann var ungr at aldri ok bráðgerr, enn Helga hét systir Bersa; hon var ógefin, vel at sér ok skörungr mikill. Hon var fyrir búi Bersa eftir andlát Finnu. Á þeim bæ er í Múla heitir bjó Þórðr Arndísarson; hann átti Þórdísi systur Barkar hins digra; þau áttu tvá sonu; vóru þeir báðir yngri enn Ásmundr Bersason. Maðr hét Váli; bær hans hét á Válastöðum; sá bær stendr skamt frá Hrútafirði.

Þórveig hin fjölkunnuga fór at finna Hólmbersa ok sagði honum sín vandræði; kvað Kormák banna sér bygð í Miðfirði. Bersi keypti henni land fyrir vestan Miðfjörð ok bjó hon þar lengi síðan. Eitt sinn er Þorkell í Tungu ok son hans ræða um brigðmæli Kormáks, þótti þeim þat hefnda vert. Narfi mælti: „Ek sé ráðit þat er duga mun; förum vestr í sveitir með varning, komum í Saurbæ til Bersa; hann er kvánlauss; bindum hann í málit; hann er oss ærit traust“. Þetta ráð taka þeir; fara unz

þeir koma í Saurbæ. Tók Bersi vel við þeim. Um kveldit verðr þeim tíðrætt um kvenkosti. Narfi mælti, segir engan jamngóðan kvenkost sem Steingerði — „er þat margra manna mál, Bersi, at hon sæmdi þér“. Bersi mælti: „*Svá* spyrst mér til sem þverbrestr muni á vera, þó at kostrinn sé góðr“. Narfi mælti: „Ef menn hræðast Kormák, þurfu þeir þess eigi, því at vandlega er hann horfinn þessu máli“. Ok er Bersi heyrði þetta, vekr hann málit við Þorkel *tanngnjóst* ok biðr Steingerðar. Þorkell svarar vel ok fastnar Bersa systur sína. Ríða þeir norðr átján saman ok sækja brullaupit. Þórðr Arndísarson fór með Bersa norðr. Maðr hét Vígi, mikill maðr ok sterkr ok fjölkunnigr; hann var frændi Bersa; hann fór með honum. Þótti þeim sér mikið traust at Víga: Vígi átti bú í Hólmi. Mjök vóru menn valdir til þeirar ferðar, ok er þeir kómu norðr til Þorkels, var þegar snúit at boði, svá at þar fór engi frétt af um heraðit um þetta mál. Þetta var mjök gert í móti vilja Steingerðar. Vígi enn hamrammi skynjaði hvers manns hagi þess er kom á bæinn eða brott færi; hann sat yztr í stofu ok hvíldi við skáladyrr. Steingerðr lét kalla Narfa til sín ok er þau finnast þá mælti Steingerðr: „Þat vilda ek, frændi, at þú segðir Kormáki þessa ráðagerð er hér er stofnuð; vilda ek þú kæmir þessu erendi til hans“. Narfi ferr nú leynilega; enn þá er hann

er skamt á leið kominn, þá kemr Vígi eftir honum, bað hann heim dragast ok sitja á engum svikræðum; fara nú báðir saman ok líðr af nóttin. Um morguninn leitaði Narfi til ok komst þá skemra enn um kveldit, því at Vígi sætti honum ok rak hann aftr með engri vægð. Þá er brullaupi var lokit, búast þeir á brott; Steingerðr hefir með sér gull ok gripi; ríða síðan til Hrútafjarðar ok heldr hóglega. Narfi ferr þegar þau eru í brottu ok kom á Mel. Kormákr hlóð vegg ok barði með hnyðju. Narfi reið við skjöld ok lét gildlega ok hvaðanæva augun á sem á hrakdýri. Nokkurir menn vóru uppi á vegginum með Kormáki er Narfi kom; hestr opaði undir Narfa; Narfi var gyrðr sverði. Kormákr mælti: „Hvat er tíðenda, Narfi, eða hvat var manna með yðr í nótt?“ Narfi segir: „Smá eru tíðendi, enn gesti áttu vér ærna“. Kormákr mælti: „Hverir vóru gestir?“ Narfi segir: „Þar var Hólmbersi með átjánda mann ok sat at brullaupi sínu“. Kormákr spyrr: „Hver var brúðrin?“ „Bersi fekk Steingerðar Þorkelsdóttur“, segir Narfi, „sendi hon mik hingat þá er þau vóru í brottu at segja þér tíðendin“. Kormákr mælti: „Jafnan muntu ilt segja“. Kormákr hleypr at Narfa ok lýstr á skjöldinn, ok er at honum berr skjöldinn, skeinist hann á bringunni ok fell af baki, enn hestrinn hljóp í brott með skjöldinn. Þorgils bróðir Kormáks

kvað þetta of gert. Kormákr kvað nær hófi. Narfi réttir við ór rotinu ok talast þeir við. Þorgils spyrr: „Hver var manna skipun at boðinu?“ Narfi segir þá. „Hvárt vissi Steingerðr þetta fyrir?“ Narfi segir: „Eigi fyrr enn hinn sama aftan þá er til boðs var komit. Narfi segir frá skiftum þeirra Víga ok kveðr Kormáki munu þykkja auðveldra at blístra í spor Steingerðar ok gera farar sínar hraklegar enn berjast við Bersa. Þá kvað Kormákr vísu:

(22) Kostaðu hins, at hesti
haldir fast ok skjaldi;
koma mun ör við eyra
yðr bráðlega hnyðja;
segðu aldrigi síðan,
þótt sjau um dag fregnir,
— kemba skalt of kúlu
kumlabrjótr — frá sumli.

Þorgils spyrr um máldaga með þeim Bersa ok Steingerði. Narfi segir, at nú eru frændr Steingerðar lausir ór öllum vanda um þetta ráð hversu sem gefst, enn þeir feðgar skyldu ábyrgjast um boðit. Kormákr tók hest sinn ok vápn ok söðulreiði. Þorgils spyrr: „Hvat skaltu nú, bróðir?“ Kormákr kvað vísu:

(23) Brátt hefir Bersi sótta
— beiðisk hann áreiða
valkjósandi at vísu
víns — heitkonu mína
þás unni mér manna
— mist hefik fljóðs ens tvista —

— þá kystak mey mjóva —
mest — dag lengi flestan —.

Þorgils mælti: „Óvarleg för er þetta, því at Bersi mun kominn til heimilis áðr þér finnizt, enn fara mun ek með þér“. Kormákr kvaðst fara skyldu og bíða engis manns; stígr þegar á hest sinn ok hleypti alt þat er hann fekk. Þorgils fær sér brátt manna; urðu þeir saman átján; þeir koma eftir Kormáki á Hrútafjarðarhálsi ok hafði Kormákr þá sprengdan hest sinn; snúa fram at bæ Þórveigar; þeir sjá at Bersi er kominn á skip Þórveigar. Þórveig mælti til Bersa: „Ek vil at þú þiggir af mér litla gjöf, enn hollusta fylgir“; þat var targa jarnrend; kvaðst Þórveig þat ætla at Bersi mundi lítt sárr verða ef hann bæri þessa hlíf — „er þetta þó lítilsvert hjá því er þú komt mér í þessa staðfestu“. Bersi þakkar henni gjöfina ok skiljast þau síðan. Þórveig fær menn til at meiða öll skip þau er á landi vóru, því at hon vissi fyrir kvámu þeirra Kormáks. Eftir þat koma þeir Kormákr ok beiða Þórveigu skips; hon kvaðst þeim engi greiðskap gera mundu kauplaust — „hér er vánt skip í nausti er ek met hálfri mörk á leigu“. Þorgils kvað hóf á ef væri fyrir tvá aura; Kormakr kvað ekki mega standa at um slíkt; Þorgils kveðst fúsari at ríða fyrir innan fjörð. Kormákr réð ok fóru á skipinu; enn er

þeir vóru skamt frá landi komnir, fyldi skipit undir þeim ok kómust við nauð til sama lands. „Vítis ertu verð enn eigi kaups, en illa kerling“, segir Kormákr. Þórveig kvað þetta lítinn prett. Eftir þat greiðir Þorgils henni silfrit. Kormákr kvað vísu:

(24) At emk Yggjar gö*tv*a
ullar Svölnis fulli
of reiði-Sif rjóða
runnr sem vífl at brunni;
dýrt verðr döggvar kerti
Draupis mart at kaupa;
þrimr aurum skal þetta
Þórveigar skip leiga.

Bersi fær sér skjótt fararskjóta, ríðr heimleiðis. Kormákr sér at í sundr mun bera með þeim Bersa ok kvað vísu:

(25) Svá kveðk snyrti-Freyju
— snemr trúðak brúði —
gandis vangs of gengna
greipar báls ór skálum,
at vegskorðan verði
varrskíðs *numin* síðan
— söddum hölds á holdi
hrafna — mér at tafni.

Þeir tóku hesta sína ok riðu fyrir innan fjörð ok kómu til Vála ok spurðu at Bersa. Váli sagði at Bersi var kominn í Múla ok hefir safnat at sér mönnum — „eru þeir fjölmennir“. „Þess til seinir eru vér orðnir“, segir Kormákr, „er þeir hafa mönnum at sér komit“. Þorgils

2*

beiddi Kormák, at þeir myndi aftr snúa; taldi litla virðing í mundu verða. Kormákr kveðst sjá vilja Steingerði. Váli fór með þeim ok kómu í Múla; var þar Bersi fyrir með fjölmenni. Þeir talast við; telr Kormákr Bersa hafa svikit sik í brottöku Steingerðar, — „viljum vér nú konu með oss hafa og bætr fyrir svívirðing“. Þá segir Þórðr Arndísarson: „Sátt viljum vér bjóða Kormáki, enn Bersi á vald konunnar“. Bersi mælti: „Engi ván er þess at Steingerðr fari með yðr, enn systur mína býð ek Kormáki til eiginorðs; tel ek hann sé þá vel kvæntr, ef hann fær Helgu“. Þorgils mælti: „Þetta er vel boðit ok lítum hér á, bróðir“. Kormákr varð staðr at.

9. Kona hét Þórdís ok illa lynd; hon bjó at Spákonufelli á Skagaströnd; hon vissi fyrir um ferðir Kormáks. Hon kom þann dag í Múla ok svarar þessu máli fyrir Kormák ok segir svá: „Bjóðit honum ekki falskonu, því at þessi kona er fífl ok engum duganda manni viðsæmanda ok hans móður mun eigi at getast hans forlögum svá illum“. Þórðr segir: „Dragstu í brott en vánda fordæða“, lét það sannast mundu, at Helga mun skörungr reynast. Kormákr segir: „Því mun mælt, at satt mun vera; mun ek ekki á þetta líta“. Þorgils segir: „Gæfufátt mun oss verða (*at*) hlýða orðum fjánda þessa, enn þiggja eigi þetta boð“. Þá mælti

Kormákr: „Ek býð þér, Bersi, hólmgöngu á hálfsmánaðarfresti í Leiðhólmi í Miðdölum“. Þar er nú kallaðr Orrostuhólmr. Bersi kveðst koma munu; kallar Kormák þat kjósa er minni sæmd fylgdi. Eftir þetta ferr Kormákr at leita Steingerðar um bæinn ok finnr hana, telr hana hafa brugðizt sér er hon vildi öðrum manni giftast. Steingerðr segir: „Þú ollir fyrr afbrigðum, Kormákr, enn þetta var þó ekki at mínu ráði gert“. Þá kvað Kormákr vísu:

(26) Þú telr ljós of logna
lín-Gefn, við þik stefnu,
enn gørðak mjök móðan
minn fák of sök þína;
heldr ek halfu vilda
hring-Eir, at marr spryngi
— sparðak ió þanns áttum
alllítt — en þér hafnak.

Eftir þetta fara þeir Kormákr heimleiðis; segir Kormákr móður sinni, hversu farit hefir. Dalla segir: „Lítt verðr oss gæfu auðit um þín forlög, því at þar hefir þú neitt hinum bezta kosti, enn mjök óvænt at berjast við Bersa; hann er garpr mikill ok hefir góð vápn“. Bersi átti þat sverð er Hvítingr hét, bitrt sverð ok fylgdi lyfsteinn ok hafði hann þat sverð borit í mörgum mannhættum. Dalla mælti: „Hvárt muntu vápn hafa í móti Hvítingi?“ Kormákr kveðst munu hafa exi mikla ok bitrlega. Dalla telr ráðlegt at finna Miðfjarðar-Skeggja ok biðja

Sköfnungs. Eftir þetta ferr Kormákr til Reykja ok segir Skeggja málavöxt; biðr hann ljá sér Sköfnung. Skeggí kveðst þess ófúss, kvað þá óskapglíka — „Sköfnungr er tómlátr, enn þú ert óðlátr ok óðlundaðr. Kormákr reið í brott ok líkaði illa, kemr heim á Mel ok segir móður sinni at Skeggi vill eigi ljá sverðit. Skeggi veitti Döllu umsjá í sínum tillögum ok var vingott með þeim. Dalla mælti: „Ljá mun hann sverðit þó er hann láti eigi fljótt til". Kormákr kvað eigi at högum til skifta — „ef hann sparir eigi við þik sverðit enn hann sparir við oss". Dalla kvað hann forsmann vera. Nokkurum dögum síðar bað Dalla Kormák fara til Reykja — „mun nú Skeggi ljá sverðit". Kormákr hittir Skeggja ok biðr Sköfnungs. „Vandhæfi mun þér á þykkja meðferðinni", segir Skeggi, „pungr fylgir ok skaltu hann kyrran láta; eigi skal sól skína á et efra hjaltit, eigi skaltu ok bera þat nema þú búist til vígs; enn ef þú kemr á vettfang, sit einn saman ok bregð þar, rétt fram brandinn ok blás á; þá mun skríða yrmlingr undan hjaltinu, halla sverðinu ok ger honum hægt at skríða undir hjaltit. Kormákr mælti: „Mart hafi þér við, töframennirnir". Skeggi mælti: „Þetta mun þó fyrir fult koma". Eftir þetta ríðr Kormákr heim og segir móður sinni hversu farit hefir, telr mikit mega vilja hennar við Skeggja, sýnir

henni sverðit ok vill bregða sverðinu; þat gengr eigi ór slíðrunum. Dalla mælti: „Of óráðþægr ertu, frændi“. Kormákr setr þá fætrna við hjöltin ok slítr af punginn; Sköfnungr grenjar þá við ok gengr eigi ór slíðrunum. Líðr nú fram at stefnunni. Ríðr Kormákr heiman með fimtán menn; slíkt it sama ríðr Bersi til hólms við jammarga menn. Kormákr kemr fyrri, segir Kormákr Þorgilsi, at hann vill einn saman sitja. Kormákr sezt niðr ok tekr af sér sverðit; hirði eigi þó at sól skini á hjalt honum, enn hann hafði gyrt sik utan um klæði ok vill bregða, enn fekk eigi fyrr enn hann sté á hjaltit ok kom yrmlingrinn, ok var ekki með farit sem skyldi, ok var brugðit heillinu sverðsins, enn þat gekk grenjanda ór slíðrum.

**10.** Eftir þat fór Kormákr á fund manna sinna. Vóru þeir Bersi þá komnir ok mart annarra manna at sjá þenna fund. [Kormákr tók upp törguna Bersa ok laust á ok rauk ór eldr. Nú er tekinn feldr ok breiddr undir fætr þeim]. Bersi mælti: „Þú, Kormákr, skoraðir á mik til hólmgöngu, enn þar í mót býð ég þér einvígi; þú ert maðr ungr og lítt reyndr, enn á hólmgöngu er vandhæfi, enn alls ekki á einvígi“. *Kormákr mælti:* Ekki mun ek betr berjast *(í)* einvígi; vil ek til þess hætta ok í öllu til jafns halda við þik“. „Þú ræðr nú“, segir Bersi.

Þat vóru hólmgöngulög, at feldr skal vera

fimm alna í skaut ok lykkjur í hornum; skyldi þar setja niðr hæla þá er höfuð var á öðrum enda; þat hétu tjösnur; sá er um bjó skyldi ganga at tjösnunum, svá at sæi himin milli fóta sér og heldi í eyrnasnepla með þeim formála sem síðan er eftir hafðr í blóti því at kallat er tjösnublót. Þrír reitar skulu umhverfis feldinn fets breiðir; út frá reitum skulu vera stengr fjórar ok heita þat höslur; þat er völlr haslaðr er svá er gert. Maðr skal hafa þrjá skjöldu, enn er þeir *eru* farnir, þá skal ganga á feld, þó at áðr hafi af hörfat; þá skal hlífast með vápnum þaðan frá. Sá skal höggva er á *er skorat*. Ef annarr verðr sárr svá at blóð komi á feld, er eigi skylt at berjast lengr. Ef maðr stígr öðrum fæti út um höslur „ferr hann á hæl“, enn „rennr“ ef báðum stígr. Sinn maðr skal halda skildi fyrir hvárum þeim er berst. Sá skal gjalda hólmslausn er meir verðr sárr, þrjár merkr silfrs í hólmlausn.

Nú er tekinn feldr ok breiddr undir fætr þeim. Þorgils helt skildi fyrir bróður sínum, enn Þórðr Arndísarson fyrir Bersa. Bersi hjó fyrri ok klauf skjöld Kormáks; hann hjó til Bersa með slíkum hætti; hjó hvárr þrjá skjöldu fyrir öðrum til ónýts. Þá átti Kormákr at höggva; síðan hjó hann til Bersa; hann brá við Hvítingi; tók Sköfnungr af oddinn af Hvítingi fyrir framan vettrimina ok hraut sverðsoddrinn á hönd

Kormáki ok skeindist hann á þumalfingri ok klofnaði köggullinn ok kom blóð á feldinn. Eftir þat gengu menn á milli þeirra og vildu eigi at þeir berðist lengr. Þá mælti Kormákr: „Þetta er lítill sigr er Bersi hefir fengit af slysi mínu, þótt vit skiljumst“. [Enn þá er Sköfnungr reið ofan, kom hann á törguna ok brotnaði skarð í Sköfnung, enn eldr hraut ór *törgunni* Þórveigar naut]. Bersi heimti hólmlausn; Kormákr kvað honum goldit mundu verða fé ok skildust við þá kosti.

11. Steinarr hét maðr; hann var son Önundar sjóna, bróðir Döllu móður Kormáks; hann bjó á Elliða ok var óeirumaðr. Þangat reið Kormákr frá hólminum at finna Steinar frænda sinn. Kormákr segir frá ferðum sínum. Steinarr lét illa yfir. Kormákr kvaðst ætla af landi í brott, — „enn ek ætla þér fégjaldit við Bersa“. Steinarr segir: „Engi ertu ofrhugi, enn gjaldast mun fé ef þarf“. Kormákr er þar nokkurar nætr; blés mjök höndina er með engum var umböndum. Eftir þenna fund fór Hólmgöngu-Bersi at finna bræðr sína ok þeir spyrja Bersa hve tekizt hafði hólmgangan; hann segir sem farit hefir; þeir kváðu þá tvá ofrhuga höggit hafa í smæra lagi, kváðu Bersa af slysi Kormáks sigrazt hafa. Bersi hittir Steingerði; hon spurði hversu farit hafði. Hann kvað vísu:

(27) Mér varð hjálms á hólmi
hjaldr-Ullr fyr sik gjalda
þoll má þann of kalla
þrjár merkr hugum sterkan;
skora mun Sköglar *fúra*
skjaldvers reginn aldri
— vér bárum hlut hæra —
hríðfimr á mik síðan.

Steinarr ok Kormákr riðu burt frá Elliða; þeir ríða til Saurbæjar; þeir sjá mannareið í móti sér; ferr þar Bersi. Hann kveðr Kormák ok spyrr hversu sárit hafist. Kormákr kvað eigi stórra bóta ávant. Bersi mælti: „Viltu at ek græða þik, þó at af mér hafi til hlotizt? — ok mun þér þá skamt mein at verða“. Kormákr neitti því ok kvaðst jafnan ilt vildu eiga við hann. Þá kvað Bersi vísu:

(28) Muna munt hjaldr þanns Hildar
háraddar mik kvaddir,
geng ek at geira þingi
glaðr, emk reyndr at aðru;
randlauki klaufk renda
rand Kormáki at handum,
vildit *fleins* af feldi
Freyr einvígi heyja.

Skildu þeir at því. Eftir þetta ferr Kormákr heim á Mel ok finnr móður sína. Hon græðir hönd hans; verðr ljótt ok grær um ólíkan; skarð þat er í var Sköfnungi hvöttu þeir; var þat því meira sem þat var oftar hvatt. Síðan fór hann til Reykja ok kastaði Sköfnungi fyrir fætr Skeggja ok kvað vísu:

(29) At hefik yðr at fœra
eggfallinn hjör, Skeggi,
beitað vápn at vísu,
varð þeira hlutr meiri;
varat um gang þanns gengum
geyrþey of mey heyja
söngvarðaða sverða
sennu mér at kenna.

Skeggi mælti: „Fór sem mik varði“. Kormákr snýr í brott ok kemr heim á Mel, og þá er þau fundust Dalla ok Kormákr kvað hann vísu:

(30) Hefik á hólm of gengit
— hugðum þat fyrr batra —
við híðbyggvi, holla
handarskers, at berjask;
brast fyr mér enn mæri
mundar vandr í h*and*um,
mist hefir margra kosta
morðeggjandi seggja.

Ok enn kvað hann:

(31) Fœrðit mér at morði
morðvönd — fetils storðar
staðr's í strandar naðri —
starreggjaðan Skeggi;
gørði*t* holt fyr hjalti
Hvíting í tvau bíta
brotit hefik skarð í skerði
Skafnungr fetils drafnar.

Ok enn kvað hann:

(32) Gørði oss mein at morði
morðvandr es hjók randir,
greipar rann at grunni
grannfengr íugtanni;

illa lét þás áta
ófúss varar húsa
sónar fress ór sínu
slíðr b*eiði* gekk híði.

Ok enn kvað hann:

(33) Göngu vask of gengin
Gefn til víssar stefnu,
númk hörþellu hylli
hornungr tvaa morna;
gremjumk hins at heima,
hörfit, munak sitja
— mér's of erma Ilmi
iðjusamt — enn þriðja.

Eftir þetta ferr Kormákr til Reykja einn dag ok talast þeir Skeggi við; kallar Skeggi lítilmannlega orðna hólmgönguna. Þá kvað Kormákr vísu:

(34) Fyrnaðu mik þótt fjörnis
Freyr værak þér dreyra
— mærð berk fyr þik mína —
mœri seinn at fœra,
þvít und heiðis hlíði
hreggmiðjunga, Skeggi,
— verit hefr í þrym þremja
þinn hjörr — sköp of vinna.

Og enn kvað hann:

(35) Framið þóttumk ek flótta
Freyr, mínn granni, dreyra
Gauts at gatna móti
galdrs blóðfrekum halda
né glymránar gína
gátt hliðs imir máttið
— mínn leikr hugr á henni —
hlunn-njót við banmunni.

12. Um vetrinn vóru leikar í Saurbæ ok vóru þar hvárirtveggju Ásmundr Bersason ok þeir synir Þórðar Arndísarsonar; þeir vóru yngri ok óknári. Ásmundr stilti illa afli sínu; kómu synir Þórðar oft bláir ok blóðgir heim. Þetta líkar Þórdísi móður þeirra illa, biðr Þórð vekja til við Bersa föður Ásmundar at hann vili bæta fyrir hann. Þórðr kvaðst þess ófúss. Hon segir þá: „Börk mun ek þá finna bróður minn ok mun þá eigi minna ilt af hljótast“. Þórðr bað hana þat eigi gera — „vil ek heldr um tala við Bersa“, ok fyrir bæn hennar hittir hann Bersa ok vekr til um bætr. Bersi mælti: „Of fégjarn ertu nú ok horfir þat lítt til sæmdar at fara með slíkt; er eigi ráðit hvárt þú verðr öreigi ef mik þrotar eigi“. Ferr Þórðr heim ok er fátt með þeim um vetrinn; líðr á várit fram til Þórsnesþings; þykkist Bersi nú skilja, at Þórdís hefir valdit því ákalli er Þórðr veitti honum. Búast menn nú til þings; var þat vandi Þórðar ok Bersa at ríða báðir saman til þings. Bersi ríðr heiman ok kemr í Múla; Þórðr var í brottu. Bersi mælti: „Brugðit hefir Þórðr nú vanda er hann beið mín eigi“. Þá svarar Þórdís: „Þú ollir afbrigðum, enn þetta er lítil hefnd ef eigi kemr meiri“. Þau urðu andorða, ok segir Bersi at af hennar ráðum mun ilt hljótast. Ríða þeir í brott. Bersi mælti: „Snúum fram at firðinum ok fám oss skip; langt er at

ríða it innra". Þar fengu þeir skip er Þórðr átti; fara nú leiðar sinnar, koma til þings þá er flestir eru áðr komnir, ganga til búðar Óláfs pá ór Hjarðarholti. Bersi var hans þingmaðr. Fjölment var í búðinni ok fekst Bersa ekki rúm; hann var vanr at sitja hjá Þórði; þat rúm var skipat; þar sat maðr mikill og sterklegr í bjarnskinnsólpu ok gríma fyrir andliti. Bersi stóð fyrir honum ok gafst eigi rúmit. Bersi spyrr þenna mann at nafni. Honum er sagt at hann heitir ýmist Glúmr eða Skúma. Bersi kvað vísu:

(36) Hverr's ‚án' bjarnar barði
á bekk kominn rekka
ulf hafa órir niðjar
œgilegr und bœgi?
glíkan hefr of gørvan
— Glúmr es nefndr eða Skúma —
— förum til móts á morni —
mann Steinari þ*a*nna,

„ok er þér ekki at leyna nafni þínu, bjarnólpumaðr", segir Bersi. „Svá er ok", segir hann, „Steinarr heiti ek ok á ek fé at gjalda þér fyrir Kormák ef þarf, enn fyrri skora ek þér á hólm; kann vera at þú fáir þá tvennar merkr eða látir ella báðar". Þá kvað Bersi:

(37) B*jó*ðit ér brodda hríðar
beiðendr við styr kendir
— þykkir oss þat ekki
angr — á hólm at ganga;
gamall emk geira vímarr

gunnþeysanda at leysa
— uggik hvergi at höggva —
Hlakkar veðr á bakkum —

„enn auðsætt er þat, at þér frændr ætlit mér at fyrirkoma; er ok vel at þú vitir hvárt nokkut er undir mínum þokka ok mætti setjast ofmetnaðr þinn“. Steinarr segir: „Ekki vinnum vér þér bana, enn vel þætti oss at þú kynnir at meta þik“. Bersi játar hólmgöngunni ok gengr í afbúð ok var þar. Einn dag var kallat at menn skyldi á sund. Steinarr mælti við Bersa: „Viltu reyna sund við mik, Bersi?“ Hann segir: „Niðr hefi ek lagt sund, enn til mun ek fara. Bersi ferr örðugr ok leggst hart; hann hafði lyfstein á hálsi. Steinarr leggst at honum ok slítr af honum steininn með punginum ok kastar á sundit ok kvað vísu:

(38) Lifðak lengi,
létk ráða goð,
hafðak aldri
hosu mórauða,
battk aldri mér
belg at halsi
urtafullan —
þók enn lifi.

Eftir þetta leggjast þeir til lands. Þat bragð er Steinarr hafði við Bersa var af ráðum Þórðar at Bersa skyldi verr ganga hólmgangan. Þórðr gekk hjá firðinum er fjaraði ok fann lyfsteininn ok hirði. Steinarr átti sverð þat er

Skrýmir hét; þat var aldri saurugt; fylgdi því ok engi vandhæfi. Þann dag er ákveðit var gengu út ór búð Þórðr ok Steinarr; kom Kormákr þá á þingit. Ólafr pái fær Bersa lið til hólms; var Þórðr Arndísarson vanr at halda skildi fyrir Bersa, enn nú varð þat ekki; gengr Bersi þó til hólms ok er eigi nefndr skjaldsveinn hans. Kormákr skal halda skildi fyrir Steinari. Bersi hafði törguna Þórveigarnaut; þrjá skjöldu hafði hvárr; þá hjó Bersi tvá skjöldu, enn Kormákr helt á enum þriðja. Bersi hjó til Steinars, enn Hvíting festi í járnrendingunni á skildi Steinars. Kormákr brá upp skildinum; í því hjó Steinarr til Bersa ok kom á skjaldarröndina ok hljóp af skildinum ok á þjóhnappa Bersa ok rendi ofan eftir lærunum í knésbætr, svá at sverðit stóð í beini ok fell Bersi. Steinarr mælti þá: „Nú er goldit féit fyrir Kormák“. Bersi spratt þá upp ok hjó til Steinars ok klauf skjöldinn ok kom sverðs oddrinn í bringu Steinari. Þórðr hljóp at ok hratt Steinari undan. Þórðr mælti: „Nú galt ek þér sona meiðing“. Eftir þat var Bersi borinn til búðar ok bundin sár hans. Þórðr fór heim til búða; enn þá er Bersi sá hann kvað hann vísu:

(39) Fylgðuð oss, at Óðins
endr ór þessi hendi
Hlakkar-Njörðr á hurðir
hurðulfr gininn þurði;
nú ferr enn svát ‚ekja‘

Ialks-skýja vill týja
myrði-Freyr at morði
— marglyndr ertu — targu.

Ok enn kvað hann

(40) Þótta ek þás œri
— ár sagt es þat — várum
hæfr at Hlakkar drífu
hyrrunnum vel Gunnar;
nú vilja mik mínir
— minst dyljum þess — hylja
— þat hefik sótt í sléttan
Saurbœ — vinir auri.

Þórðr mælti: „Eigi þik dauðan, enn óvirðingar unnum vér þér í þessu sinni. Þá kvað Bersi vísu:

(41) Mér hafa frændr at fundi
— fersk ván gleði — þersum
— rœðik — heldr — fyr höldum
hugat mál of þat — brugðizk;
torogætir 'ro — teitan
tók hrafn á ná; jafnan
ek em við ógn*ir* rekka
óhryggr — vinir tryggvir.

Eftir þetta var Bersi færðr heim í Saurbæ ok lá hann lengi í sárum. Nú er at segja frá Kormáki ok Steinari; þat mund er Bersi var til búðar borinn, mælti Steinarr við Kormák:

(42) Folk-Sýrar létk fjóra
— fráttu þ*at* — ok átta
skyggs fyr Skrýmis eggju
skerðendr hliða verða;
nú hefr b*jóðr* forsa Bersa
*Bestlu* niðs á lesti
sárgeitunga sveita
sanneldingu feldan.

Steinarr mælti: „Ek vil at þú eigir nú Skrými, Kormákr, því at ek ætla mér þessa hólmgöngu síðasta". Eftir þetta skildust þeir vinir; fór Steinarr heim, enn Kormákr *fór á Mel.*

**13.** Nú er at segja frá Bersa; sár hans greru seint. Þat var eitt sinn at margir menn kómu til at rætt var um fundinn hvernig tekizt hafði; þá kvað Bersi vísu:

(43) Mér helt Yggr und eggjar
allstyrkr Góins vallar
— nauðr hagar nú til frœða —
Naðrs, enn hlífðir aðrum.
Svá fara ráð, enn reiðask
róglinns stafar minna.
Nú lætk at þar þrjóti,
Þórøðr, vinun óra.

Eftir þetta fór Þórðr at rúminu til Bersa ok færði honum lyfsteininn; síðan græddi Þórðr Bersa ok tókst þá þeirra vinátta ok heldu vel síðan. Við þessa atburði lagði Steingerðr leiðindi á við Bersa ok vill skilja við hann, ok er hon er búin til brottfarar gengr hon at Bersa ok mælti: „Fyrst vartu kallaðr Eyglu-Bersi, enn þá Hólmgöngu-Bersi, enn nú máttu at sönnu heita Rassa-Bersi", ok segir skilit við hann. Steingerðr ferr norðr til frænda sinna, hittir Þorkel bróður sinn, biðr hann heimta fé sín at Bersa, mund ok heimanfylgju, ok kveðst eigi vilja eiga Bersa örkumlaðan. Þorkell last-

ar þat ekki ok heitr för sinni. Líðr vetrinn ok frestast för Þorkels.

14. Eftir um várit fór Þorkell tanngnjóstr at finna Hólmgöngu-Bersa ok heimta fé Steingerðar. Bersi kvað sinn hlut mundu sýnast þungan þó at hvárirtveggju kendi nokkurs af — „ok mun eigi féit greiðast". Þorkell mælti: „Ek býð þér hólmgöngu í Orrostuhólmi við Tjaldanes". Bersi segir: „Þat mun þér nú þykkja til lítils, slíkr garpr sem þú ert, enn þó *heit* ek þér at koma. Þeir kómu til hólms ok tókst hólmgangan; helt Þórðr Arndísarson skildi fyrir Bersa, enn Váli fyrir Þorkeli, ok þá er tveir skildir vóru farnir bauð Bersi Þorkeli at taka hinn þriðja. Þorkell vildi þat eigi. Bersi hafði skjöld ok sverð langt ok bitrt. Þorkell mælti: „Þat sverð er þú hefir Bersi, er lengra enn lög liggja til". „Þat skal eigi vera", segir Bersi, tekr upp Hvítingok tvíhendir; höggr Þorkel banahögg. Þá kvað Bersi:

(44) Nú hefik — enn ték tanna —
Tanngnjóst vegit manna
— þau beri menn frá morði
mín orð — tegar fjorða;
koma munat Ullr þótt ellisk
oftar mara þoftu
— litak blóði svan sveita —
setri hveim at betra.

Eftir þat bauð Váli Bersa hólmgöngu, enn Bersi kvað vísu:

(45) Boðit hafa brynju hríðar
beiðendr við styr kendir
— oss gerum af því ekki
angr — á holm at ganga;
gaman þykkir nú gumnum
gunnstœranda at fœra
— uggum hvergi at höggva —
Hlakkar verðr á bakkum.

Þórðr kom þá er berjast skyldi ok mælti til þeirra Bersa ok Vála: „Þat þykkir mönnum mikil vandræði ef hraustir menn skulu drepast niðr án nokkurri sök ok bjóðumst ek til at gera í milli ykkar“. Þeir játtu því. Þórðr mælti: Váli, þat þykkir mér vænlegast til sættar, at Bersi fái Þórdísar systur þinnar; má þér verða at því sæmd“. Því játtar Bersi ok skal Þórdísi heiman fylgja Brekku land ok tekst þessi mægð með þeim. Eftir þetta lætr Bersi gera virki um bæ sinn ok sat þá marga vetr í kyrðum.

**15.** Þórarinn hét maðr; hann var Álfsson; hann bjó norðr í Þambardal; sá dalr gengr af Bitru. Hann var mikill maðr ok sterkr ok kallaðr Þórarinn rammi; hann hafði lengi verit í förum ok svá farsæll at hann kaus sér jafnan höfn þar er hann vildi. Hann átti þrjá sonu; hét einn Álfr, annarr Loftr, þriðji Skofti. Þórarinn var óeirðarmaðr mikill; þar eftir vóru synir hans skapfarnir, hinir mestu hávaðamenn. Maðr hét Oddr; hann bjó í Tungu; þat er í

Bitru. Dóttir hans hét Steinvör, væn ok vel at sér; hon var kölluð mjóbeina. Með Oddi vóru fiskimenn margir. Maðr hét Glúmr; hann var til vers, skapillr ok leiðindr.

Þat var eitt sinn er þeir Oddr ok Glúmr ræddu um, hverir menn mestir væri í heraði. Glúmr taldi Þórarin fyrirmann, enn Oddr kvað Hólmgöngubersa at öllu framar. Glúmr mælti: „Hvat færir þú til þess". Oddr mælti: „Mun nokkut all-líkt garpskapr Bersa eða stuldir Þórarins". Þar til ræða þeir um þetta er þeir reiddust ok veðjuðu. Þá ferr Glúmr ok segir Þórarni; hann gerir reiðan mjök ok heitast við Odd. Síðan ferr Þórarinn ok tekr í brott Steinvöru ór Tungu án ráði Odds föður hennar ok kveðr honum eigi óhætt skyldu ef hann teldi at, ok þau koma heim í Þambardal. Fór nú svá fram um hríð. Eftir þetta ferr Oddr at finna Hólmbersa ok segir honum sem farit hefir ok biðr hann liðs at sækja Steinvöru ok reka skammar þessar. Bersi kvað þetta óskylt tal verit hafa ok bað Odd heim fara ok sér engu af skifta — „enn þó heit ek þér minni ásjá". Þegar Oddr er í brottu býst Bersi heiman, ríðr við alvæpni ok gyrðr Hvítingi ok hefir þrjú spjót, kemr í Þambardal mjök at áliðnum degi þá er konur gengu ór dyngju. Steinvör sér Bersa ok snýr til móts við hann ok segir honum til sinna vandræða. „Búst þú með mér",

segir Bersi, ok hon gerir svá. Bersi kveðst eigi erendlaust fara vilja í Þambardal; snýr at dyrum er menn sátu við langelda; lýstr Bersi á dyrr ok gengr þar út maðr; sá nefndist Þorleifr. Þórarinn kendi mál Bersa ok hleypr út með tálguknif mikinn ok leggr til Bersa. Þetta sér Bersi ok bregðr Hvítingi ok höggr hann þegar banahögg. Eftir þetta hleypr Bersi á bak ok setr Steinvöru í kné sér ok tekr spjót sín er Steinvör hafði varðveitt, ríðr í skóg nokkurn ok í leyni einu lét hann hestinn ok Steinvöru ok bað hana sín bíða; síðan gekk hann til klifs þess er þjóðgata lá yfir ok býst þar fyrir. Í Þambardal var eigi alt kyrt. Þorleifr hleypr ok segir sonum Þórarins at hann lá dauðr í dyrunum; þeir spurðu hverr því voldi; Þorleifr segir. Síðan fóru þeir eftir Bersa ok stefndu it gegnsta til klifsins ok ætluðu at komast fyrir Bersa; enn nú er hann fyrir í klifinn. Enn er þeir kómu nær at honum skaut Bersi spjóti til Álfs ok í gegnum hann; þá skaut Loftr til Bersa: hann brá við törgunni ok hraut af; síðan skaut Bersi Loft til bana ok svá Skofta. Þá er þetta var gert kómu heimamenn þeirra bræðra; veik Þorleifr aftr móti þeim ok fóru heim allir saman.

**16.** Eftir þetta vitjar Bersi Steinvarar ok stígr á hest sinn ok kom heim áðr menn vóru upp staðnir. Þeir spyrja um ferðir Bersa, enn

hann segir. Þórðr spyrr Bersa er þeir finnast um fund þeirra, hvernig farit hafði. Þá kvað Bersi vísu:

(46) Einn beið ulfa grennir
andrán í dal Þambar
fell fyr frœða spilli
fram Þórarinn rammi;
lífspell biðu lýðir,
Loptr hné, Alfr ok Skofti
— þeir hlutu feðgar fjórir
feigð — kom ek einn til þeira.

Eftir þetta ferr Oddr heim, enn Steinvör er með Bersa; þetta líkar Þórdísi illa. Þá var nokkut á föru virkit Bersa, enn nú lét hann bæta virkit. Svá er sagt at engar yrðu bætr eftir menn þessa. Liðu nú fram stundir. Eitt sinn er þau Þórdís ok Bersi töluðust við *mælti* Bersi: „Þat ráð hefi ek hugsat, at bjóða Óláfi Höskuldssyni barnfóstr". Hon segir: „Lítit er mér um þat; lízt mér þat mikill vandi, enn ósýnn sæmdarauki". „Þat er ok örugt traust, enn ek á sökótt, enn gerumk mjök aldri orpinn", segir Bersi. Ferr hann til móts við Óláf ok býðr honum barnfóstr; þetta tekr Óláfr með þökkum ok flytr hann Halldór heim með sér ok fær Steinvöru til fóstrs; þetta líkar Þórdísi illa ok skýtr undan penningunum. Bersi tekr nú mjök at eldast. Þat var enn einn tíma at þingmenn kómu til Bersa; hann sat einn saman, ok kom fyrr matr hans enn annarra manna. Bersi hafði

graut, enn aðrir menn ost ok skyr. Þá kvað Bersi vísu:

(47) Bengjóði hjók bráðir
bláfiðruðum skjáfu
— kendr vask mjök við manna
morð — hálfan tög fjorða;
troll hafi líf ef laufa
litak aldrigi bitran;
bere þá brynju *marnar*
brjót í haug sem skjótast.

Halldórr mælti: „Vega ætlar þú mann enn þá, fóstri minn". Bersi segir: „Sé ek manninn maklegan til". Þórdís leyfði Vála bróður sínum nytjar í Brekku landi. Bersi lét húskarla sína vinna heima ok skifta engu við Vála. Halldóri þótti illa er Bersi réð eigi fé sínu. Eftir þat kvað Bersi vísu:

(48) Liggjum báðir
í bekk saman
Halldórr ok ek
höfum engi þrek;
veldr œska þér,
enn elli mér,
þess batnar þér,
enn þeygi mér.

Halldórr mælti: „Illa hugnar mér við Vála". Bersi kvað vísu:

(49) *Vitum* at Váli beitir
vegstórr töður órar,
oss vill heldr enn hvassi
hjalmnjótr troða fótum;
oft hefik ýfzk þás heiftir

unnsólar galtk runnum;
rauðk á brynju beiði
benja linn of minna.

Ok enn kvað hann:

(50) Kominn es Ullr við elli
alna grjóts af fótum,
mart verðr gegnigautum
geirfitjar nú sitja,
þótt skjaldviðir skaldi
skapi aldr í gröf kaldan,
fyrr rýðk hjalms á holmi
hríðvönd, en því kvíðak.

Halldórr mælti: „Lítt eldist þú enn i huginum, fóstri minn“. Þau Steinvör ok Bersi talast við. Bersi mælti til hennar: „Ráð skal setja ok þurfu vér þín at“. Hon sagði þat skylt slíkt er hon mætti at gera. „Þú skalt“, *segir Bersi*, „láta þik á skilja við Þórdísi um mjólkrketil ok halda á þar til er þit sláit niðr; mun ek þá til koma ok mæla alt eftir henni; síðan skaltu fara til Vála ok segja þínar hrakningar“. Þetta fór eftir því sem Bersi setti ráð til ok kom hon til Vála ok segir sínar eigi sléttar; biðr Vála fylgja sér um klifit; hann gerir svá. Þá er Váli vill aftr hverfa koma þeir Halldór ok Bersi í mót honum. Bersi hafði höggspjót í hendi ok staf í annarri, enn Halldórr Hvíting. Þegar Váli sér þá snýr hann í mót þeim ok höggr til Bersa. Halldórr komst á bak Vála ok beitir á hásinar honum Hvítingi. Þá bregðr Váli hart við ok snýr í móti Halldóri; þá setti

Bersi spjótit milli herðanna; var þat hans banasár; síðan setja þeir upp skjöld hans at fótum honum, enn sverð at höfði ok breiða á hann vararfeld hans ok eftir þat stíga þeir á bak ok ríða um fimm bæi ok lýsa víginu á hendr sér ok ríða heim síðan. Fara menn ok búa um Vála ok heitir þar síðan Válafall er hann var drepinn. Halldórr var nú tólf vetra gamall er þessi atburðr gerðist.

17. Þorvaldr hét maðr ok var Eysteinsson ok var kallaðr tinteinn. Hann var maðr auðigr ok hagr, skáld ok engi skörungr í skaplyndi. Bróðir hans hét Þorvarðr er bjó norðr í Fljótum. Þeir vóru frændr margir ok var sá kynsþáttr kallaðr Skíðingar ok hafði litla mannheill.

Þorvaldr tinteinn bað Steingerðar ok at frænda ráði var hon honum gefin ok ekki með hennar mótmæli. Þetta var samsumars ok Steingerðr gekk frá Bersa. Þessi tíðendi fréttir Kormákr ok lætr sem hann viti eigi. Litlu áðr hafði Kormákr flutt varnað sinn til skips ok ætlaði utan ok báðir þeir bræðr. Einn morgin snimma ríðr Kormákr frá skipi; ferr at finna Steingerði ok talar við hana; biðr hana gera sér skyrtu; hon kvað enga þörf kvámu hans, kvað Þorvald eigi mundu þola hefndalaust eða frændr hans. Kormákr kvað vísu:

(51) Mákak hitt of hyggja
hví þú skyldir verða,
gullhlaðs geymiþella,
gefin tindráttar manni.
Trauðla mák of tœja
tanna, silki-Nanna,
síz þik fastnaði frægja
faðir þínn blotamanni.

Steingerðr mælti: „Auðheyrðr er fjándskapr í slíku ok man ek segja Þorvaldi hróp þitt ok er slíkt engum manni sitjanda“. Þá kvað Kormákr:

(52) Þarftaðu hvít at hœta,
Hlín skrautlegrar línu,
— vér kunnum skil skepja —
Skíðunga mér níði;
naddhríðar skalk níða
njót svát steinar fljóti;
nú hefik illan enda
Eysteins sonum leystan.

Eftir þetta skilja þau með engri blíðu ok fór Kormákr til skips.

18. Þá er þeir bræðr létu úr læginu kom upp hjá skipinu hrosshvalr. Kormákr skaut til hans pálstaf ok kom á hvalinn ok söktist. Þóttust menn þar kenna augu Þórveigar. Þessi hvalr kom ekki upp þaðan í frá, enn til Þórveigar spurðist þat at hon lá hætt ok er þat sögn manna at hon hafi af því dáit. Síðan sigldu þeir á haf ok kómu við Noreg. Í þann tíma réð Hákon Aðalsteinsfóstri Noregi. Þeir bræðr fóru skjótt á konungs fund; tók konungr vel við þeim; vóru þeir þar um vetrinn vel virð-

ir. Um sumarit eftir leggjast þeir í hernað ok vinna mörg stórvirki. Sá maðr var í félagi með þeim er Sigurðr hét, þýðeskr maðr ok vel borinn. Þeir gerðu víða upprásir. Einn dag er þeir vóru á land upp gengnir, kómu at þeim bræðrum ellifu menn ok sóttu at þeim; lauk svá þeirra viðskiftum at þeir bræðr tveir sigruðu hina ellifu. Eftir þat fóru þeir til skipa; þóttust víkingarnir mundu hafa látit þessa menn, enn fagna nú því er þeir kómu aftr með sigri ok fé. Í þessi ferð fengu þeir bræðr mikla frægð. Leið á sumarit ok var komit at vetri. Þeir vildu þá halda til Noregs, fengu veðráttu kalda, lagði hrím í seglit; þeir vóru jafnan mjök frammi bræðr. Þá kvað Kormákr vísu:

(53) Skaka verðum vér, Skarði,
— skald á búð til kalda;
fjöll eru fjarðar kelli
faldin — hrím *af* tjaldi.
Vildak at reiðar valdi
væri *øngu hlœra*;
*hann era lauss* frá ljóssi
linnbeðjar Gná sinni.

Þorgils mælti: „Getr þú hennar nú jamnan, enn þá vildir eigi fá er buðust kostir á“. Kormákr segir: „Meir olli því vándra vætta atkvæði enn mín mislyndi“. Nú sigldu þeir at hömrum nokkurum; hlóðu seglum við mikinn háska. Kormákr mælti: „Vel mætti Þorvaldr tinteinn hér vera hjá oss“. Þorgils segir bros-

andi: „Þat er líkara at hann uni nú betr í dag enn vér". Eigi er þá sem skyldi", segir Kormákr. Litlu síðar tóku þeir Noreg.

**19.** Meðan þeir höfðu brottu verit var orðit höfðingjaskifti. Hákon var látinn, enn Haraldr gráfeldr í stað kominn. Vingast þeir við konung. Hann tók þeirra máli vel. Þeir fóru með konungi til Írlands ok áttu þar orrostur. Þat var eitt sinn er þeir höfðu upp gengit með konungi ok kom mikit lið mót konungi, ok þá er saman laust liðinu, þá kvað Kormákr vísu:

(54) Uggik lítt þótt leggim
— landvörðr — saman randir
— *várat víga* stœri
vellauðigr — mér dauða,
meðan skerjarðar, Skarði,
skorðu mank fyr norðan
— hvöss angrar sú, sessi,
sótt — Þórketils dóttur.

Þorgils mælti: „Aldri kemr þú i þá mannraun at þér komi eigi jamnan í hug Steingerðr". Kormákr segir: „Alllítt fyrnist mér þat enn". Þessi orrosta var mikil; fekk Haraldr konungr ágætan sigr; hans menn ráku flótta. Þeir bræðr vóru staddir báðir saman; snerust þá í mót níu menn; þeir börðust um hríð. Kormákr kvað vísu:

(55) Skjótt munum, Skarði, herðnir
— skulum tveir banar þeira —
alls andskotum hrinda
örðrífr, níu fjörvi.

Meðr goðleiðum gáða
grunnleit sús mér unni
gengr at glœstum bingi
gullseims-Njörun heima.

Þorgils mælti: „Þar kemr þó oftast niðr". Þeirra orrostu lauk svá, at þeir brœðr fengu sigr, enn hinir fellu níu; þeir tóku þar fyrir mikit lof af konungi ok marga sæmd aðra. Þeir bræðr vóru með konungi í herferðum jamnan; þá fann Þorgils at Kormákr svaf lítit jamnan ok spurði hví þat sætti. Þá kvað Kormákr vísu:

(56) Brim gnýr bratt*a* hamra
blálands Haka strandar;
alt gjalfr eyja þjalfa
út liðr í stöð Víðis.
Mér kveðk heldr of Hildi
hrannbliks en þér miklu
svefnfátt; sörva-Gefnar
sakna munk es vakna*k* —

„kann ek þat segja þér, bróðir, at ek lýsi útferð minni til Íslands". Þorgils mælti: „Miklu er fyrir fætr kastat þér, bróðir, ok ei*(gi)* veit ek nú til hvers dregr". Þegar konungr verðr víss farfýsi Kormáks, þá kallar konungr Kormák til sín ok segir hann óvitrlega gera ok letr hann ferðarinnar ok tjár þat ekki; réðst hann til skips. Í útláti fengu þeir veðr hvast ok áföll stór ok brotnaði ráin. Þá kvað Kormákr vísu:

(57) Era mér sem Tinteini
— trauðr's vásfara kauði;

skjarr's hann við þys þenna —
þrjótr myksleða brjóti;
þás *öll* — snjallir allir
oddregns stafar fregni —
í Sólundar sundi
sundfaxa rá bundin.

Þeir láta í haf ok þola harða veðráttu ok eitt sinn er komit hafði mikit áfall vóru menn vátir. Þá kvað Kormákr vísu:

(58) Veit hinn es tin tannar
trauðr sæfara enn blauði
— stöndumk Ilmr fyr yndi —
ógørva þat — sörva —
hvar élfaldin alda
oft gengr of skör drengjum;
hann á vífs at *venju*
varma búð á armi.

Þeir hafa harða útivist ok koma um síðir utan at Miðfirði. Þeir kasta akkerum nær landi; þeir sjá á land upp hvar kona ríðr. Kormákr kennir Steingerði ok lét skjóta báti ok rær til lands, gengr skjótt frá skipi ok fær sér hest, ríðr til móts við Steingerði ok þegar er þau finnast hleypr Kormákr af baki og tekr hana ofan ok setr niðr hjá sér; hrossin ganga frá þeim ok líðr á daginn ok kemr at myrkri. Steingerðr mælti: „Mál er at leita at hestum várum“. Kormákr kvað lítils mundi við þurfa ok litast hann um ok sér hvergi hrossin, enn þau höfðu vafizt í einu lækjarfari skamt frá því er þau sátu. Nú ferr nótt at

hendi; taka þau á sik göngu ok kómu til lítils bæjar ok var við þeim tekit ok veittr beini slíkr sem þau þurftu. Um nóttina hvíldi sínum megin bríkar hvárt þeirra. Þá kvað Kormákr vísu:

(59) Hvílum handar bála
Hlín — valda sköp sínu;
þat sjám; reið at ráði
rík — tveim megin bríkar;
nærgi's oss í eina
angrlaust sæing gang*a*
dýr sköfnungi drafnar
‚dyneyjar vit' Freyja.

Steingerðr kvað betr at eigi bæri saman fundi þeirra. Kormákr kvað vísu:

(60) Sváfum hress í húsi
hornþeyjar vit Freyja
fjarðarleygs en frægja
fimm nætr saman grimmar,
ok hyrketils hverja
hrafns ævi gnoð stafna
lags — á lítt of hugsi
lák andvana banda.

Steingerðr mælti: „Liðit er þetta ok get eigi“. Kormákr kvað vísu:

(61) Heit*u* hellur fljóta
hvatt sem korn á vatni,
— enn emk auðspöng ungri
óþekkr — enn bjöð sekkvisk,
fœrask fjöll en stóru
fræg í djúpan ægi: —
*auðs* áðr jamnfögr tróða
alin verði Steingerði.

Steingerðr kvaðst eigi vilja háð hans. Kormákr kvað vísu:

(62) *Sýn* berr mér í mína
men-Gefn, of þat svefna,
— nema fági dul drjúga
drengr — ofraðar lengi,
at axllimar yðrar
auð-Frigg muni liggja
Hrund, á heiðis landi
hlíðar mér of síðir.

Steingerðr segir: „Þat skal eigi verða ef ek má ráða ok skildist þú svá at eins við þau mál at þess er þér engi ván“. Nú sofa þau af um nóttina. Um morgininn býst Kormákr í brott, finnr Steingerði, tók af hendi sér fingrgull ok vill gefa henni. Hon mælti: „Troll hafi þik allan ok svá gull þitt“. Kormákr kvað vísu:

(63) Digla bauðk við dregla
dagtála því máli
— mér vara dagr sás dugði —
drífgagl af því vífi;
en blíðhuguð beiði
bauð gulls Njörun auðar
mitt villat fé Fylla
fingrgoll gefit trollum.

Ríðr Kormákr ok líkar heldr illa við Steingerði, enn verr við Tintein. Hann ríðr heim á Mel ok er þar um vetrinn ok vistar kaupmenn nær skipi.

**20.** Þorvaldr tinteinn bjó norðr í Svínadal, enn Þorvarðr bróðir hans í Fljótum. Um vetr-

inn gerir Kormákr ferð sína norðr í Svínadal at finna Steingerði, ok er hann kom í Svínadal stígr hann af baki ok gekk til stufu. Steingerðr sat á palli ok sezt Kormákr hjá henni, enn Þorvaldr sitr í bekk og þar hjá honum Narfi. Hann mælti, Narfi, við Þorvald: „Skaltu engan hlut í eiga um setu Kormáks? ok er slíkt ósitjanda“. Þorvaldr segir: „Sæma mun ek við slíkt; lízt mér þetta skammlaust þótt þau tali“. Narfi segir: „Illa er þá“. Litlu síðar finnast þeir bræðr Þorvaldr ok Þorvarðr; segir Þorvaldr honum kvámur Kormáks þangat. Þorvarðr segir: „Þykkir þér slíkt sitjanda“. Hann kvað ekki hafa til sakat þar til, enn sagði sér óskapfelt vera um kvámur Kormáks. Þá segir Þorvarðr: „Ek skal bætr á ráða þótt þú þorir eigi, því at öllum oss er skömm í“. Þat var næst er Þorvarðr kom í Svínadal, keyptu þeir bræðr ok Narfi at einum göngusveini at hann skyldi kveða vísu svá at Steingerðr heyrði ok segði at Kormákr hefði orta, enn þat gegndi engu. Þeir sögðu at Kormákr hefði kent konu þeirri er Eylaug hét frændkona hans. Enn þessi var vísa:

(64) Vildak hitt at væri
vald-Eir gömul jalda
stæðilát í stóði
Steingerðr, enn ek reyni,
værak þráða prúði
þeiri's stöðvar geira

gunnörðigra garpa
gaupelds á bak hlaupinn.

Steingerðr verðr nú reið mjök svá at hon vill eigi Kormák heyra nefndan. Þetta spyrr Kormákr ok ferr at finna Steingerði; hann leitar lengi orða við hana; þau svör kómu upp at lyktum at henni mislíkar at hann yrkir um hana níð — „ok er þat nú borit um alt herað“. Kormákr kveðr þat eigi satt vera. Steingerðr segir: „Mjök mundir þú þræta, ef ek hefðu eigi heyrt“. Kormákr mælti: „Hverr kvað svá at þú heyrðir?“ Hon segir hver kvað — „ok þarftu eigi míns tals at vænta ef þetta sannast“. Kormákr ríðr í brott ok leitar þessa stráks ok finnr, ok nú verðr hann at segja it sanna. Kormákr verðr reiðr mjök ok hleypr at Narfa ok vegr hann; slíka för ætlar hann Þorvaldi, enn hann skauzt í skugga ok skammaðist sín ok kómust menn í milli þeirra ok skildu þá. Kormákr kvað þá vísu:

(65) Nú mun *ættleri* ýta
*odd*mœtandi hœta
— vér kunnum skil skepja —
Skíðunga mér níði;
naddhríðar skalk níða
njót svát steinar fljóti;
nú hefik illan enda
Eysteins sonum leystan.

Þetta fréttist um heraðit ok vex at eins óþokki

milli þeirra. Þeir Þorvarðr ok Þorvaldr bræðr eru stórorðir, enn Kormáki líkar þat illa.

21. Eftir þetta sendir Þorvarðr orð ór Fljótum at hann vill berjast við Kormák, kveðr á stað ok stund, kallast nú hefna vilja níðsins ok annarra svívirðinga. Kormákr játtar því, ok er stefnudagr kom fór Kormákr í þann stað sem ákveðit var ok var eigi Þorvarðr þar kominn ok engi af hans mönnum. Kormákr hittir konu eina þar á bænum; hon heilsar honum ok spyrjast þau tíðenda. Hon mælti: „Hvert er þitt erendi eða hvers bíðr þú? Kormákr kvað vísu:

(66) Seinn þykkir *til* søkkva
snyrtimóts ór Fljótum
sás *eld*grennir unnar
orð sendi mèr norðan;
hringsnyrtir þarf hjarta
há*l*fœrr í sik fœra
— þó's men-Gunnar manni
meira vant — ór leiri.

Kormákr mælti: „Nú býð ek Þorvarði af nýju hólmgöngu, ef hann telst hugar síns eigandi; verði hann hvers manns níðingr ef hann kemr eigi“ — ok þá kvað Kormákr vísu:

(67) Skulut níðingar neyða
— nú'mk sóttr um gjöf dóttur;
upp heldk Gauta gildi
gagnum — mik til þagnar;
þat munu Þróttar vittir
Þrof*t*-regns stafar fregna

— byrjak frægð — nema fjörvi
fél-miðlendr mik véli.

Þá búa þeir bræðr mál á hendr Kormáki um níð. Frændr Kormáks halda uppi svörum; hann vill engi boð bjóða láta; kvað þá níðs verða enn eigi sóma, ok kvaðst Kormákr ekki við þeim vanbúinn utan þeir svíki hann. Þorvarðr hafði eigi sótt hólmstefnu þá er Kormákr bauð honum; sagði Kormákr sjálffelt níð á þá ok þeim maklegt at þola slíkt níð. Líðr nú fram til Húnavatnsleiðar; fóru hvárirtveggju til leiðar. Eitt sinn er þeir fundust Þorvarðr ok Kormákr þá mælti Þorvarðr: „Mikinn fjándskap eigu vér þér at gjalda margsháttar ok fyrir þat sama býð ek þér hólmgöngu hér á leiðinni“. Kormákr segir: „Muntu nú nokkut betr til fallinn enn áðr ok hefir þú jafnan undan hvikat“. „Eigi skal at síðr til hætta“, segir Þorvarðr, „þolu vér eigi lengr skammir slíkar“. Kormákr kvað sik ekki dvelja ok ferr heim á Mel.

22. Maðr hét Þórólfr er bjó undir Spákonufelli; hann átti Þórdísi spákonu sem fyrr var getit; þau vóru þar á leiðinni; þóttust margir þar traust mikit eiga er hon var. Þorvarðr sækir hana at ok beiðir hana liðs í móti Kormáki ok gaf fé til; býr Þórdís hann nú til hólms svá sem henni líkar. Kormákr segir móður sinni sína fyrirætlan; hon spyrr hvárt hann hyggi gott til. „Hví skal eigi svá þó“, segir

Kormákr. Dalla mælti: „Þér man eigi hlýða svá búit þó, því at ófúss mun Þorvarðr at berjast nema fjölkyngi sé við; þykkir mér hitt ráð at þú hittir Þórdísi spákonu, því at við svik mun at berjast". Kormákr mælti: „Lítit er mér um þat"; þó fór hann ok hittir Þór*dísi ok bað hana liðs. Hon mælti:* „*Nú komtu* til síð; nú bíta hann eigi vápn, enn vil ek eigi þér varna liðveizlu ok ver hér í nótt ok vitja heilla ok mun ek þá fá svá gert at þik bíti ok eigi járn". Þar er Kormákr um nóttina. Þá er hann vaknaði fann hann at þreifat var um ábreiðuna at höfði honum; hann spyrr hverr þar sé; sá snýr í brott ok til útidyra, enn Kormákr eftir ok sér at þar er Þórdís, ok er hon þá komin í þann stað sem þeir skyldu berjast ok hefir gás undir. Kormákr spyrr hvat skyli. Hon lætr heimgásina niðr ok mælti: „Hví máttir þú eigi kyrr vera?" Þá legst Kormákr niðr ok heldr fyrir sér vöku ok vill vita tiltekjur Þórdísar. Hon vitjar þrisvar ok forvitnast hann í hvert sinn um athæfi hennar; it þriðja sinn er Kormákr kemr út hefir hon skorit tvær gæss ok látit renna saman blóðit í bolla; þá hafði hon tekit hina þriðju gásina ok ætlar at skera. Þá mælti Kormákr: „Hvat skal þessu starfi, fóstra?" Þórdís mælti: „Þat mun þó sannast Kormákr, at þér mun í síðra lagi mega at duga; hafða ek nú ætlat at fyrirkoma þeim ósköpum er Þórveig hafði á

lagt ykkr Steingerði ok mættið nú njótast ef ek skæra hina þriðju gásina svá at engi vissi“. Kormákr mælti: „Ekki trúi ek á slíkt ok kvað vísu:

(68) Aura gafk, á eyri
af skar mær at bærit
Týr — sýndisk mér — taura
tveim gangvegum þeima;
vera mun blóð af blóði
— bjóð aldrigi þat skaldi
þeims ölverki orkar
ásar — tveggja gása.

Þeir fóru til hólms. Þorvarðr gaf spákonu meira fé ok þá hann blótit. Kormákr kvað vísu:

(69) Mjök hafa troll of troðna
— trúit mannr konu annars —
eldreið Áta foldar
ómissila þessa;
vættik hins at valdi
es at vangroði gangum
— hvat of kennum þat henni —
hás völva því bölvi.

Þórdís mælti: „Fæ ek svá gert at kennir þik eigi“. Kormákr mælti ilt í móti ok kvað hana illu einu valda munu ok vill draga hana út í dyrr ok sjá augu hennar í sólskini. Þorgils bróðir hans bannaði honum þat ok lét til engis vera. Steingerðr kveðst fara vilja til hólms ok svá var gert. Þá er Kormákr sá hana kvað hann vísu:

(70) Hefik á holm of gengit
bald-Eir of þik faldu,
— hvat megi okkrum ástum —
annat sinn — of rinna? —
ok vígsakar vaktar
Vár hefik of þik báru,
— *því* skal mér enn Tinteini —
tvær — unnostan næri —.

Síðan börðust þeir; sverð Kormáks beit ekki; þeir áttust lengi höggva viðskifti við ok beit hvártki sverðit. Að lyktum hjó Kormákr á síðu Þorvarði; varð þat mikit högg svá at lúðist undir ok brotnuðu rifin í Þorvarði ok varð hann óvígr ok skildu við þetta. Kormákr sá hvár naut stóð ok hjó þat. Honum var orðit varmt ok tók hann af höfði sér hjálminn ok kvað vísu:

(71) Hefik á holm of gengit
handarskers at berjask
þú skallat mér þella
þriðja sinn of kviðja;
rauðat *sendir randa*
reyr á *þegni* dreyra,
mítt kveðk slætt í sveita
sverð fordæðu gerðu.

Hann þerrir af sér sveita á möttulskauti Steingerðar. Kormákr kvað vísu:

(72) Ek verð oft — *því* þykkjum
erróttr — af mér þerra
— gulls hlýt'k af þér þella
þraut — á möttulskauti;
*þó lætr* í set snauta

saum*r*eið bragargreiði
— mér hefir steypt í stúru
Steingerðr — bana verðan.

Kormákr bað Steingerði með sér fara; hon kvaðst munu skipa um menn ok skiljast þau ok unir hvárttveggja illa við. Þorvarðr er þagat færðr ok bindr hon um meiðsl hans. Kormákr hittir nú jamnan Steingerði. Þorvaldi batnar seint ok þegar er hann má á fætr færast ferr hann at hitta Þórdísi ok fréttir hana hvat honum væri helzt til heilsubótar. Hon segir: „Hóll er heðan skamt í brott er álfar búa í; graðung þann er Kormákr drap skaltu fá ok rjóða blóð graðungsins á hólinn utan, enn gera álfum veizlu af slátrinu ok mun þér batna“. Eftir þetta senda þeir Kormáki orð at þeir vilja kaupa graðunginn; hann kvaðst eigi vilja varna þeim kaups, enn hafa fyrir baug þann er Steingerðr átti. Þeir vitja graðungsins, enn selja Kormáki bauginn ok fara með sem Þórdís sagði fyrir. Kormákr kvað vísu:

(73) Hins mun hör-Gefn spyrja,
es it heim komið báðir
með blótroðinn beiði
benhlunns, sús mér unni:
Hvars nú baugr enn brendi?
— böl ólitit *drýgjum* —
hefr hann sveinn enn svarti,
sonr Ögmundar, skaldit.

Þetta ferr sem Kormákr gat til at Steingerði líkar illa er þeir höfðu baugnum lógat.

23. Eftir þetta batnar Þorvarði skjótt. Þá er hann þóttist aftrbati ríðr hann á Mel ok býðr Kormáki hólmgöngu. Kormákr mælti: „Seint leiðist þér, enn játti ek“. Nú fara þeir til hólms; finnr Þórdís Þorvarð nú sem fyrr. Kormákr sækir ekki hennar trsust. Hon deyfði fyrir Kormáki sverðit svá at ekki beit, enn þó hjó Kormákr svá mikit högg á öxl Þorvarði, at axlarbeinit brotnaði ok varð höndin þegar ónýt; varð hann af þessum lemstrum óvígr ok hlaut at gjalda annan baug í hólmlausn. Þá hljóp at Þórólfr undan Spákonufelli ok hjó til Kormáks; hann bar af sér höggit ok kvað þá vísu:

(74) Rjóðandi lét randa
ryðskálm yfir fálma
fægi Fjölnis veigar
— fnasi hann vesalstr manna —
ok þrumskúrar þeirar
þat varð hlaup at skaupi;
víst hafði mér váða,
verr spákonu, ferri.

Kormákr hjó blautnaut eftir siðvenju ok mælti: „Illa erum vér viðkomnir at þola ágang yðvarn enn fjölkyngi Þórdísar“ ok kvað vísu:

(75) Deyfði eld í öldu
örg vættr fyr mér törgu,
lét *mi*ðr á bak bíta
blað*l*und at hjörfundi;
dugðit hjör þás hugðak
hjalmrœkjanda at sœkja,

högg hlaut huglaus dugga
helzti stinn at minn*um*.

Eftir þat fara hvárir til síns heima ok líkar hvárigum vel.

24. Skip þeirra bræðra stóð uppi í Hrútafirði um vetrinn. Um várit halda kaupmenn til skips; þeir bræðr ætla ok at fylgja skipi sínu. Þá er þeir vóru búnir ferr Kormákr at finna Steingerði ok áðr enn þau skilja kyssir Kormákr Steingerði tvá kossa heldr óhrapalliga. Tinteinn vill eigi svá gert hafa. Nú eiga hlut í vinir hvárratveggju at Kormákr skyldi bæta. Kormákr spyrr hvers þeir beiðist. Þorvarðr segir: „Bauga þeirra tveggja er ek hefi mist fyrri“. Þá kvað Kormákr vísu:

(76) Baugi varðk at bœta
brunnleygs hvaðran tveggja,
guldu*m* *Fáfnis foldu*
fang hals mýils spangar;
gátuð gjallar mœta
golls laufguðum þolli
— tál hefik teitimála —
tveir kossar fémeiri.

Ok er Kormákr var til skips farinn þá kvað hann vísu:

(77) Vísu munk of vinna
áðr vér til skips gangim,
senda sörva-Rindi
til Svínadals mína;
koma skulu öll til eyrna
orð mín Skögul borða,

betr ann'k sigli-Ságu
en sjalfum mér halfu.

Nú ferr Kormákr utan ok með honum Þorgils bróðir hans ok kómu til hirðar konungs; var þar vel við þeim tekit. Þess er getit at Steingerðr biðr Þorvald tintein at þau skildi utan. Hann kvað þat eigi ráðlegt, enn má þó eigi synja henni. Ráðast þau til ferðar ok kómu um haf ok settu víkingar at þeim ok vildu ræna þau, ok taka í brott Steingerði. Þess verðr Kormákr víss ok ferr til ok veitir þeim lið svá at þau heldu öllu fé sínu. Kómu þau síðan til konungshirðar ok einn dag var þat er Kormákr gekk um stræti; sá hann Steingerði sitja í skemmu einni ok gekk þar at ok sat hjá henni ok talaði við hana ok kysti hana fjóra kossa. Þorvaldr varð varr við þat ok brá sverði; síðan hljópu konur í milli ok síðan var sent eftir Haraldi konungi. Hann kvað vant munu til at gæta með þeim — „enn gera mun ek sætt með ykkr“. Þeir játtu því. Konungr mælti: „Einn koss skal vera fyrir þat er Kormákr veitti þér lið í landtöku, enn fyrir annan þat er Kormákr sótti Steingerði, enn fyrir tvá kossa tvá aura gulls“. Kormákr kvað sömu vísu sem fyrr er ritin:

(76) Baugi varðk at bœta.

Einn dag er Kormákr gekk á stræti sá hann Steingerði, víkr til hennar ok biðr hana ganga

með sér; hon neitar því; þá kippir Kormákr henni at sér; hon kallar til liðs sér; konungr var nær staddr ok gengr til ok þótti undarleg þessi för ok tók hana af honum ok mælti til hans stuttlega. Konungr gerði sik reiðan, enn Kormákr er þó með hirð ok kemst brátt í vináttu við konung ok var kyrt um vetrinn.

25. Eftir um várit byrjar Haraldr konungr ferð sína til Bjarmalands með miklu liði. Kormákr var skipstjórnarmaðr í þeirri ferð ok á öðru skipi var Þorvaldr; eigi eru fleiri nefndir skipstjórnarmenn. Ok er þeir sigldust nær í sundi einu laust Kormákr hjálmvelinum við eyra Þorvaldi ok fell hann frá stýrinu í rot; skip Kormáks rendi við er það misti hjalmvalar. Steingerðr sat áðr hjá Þorvaldi ok tók til stýris ok stýrði á flatt skip Kormáks. Þat sá Kormákr ok kvað vísu:

(78) **Fekk sás fögru vífi**
**fór nær en vér stórum**
**högg af hjalmar skíði**
**í hattarstall miðjan;**
**Eysteins hratar arfi**
**á elliða stafni;**
**stýraðu á mik, Steingerðr,**
**þótt steigurla látir.**

Skipinu hvelfir undir Kormáki ok hans mönnum varð skjótt borgit er mart var manna við. Þorvaldr rétti við ok snúa áleiðis ferðinni; býðr konungr sína gerð á málinu ok því játtu þeir báðir.

Konungr lét jamt högg Þorvalds ok hrakning Kormáks. Þeir kómu um kveldit við land; sat konungr ok menn hans í snæðingi. Kormákr sat utar við dyrr í tjaldinu ok drakk tvímenning á Steingerði, ok meðan hann gerði þetta stal maðr frá Kormáki dálki til spots er hann hafði lagt af sér feldinn, ok er hann skyldi til taka var ór dálkrinn. Kormákr spratt upp ok hljóp eftir manninum með spjót þat er hann kallaði Vigr ok skaut eftir honum ok misti ok kvað vísu:

(79) Drengr ungr stal mik dálki
þás drakk á mey rakka,
skulum um dálkinn deila
sem drengir tveir ungir;
vel hefik Vigr of skefta
varðk í grjót at skjóta,
víst's at mannsins mistak,
mosinn varð upp at losna.

Eftir þetta fóru þeir til Bjarmalands ok aftr þaðan ok kómu heim í land.

26. Þorvaldr tinteinn býr skip sitt til Danmerkr ok Steingerðr með honum. Litlu síðar fara þeir bræðr hina sömu leið ok kómu við Brenneyjar síð um kveld. Þar sá þeir fljóta fyrir skip Þorvalds; var hann þar sjálfr ok nokkurir menn með honum; þeir vóru ræntir fé öllu, enn Steingerðr brott tekin af víkingum. Þar var fyrir víkingum Þorsteinn son Ásmundar eskisíðu, er barðist við Ögmund föður Kormáks

ok Þorgils. Nú finnast þeir Þorvaldr ok Kormákr; þá spyrr Kormákr, hvárt eigi hefði tekizt slétt. Hann segir: „Nú hefir víst tekizt eigi sem bezt“. Kormákr spyrr: „Hvat er at orðit, er Steingerðr í brottu?“. Þorvaldr segir: „Brottu er Steingerðr ok fé várt alt“. Kormákr mælti: „Hví sæki þér eigi eftir?“ Þorvaldr segir: „Eigi höfum vér afla til“. Kormákr mælti: „Segir þú ómátt þinn á?“ Þorvaldr segir: „Eigi höfum vér þrek til at berjast við Þorstein, enn ef þú hefir afla til, sæk þú þér til handa“. Kormákr mælti: „Fara skal þá“. Um nóttina gengu þeir bræðr á bát ok reru til víkingaskips; gengu upp á skip Þorsteins. Steingerðr var í lyftingu ok gift manni, enn flest lið var á landi við bakstrelda. Kormákr heimti sögur af matsveinum ok sögðu þeir honum alt þat er þeir vildu bræðr. Þeir gengu á skip at skutbryggju. Þorgils kipti brúðguma á borð út, enn Kormákr drap hann við borðinu. Þorgils hljóp á kaf með Steingerði ok svamm til lands. Þá er Kormákr var nær landi lögðust at honum álar yfir hendr honum ok fætr svá at hann dregr niðr. Kormákr kvað vísu:

(80) Runnu, randar linna  
rógviðr, at mér gnógir  
þá's vér of fen fórum  
flokkum díkis bokkar;  
Gauts mundi þá gáttar  
gunnsvells ef þar fellak

lundr komk litlu sprudi
löngum minst ór öngum.

Kormákr legst til lands ok færir Þorvaldi Steingerði. Þorvaldr bað Steingerði nú fara með Kormáki; sagði hann drengilega hafa eftir sótt. Kormákr kvað þat vilja sinn. Steingerðr kvaðst ekki skyldu kaupa um knífa. Kormákr kvað ok ekki þess mundu auðit verða; kvað illar vættir því snemma hafa skirt eða ósköp. Kormákr kvað vísu:

(81) Hirðaðu, handar girðis
Hlín, — sof hjá ver þínum —
— fátt kant í mun manni —
minna frama at vinna.
Þó skalt fornar faldu
Frigg, heldr en mér liggja
— drykk hefik yðr of aukit
Aur*vangs* — *nái* gauri.

Kormákr bað Steingerði fara með bónda sínum.

27. Síðan sneru þeir aftr bræðr ok til Noregs, enn Þorvaldr tinteinn fór til Íslands. Enn þeir bræðr herjuðu um Írland, Bretland, England, Skotland ok þóttu hinir ágæztu menn. Þeir settu fyrst virki þat er heitir Skarðaborg; þeir runnu upp á Skotland ok unnu mörg stórvirki ok höfðu mikit lið; í þeim her var engi slíkr sem Kormákr um afl ok áræði. Eitt sinn er þeir höfðu herjat rak Kormákr flótta, enn liðit var til skips farit; þá kom at Kormáki ór skógi blótrisi Skota ok tókst þar atgangr

harðr. Kormákr leit til sverðs síns ok var rent ór slíðrum. Kormákr var ósterkari, enn risinn trollauknari. Kormákr seildist til ok hjó risann banahögg. Risinn lagði þó svá fast hendr at síðum Kormáki at rifin brotnuðu ok fell Kormákr ok risinn dauðr ofan á hann ok komst Kormákr eigi upp. Í annan stað fara menn at leita hans ok finna ok fluttu hann til skipa. Þá kvað Kormákr vísu:

(82) Vara sem *fríða* í faðmi
þás fangremi mættak
við strengmara stýri
Steingerði mér hefðak;
mundak öl at Óðins
í öndvegi drekka
skjótt — segik *þat* skötnum —
ef mér Skrýmir lið veittit.

Þá var at hugat sárum Kormáks ok vóru brotin rifin í hvárritveggju síðunni. Kormákr kvað eigi þurfa at græða sik; lá hann í sárum um hríð; hörmuðu menn þat er hann skyldi svá óvarlega farit hafa. Kormákr kvað vísu:

(83) *Réða til* þess reiðir
*ra*ndmorð*s* göfugr forðum,
send*i* sótt at grandi
sverð*s at* skyldi verða;
forðumk vætr, því at verða
vígnaðrs stafar aðrir
— snertumk höfu*g* við hjarta
helnauð — ok kördauða.

Ok enn kvað hann vísu:

(84) Varat með mér í morgin
maðr þinn, konan svinna,
— roðinn vas hjörr til hodda
handfagr — á Írlandi;
þás sliðrdreginn *seyðir*
sang of mínum vanga
Hlakkar tafns, enn hrafni
heitr fell á nef sveiti.

Ok nú tók at líða at Kormáki. Þá kvað hann vísu:

(85) Dundi djúpra benja
dögg ór mœkis höggvi;
bar ek með drengjum dýrum
dreyrugt sverð á eyri;
bera knáttu þá breiðan
blóðvönd hjarar-Þundar.
Þó mun ek, greipa-glóðar
Gerðr, strádauða verða.

Kormákr kveðst Þorgilsi bróður sínum gefa vilja féit ok liðit; kveðst honum unna bezt at njóta. Síðan andaðist Kormákr, enn Þorgils réð fyrir liði ok var lengi í víkingu.

Ok lýkr þar sögu þessi.

## Vísnaskýringar.

---

1 (Kormákr). Nú varð mér menreið[1] í jötuns-leiði[2] mínu; ristin[3] snótar reittumk[4] ramma ást fyr skammu; þeir fœtr fald-Gerðar[5] munu verða mér at fári oftar en nú — alls ekki veitk ella svarra[6]. —

1. *menreið*, kvenkenning. — 2. *jötuns-leiði* (jötunsvindr), hér = hugr. Bugge heldr (í ritgerð sinni um vísurnar í Kormáks sögu í „Aarböger for nordisk Oldkyndighed", 1889) að fyrsta vísuorðið eigi að vera: „Nú varð mér í meyjar", og verða þá hendingar í vísuorðinu Nú — mey, og kenningin *jötuns-leiði* skiljanlegri, því að þá má taka saman *jötuns meyjar leiði* og það verðr rétt kenning, enn *jötuns-leiði* er óvanaleg kenning. — 3. *ristin* er í hdr. risti og getr það verið rétt. — 4. *reittumk*, reitti mér = kveykti mér. — 5. *Gerðr*, Ásynja, *fald-Gerðr*, kvenkenning. — 6. *svarri*, kvenmaðr („ókent heiti" eins og kona, kerling, man, mær, drós, fljóð, ristill, svanni, sæta o. s. frv.).

Þessi stúlka varð mér hugföst; fótr hennar kveykti sterka ást í mér; þeir meyjarfætr munu verða mér hættulegir oftar. Að öðru leyti þekki eg ekki stúlkuna.

2 (Kormákr). Björt ljós beggja drósar[1] kinna brunnu á mik of eldhúss við feldan; þat hlœgir oss eigi; en ek gat líta hjá þreskeldi til ökla ítrvaxins svanna[2]; þrá munat[3] eldask oss um ævi.

1. *drós*, kvenmaðr. — 2. *svanni*, kvenmaðr. — 3. *munat* = mun eigi.

Bæði hin björtu kinnaljós meyjarinnar lýstu á mig yfir eldhúsþilið (hlaðann, réttara hleðann = hlerann); enn við þresköldinn sá eg á fætr hinnar fagrvöxnu meyjar. Eg þrái hana meðan eg lifi (þráin eftir henni fyrnist ekki meðan eg lifi).

3 (Kormákr). Haukfránn[1] brámáni[2] hörvi[3] glœstrar lauka brims Hristar[4] skein á mik und ljósum brúna himni; en sá hvarma tungls[5] geisli gullmens Fríðar[6] sýslir síðan óþurft mína ok hringa-Hlínar[7].

1. *haukfránn*, snar eða hvass sem auga hauksins. — 2. *brá*, augnahár, *brámáni*, auga. — 3. *hörvi*, þáguf. af hörr = lín. — 4. *laukabrim*, lauksúpa; *Hrist*, ein af valkyrjum, lauka brims-Hrist, kvenkenning. — 5. *hvarmatungl* = brámáni. — 6. *Fríðr*, Ásynja? *gullmens-Fríðr*, kvenkenning. — 7. *Hlín*, Ásynja, hringa-Hlín, kvenkenning.

Haukleg augu hinnar línklæddu meyjar leiftruðu á mig undan björtum brúnum; enn það augna leiftr mun verða oss báðum að böli.

4 (Kormákr). Dr. Guðbr. Vigfússon, Dr. Björn Ólsen og Dr. Bugge hafa allir reynt til að lagfæra vísu þessa, og eftir leiðréttingum þeirra, sem eru mjög líklegar og styðjast að sumu leyti við handrit (svo sem orðið krapta, verðr vísan þannig:

Hófat lind — né leyndak —
líðs horna — því stríði —
— bands mank beiði-Rindi —
baugsœm af mér augu,
þás húnknarrar hjarra
happþægi-Bil krapta
helsisœm at halsi
Hagbarðs á mik starði.

Baugsœm[1] líðs horna (f. hyrjar) lind[2] hófat[3] augu af

mér — né leyndak því stríði; ek man bands beiði- (f. beiða) Rindi[4] — þás helsisœm[5] húnknarrar happþægi-Bil[6] starði á mik at hjarra krapta[7] Hagbarðs[8] halsi.

1. *baugsœm,* baugi sæmd, baugskreytt. — 2. *líð*, öl drykkr; *lind*, eik; *líðs-horna- lind*, ölshorna eik, kvenkenning. — 3. *hôfat* = hóf eigi. — 4. *Rindr*, Ásynja; *bandsbeiði-Rindr*, kvenkenning. — 5. *helsisœm*, skreytt með hálsbandi; sbr. baugsœm. — 6. *húnknörr*, tafl; *húnn* var eitt af töflunum í hnefatafli (sbr. Hervararsögu og Heiðreks); *Bil,* Ásynja; húnknarrar *happþægi*-Bil (Ásynja, sem leikr taflinu til hagnaðar?), kvenkenning. — 7. *krapti*, stoð, *hjarra-krapti*, dyrustafr? — 8. *Hagbarðr,* „líkneski (mynd) Hagbarðs", sem skorið hefir verið á dyrustafinn (sbr. formálann). *Hjarra-krapta Hagbarðr*, dyrustafs Hagbarðr. — Líklegt er, að hér eigi að standa „a t halsi", fremr enn „á halsi", þó mætti einnig geta til að væra mætti „u n d halsi".

Hin baugskreytta stúlka hafði ekki af mér augun; — eg dró ekki dulur á hugarstríð mitt; eg man hana, — þegar hún horfði á mig frá höfði líkneskjunnar.

5 (Kormákr). Allhvít Á t a bekks eld-Eir[1] kvaðsk of aftanskœrur[2] þekkja á mér lýti eitt ok þó lítit. Vel borin haukmœrar Hlín[3] kvað hári mínu sveipt í enni — skylda ek kenna þat kyn kvinna —.

1. Orðið „íta", sem stendr í textanum, hefir Bugge getið til að vera ætti Á t a, og er það líklegt. *Áti,* sækonungr, *Áta bekkr* (lækr), sjór, Áta bekks *eldr* gull, *Eir*, Ásynja, og er þetta þá alt kvenkenning. — 2. *aftanskœrur*, rökkr. — 3. *haukmœrar*, hauksland, hönd; Hlín, Ásynja; *haukmœrar-Hlín* er þá kvenkenning.

Hin mjallhvíta mær kvaðst þekkja á mér eitt lýti í rökkrinu og þó lítið; hún sagði, að sveipr væri í hári mínu í enninu. — Þessari stúlku ætti eg að kynnast.

6 (Kormákr). Dr. Björn Ólsen hefir fyrstr leitt athygli að því, at „Sága“ í upphafi þessarar vísu sé ekki gyðjunafn, heldr eignarfall af *søgr* = *sár* (ílát). Þetta styðst einnig við handritin. Hann hefir einnig sýnt, að ‚er la sölva‘, sem tekið hefir verið upp í hinn prentaða texta, á að vera: ok lá sölva, því að svo stendr í skinnbókarbrotinu AM. 162 a, fol. og verðr þá fyrri helmingr vísunnar þannig:

Svört augu berk sága
snyrti-grund til fundar
— þykkik ermi Ilmi
allfölr — ok lá sölva.

Dr. Jón Þorkelsson getr til, að fyrsta vísuorðið eigi að vera: Svört augu berk við sága (‚ek ber svört augu til fundar við sága snyrti-Grund‘) og er það líklegt.

Samkvæmt þessu verðr vísan þannig tekin saman: Ek ber svört augu ok sölva[1] lá[2] til fundar við sága snyrti-grund[3], — erma Ilmi[4] þykkik allfölr —; þó hefik, men-grund[5], komit mér stundum hjá meyjum, hagr at manga við Hrings Hörn[6] sem drengr enn fagri.

1. *sölva*, þágufall af sölr = fölr (grasið er orðið „sölt“, eða farið að „sölna“, er enn algengt mál). — 2. *lá*, hár. — 3. kvenkenning. — 4. *Ilmr*, Ásynja; *erma-Ilmr*, kvenkenning. — 5. kvenkenning. — 6. *Hörn*, Ásynja (Freyja); *hrings-Hörn*, kvenkenning.

Eg kem með svört augu og ljóst hár til fundar við meyna; henni þykir eg vera heldr fölleitr. Þó hefi eg, mær, komið mér stundum hjá meyjum, laglegr að manga við þær sem (eg væri) fríðr drengr.

7 (Kormákr). Ek met annat auga öl-Ságu[1] þats liggr í ljósu líki beðjar Nannu[2], þriggja hundraða; hadd[3]

þann es hörbeiði-Sif[4] greiðir snimma, met ek fimm hundraða. — Hodda fægi-Freyja[5] verðr dýr. —

Dr. Jón Þorkelsson getr til að í staðinn fyrir líki í 3. vísuorði, sem er lítt skiljanlegt, mætti setja lesni (*lesin* = útsaumr), og Dr. Björn Ólsen hefir getið til, að þar gæti verið lási (*láss* þýðir band, umgerð). Með þessum breytingum fást einnig hendingar í vísuorðið.

1. *öl-Sága*, kvenkenning. („Konur er rétt að kenna við alt þat er þær eiga í gripum ok við allar hannyrðir þeira, svá ok við ölkeröld ok drykkju“. Sn. Edda). — 2. *beðjar Nanna*, kvenkenning. — 3. *haddr*, hár. — 4. kvenkenning. — 5. *hoddar*, fé, *hodda-fœgi-Freyja*, kvenkenning.

Eg met annað auga meyjarinnar, sem er í bjartri umgerð (björtum útsaum), þriggja hundraða; hár það er hún greiðir snemma (á morgnana), met eg fimm hundraða. — Mærin verðr dýr.

8 (**Kormákr**). Próf. Bugge getr til að 4. vísuorð eigi að vera: hugstarkra Danmarkar.

Ek met auðar þellu[1] þás grandar mér, Íslands alls ok handan hugstarkra Húna lands Danmarkar; háþyrnis geira-Eir[2] es verð Engla jarðar; ek met svinna sunds-sól-Gunni[3] ok Íra grundar.

1. kvenkenning. — 2. *háþyrnir*, líklega hár, *háþyrnis-geirr* er þá = kambr, og *háþyrnis-geira-Eir* kvenkenning. — 3. *Gunnr*, valkyrja, *sunds-sól*, gull; kvenkenning.

Eg met meyna, þá er gerir mér tjón, á við alt Ísland og handan (hafs) á við Danmörk og land hinna hraustu Húna; hún er (líka) verð Englands og Írlands.

9 (**Kormákr**). Tósti, (þú) skalt láta hest minn rinna léttfœran und þér (ok) móðan of miklar heiðar — ljóst mar vendi — mér es makara at mæla mart orð við Steingerði en at elta mórauða sauði um afréttu.

Tósti, láttu hest minn, sem er léttr, mæðast á heiðinni löngu, keyrðu hann, mér þykir þægilegra að tala við Steingerði, enn að elta mórauða sauði um afréttu.

10 (Kormákr). Svarðar sefþeys-Freyja[1] kom *(at)* beina at mér saurfirðum skarar-teins geir[2] — mank reiðu[3] grepps góða — þó várum vér meðalkunnir þeiri hyltinga-vallar-þall[4] — minnumk at unna unnfúrs-Eir[5].

Dr. Jón Þorkelsson getr til að í staðinn fyrir kom eigi að vera réð, og er það skiljanlegra.

1. *svarðar sefþeyr*, líklega kambr; *svarðar-sefþeys-Freyja*, kvenkenning. — 2. *skararteinn*, hár; *skararteins-geir*, kambr. — 3. *reiða*, áhald. — 4. *hyltingr*, ormr; *hyltinga-vallar þöll*, kvenkenning. — 5. *unnfúr*, sæeldr, gull; *unnfúrs-Eir*, kvenkenning.

11. og 12. vísa þurfa ekki skýringar. *Ketilormar* eru = mörbjúgu.

13 (Kormákr). Dr. Björn Ólsen og Bugge vilja hafa Áli í stað *Áti* í 1. vísuorði og Bugge vill lesa: orfa Áli.

Ófróðr örva Áti[1], hvat skalt *(þú)* rœða of mat? þér var engi þarf þeirar kerski við mik, Narfi.

1. *Áti*, sækonungr; *örva-Áti*, mannkenning.

Fávitri maðr, hvað viltu ræða um mat? Þér var engin þörf þeirrar kersk(n)i við mig, Narfi.

14 (Kormákr). Fréttinn frenju-fœðir[1] spurði hvé mér þœtti ketilormar — mér sýnisk hann hvarmrauðr heima —; ek veit at hrímugr hlúki[2], hrókr saurugra flóka, sás taddi túnvöllu, hafði tíkr erendi.

1. *frenja*, kýr; *frenju-fœðir*, nautamaðr. — 2. *hlúki*, skammaryrði, líklega svipað „sóði“.

Hinn forvitni nautamaðr spurði, hversu mér þœtti mörbjúgu — hann er nokkuð rauðeygðr heima að sjá —; enn

þessi hrímugi sóði í óhreinu fötunum, sem bar á túnin, hafði hunds erindi (fór erindisleysu).

15 (Kormákr). Vísan er þannig í handriti því sem hún er minst aflöguð í (AM. 132 fol.):

Hneit við Hrugnis fóta
hallvitindum stalli
inn var ek ilmi at finna
engi sar of fengin
vita skal hitt ef hann hættir
handviðris mer grandi
ne yggs firir lið leggjum
litis meira vítiss.

Dr. Guðbr. Vigfússon hefir getið til að engi sar ætti að vera engis lé, eins og hér er sett. Dr. Bugge heldr þó, að „engi-sár" geti verið rétt nafn á ljá (af að særa). Dr. Björn Ólsen heldr að „engi sar" eigi að vera engi-sax. Hallvitjöndum heldr Dr. Jón Þorkelsson að vera eigi hallvífuðum; hallvífaðr = steindr, sbr. gullvífaðr. Genginn ætlar Dr. Björn Ólsen eigi að vera gengum. Fyrir vask í 3. vísuorði vill Dr. Björn Ólsen setja: víns. Í síðari vísuhelmingnum vill Dr. Björn Ólsen lesa: handviðr íss fyrir handviðris og hœtir fyrir hættir. Vísan verðr þá þannig greidd í sundr:

Engi-sax[1] hneit[2] við hallvífuðum[3] Hrugnis fóta stalli[4] — of gengum inn víns Ilmi[5] at finna —; hitt skal vita meira vítis, ef handviðr íss[6] hœtir mér grandi. Né leggjum lítit fyrir Yggs lið[7].

1. = ljár. — 2. *hníta,* koma við. — 3. *hallvífaðr,* steindr. — 4. *Hrugnir,* jötunn; Hrugnis *fótastallr,* skjöldr. — 5. *víns-Ilmr,* kvenkenning. — 6. *handíss,* gull; handíss *viðr,* mannkenning. — 7. *Yggs líð,* skáldskapr.

Ljárinn kom við steindan skjöldinn. — Eg fór inn að finna meyna. — Þar skal meira ilt af hljótast ef Þor-

kell(?) hótar mér illu. Eg yrki ekki að ástæðulausu (ef ekkert er um að vera).

16 (Kormákr). Dr. Björn Ólsen getr til að Hlín í síðari vísuhelmingnum eigi að vera: hins, enda verðr óhægt að greiða úr vísunni með öðru móti.

Sæta[1] hvarf braut ór sal, erumk[2] hugr þverlegar á sunns-herkis-Gunni[3] — hvat merkir[4] nú hall alla? —; renda ek brágeislum[5] hús alt et innra at þeiri. Hins erumk fúsir at finna Eirar-geirs-Hörn[6].

1. ókent kvenheiti. — 2. = er mér. — 3. *herkir*, eldr; *sunns* (sunds) *herkir*, gull; *sunns-herkis-Gunnr*, kvenkenning. — 4. *merkja* er hér = að ágæta (af hverju er húsið nú ágætt, merkilegt?). — 5. *brágeisli*, auga. — 6. *Eir*, Ásynja (læknir); *Eirar-geir*, lækningarverkfæri; *Eirar-geirs-Hörn* verðr þá kvenkenning.

Mærin hvarf burt úr salnum; eg hefi því meira hug á henni; hvað hefir nú húsið til síns ágætis? eg horfði um alt húsið hið innra. Eg er fús að finna hana.

17 (Kormákr). Dr. Jón Þorkelsson getr til að órœknum eigi að vera óslœknum, og er það líklegt.

Andskotar mínir, synir karls eins, sitja inni ok hvetja sverð sín; þeir erut[1] banar mínir; en ef tveir vega at mér einum á víðum velli, þás sem ær sœki fjör at óslœknum[2] ulfi.

1. = eru eigi. — 2. *óslœkinn*, ötull, hraustr.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

18 (Kormákr). Dr. Jón Þorkelsson getr til að í staðinn fyrir öfund í 7. vísuorði mætti setja: angr og verða þá hendingar í vísuorðinu.

Menn sitja ok meina mér steina-Gná[1] eina; þeir es vörðumk[2] borða-Gná[3] hafa víl[4] at vinna; ek skal unna

þeiri sölva-Gunni[5] því meira es þeir ala meira öfund um göngur órar.

1. kvenkenning. — 2. = varða mér, varna mér. — 3. kvenkenning. — 4. = erfiði. — 5. kvenkenning.

Menn sitja um mig og meina mér meyna; þeim sem varna mér hennar skal verða það erfitt. Eg skal unna þeirri mey að meira, því meir sem þeir öfunda okkr.

19 (Kormákr). Menn sitja ok meina mér ásjánu þína; þeir hafa linna[1] fœtr til at vinna lögðis loddu[2], þvít linnz[3] allar þjóðár í landi skulu rinna upp áðr ek hafna þér, ölstafns lýsi-Grund[4].

1. *liðr*, lýsingarorð, = linr. — 2. *lodda*, eyjar nafn; *lögðir*, sverð; *lögðis lodda*, sverðsey, valkyrja = orrusta. — 3. hástig af liðr. — 4. *ölstafns-lýsi-Grund*, kvenkenning.

Menn sitja um mig og meina mér að horfa á þig; þeir hafa veika fœtr til að heyja (þá) orrustu, því at allar þjóðár í landi skulu að minsta kosti renna til þurðar, áðr enn ek hafna þér.

20 (Kormákr). Ljós línu-Hlín[1], hvern hrundar-skapfrömuð[2] mundir þú kjósa þér at ver? — Sýnir lúka mér líkn. —

1. kvenkenning. — 2. *Hrund*, valkyrja; hér = orrusta; *Hrundar-skapfrömuðr*, sá sem gengr hraustlega að orrustu, mannkenning.

21 (Kormákr). Dr. Björn Ólsen getr til að blindum í 1. vísuorði eigi að vera blíðum; þá eru hendingar í vísuorðinu og að öðru leyti er tilgátan líkleg. Í síðara vísuhelmingnum heldr Dr. Björn Ólsen að yrði goð sem gerðisk eigi að vera: verða goð ef gerði. Dr. Bugge hefir komizt að sömu niðrstöðu um bæði þessi atriði.

Bauglestir[1], ek munda festa mik blíðum bróður Fróða[2], ef goð ok sköp gerði verða mér góð.

1. mannkenning. — 2. þ. e. *Kormáki* (bróðir hans hefir heitið Fróði).

Eg mundi festa mig þér, blíði bróðir Fróða, ef goðin og forlögin yrðu mér góð.

22 (Kormákr). Kostaðu hins at (*þú*) haldir fast hesti ok skjaldi; hnyðja ór mun koma bráðlega yðr við eyra; segðu aldri síðan frá sumli, þótt fregnir sjau um dag; (*þú*) skalt kemba of kúlu kumlabrjótr[1].

1. *kuml*, grafarmark, leiði, dys; kumlabrjótr sá sem brýtr leiði eða dysjar.

Gættu þess, að þú haldir fastlega hesti þínum og skildi; hnyðja vor mun koma bráðlega yðr við eyra; segðu aldri síðan frá drykkju, þótt þú fréttir um sjö á dag; þú skalt kemba um kúlu, kumlabrjótr.

23 (Kormákr). Í hdr. stendr í 1. vísuorði Brott — setta, enn Brátt — sótta er tilgáta Dr. Jóns Þorkelssonar. Í hdr. stendr einnig í 8. vísuorði daglengis, enn dag lengi er tilgáta Dr. Jóns Þorkelssonar. Dr. Bugge getr til að hér eigi að vera: beiðir hana á reiða | Valkjósanda at vísu | víns.

Bersi hefir brátt sótta heitkonu mína, þás unni mér manna mest — ek hefi mist ens tvista[1] fljóðs; kystak þá mjóva mey mest, lengi flestan dag. — Valkjósanda víns beiðir[2] á at vísu (*at*) reiða hana.

1. *tvistr*, dapr. — 2. *Valkjósandi*, Óðinn; Óðins vín, skáldskapr; *Valkjósanda víns beiðir*, skáld.

Bersi hefir fljótlega sótt heitmey mína, sem unni mér mest allra manna — eg hefi mist hinnar döpru meyjar; þá grannvöxnu mey hefi ek mest kyst, langan tíma nálega á hverjum degi. — Skáldið á sannarlega að láta hana ríða með sér.

24 (Kormákr). Í hdr. stendr gauta fyrir götva í 1. vísuorði, enn götva er tilgáta Dr. Finns Jónssonar.

Yggjar-götva runnr[1], ek em at Svölnis fulli[2] of rjóða ullar reiði-Sif[3] sem vífl[4] at brunni. Mart verðr dýrt at kaupa *(með)* Draupnis döggvar kerti[5]; þetta Þorveigar skip skal leiga þrimr aurum.

1. *Yggr*, Óðinn; *Yggjar götvar*, Óðins klæði, herklæði; *Yggjar-götva runnr*, mannkenning. — 2. *Svölnir*, Óðinn; *Svölnis full*, skáldskapr. — 3. *Sif*, Ásynja; *ullarreiði-Sif*, sú Sif er vinnr að ullarvinnu, kvenkenning. — 4. *vífl*, þvottbarefli. — 5. *Draupnir*, gullhringr sem getr af sér aðra hringa; *Draupnis dögg*, gull; *Draupnis döggvar kerti* á hér að vera = penningar, enn orðið *kerti* er reyndar lítt skiljanlegt í þessu sambandi.

Maðr, eg er jafnoft að kveða um hina rjóðu mey sem vífl eru við brunna. Mart verðr að kaupa dýrt fyrir penninga; þetta skip Þorveigar á nú að leigja þremr aurum.

25 (Kormákr). Annað vísuorð er of stutt, að eins 5 samstöfur. Dr. Björn Ólsen hefir getið til að annaðhvort ætti að vera of á eftir snemr, eða mér á eftir vangs í 3. vísuorði; gandis í sama vísuorði heldr Dr. Björn Ólsen að eigi að vera gamðis. Í síðari hluta vísunnar getr Dr. Bugge til að „nemit“ eigi að vera numin og að seinasta orðið í vísunni eigi að vera gafni.

Svá kveðk gamðis-vangs-báls-snyrti-Freyju[1] gengna mér ór greipar skálum[2], — at varrskíðs vegskorðan[3] verði síðan numin mér at tafni[4] (gafni[5]). Snemr[6] of trúðak brúði.

1. *gamðir*, haukr; *gamðis vangr*, hönd; gamðis vangs*bál*; gull; *gamðis-vangs-báls-snyrti-Freyja*, kvenkenning. — 2. *greipar skáli*, lófi. — 3. *varrskíð*, skip; *varrskíðs-vegskorða*, kvenkenning. — 4. *tafn*, bráð. — 5. *gafn* = gagn. — 6. *snemr*, miðstig af atviksorðinu snemma.

Þannig segi eg meyna (nú) gengna úr greipum mér, að hún verði síðan numin af mér. Fyrr trúði eg henni.

26 (Kormákr). Í 6. vísuorði verðr spryngi að vera springi, ef hendingum á að halda. Í 8. vísuorði stendr í hdr. en þik grafna, og er en þér hafnak tilgáta Dr. Möbius, enn Dr. Finnr Jónsson hefir getið til að hér ætti að vera en þik gefna, og er það mjög sennilegt.

Ljós lín-Gefn[1], þú telr stefnu við þik logna, enn ek gerða fák minn mjök móðan of þína sök; hring-Eir[2], halfu heldr vildak at marr spryngi, enn þik gefna. — Sparðak all-lítt jó[3] þanns áttum.

1. kvenkenning. — 2. kvenkenning. — 3. *jór*, hestr.

Steingerðr, þú telr mig hafa brugðizt að koma til (brullaups) stefnu, enn mjök móðan gerði eg hest minn fyrir þínar sakir. Hálfu heldr vildi eg, að hestrinn spryngi, enn að þú værir gefin. Eg hefi lítt sparað hestinn minn.

27 (Bersi). Í 5. vo. stendr í handr. „dyra", enn Dr. Jón Þorkelsson getr til að vera eigi „fúra" og er það líklegt.

Hjaldr-Ullr[1] varð (at) gjalda mér fyr sik þrjár merkr á holmi; má of kalla þann hjalms þoll[2] hugum-sterkan; Sköglar fúra[3] hríðfimr skjaldvers Reginn[4] mun aldri síðan skora á mik. Vér bárum hæra hlut.

1. *hjaldr*, orrusta; hjaldr-Ullr, mannkenning. — 2. *þollr*, grenitré, viðr; *hjálms-þollr*, mannkenning. — 3. *Skögul*, valkyrja, *fúrr*, eldr; *Sköglar fúrar*, valkyrju eldar, bardagar. — 4. *skjaldvers* á líklega að vera *skjaldveðrs*; *skjaldveðrs-Reginn*, mannkenning.

Kormákr varð *(at)* gjalda mér fyrir sig þrjár merkr á hólmi — má *(þó)* kalla hann hraustan mann. Hinn bar-

daga-fimi maðr mun aldrei síðan skora á mik. Vér bárum hærra hlut.

28 (Bersi). Muna munt *(þú)* hjaldr þanns þú kvaddir mik *(til)* Hildar háraddar[1]; geng ek glaðr at geira þingi; em ek reyndr at aðru; klaufk randlauki[2] renda rand[3] at handum Kormáki; vildit fleins Freyr[4] heyja einvígi af feldi.

1. *Hildr*, valkyrja; *Hildar hárödd*, bardagi. — 2. *randlaukr*, sverð. — 3. *rand* = rönd, skjöldr. — 4. *fleins Freyr*, mannkenning.

Þú munt muna þann bardaga, er þú kvaddir mig til; eg geng glaðr í bardaga; eg er *líka* reyndr að öðru; eg klauf með sverðinu rendan skjöld Kormáks við hendr honum. Hann vildi ekki heyja einvígi nema á feldi.

29 (Kormákr). Dr. Bugge getr til, að í stað a t í 1. vo. muni ef til vill eiga að vera a f t r. Síðari vísuhelminginn vill hann hafa þannig:

Varat um gagn, þás gengum
geirþey of mey heyja
söngvarðaða, at sverða
sennu mér at kenna.

Þ. e. varat um gagn mér at kenna at sverðu sennu, þás gengum heyja geirþey of mey söngvarðaða = sigrinn var ekki mér að (þakka) kenna í hólmgönguuni, þá er vér gengum að berjast um meyna.

Aftr hefi ek at fœra yðr eggfallinn[1] hjör, Skeggi; vápn beitat at vísu; hlutr þeira varð meiri. Varat um gagn mér at kenna at sverða sennu þás *(vér)* gengum at heyja hjörþey[2] of mey söngvarðaða[3].

1. = eggbrotinn. — 2. *hjörþeyr*, bardagi. — 3. *söngvarðaðr*, búinn eða prýddr kvæðum (mansöngum), fremr enn (sem Bugge heldr) sá sem varnað (meinað) er að yrkja um.

30 (Kormákr). Dr. Bugge heldr at 2. vísuorð eigi að vera:

Hugðumk þat fyr batra.

Þ. e. eg hugði það betra fyrir mér.

Handarskers holla[1], ek hefi gengit á holm at berjask við híðbyggvi[2]; hugða mér þat fyr batra; enn mæri mundar vandr[3] brast í handum fyr mér; seggja morðeggjandi[4] hefir mist margra kosta.

1. *handarsker*, handargrjót, gull; *holla* (af hollr?), sú sem veitir hollustu (hér er Kormákr að tala við móður sína); *handarskers-holla* er því kvenkenning. — 2. *híðbyggvir*, sá sem býr í híði, híðbjörn = bersi = Bersi. — 3. *mundar vöndr*, sverð. — 4. *seggja morðeggjandi*, sverð.

Móðir mín, eg hefi gengið á hólm að berjast við Bersa; hugði að eg mundi bera sigr úr býtum. Hið fræga sverð brast sundr í höndum mér; margir kostir þess eru farnir.

31 (Kormákr). Dr. Bugge getr til að fetils drafnar í 8. vo. eigi að vera fetils þrafna, og er það líklegt.

Skeggi fœrðit mér starreggjaðan[1] morðvönd[2] at morði — staðr er í fetils storðar strandar naðri[3] — gerðit Sköfnungr holt *(at)* bíta Hvíting í tvau fyr hjalti; ek hefi brotit skarð í skerði fetils þrafna[4].

1. *starreggjaðr,* sljóeggjaðr. — 2. *morðvöndr,* sverð. — 3. *fetils storðar strandar naðr*, sverðskenning. — 4. *fetils þrafna skerðir*, skerðir sverðreimar bjálka, sverðskenning.

Skeggi færði mér ekki sljóeggjað sverð til að berjast með — það er staðr í því — enn Sköfnungr gerði mér enga þægð er hann klauf Hvíting fyrir hjalti. Eg hefi brotið skarð í sverðið.

32 (**Kormákr**). Í hdr. stendr í síðasta vísuorði byðu, sem Dr. Bugge getr til að vera eigi beiði.

Íugtanni[1] gørði oss mein at morði — grannfengr[2] morðvandr[3] rann at greipar grunni þás hjók randir —; Áta húsa fress[4] lét illa þás gekk ófúss ór sínu slíðr híði Sónar varar beiði[5].

1. *íugtanni*, björn = Bersi. — 2. grannfengr, mjór. — 3. morðvandr = morðvöndr, sverð. — 4. *Áti*, sækonungr; *Áta hús*, skip; *Áta húsa fress*, (hér): sverðskenning. — 5. *Sónar vör*, skáldskapr; *Sónar varar beiðir*, skáld.

Bersi gerði mér mein í hólmgöngunni; hið mjóa sverð rann upp í greip mér er eg hjó skjöld Bersa. Sköfnungr lét illa þegar hann gekk úr slíðrum hjá skáldinu.

33 (**Kormákr**). Dr. Björn Ólsen getr til að í stað víssar stefnu í 2. vo. eigi að vera vísar stefnu, og er það sennilegt að því leyti, að annars verðr Gefn hálfkenning, nema göngu-Gefn væri kenning, sem Dr. Finnr Jónsson getr til.

Ek vas of genginn; göngu-Gefn[1] vísar til stefnu; — númk hornungr hörþellu[2] hylli tvaa morna; grenjumk hins, hörfit[3], at ek muna sitja heima enn þriðja. — Mér es iðjusamt of erma Ilmi[4].

1. *Gefn* = Freyja. — 2. *hörþella,* kvenkenning. — 3. *hörfit*, kvenkenning. — 4. *erma Ilmr*, kvenkenning.

Eg gekk að heiman. — Freyja vísar mér leið. Nú hefir ást Steingerðar brugðizt mér tvo morgna; það hryggir mig, að eg muni sitja heima hinn þriðja. Mér er ant um meyna.

34 (**Kormákr**). Fjörnis Freyr[1], fyrnaðu mik þótt ek væra seinn at fœra þér dreyra mœri[2] — ek ber mærð mína fyrir þik — því at, Skeggi, sköp of vinna und

hreggmiðjunga[3] heiðis hlíði[4] — þinn hjörr hefr verit í þremja þrym[5].

1. *fjörnir*, hjálmr; fjörnis *Freyr*, mannkenning. — 2. *dreyra mœrir*, sverð. — 3. *hreggmiðjungr* virðist vera mannkenning. — 4. *heiðir*, valr, *heiðis hlíð*, hönd. — 5. *þrömr* (eignarfall flt: þremja) sverðshlutr; *þrymr*, hávaði; *þremja þrymr*, bardagi.

Skeggi, misvirtu ekki, þótt eg væri seinn að færa þér sverðið — eg ber þér kveðskap minn —, því at forlögin veittu mér sár á hendina. Sverð þitt hefir verið í bardaga.

35 (Kormákr). Gauts galdrs Freyr[1], granni minn, þóttumk ek halda flótta framið[2] blóðfrekum at dreyra gatnamóti[3]. Né glymránar gátt[4], máttið imir[5] gína banmunni[6] við hliðs-hlunn-njót[7]. — Hugr minn leikr á henni.

1. *Gautr*, Óðinn, *Gauts galdr*, Óðins söngr, bardagi; *Gauts-galdrs-Freyr*, mannkenning. — 2. *flótta framiðr (frömuðr)*, sverð. — 3. *dreyra-gatnamót*, vígvöllr. — 4. *glymránar gátt* virðist vera kvenkenning. — 5. *imir* líkl. sverð (*ímnir* er sverðsheiti). — 6. *banmunnr*, drepmunnr, sverðsegg. — 7. *hlunnhlið*, skip; *hlunn-hliðs-njótr*, mannkenning.

Granni minn, eg þóttist halda hraustlega á sverðinu á hólminum. Enn, kona, sverðið gat ekki ginið við óvin mínum með drepanda munni. — Jafnan hefi eg hugann hjá henni.

36 (Bersi). Orðið á n í 1. vo. getr Dr. Möbius til að vera eigi u n d.

Hverr es kominn á bekk rekka ægilegr und bjarnar barði? — niðjar órir hafa ulf und bœgi —; mann þenna hefr of gørvan glíkan Steinari — *(hann)* es nefndr Glúmr eða Skúma — förum til móts á morni —.

Hver er hinn hræðilegi maðr, sem hér er kominn á bekk í bjarnfeldi — frændr vorir hafa úlf við hlið sér — þessi maðr, — hann er nefndr Glúmr eða Skúma, — er líkr að sjá Steinari — við finnumst á morgun.

37 (**Bersi**). Brodda-hríðar-beiðendr[1], kendir við styr[2], hafa boðit at ganga á hólm — þat þykkir oss ekki angr — ek em gamall geira-vímarr[3], at leysa gunnþeysanda[4] Hlakkar veðr[5] á bakkum. — Ek uggi hvergi at höggva.
1. mannkenning (flt.). — 2. *styrr*, orrusta. — 3. *geira vímarr* á að vera mannkenning. — 4. *gunnþeysandi*, bardagamaðr, mannkenning. — 5. *Hlakkar veðr,* bardagi.

Bardagamenn hafa boðið mér að ganga á hólm — það hryggir mig ekki, — ég er gamall hólmgöngu maðr og þori að berjast við Steinar. Eg er ekki hræddr við að höggva.

38 (**Steinarr**). Eg hefi lengi lifað og látið goðin ráða, hefi aldrei haft mórauða hosu og aldrei bundið belg að hálsi mér fullan af urtum, og lifi þó enn.

39 (**Bersi**). Dr. Björn Ólsen hefir fyrstr getið til að Fylguð í 1. vo. eigi að vera tœðuð. Dr. Bugge getr til að vísan eigi að vera þannig:

Tœðuð oss es Óðins
endr ór þessi hendi
Hlakkar norðr á hurðir
hurð-ulfr gininn þurði;
nú ferr enn svát æva
Ialks-skýja vill týja
myrði-Freyr at morði
— marglyndr ertu — targu.

Tœðuð[1] oss endr norðr, es Óðins hurðulfr[2] þurði[3] gininn[4] úr þessi hendi á Hlakkar hurðir[5], enn nú ferr svá

at Ialks skýja myrði-Freyr[6] vill æva[7] týja[8] at morði törgu[9]. — Marglyndr ertu.

1. *tœja* (týja), hjálpa, duga. — 2. *Óðins hurðulfr* er hér sverðskenning. — 3. *þurði* (af þ y r j a hvína), hvein. — 4. *gininn* = gínandi. — 5. *Hlakkar-hurð*, skjöldr. — 6. *Ialkr*, Óðinn, *Ialks ský*, skjöldr; *Ialks-skýja-myrði-Freyr*, mannkenning. — 7. *œva*, aldrei. — 8. týja = tœja. — 9. *targa*, skjöldr; *törgu morð*, bardagi.

Áðr varstu með oss norðr (heim á leið) þegar þessi hendi brá sverði, enn nú muntu aldri duga oss í vopnaviðskiftum. Marglyndr ertu.

40 (Bersi). Þás *(vér)* várum œri[1] þótta ek Gunnar hyr-runnum[2] vel hæfr at Hlakkar drífu[3] — þat es ár sagt —; nú vilja vinir mínir hylja mik auri; þat hefi ek sótt í sléttan Saurbœ. Dyljum þess minst.

1. *œri* (miðstig af ó r r, ungr) yngri. — 2. mannkenning. — 3. bardagi.

Þegar eg var yngri, þótti hraustum mönnum eg vera vel hæfr til bardaga; það var snemma sagt; nú vilja vinir mínir mig feigan; þat hefi eg sótt í hinn slétta Saurbæ og er þess ekki að dylja.

41 (Bersi). Frændr hafa brugðizk mér at fundi þessum — gleði ván fersk — rœðik heldr hugat mál of þat fyr höldum — tryggvir vinir eru torogætir — hrafn tók teitan á ná — ek em jamnan óhryggr við ógnir rekka.

Frændr (vinir) mínir hafa brugðizt mér að þessum fundi; eg tala fyllilega sem mér býr í brjósti — tryggvir vinir eru torgætir, — hrafn varð feginn nánum. — Eg er jafnan óhræddr við hótanir manna.

42 (Steinarr). Dr. Jón Þorkelsson hefir getið til að í 2. vo. eigi að vera f r á t t u þ a t í stað f r á t t u ð þ e s s,

sem stendr í hdr., enn fremr að blestu sem stendr í hdr. í 6. vo. eigi að vera Bestlu, og má telja það víst. Aftr hefir Dr. Bugge getið til að í 5. vo. eigi að vera bjóðr, enn þar stendr böð í hdr. Þessar tilgátur hafa verið teknar hér.

Eg lét fjóra ok átta folk-Sýrar skerðendr[1] hliða[2] fyr eggju skyg(ð)s Skrýmis; — þú frátt þat —; nú hefr Bestlu niðs forsa bjóðr[3] á lesti[4] feldan Bersa sárgeitunga sveita sanneldingu[5].

1. *folk-Sýr,* orrustu-Freyja, valkyrja; *folk-Sýrar skerðendr,* bardagamenn. — 2. *hliða,* hörfa undan, víkja. — 3. *Bestla* móðir Óðins; *Bestlu niðr,* Óðinn; Óðins *forsar,* skáldskapr; *Bestlu niðs forsa bjóðr,* skáld. — 4. *á lesti* (á ensku ‚at last'), að síðustu. — 5. *sárgeitungr,* hrafn; *sárgeitunga sveiti,* blóð; *sárgeitunga sveita sannelding,* sverðskenning.

Eg lét tólf bardagamenn hörfa undan skygðri egg Skrímis — þú hefir frétt það —; nú hefir skáldið að síðustu feldan Bersa með sverði.

43 (Bersi). Dr. Jón Þorkelsson getr til, að í 7. vo. eigi að vera látum fyrir lætk.

Allstyrkr Góins vallar Yggr[1] *(þú)* helt mér und eggjar Naðrs[2], enn hlífðir aðrum, — nauðr hagar nú til frœða. — Svá fara ráð, enn róglinns stafar[3] reiðask minna; nú læt ek at þar þrjóti vinun óra, Þórøðr.

1. *Yggr,* Óðinn; *Góinn,* ormr; *Góins vallar Yggr,* kvenkenning. — 2. *Naðr,* sverðsheiti. — 3. *róg,* orrusta; *róglinnr,* spjót; *róglinns stafr,* mannkenning.

Hrausti maðr, þú hélzt mér undir eggjar sverðsins, enn hlífðir öðrum. — Svo fór um það, enn menn reiðast minna. Þar þrýtr vináttu okkar, Þórðr.

44 (Bersi). Dr. Bugge getr til að síðari hluti þessarar vísu muni eiga að vera þannig:

koma munat — Ullr þótt elli
oft hái — mara þoftu
— litak blóði svan sveita —
setrs í heim enn betri.

Vísan verðr þá þannig tekin saman:

Nú hefik vegit Tanngnjóst fjórða tegar manna — enn ték tanna[1] —; menn beri þau orð mín frá morði. Munat enn betri mara þoftu setrs Ullr[2] koma í heim, — þótt elli oft hái — litak blóði sveita svan[3].

1. *at tæja tanna*, sýna tennrnar, glotta um tönn. — 2. *þoftu marr*, skip; *þoftu mara setrs Ullr*, mannkenning. — 3. *sveita-svanr*, hrafn.

Nú hefi eg vegið Tanngnjóst; hann er hinn 31. maðr, sem eg hefi vegið. Menn beri þau orð mín frá morði, að eigi getr hraustari mann, þótt ellin hái. Eg gerði hrafninn blóðugan.

45 (**Bersi**). Brynju hríðar beiðendr[1], kendir við styr, hafa boðit oss at ganga á hólm — gerum oss ekki angr at því — gaman þykkir nú gumnum at fœra gunnstœranda[2] Hlakkar veðr[3] á bakkum — uggum hvergi at höggva —.

1. mannkenning. — 2. mannkenning. — 3. orrusta.

Bardagamenn hafa boðið oss að ganga á hólm, — það hryggir oss ekki — þeim þykir gaman að ganga á hólm við mig, enn eg er ekki hræddr að höggva.

46 (**Bersi**). Dr. Björn Ólsen getr til að andrán í 2. vo. gæti verið amban, og verða þá hendingar í vísuorðinu, og að í staðinn fyrir þeira í 8. vo. eigi að vera sveina. Dr. Jón Þorkelsson getr til að í 5. vo. eigi að vera lofðar fyrir lýðir, og verða þá hendingar í því.

Einn ulfagrennir[1] beið andrán (amban eða ambann =

andbann) framm í Þambárdal; Þórarinn rammi fell fyr frœða spilli; lofðar[2] biðu lífspell, Loftr hné, Alfr ok Skofti; ek kom einn til sveina — feðgar fjórir hlutu feigð.

1. *ulfagrennir (ulfagreddir)* mannkenning. — 2. menn.

Maðr einn var drepinn (fekk makleg málagjöld) fram í Þambárdal. Þórarinn rammi féll *(þar)* fyrir mér. (Síðari hluti vísunnar er auðskilinn).

47 (**Bersi**). Í hdr. stendr í 7. vo. meiðar, enn marnar er tilgáta Dr. Björns Ólsens.

Ek hjó skjáfu[1] halfan fjórða tög bráðir bengjóði[2] bláfiðruðum — ek vas mjök kendr við morð manna; — troll hafi líf ef ek lita aldri bitran laufa[3]; beri þá brynju marnar brjót[4] sem skjótast í haug.

1. *skjáfa*, öxi. — 2. *gjóðr*, valr, *bengjóðr*, hrafn. — 3. *laufi*, sverð. — 4. *mörn*, tröllkona, *brynjumörn*, öxi; *brynju marnar brjótr*, mannkenning.

Eg lagði að velli 35 manns með öxi minni (bráðir handa bláfiðruðum hrafni); — eg hefi verið mjög kendr við vígaferli — eg hirði ekki að lifa, ef eg þyrði ekki að fara með sverð; beri menn mig þá sem skjótast í haug.

48 (**Bersi**). Þarf ekki skýringar.

49 (**Bersi**). Í hdr. stendr í 1. vo. Veit ek, enn Vitum er tilgáta Dr. Jóns Þorkelssonar.

*(Vér)* vitum at vegstórr Váli beitir töður órar; enn hvassi hjalmnjótr[1] vill heldr troða oss fótum; ek hefi oft ýfzk of minna þá es ek galt heiftir unnsólar runnum[2] — rauð ek benja linn[3] á brynju beiði[4] —.

1. mannkenning. — 2. mannkenning. — 3. *benja linnr*, spjót, sverð. — 4. mannkenning.

Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við.

50 (**Bersi**). Dr. Björn Ólsen hefir getið til að í stað

verðr í 3. vo. eigi að vera hlýtr, enn Dr. Jón Þorkelsson hefir getið til að gegni-gautum eigi að vera gæti-gautum, eins og Dr. Konráð Gíslason einnig getr til í „Udv. af oldn. Skjaldekvad", bls. 79.

Ölna grjóts Ullr[1] es við elli kominn af fótum; verðr nú að sitja mart geirfitjar gæti-Gautum[2]; þótt skjaldviðir[3] skapi skaldi kaldan aldr í gröf, rýð ek hjalms hríðvönd[4] á holmi fyrr en ek kvíða því.

1. *öln*, framhandleggr ásamt hendinni; *ölna grjót*, gull; *ölna grjóts Ullr*, mannkenning. — 2. *Gautr*, Óðins heiti; *geirfit*, skjöldr; *geirfitjar gæti-Gautr*, mannkenning. — 3. *skjaldviðr*, mannkenning. — 4. *hjalms hríðvöndr*, sverð.

Eg er nú fyrir elli sakir kominn af fótum (af fótum fram); verð nú að þola mönnum mart, enn þótt eg verði veginn, kvíði eg því ekki, geng heldr á hólm.

**51 (Kormákr).** Gullhlaðs geymiþella,[1] má-ek-a ek of hyggja hitt, hví þú skyldir verða gefin tindráttar manni[2]; má ek trauðla of tœja tanna, silki-Nanna[3], síz faðir þinn fastnaði þig frægja blotamanni[4].

1. kvenkenning. — 2. *tindráttar maðr*, sá sem dregr tin (í draglöð), tinsmiðr. — 3. kvenkenning. — 4. *blotamaðr*, bleyða, hugleysingi.

Eg get ekki hugsað til þess að þú skyldir verða gefin tinsmið; mér stökkr varla bros síðan faðir þinn fastnaði þig, fræga mær, bleyðunni.

**52 (Kormákr).** Dr. Björn Ólsen getr til að 3. vísuorðið eigi að vera:

Vér kunnum skaup skepja,

og er það öllu skiljanlegra enn vísuorðið er nú og auk þess verða þá hendingar í því.

Skrautlegrar línu Hlín[1] hvít, þarft-a-þú at hœta mér

níði Skíðunga — vér kunnum skepja skil —; skal ek níða naddhríðar njót[2] svá at steinar fljóti; hefi ek nú leystan illan enda Eysteins sonum.

1. kvenkenning. — 2. mannkenning.

Steingerðr, þú þarft ekki að hóta mér níði Skíðunga — eg get staðið i skilum við þá —; eg skal níða hann svo steinarnir fljóti. Nú hefi eg komið Eysteins sonum í vandræði.

53 (Kormákr). Vísan er þannig í hdr.:

Skaka verd ek ver skardi
skalld a bud til kallda
fioll eru fiardar kelli
falldin hrím a tialldi
villda ek attrædar valldi
veri avngu hæra
hann er til latr fra liossi
linnbedrar gná sinni.

Fyrri hlutrinn er ekki mjög aflagaðr, og er það ljóst, að verð ek muni eiga að vera verðum. Dr. Guðbr. Vigfússon gat til að í 4. vo. ætti að vera af tjaldi og virðist það áreiðanlegt. Síðari hlutr vísunnar er mjög aflagaðr; øngu hlæra og hann era lauss eru tilgátur Dr. Bugges.

Skarði[1], vér verðum at skaka hrím af tjaldi — skald á búð til kalda; fjöll eru faldin fjarðar kelli[2] —. Vilda ek at reiðarvaldi[3] væri øngu hlæra[4]; hann er-a lauss frá sinni ljóssi linnbeðjar Gná[5].

1. *Skarði* virðist vera viðrnefni Þorgils. — 2. *kellir*, kvenhöfuðfat; *fjarðar kellir*, ís. — 3. *reiðar valdr* á líklega að vera = Þorvaldr. — 4. *hlæra* = hlýjara. — 5. kvenkenning.

Skarði, við verðum að hrista hrímið af tjöldunum; — nú hefi ek kaldan bústað; snjór (ís) er á fjöllum. — Eg

vildi að Þorvaldi væri engu hlýrra, enn hann er enn ekki laus við konu sína.

54 (Kormákr). Dr. Björn Ólsen hefir getið til að 3. vo. ætti að vera eins og hér er, enn í handr. stendr: varat virdar stærri. Aftr hefir Dr. Bugge getið til að þar mætti vera verka stœri. Dr. Björn Ólsen hefir getið til að meðan í 5. vísuorði eigi að vera mulins.

Ek uggi mér lítt dauða, þótt leggim saman randir[1]; vellauðigr landvörðr[2] várat[3] víga stœri[4]. Skarði, ek man skerjarðar mulins skorðu[5] Þórketils dóttur fyr norðan. Sú hvöss sótt angrar, sessi.

1. *rönd,* skjöldr. — 2. *landvörðr,* konungr. — 3. *vár-at* (af sagnorðinu vá og bætt við neitunarviðskeytinu) = uggir eigi, kvartar eigi yfir. — 4. *víga* (eða *verka*) *stœrir,* mannkenning. — 5. *mulinn,* tunglsheiti; *skerjarð-ar mulinn,* gull; *skorða* gulls, kvenkenning.

55 (Kormákr). Dr. Björn Ólsen hefir getið til að meðr eigi að standa í 5. vo. þar sem hdr. hefir meðan og má telja það víst. Hann getr einnig til að í staðinn fyrir alls í 3. vo. gæti verið Harallz og hjördrífr í stað ördrífr.

Eftir þessu verðr vísan þannig tekin saman:

Skjótt munum, Skarði herðnir hrinda Haralds andskotum. Hjördrífr[1], skulum tveir fara fjörvi þeira níu. Grunnleit[2] gullseims-Njörun[3], sú es unni mér, gengr at glœstum bingi með goðleiðum gáða[4] heima.

1. mannkenning. — 2. *grunnleitr* = grannleitr. — 3. *Njörun,* Ásynja, *gullseims Njörun,* kvenkenning. — 4. *gáði,* manntötr, dóni.

Við munum brátt, Skarði, herknir hrinda óvinum (Haralds), við skulum tveir vinna á þeim níu. Hin grannleita

kona, sem unni mér, gengr heima að glæstu rúmi með manntötrinu, sem er goðunum leiðr.

56 (Kormákr). Dr. Björn Ólsen hefir getið til, að í 4. vo. eigi að vera stöð, enn hdr. hefir stað. Dr. Bugge hefir getið til að í staðinn fyrir ef ek vakna, sem í handr. stendr, eigi að vera es vaknak, og er það líklegt.

Brim Haka blálands[1] gnýr bratta hamra strandar. Alt gjalfr eyja þjalfa[2] líðr út í Víðis[3] stöð. Ek kveð mér miklu heldr svefnfátt of hrannbliks Hildi[4] enn þér; mun ek sakna sörva Gefnar[5] es ek vakna.

1. *Haki*, sækonungr; *Haka bláland*, sjór. — 2. *eyja þjalfi*, sjór. — 3. *Víðir* = Ægir. — 4. *hrannbliks Hildr*, kvenkenning. — 5. *sörva Gefn*, kvenkenning.

Sjávarbrimið gnýr bratta strandar hamra. Allar bylgjurnar hverfa svo út í reginhaf. Eg segi, að mér sé miklu fremr svefnfátt vegna konunnar enn þér. Eg sakna hennar þegar eg vakna (af því að mig dreymir um hana).

57 (Kormákr). Í hdr. stendr í 3. vo. skjart er, sem Dr. Möbius getr til að vera eigi skjarr's eða skirrisk. Síðari helmingr vísunnar er hér tekinn eftir tilgátum Bugges. Í hdr. stendr:

Þa er alsniallir aller
oddregnir stafat fregni
í solundar sundi
sundfaxa rá bundin.

Mér er-a sem þrjótr brjóti Tinteini myksleða — trauðr vásfára[1] es kauði; hann es skjarr[2] við þenna þys —, þá es sundfaxa[3] rá es öll bundin í Sólundar sundi — allir snjallir oddregns stafar[4] fregni. —

1. *vásfarar* = svaðilfarar, hættuferðir. — 2. *skjarr*,

styggr. — 3. *sundfaxi*, skip. — 4. *oddregns stafr*, mannkenning.

Það stendr öðruvísi á fyrir mér enn Tinteini, þegar (einhver) þrjótr brýtr mykjusleða hans, — þegar allar skipsrár eru bundnar í Sólundar sundi: hann er trauðr til hættufara og óttast slíkt.

58 (Kormákr). Hinn es tannar tin, trauðr sæfara, enn blauði veit ógørva þat hvar élfaldin alda gengr oft drengjum of skör; hann á at venju varma búð á armi vífs. — Sörva Ilmr[1] stendr mér fyr yndi —.

1. kvenkenning.

Hinn huglausi Tinteinn, sem ekki þorir að fara í sjóferðir, þekkir eigi hvernig aldan gengr yfir höfuð sjómönnunum; hann býr í hlýjum faðmi konunnar. — Hún sviftir mig allri gleði. —

59 (Kormákr). Fyrri helmingr þessarar vísu er ekki mjög úr lagi færðr, enn síðari hlutrinn er mjög torskilinn og að líkindum mjög aflagaðr. Dr. Jón Þorkelsson hefir getið til, að síðari hlutrinn gæti hafa verið þannig:

nærgi's ón í eina
angri sæing ganga
drífr Sköfnungs ok drafnar
dýrleygjar má Freyja.

Í „Fjallk“. 16. maí 1885 hefir Dr. Gísli Brynjólfsson leitazt við að skýra vísu þessa og geta þeir sem vilja kynt sér það.

Handar bála Hlín[1], hvílum tveim megin bríkar — rík sköp valda reið at ráði sínu; þat sjám *(vér)* —; nærgis má ganga ón[2] angri í eina sæing drífr sköfnungs[3] ok drafnar dýrleygjar Freyja[4].

1. kvenkenning. — 2. ón = án. — 3. mannkenning. —

4. *dröfn*, sjór; *drafnar dýrleygr* gull, *drafnar dýrleygjar Freyja,* kvenkenning.

Steingerðr, hvílum (nú) sitt hvorum megin bríkarinnar — hin reiðu og sterku forlög skipa þessu að ráði sínu — Skyldum við ekki heldr sofa saman óhrygg, karlmaðr og kvenmaðr.

60 (**Kormákr**). Hornþeyjar Freyja[1], en fjarðarleygs[2] frægja, vit sváfum saman hress í húsi fimm nætr grimmar ok lá ek andvana lags-banda[3] hrafns ævi[4] hverja á hyrketils-stafna gnoð[5] of hugsi á lítt.

1. *hornþeyr*, öl; *hornþeyjar Freyja*, kvenkenning. — 2. *fjarðarleygr*, gull. — 3. *andvana-lags-banda*, án faðmlaga. — 4. *hrafns ævi*, nótt. — 5. *hyrketils-stafn*, hér svefnberbergi; *hyrketils-stafna gnoð*, rekkja.

Gullfræga mær, við sváfum hress saman í húsi fimm grimmar nætr og lá eg án allra faðmlaga hverja nótt í rekkju minni og hugsaði fátt.

61 (**Kormákr**). Dr. Jón Þorkelsson hefir getið til að í 1. vo. ætti að vera heitu (þ. e. hellur fljóta . . . , sem korn á heitu vatni) og að 3. vo. gæti hafa verið auðspöng munum ungri, og verða þá hendingar í þessu vísuorði, sem eitt er hendingalaust í vísunni. Í hdr. stendr í upphafi vísunnar heitaz, og getr Bugge til að það eigi að vera heitar, enda er það mjög algengt að *r* (*ꝛ*) og *z* skiftast á í misritunum, og hér er verið að kveða um heimslit. Í 7. vo. hefir Konráð Gíslason sett auðs á undan áðr, því að öðrum kosti verðr vísuorðið einni samstöfu of stutt, nema haft sé áðr enn, enn það kemr naumast fyrir í fornum kveðskap.

Heitar hellur fljóta hvatt[1] sem korn á vatni, enn bjöð[2] sekkvisk, fjöll en stóru færask í djúpan ægi áðr jamn-

fögr auðs tróða[3] verði alin Steingerði — (enn em ek ó-þekkr auðspöng[4] ungri). —

1. *hvatt*, fljótt (af hvatr). — 2. *bjöð*, jörð. — 3. kvenkenning. — 4. kvenkenning.

Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við.

62 (Kormákr). Dr. Björn Ólsen hefir getið til að í 1. vo. eigi að vera sýn í staðinn fyrir svá, sem stendr í hdr., og haldast þá hendingar, enn að öðru leyti er ekkert á móti að halda svá, — og að auð- í 6. vo. eigi að vera eld- og Hrund í 7. vo. handa.

Sýn berr mér ofraðar[1] lengi í mína svefna, men-Gefn[2], — nema drengr fági dul drjúga of þat — at, handa-eld-Frigg[3], axllimar[4] yðrar muni liggja mér á heiðis hlíðar[5] landi of síðir.

1. *ofraðar*, mjög. — 2. kvenkenning. — 3. *handa-eld-Frigg*, (annars yrðu hér tvö Ásynju nöfn saman). — 4. *axllimar*, armar. — 5. *heiðis hlíð*, handleggr; *heiðishlíðarland*, brjóst faðmr.

Mjög oft dreymir mig um það, að þú munir faðma mig — nema eg hugsi of djarft á það.

63 (Kormákr). Dr. Björn Ólsen getr til að í stað gylls maran, sem handr. hefir í 6. vo., eigi að vera gulls Njörun, sem hér er haft. Dr. Möbius getr til að dagtala því máli eigi að vera dregsk tál á því máli.

Ek bauð digla drifgagl[1] dregla við[2] — dagr vara sá es dugði mér — dregsk tál af því máli af því vífi — enn blíðhuguð gulls Njörun[3] bauð fingrgull auðar-beiðis[4] gefit trollum. Mitt vill-at fé auðar Fylla[5].

1. *gagl*, gæsarungi; *drífgagl*, drífa, snjór, *digla* snjór, silfr eða gull. — 2. kvenkenning. — 3. kvenkenning. — 4. mannkenning. — 5. kvenkenning.

Eg bauð Steingerði hring — sá dagr var mér ekki

giftusamr; — þar var eg á tálar dreginn af henni, því að hún bað tröllin eiga fingrgull mitt. — Hún vill ekkert af mér þiggja. —

64 (Göngusveinn). Ek vilda hitt, at Steingerðr, gömul vald-Eir[1], væri jalda[2] stœðilát í stóði, enn ek reyni; *(þá)* væra ek hlaupinn á bak gaupelds-þráða-Þrúði[3] þeiri es stöðvar geira gunnörðigra garða.

1. kvenkenning. Dr. Jón Þorkelsson heldr að v a l d- í vald-Eir sè nafn á einhverju kvenskrauti eða einhverjum klæðnaði kvenna. — 2. *jalda*, meri. — 3. *gaupeldr* = gaupna-eldr, = gull; *gaupelds-þráðr*, gullhringr; *gaupelds-þráða Þrúðr* því kvenkenning. — 6. og 7. vo. verðr ekki skýrt.

Eg vildi að Steingerðr gamla væri stæðileg meri í stóði og eg ætti að reyna hana; þá væri eg ekki lengi að fara á bak.

65 (Kormákr). Í handr. eru 1. og 2. vo. þannig:

Nu mun ætlæla yta
audmætandinn hæta,

enn Bugge hefir getið til að svo ætti að vera sem hér er sett; *oddmœtandi* er mannkenning. Þetta er sama vísa og hin 52., að tveimr fyrstu vísuorðunum frá skildum.

66 (Kormákr). Í hdr. er 1. vísuorð: S e i n n þ i c k i s a u k u a, og vantar þar í. Bugge getr til að þar eigi að standa t i l. Í 3. vo. hefir hdr. a t t g r e n n i r, enn e l d g r e n n i r er tilgáta Jóns Þorkelssonar. Í 6. vo. hefir hdr. h a f æ r r, enn h a l f œ r r er tilgáta B. Ólsens.

Eldgrennir unnar[1], sá es sendi mér orð norðan ór Fljótum, þykkir mér seinn til sökkva snyrtimóts[2]; halfœrr hringsnyrtir[3] þarf fœra í sik hjarta ór leiri — þó es men-Gunnar[4] manni meira vant.

1. mannkenning. — 2. *søkkva snyrtimót,* bardagi (enn hvað *søkkvi* er, er óvist). — 3. mannkenning. — 4. kvenkenning.

Þorvarðr, sem sendi mér orð norðan úr Fljótum, þykir mér seinn til hólmgöngunnar; þessi hálfæri maðr þarf að fá sér leirhjarta; þó brestr Þorvald (bróður hans) enn meira.

67 (**Kormákr**). Níðingar skulu-at neyða mik til þagnar, — ek em nú sóttr um gjöf dóttur[1]; held ek upp gagnum Gauta gildi[2] — þat munu víttir Þroft-regns stafar[3] fregna, nema Þróttar fél-miðlendr[4] véli mik fjörvi. Byrjak frægð.

1. *gjöf dóttur* er óvíst hvað er, nema hér virðist vera að ræða um níðið, sem Kormákr hafði ort. — 2. *Gauta gildi*, skáldskapr. — 3. *Þroftr*, Óðinn, *Þrofts regn*, bardagi, *Þrofts regns-stafar*, mannkenning. — 4. *Þróttr*, Óðinn; *fél* = þél, þjöl; *Þróttar fél-miðlandi*, mannkenning.

Níðingarnir skulu ekki neyða mig til að þegja — eg er nú sóttr fyrir níð og verð að verja mig með skáldskap mínum — það skulu þeir sanna, nema þeir ræni mig lífi. Eg fer nú að verða þjóðkunnr.

68 (**Kormákr**). Ek gaf aura á eyri, at taura Týr[1] bærit af þeima; mær skar, sýndisk mér, tveim gangvegum; blóð mun vera af blóði gása tveggja — bjóð aldri þat skaldi, þeim es orkar ásar ölverki[2].

1. *taurar* = töfrar, *taura Týr*, töframaðr. — 2. *Asar ölverk*, skáldskapr.

Eg galt Þórdísi aura á eyrinni, til þess að töframaðrinn bæri ekki af mér, Eg sá hana skera tvisvar sinnum

blóðdrefjar eru þar af blóði tveggja gása; — enginn skyldi bjóða mér slíkt.

69 (Kormákr). Troll hafa of troðna mjök ómissila[1] Áta foldar eldreið[2] þessa; — mannr trúit konu annars —; vætti ek hins, at hás völva valdi því bölvi, es *(vér)* gangum at vangroði[3] — of kennum *(vér)* þat henni hvat —.

1. *ómissila*, ómissilega. — 2. *Áti*, sækonungr; *Áta fold*, sjór; *Áta foldar eldr* gull; gulls reið, kvenkenning. — 3. *vangroð*, bardagi.

Tröll hafa mjög ómissilega riðið konu þessari — enginn skyldi trúa annars manns konu —; uggir mig því, að hún muni illu valda er vér göngum á hólm.

70 (Kormákr). Faldu hald-Eir[1], ek hefi of gengit á holm of þik annat sinn — hvat megi of rinna okkrum ástum? — ok ek hefi vaktar tvær vígsakar of þik, báru Vár[2], — því skal unnostan *(vera)* næri mér en Tinteini —.

1. *Faldu hald-Eir*, kvenkenning. — 2. *Vár*, Ásynja; *báru Vár* á því að vera kvenkenning, þótt hún sé ekki fullkomin.

Eg hefi nú í annað sinn gengið á hólm fyrir þínar sakir — hvað skyldi geta hindrað ástir okkar? — og eg hefi vakið tvær vígsakir um þig, því skyldi unnustan *(vera)* nær mér enn Tinteini.

71 (Kormákr). Sendir randa í 5. vo. er tilgáta Dr. Jóns Þorkelssonar, enn þar er eyða í handr.

Þella handar-skers, ek hefi á holm of gengit at berjask þriðja sinn — skallat[2] þú of kviðja[3] mér — rauðat sendir randa[4] dreyra reyr[5] á þegni — kveð ek fordæðn gerðu sverð mitt slœtt í sveita[6].

1. kvenkenning. — 2. *skallat* = skalt ekki. — 3. *kviðja*

meina, banna. — 4. mannkenning. — 5. *dreyra reyr*, sverð. — 6. *sveiti*, blóð.

Kona, eg hefi nú gengið á hólm að berjast þriðja sinn — þú skalt ekki meina mér það — eg rauð ekki sverð mitt í blóði óvinar míns; fordæðan (töfrakonan) gerði það sljótt.

72 (**Kormákr**). Í 1. vo. getr Bugge til að vera eigi þ v í í stað þ ó t t, sem stendr í hdr., og í 5. vo. þ ó l æ t r í stað þ v í l á t, sem stendr í handr. Í 6. vo. hefir Dr. Jón Þorkelsson getið til að vera ætti s a u m r e i ð og er það líklegt, þar sem handr. hefir s a u r r e i ð i. Hann hefir einnig getið til, að 2. vo. gæti verið e r r i n n d r e y r a þ e r r a. Skýring vísunnar fer nokkuð eftir því, hverjum af þessum tilgátum er haldið.

Eg verð oft *(at)* þerra af mér *(blóð)* á möttulskauti, — því þykkjum erróttr[1]; ek hlýt þraut af þér, gulls þella[2] — þó lætr saumreið[3] bragar-greiði[4] bana-verðan snauta í set. Steingerðr hefir steypt mér í stúru[5].

1. *erróttr*, öróttr, sem hefir mörg ör á sér. — 2. kvenkenning. — 3. kvenkenning. — 4. skáld. — 5. *stúra*, hrygð.

Eg verð oft að þerra af mér blóð á möttulskauti — því ber eg mörg ör á mér — eg hefi ratað í miklar raunir fyrir þig. Þó lætrðu Þorvald, sem dauða er maklegastr, hafa sæti hjá þér. Þú hefir bakað mér hrygð, Steingerðr.

73 (**Kormákr**). Í 3. vo. á að líkindum að vera b l ó t r o ð i n (í stað b l ó t r o ð i n n), sem Bugge hefir getið til. Dr. Konráð Gíslason hefir 6. og 7. vo. svo í „Udvalg af oldnordiske Skjaldekvad“, bls. 13:

böl ólítit drýgir
hann nú — sveinn enn svarti.

Hör-Gefn[1], sú es unni mér, mun spyrja beiði benhlunns[2] hins, es it komið báðir heim með roðin blót: Hvar es nú enn brendi baugr? — drýgjum ólítit böl; — sveinn enn svarti, skaldit, sonr Ögmundar hefr hann.

1. kvenkenning. — 2. mannkenning.

Konan, sem unni mér, mun spyrja þig, þegar þið komið báðir heim með roðin blót(dýr): Hvar er nú brendi baugrinn? — vér gerum henni ófagnað — sveinninn svarti, skáldið, sonr Ögmundar hefir hann.

74 (Kormákr). Handr. hefir í 2. vo. of mér enn yfir er tilgáta Konráðs Gíslasonar.

Randa rjóðandi[1] lét ryðskalm falma yfir fægi Fjölnis veigar[2] — fnasi[3] hann vesalstr manna — ok varð þat hlaup þrumskúrar[4] þeirar at skaupi[5]; víst hafði mér váða ferri[6], verr spákonu!

1. mannkenning. — 2. skáld. — 3. *fnasa,* blása með nefinu. — 4. *þrumskúr,* bardagi. — 5. *skaup,* = skop, háð. — 6. *ferri,* fjarri.

Þórólfr óð að mér með ryðgað sverð; fnasi hann vesalingr; það bardaga hlaup hans varð honum hæðilegt. Eg var í engri hættu staddr, spákonu-karl!

75 (Kormákr). Blaðlund í 4. vo. er tilgáta Bugges fyrir blaðsund, sem stendr í hdr., og lét miðr tilgáta hins sama fyrir létk niðr, sem er í handr. Minnum í 8. vo. er tilgáta Dr. Jóns Þorkelssonar fyrir minna, sem handr. hefir.

Örg vættr deyfði törgu-eld[1] fyr mér í öldu[2], lét blaðlund[3] bíta miðr á bak at hjörfundi[4]; hjörr[5] dugðit, þá es ek hugða at sœkja hjalmrœkjanda[6]; huglaus dugga[7] hlaut helzti stinn högg at minnum.

1. *törgu* (skjaldar) *eldr,* sverð. — 2. líkl. blóð. — 3.

*blaðlundr*, sverð. — 4. *hjörfundr,* bardagi. — 5. sverð. 6. mannkenning. — 7. *dugga,* bleyða.

Þórdís deyfði fyrir mér sverðið í blóði, og lét það bíta miðr á bak óvinar míns. Sverðið dugði ekki, þegar eg hugði að bregða því, enn bleyðan fekk þó þung högg, svo að hann má reka minni til.

76 **Kormákr.** Í hdr er 3. og 4. vo. þannig:

gulldut fe firir biartrar
fang hals myils spangar,

og er það auðsjáanlega mjög aflagað, þar sem bæði vantar stuðla og hendingar. Bugge getr til að þar eigi að vera g u l d u s k f e f y r b i a r t r a r f a n g h a l s m ý i l s s p a n g a r, enn það getr ekki verið rétt, því slík stuðlasetning væri röng, enda ætti hið síðasta orð í 3. vo. að byrja á *f*, eins og Bugge segir, svo að b j a r t r a r getr ekki staðið með þessari tilgátu. Dr. Jón Þorkelsson getr til að 3. vo. eigi að vera g u l d u m F á f n i s f o l d u, og verðr ekki annað að því fundið, enn að það er fjarri handr.

Ek varð að bœta hvaðrantveggja[1] *(koss)* með brunnleygs[2] baugi; guldum Fáfnis mýils foldu[3] hals fang; tveir gjallar-kossar[4] fémeiri gátu-at mœta gulls þolli[5] laufguðum[6] — hefi ek tál teitimála —.

1. *hvaðrantveggja* = hvorntveggja. — 2. *brunnleygr* = brunnlogi, gull. — 3. *mýill* = mýll, hnöllungr; *Fáfnis* hnöllungr, gull; gulls-*fold* kvenkenning. — 4. *gjallarkossar*, rembingskossar? — 5. *þollr*, tré; *gulls þollr*, mannkenning. — 6. *laufgaðr* er ef til vill af l a u f i, sverð.

Eg varð að bæta hvorn kossinn með gullhring; þannig galt eg meynni faðmlagið; eg hefi ekki fengið dýrari kossa. Gleðin verðr mér að táli.

77 **(Kormákr).** Ek mun of vinna senda vísu mína

sörva-Rindi[1] til Svíndals áðr vér gangim til skips; öll orð mín skulu koma til eyrna borða Skögul[2]; ek ann sigli-Ságu[3] halfu betr en mér sjálfum.

1. *Rindr*, Ásynja, *sörva* (menja) *Rindr*, kvenkenning. — 2. *Skögul*, valkyrja; *borða Skögul*, kvenkenning. — 3. *Sága*, Ásynja; *sigli*, hálsmen (?); *sigli-Sága*, kvenkenning.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

78 **(Kormákr).** Sá es fór stórum nær fögru vífi en vér, fekk högg af hjalmar-skíði[1] í hattarstall[2] miðjan; Eysteins arfi hratar á stafni elliða[3]; stýraðu á mik, Steingerðr, þótt steigurla[4] látir.

1. *hjalmar-skíði* = hjálmvölr. — 2. *hattarstallr*, höfuð. — 3. *elliði*, skipsheiti. — 4. *steigurla* = steigurlega, drembilega.

79 **(Kormákr).** Ungr drengr stal mik dalki, þá es ek drakk á rakka[1] mey; skulum deila of dalkinn sem tveir ungir drengir; ek hefi vel of skefta Vigr; varð ek at skjóta í grjót; víst es at ek mista mannsins, mosinn varð at losna upp.

1. *rakkr*, beinvaxinn (sbr. rank á dönsku), grannr.

Að öðru leyti þarf ekki vísan skýringar við.

80 **(Kormákr).** Í stað rógendr, sem hdr. hefir í 2. vo., hefir Dr. Jón Þorkelsson getið til, að vera ætti rógviðr, og er það líklegra.

Randar linna rógviðr[1], gnógir díkis bokkar[2] runnu flokkum at mér, þá es vér fórum of fen; ef þar fellak, þá mundi gunnsvells lundr[3] minst Gauts gáttar[4]. Löngum kom ek litlu sprundi ór öngum[5].

1. *randar linnr* spjót; *randar linna* (flt.) *rógviðr*, mannkenning. — 2. *bokkar* er hér að líkindum = draugar, vættir (sbr. bokke á norsku). — 3. mannkenning. —

4. *Gautr*, Óðinn; *Gauts gátt*, Valhöll. — 5. klípur, vandræði (sbr. að vera í öngum sínum).

Þorvaldr, óvinir úr djúpinu runnu flokkum *(saman)* að mér, þegar eg var að synda í land; eg hefði ekki farið til Valhallar, ef eg hefði farizt þar. Löngum hefi eg bjargað hinni litlu konu úr vandræðum.

81 (Kormákr). Aurvangs í 8. vo. er tilgáta Bugges fyrir aureks, sem handr. hefir, enn Dr. Falk heldr Aurreks rétt sem dvergsnafn, og nái (eiginlega năi, stutt) í sama vo. er tilgáta Bugges fyrir næri, af því að næri geti ekki staðið hér rímsins vegna.

Handargirðis Hlín[1], hirða þú at vinna *(til)* frama minna — sof hjá ver þínum; kant *(þú)* fátt í mun manni —; fornar faldu Frigg[2], skalt þú þó liggja nær (năi) gauri enn mér — ek hefi of aukit yðr Aurreks drykk[3]. —

1. *handargirðir*, hringr. — 2. *faldu Frigg*, kvenkenning. — 3. *Aurrekr*, dvergr. *Aurreks drykkr*, skáldskapr.

Kona, hugsaðu ekki um hvernig mér líðr, — sofðu hjá manni þínum — þú gerir honum fátt til gleði, — skaltu þó vera fremr með honum enn mér? — Eg hefi ort um ykkr.

82 (Kormákr). Fríða í 1. vo. er tilgáta Dr. Jóns Þorkelssonar; hdr. hefir *fljóð*.

Var-a sem ek hefða fríða Steingerði mér í faðmi, þá es ek mætta fangremi við strengmara stýri[1]; munda ek skjótt drekka öl at Óðins í öndvegi, ef mér Skrýmir lið veitti-t.

1. mannkenning.

Öðru var líkt enn eg hefði fríða Steingerði í faðmi þá er eg þreytti fangbrögð við risann; mundi eg nú drekka öl að Óðins í öndvegi, hefði ekki Skrýmir dugað mér.

83 (Kormákr). Í handr. er fyrri hlutr vísunnar þannig:

Red ek ei þess af reidi
rund mord gaufugr fordum
sundz at sottar grandi
sverd skylldi mer verda.

Dr. Finnr Jónsson vill lesa þennan vísu helming þannig:

Réð ey þat at reiðir
rand morðgöfugr forðum
sunds at sóttar grandi
sverð skyldi mér verða.

Þ. e. reiðir rand-sunds sóttar morðgöfugr réð ey þat, at sverð skyldi verða mér at grandi. Enn Dr. Jón Þorkelsson hefir getið svo til, sem hér er prentað að framan, og að h ö f u ð, sem stendr í handr. í 7. vo., eigi að vera h ö f u g.

Göfugr randmorðs reiðir[1] réða til þess forðum, at sótt skyldi verða at grandi sverðs sendi[2]; forðumk vætr[3], því at aðrir vígnaðrs stafar[4] verða ok kordauða; — snertumk höfug helnauð við hjarta —.

1. *randmorð*, sverð, *randmorðs reiðir*, mannkenning. — 2. mannkenning. — 3. *vætr* = ekkert. — 4. *vígnaðr*, spjót; *vígnaðrs stafr*, mannkenning.

Eg hugði ekki forðum að sótt yrði mér at grandi; forðumst ekkert, því að aðrir menn verða ok sóttdauðir. — Þungt dauðastríð gengr að hjarta mér.

84 (Kormákr). Dr. Björn Ólsen getr til að í 5. vo. eigi að vera s e y ð i r, enn hdr. hefir þar S á g a.

Konan svinna, maðr þinn var-at með mér í morgin á Írlandi — handfagr hjörr var roðinn til hodda — þá es slíðrdreginn Hlakkar tafns seyðir[1] sang of vanga mínum, enn heitr sveiti fell á nef hrafni.

1. *seyðir Hlakkar tafns*, sverðskenning.

Kona, maðr þinn var ekki með mér í morgun á Írlandi, er vér börðumst til að afla fjár, og hvínandi sverðinu var veifað við vanga mér, enn hrafnar drukku valblóðið.

85 (Kormákr). Dögg djúpra benja dundi ór mækis[1] höggvi; ek bar dreyrugt sverð á eyri með drengjum; bera knáttu þá hjarar Þundar[2] breiðan (eða *beittan*) blóðvönd; þó mun ek greipa glóðar Gerðr[3] verða strádauða.

2. *mækir*, sverð. — 2. *hjarar Þundr*, mannkenning. — 3. *greipa glóð,* gull; gulls *Gerðr*, kvenkenning.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.



# Viðbætir.

---

## Brot úr drápum.

(1) Heyri sonr á Sýrar
sannreynis fentanna
örr greppa lætk uppi
jast-rín Haralds mína.

---

(2) Meiðr es mörgum œðri
morðteins í dyn fleina;
hjörr fær hildiborrum
hjarl Sigurði jarli.

---

(3) Hafit maðr ask né eski
afspring með sér þingat
fésæranda at fœra
fats. *Véltu goð Þjaza.*

Hver muni vés við valdi
vægi kind of bægjask?
því fúrrögnir fagnar
fens. *Vá Gramr til menja.*

---

(4) Eykr með ennidúki
jarðhlutr día fjarðar

breyti, hún sás beinan
bindr. *Seið Yggr til Rindar.*

---

(5) Svall, þás gekk með gjallan
Gauts eld hinns styr beldi
glaðfœðandi Gríðar,
Gunnr. *Komsk Uðr ór brunni.*

---

(6) Allgildan biðk aldar
allvald of mér halda
ýs bifvangi Yngva
ungr. *Fór Hroftr með Gungni.*

---

(7) Hróðr gørik of mög mæran
meir Sigrøðar fleira;
haftsœnis galtk hánum
heið. *Sitr Þórr í reiðu.*

## Skýringar.

1. Örr sonr sannreynis[1] Haralds heyri á. Ek læt uppi mína fentanna Sýrar greppa jast-rín[2].

1. *sannreynir*, ættviðr, afspringr. — 2. *fentönn*, sjávar tönn, klettr; *Sýr* = Freyja; kletta-*Sýr* tröllkona; *greppar* tröllkvenna, jötnar; *jast-rín* (af jastr og Rín) öl; *jast-rín greppa Sýrar fentanna*, skáldskapr.

2. Meiðr morðteins[1] es mörgum hildi-borrum[2] œðri í fleina dyn[3]. Hjörr fær Sigurði jarli hjarl[4].

1. mannkenning. — 2. *borr*, viðr, *hildi-borr*, mannkenning. — 3. orrusta. — 4. *hjarl*, land.

3. Hafit maðr ask[1] né eski-fats afspring[2] at fœra þingat[3] fésæranda[4]. Goð véltu[5] Þjaza. Hver kind of muni bægjask við vægivaldi vés[6]? fúrrögnir fens[7] fagnar því. Gramr[8] vá til menja.

1. *askr*, ílát, hér: ölílát. — 2. *eski-fats afspringr*, ölið. — 3. *þingat* = þangat. — 4. *fésœrandi* = fégrimmr, örlátr maðr. — 5. *véltu* = véluðu. — 6. *vé*, helgistaðr, hof; *vægivaldr vés*, sá sem verndar helgistaðinn. — 7. *Rögnir*, Óðinn, *fúrr* eldr, *fens fúrr* gull; hér er því mannkenning. — 8. *Gramr*, fornkonungr.

4. Jarðhlutr[1], sá es bindr beinan húnn[2], eykr[3] breyti día fjarðar[4] með ennidúki. Yggr[5] seið til Rindar[6].

1. *jarðhlutr*, sá sem hlutar löndum, konungr. — 2. *húnn* virðist hér vera sama sem bjarndýrshúnn. — 3. að

*auka* er hér = gefa. — 4. *díar*, guðir, *día fjörðr* guðalögr, skáldskapr; *breytir día fjarðar*, skáld. — 5. *Yggr*, Óðinn. — 6. *Rindr*, Ásynja. Óðinn gerði seið til hennar.

5. Gunnr[1] svall, þá es Gríðar glaðfœðandi[2], hinn es beldi styr[3], gekk með gjallan Gauts eld[4]. Uðr[5] komsk ór brunni.

1. *Gunnr*, valkyrja, hér = orrusta. — 2. *Gríðr*, tröllkona; *glaðr*, hestr; tröllkonu hestr, úlfr; ulf-*fœðandi*, mannkenning, — 3. *bella styr* = eiga orrustu. — 4. *Gautr*, Óðinn; *Gauts eldr*, sverð. — 5. *Uðr*, dóttir Ægis.

6. Ek bið ungr allgildan allvald Yngva aldar[1] halda of mér ýs bifvangi[2]. Hroftr[3] fór með Gungni[4].

1. *Yngva öld*, þjóð Yngva (Norðmenn eða Svíar), *allvaldr*, konungr. — 2. *ýr*, bogi, *ýs bifvangr*, hönd. — 4. *Hroftr*, Óðinn. — 5. *Gungnir*, geir Óðins.

7. Ek gøri hróðr of mæran mög Sigrøðar; ek galt hánum meir fleira haftsœnis heið[1]. Þórr sitr í reiðu[2].

1. *haftsœni* (af höft, goð og són) friðun goðanna, skáldskapr; *skáldskapar heiðr*, lofkvæði. — 2. *reiða*, vagn.

# Nöfn.

# VATNSDÆLA SAGA.

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR
**VALD. ÁSMUNDARSON.**



REYKJAVÍK.
KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*
1893.

# FORMÁLI.

Vatnsdæla saga er hér gefin út eftir útgáfu Guðbr. Vigfússonar, sem prentuð er í „Fornsögum“, Leipzig 1860. Auk þess eru til tvær eldri útgáfur af henni; hin elzta er útgáfa E. Chr. Werlauffs, Khöfn 1812; hitt er útgáfa Sveins Skúlasonar, Akreyri 1858.

Vatnsdælasaga var rituð á skinnbók þeirri er nefnd var Vatnshornsbók eða Vatnshyrna, enn hún brann 1728 í Kaupmannahöfn. Frá þessu handriti stafa afskriftir í AM. 559, 4to, og 138, fol. Hin fyrnefnda afskrift er eftir Ásgeir Jónsson og virðist vera vel ger, enn hina síðarnefndu hefir ritað Jón Gizurarson hálfbróðir Brynjólfs biskups. Auk þess er sagan til á skinni frá 17. öld, í sögubók, sem rituð hefir verið fyrir Þorlák biskup Skúlason (AM. 128, fol.). Þar er sagan einnig tekin eftir Vatnshornsbókinni, enn ekki jafnvönduð sem pappírsafskriftir þær sem fyr vóru nefndar. Eftir afskriftinni í AM. 559, 4to er sagan gefin út af Guðbr. Vigfússyni, enn hinar fyrri útgáfur eru aðallega eftir skinnbókinni 138, fol. Auk þess hefir Guðbr. Vigfússon borið fleiri handrit saman.

Í söguhandriti, sem er í minni eigu og ritað á 18. öld, er Vatnsdæla saga að vísu lík hdr. 559 og 138.

Orðamunr er þó nokkur á stöku stað, og sumstaðar er frásögnin orðfleiri, enn sumstaðar styttri. Ég hefi ekki álitið ómaksins vert að taka þennan orðamun til greina, þótt vera kynni að einhversstaðar mætti bæta textann með honum. Þannig stendr í þessu handr. í 1. kap.: *„Þóttuz menn þá vita, at forgerðamenn mundu úte liggia“*, þar sem útgáfurnar hafa: *frágerðamaðr*, og virðist *forgerðamaðr* eða *forgerðamenn* vera réttara. Í 25. kap., þar sem segir frá viðtali Geirmundar við Hrolleif, stendr í þessu hdr.: *„Hrolleifr mælti: Þess var at ván, at þér mundi klækilega fara, ok hafðu illa þökk fyri þína liðveizlu, ok skal ek verða í brott sem skiótaz, enn dvel þú fyri þeim bræðrum, svá ek komumz nokkut undan“. Geirmundr mælti: „Þat mun ek gera“.* Þessi frásögn virðist öllu líklegri enn það sem í útgáfunum stendr. Í 35. kap. hefir þetta hdr.: *„En þú, Bergr, hefir dregiz mjök til úspekta við oss bræðr“*, þar sem útgáfurnar hafa *„úvissu“*, enn það getr ekki verið rétt. Í 45. kap., þar sem sagt er frá því er Hallfreðr vandræðaskáld kom til Kolfinnu í selinu, hefir afskrifari smeygt inn þessari vísu:

Skildist svo við skorðu gulls,
skæðr í vopna hjaldri,
enn konuna hefr hann kvatt til fulls
og kysti' hana síðan aldri.

Auk Vatnsdæla sögu er í þessu handr. Hrafnkels saga (miðr góð afskrift), Fóstbræðra saga og Þorsteins þáttr hvíta.

Vatnsdæla saga er talið að muni vera færð í letr um eða litlu eftir miðja 13. öld. Tímatalið í síðari hlut

hennar er talsvert ruglað, og er það einkum frásögnin um Þorkel kröflu og dauða Ingimundarsona. Á þetta bendir Guðbr. Vigfússon í Safni til s. Ísl. I, 379—80.

Kristnisaga, Grettis saga og Vatnsdæla sjálf segja, að Þorkell krafla hafi verið Vatnsdæla goði þegar Friðrekr biskup kom til Íslands, enn það var 981, að hann væri farinn að eldast þegar kristni var lögtekin (1000), og að hann lézt á uppvaxtarárum Grettis eða á árunum 1011—1014, „er Grettir var eigi á Íslandi“ (Grettis s). Getr það því ekki náð neinni átt, sem Vatnsdæla segir, að Þorkell krafla hafi verið 12 ára, þegar Ingólfr lézt, því það hlýtr að hafa verið skömmu fyrir 1000, og á þeim tíma er Þorkell orðinn Vatnsdæla goði að vitni sögunnar sjálfrar. Ingimundarsynir hafa að líkindum lifað fram undir 975, og þá mun Þorkell hafa tekið við goðorðinu. — Þetta hefir Guðbr. Vigfússon alt tekið fram í ritgerð sinni „um tímatal í Íslendinga sögum“.

Vatnsdæla saga er ein af hinum beztu sögum norðlenzkum, þótt hún komist ekki til jafns við Grettis sögu. Kaflinn um Ingimund og Ingimundarsonu er bezti hlutr sögunnar. Að því er snertir viðreign Ingimundarsona við Finnboga ramma og Berg enn rakka, ber henni ekki saman við Finnboga sögu, enn þar hlýtr Vatnsdæla saga að öllum líkindum að vera áreiðanlegri, því að Finnboga saga er að ýmsu leyti miðr áreiðanleg.

Ingimundr gamli ber af flestum fornmönnum að mannkostum, og er það nálega eins dæmi, að hann biðr fyrir

Hrolleifi banamanni sínum, sem var hið mesta illmenni og einkis góðs verðr. Ingimundarsynir hafa og verið drengir góðir, og kemr göfuglyndi þeirra meðal annars fram í því, hversu vel þeim kemr saman í öllu, þótt þeir séu ólíkt skapi farnir. Rausn og drengskapr hefir lengi síðan verið kynfylgja Vatnsdæla.

## TÍMATAL.

---

Ketill raumr lifir á síðari hlut 8. aldar og nokkuð fram á 9. öld.

| | | |
|---|---|---|
| Þorsteinn Ketils son raums fæddr | um | 810. |
| Vegr Jökul stigamann 18 vetra | — | 830. |
| Ingimundr gamli fæddr . . . | — | 850. |
| Er í víkingu . . . . . . . . | — | 867—871. |
| Hafrsfjarðarorrusta. . . . . . . . | | 872. |
| Grímr enn háleyski fer til Íslands | | 878. |
| Þorsteinn Ketilsson deyr . . . | um | 884. |
| Ingimundr gamli kemr til Íslands | — | 890. |
| Er á Hvanneyri í Borgarfirði vetrinn . . . . . . . . . . . | | 890—891. |
| Fer norðr í Hrútafjörð sumarið . . | | 891. |
| Er tvo vetr í Víðidal. . . . . . . | | 891—893. |
| Nemr land í Vatnsdal . . . . . | | 893. |
| Þorsteinn Ingimundarson fæddr á árunum . . . . . . . . . . | | 890—894. |
| Þórdís Ingimundardóttir fædd . . | | 893. |
| Ingimundr gamli deyr . . . . . | um | 935. |
| Fæddr Þorkell krafla . . . . | — | 940. |

| | |
|---|---|
| Bardagi í Karnsnesi með þeim Mávi og Ingimundarsonum . . . um | 945. |
| Viðreign Finnboga ramma og Bergs rakka við Ingimundarsonu um | 954—955. |
| Ingimundarsynir lifa fram undir . . | 975. |
| Þorkell krafla verðr Vatnsdælagoði . . . . . . . . . . um | 975. |
| Friðrekr biskup kemr til Íslands . | 981. |
| Ingólfr Þorsteinsson deyr . . um | 988. |
| Þorkell krafla deyr . . . . — | 1013. |





# Vatnsdælasaga.

Maðr er nefndr Ketill ok var kallaðr raumr. Hann var ríkr maðr; hann bjó á þeim bæ, er í Raumsdal heitir; þat er norðarlega í Noregi. Hann var son Orms skeljamola Hrossbjarnar sonar Raums sonar norðan ór Noregi. Þá vóru fylkiskonungar í Noregi, er þessi saga gerðist. Ketill var ágætr maðr ok vel auðigr at fé, rammr at afli ok hinn röskvasti í öllum mannraunum, ok hafði verit í hernaði hinn fyrra hlut ævi sinnar, enn settist nú at búum sínum, sem aldr færðist yfir hann. Hann átti Mjöll, dóttur Ánar bogsveigis. Ketill átti son með henni; hann var Þorsteinn nefndr; hann var vænn maðr sjónum; engi var hann ágætismaðr á vöxt eða afl; hann var átján vetra þá er þetta var tíðinda, enn þó var athæfi Þorsteins ok allr færleikr með enu betra meðallagi at því sem þá vóru ungir menn.

Í þenna tíma þóttust menn þess verða varir, at úthlaupsmenn eða illvirkjar mundi vera á leið þeirri er liggr á milli Jamtalands ok Raumsdals, því at engir kómu aftr þeir er fóru, ok þótt saman væri fimtán eða tuttugu, þá höfðu þó engir aftr komit ok þóttust menn því vita at frágerðamaðr mundi úti liggja. Menn Ketils bónda urðu minst fyrir þessum ófriði, bæði manndrápum ok fésköðum, ok gerðu menn mikit orð á til ámælis, at sá væri mikill vanskörungr er yfirmaðr var þess heraðs, at engar atgerðir skyldi í móti koma slíkum óhæfum, ok kvóðu Ketil nú mjök eldast, enn hann gef sér fátt um, enn þótti þó eftir því sem þeir sögðu.

2. Þat var eitt sinn at Ketill mælti við Þorstein son sinn: „Önnur gerist nú atferð ungra manna enn þá er ek var ungr, þá girntust menn á nokkur framaverk, annattveggja at ráðast í hernað, eða afla fjár ok sóma með einhverjum atferðum þeim er nokkur mannhætta var í, enn nú vilja ungir menn gerast heimaelskir ok sitja við bakelda ok kýla vömb sína á miði ok mungáti, ok þverr því karlmenska ok harðfengi, enn ek hefir því fjár aflat ok virðingar at ek þorða at leggja mik í hættu ok hörð einvígi. Nú hefir þú, Þorsteinn, lítinn kraft hlotit afls ok vaxtar; er þat ok líkast at þú fylgir þar eftir þinni athöfn ok fari þar eljan eftir ok öll tilræði, því at eigi viltu víkjast eftir atferðum enna fyrri

frænda þinna, ok sýnir þik eftir því sem þú ert ásýndum ok mun hugr fylgja vexti. Þat var ríkra manna siðr, konunga eða jarla, várra jafningja, at þeir lágu í hernaði, ok öfluðu sér fjár ok frama, ok skyldi þat fé eigi til arfs telja, né sonr eftir föður taka, heldr skyldi þat fé í haug leggja hjá sjálfum (þeim). Nú þótt synir þeirra tæki jarðir, máttu þeir eigi haldast í sínum kostum, þótt virðing felli til, nema þeir legði sik ok sína menn í hættu ok herskap, aflandi svá fjár ok frægðar, hverr eftir annan, ok stíga svá í fótspor frændum sínum. Nú ætla ek at þér sé ókunn hermanna lög, ok mætta ek þau kenna þér; ertu nú ok svá aldrs kominn, at þér væri mál at reyna hvat hamingjan vill unna þér“. Þorsteinn svarar: „Eggjat væri nú ef nokkut tjóaði“. Hann stóð upp ok gekk í brot ok var enn reiðasti. Skógr mikill liggr á milli Raumsdals ok Upplanda, er almannavegr liggr yfir, þótt nú heftist fyrir þeim meinvættum, er menn hugðu úti liggja, þótt enginn kynni frá at segja; nú þótti sú framaferð mest at ráða hér bætr á.

3. Þat var litlu síðar enn þeir feðgar höfðu við talazt, at Þorsteinn gekk út einnsaman frá drykkju, ok hyggr þat helzt fyrir sér at hann mun treysta á hamingju föður síns ok verða eigi fyrir atyrðum hans, heldr vildi hann nú leggja sik í nokkura mannhættu; hann tók hest sinn

ok reið einnsaman til skógar, þangat sem honum þótti helzt ván illvirkjanna, þó at honum þætti lítil ván framgangsins við slíkt ofrefli, sem hann þóttist vita, at fyrir mundi búa; vildi hann nú ok heldr leggja lífit á enn fara at erendislausu. Hann hefti hest sinn við skóginn, ok gekk síðan í hann ok fann afstíg einn, er lá af þjóðgötunni; ok sem hann hafði lengi gengit, fann hann í skóginum hús mikit ok vel gert. Þorsteinn þóttist vita, at þetta herbergi mundi sá eiga, er stígana hafði bannat, hvárt sem þeir vóru einn eða fleiri. Síðan gekk Þorsteinn inn í skálann, ok fann þar stórar kistur ok mart til gæða. Þar var skíða(hlaði) mikill, enn annars vegar vara í sekkjum ok allskyns varningr. Þar sá hann rekkju eina; hon var miklu meiri enn nokkur sæng, er Þorsteinn hafði fyrr sét; þótti honum sá ærit hár, er þetta rúm var mátulegt. Rekkjan var vel tjölduð. Þar var ok borð búit með hreinum dúkum ok heiðrlegum krásum ok hinum bezta drykk. Eigi gerði Þorsteinn at þessum hlutum; síðan leitaði hann sér undanbragðs, at hann væri eigi þegar fyrir augum þeim, er skálann bygði, því at hann vildi fyrr vita hvert efni honum þætti í vera enn þeir. tækist orðum eða sæist. Hann fór síðan upp í milli sekkjanna í vöruhlaðann ok sat þar. Síðan heyrði hann út dyn mikinn er á leið kveldit, ok síðan kom inn maðr, ok leiddi

eftir sér hest; sjá maðr var harðla mikill, hvítr var hann á hár, ok fell þat á herðar með fögrum lokkum. Þorsteini sýndist maðrinn vera hinn fríðasti; síðan kveykti þessi maðr upp eld fyrir sér, enn leiddi áðr hest sinn til stalls; hann setti munnlaug fyrir sik, ok þó sik, ok þerði á hvítum dúk. Hann rendi ok af verpli vænan drykk í stórt stéttarker ok tók síðan til matar. Alt sýndist Þorsteini athæfi þessa manns merkilegt ok mjök hæversklegt; miklu var hann meiri maðr enn Ketill faðir hans, ok þótti hann, sem var, manna mestr. Ok er skálabúinn var mettr, sat hann við eld ok sá í, ok mælti: „Skipan er hér á vorðin, eldrinn er nú meir fölskvaðr enn ek hugða; hygg ek at hann hafi verit fyrir skömmu uppkveyktr, ok veit ek eigi, hvat þat veit, ok má vera, at menn sé komnir, ok siti um líf mitt, ok er þat eigi fyrir sakleysi, ok skal ek fara ok leita um húsit“. Síðan tók hann sér eldiskíð, ok leitaði, ok kom þar at sem vöruhlaðinn var. Svá var þar háttat, at ganga mátti af hlaðanum ok í einn stóran reykbera er á var skálanum. Ok er spellvirkinn kannaði hlaðann, var Þorsteinn úti, ok gat skálabúinn eigi hitt hann, því at Þorsteini var annarra forlaga auðit enn vera þar drepinn. Hinn leitaði þrysvar um húsit ok fann eigi. Þá mælti skálabúinn: „Kyrt mun ek nú vera láta, ok er óvíst til hvers um dregr, ok má

vera, at þat komi fram um mína hagi, sem mælt er, at illa gefast ill ráð". Síðan gekk hann aftr til hvílunnar ok tók af sér saxit. Svá sýndist Þorsteini, sem þat væri in mesta gersemi ok allíklegt til bits, ok gerði sér þat í hug at duga mundi ef hann næði saxinu. Honum kom nú ok í hug eggjan feðr síns, at þrótt ok djarfleik mundi til þurfa at vinna slíkt afrek eða önnur, enn frami ok fagrlegir penningar mundi í móti koma, ok hann mundi þá þykkja betr gengit hafa enn sitja við eldstó móður sinnar. Þá kom honum ok í hug, at faðir hans segði hann eigi betra til vápns enn dóttur eða aðra konu, ok meiri sæmd væri frændum (hans) at skarð væri í ætt þeirra enn þar sem hann var. Slíkt hvatti Þorstein fram ok leitaði hann sér þá færis at hann mætti einn hefna margra vanréttis, enn í öðru lagi þótti honum þó skaði mikill um manninn. Síðan sofnar skálabúi, enn Þorsteinn gerir tilraun með nokkuru harki, hve fast hann svæfi; hann vaknaði við ok snerist á hlið, ok enn leið stund, ok gerði Þorsteinn tilraun aðra ok vaknaði hann enn við ok þó minnr. Hit þriðja sinn gekk Þorsteinn fram ok drap mikit högg á rúmstokkinn ok fann at þá var alt kyrt um hann. Síðan kveykti Þorsteinn log ok gekk at rekkjunni, ok vill vita, ef hann væri á brautu. Þorsteinn sér at hann liggr þar, ok svaf í silkiskyrtu gullsaumaðri ok horfði (í)

loft upp. Þorsteinn brá saxinu ok lagði fyrir brjóst enum mikla manni ok veitti honum mikit sár. Þessi brást við fast ok þreif til Þorsteins, ok kipti honum upp í rúmit hjá sér, enn saxit stóð í sárinu, enn svá fast hafði Þorsteinn til lagit, at oddrinn stóð í beðinn, enn þessi maðr var fárrammr ok lét þar standa saxit, sem komit var, enn Þorsteinn lá í milli þilis ok hans. Hinn sári maðr mælti: „Hverr er sjá maðr, er mér hefir áverka veittan“? Hann svarar: „Þorsteinn heitir ek ok em ek son Ketils raums“. Maðrinn mælti: “Ek þóttumst vita áðr nafn þitt, enn þó þykkjumst ek frá ykkr feðgum þessa hafa sízt maklegr (verit), því at ek hefir ykkr lítit eða ekki mein gert, enn nú vartu heldr til skjótr, enn ek heldr til seinn, því at nú var ek á brott búinn ok (at) hverfa frá þessu óráði, enn á ek alls kosti við þik, hvárt ek læt þik lifa eða deyja; nú ef ek geri eftir verðleik ok þú hefir til stefnt, þá segði engi frá okkarri sameign, enn ek ætla þat nú ráðlegast at láta þik þiggja líf þitt, ok mætti mér verða at þér gagn ef svá vildi takast. Nú vil ek ok segja þér nafn mitt; ek heiti Jökull ok em ek son Ingimundar jarls at Gautlandi; enn eftir hætti ríkra manna sona aflaði ek mér fjár, þótt heldr væri freklega at orkt, enn nú var ek búinn til brottferðar. Nú ef þér þykkir nokkut veitt í lífgjöf þinni, þá far á fund föður

míns, enn hitt þó fyrr at máli móður mína er Vigdís heitir, ok seg henni einni saman þenna atburð ok ber henni ástsamlega kveðju mína ok seg, at hon komi þér í frið við jarl ok fulla vingan með þeim hætti, at hann gifti þér dóttur sína enn systur mína, er Þórdís heitir. Nú er hér gull, er þú skalt bera til jartegna at ek sendi þik, ok þótt henni þykki mikill harmr sinn eftir mik, þá væntir ek at hon virðir meira ást ok orðsending mína enn tilgerning þinn; enn mér segir svá hugr um at þú munir gæfumaðr verða; nú ef þér verðr sona auðit eða þínum sonum, þá láttu eigi nafn mitt niðri liggja ok væntir ek mér þar gæða af ok hefir ek þat fyrir lífgjöfina“. Þorsteinn bað hann nú gera sem honum líkaði um lífgjöf við sik ok aðra hluti, ok kvaðzt þar einkis mundu um biðja. Jökull kvað nú vera hans líf undir sér, — „ok allmjök muntu eggjaðr verit hafa þessa verks af feðr þínum, enda hafa mik nú at fullu bitit hans ráð, ok sér ek at þér líkar þótt vit deyjum báðir, enn meiri forlaga mun þér auðit vera; eigi eru þeir forustulausir, er þú ert fyrirmaðr, sakir áræðis ok karlmensku, ok betr er þá sét fyrir kosti systur minnar at þú fáir hennar, enn víkingar fái hana at herfangi. Nú þótt þér sé til boðit í Gautlandi, þá far þú heldr til eigna þinna í Raumsdal, því (at) eigi munu föðurfrændr mínir þér ríkis unna eftir hans dag,

enn verða má, at hörmungarvíg liggi í kyni yðru, ok munu menn missa saklaussa frænda sinna. Nú seg eigi til nafns míns alþýðu, nema feðr þínum ok frændum mínum, því at ævin hefir ófögr verit, enda er nú goldit at verðugu, ok ferr svá flestum ranglætismönnum. Nú tak hér gullit ok haf til jartegna, enn kipp í braut saxinu ok mun þá eigi langt verða okka(r)t viðtal". Síðan kipti Þorsteinn í braut saxinu, enn Jökull dó.

4. Eftir þessi tíðindi ríðr Þorsteinn heim, ok er hann nálgaðist bæinn, sá hann marga menn ríða í mót sér ok kendi þar föður sinn ok marga kunningja ok fóru allir hans at leita; ok er þeir fundust, kvaddi Ketill son sinn með blíðum orðum ok þóttist hann ór helju heimtan hafa, — „ok iðrumst ek þegar eftir þeirra orða er ek mælta við þik til frýju eða áleitni". Þorsteinn svarar ok kvað hann lítt hafa fyrir sét, hvárt hann kæmi nokkurn tíma aftr eða aldri, enn kvað hamingjuna hafa styrkt nú svá sitt mál, at hann hafði heill aftr komit. Enn þótt þeir kasti þessum orðum fram með nokkurri stygð, þá urðu þeir brátt vel sáttir. Segir Þorsteinn nú feðr sínum allan atburð sinnar ferðar. Fyrir þetta verk fekk Þorsteinn góðan orðstír af hverjum manni sem ván var. Síðan lætr Þorsteinn þings kveðja ok kvómu þar allir bygðarmenn ór þeim heruðum. Á þessu þingi

stóð Þorsteinn upp ok mælti: „Þat er öllum yðr kunnigt at gera, at ótti sá er á hefir legit hér um hríð af stigamönnum, at menn máttu eigi fara ferða sinna, hann er nú af ráðinn ok endaðr. Er þat ok mest undir þessi minni þingstefnu, at ek vil at hverr taki sitt fé þat er átt hefir, enn ek mun þat eignast er af gengr". Hér at var gerr góðr rómr af mönnum, ok fekk Þorsteinn virðing mikla með öllu sínu tiltæki. Nafn illvirkjans vissi eigi alþýða manna, af því at þat var lítt á loft borit.

5. Þat var einn dag at Þorsteinn talar við föður sinn, at hann mundi fara austr á fund Ingimundar jarls sem hann hefði heitit Jökli; kvað Ketill þat eigi ráðlegt, at ganga í hendr óvinum sínum ok bað hann heldr heima vera, — „ok þó (at) jarl vili eigi granda þér, þá má þó vera, at nokkurir verði þér ágangsamir ok eigi góðviljugir". Þorsteinn svarar: „Því hefi ek heitit Jökli, sem ek skal enda, ok þótt ek bera þaðan hvárigan fót heilan, þá skal ek þó fara". Síðan bjóst Þorsteinn ok fór til Gautlands ok helt svá til at hann kom til heimilis jarls snemma dags. Jarl var farinn á veiðar at ríkra manna sið. Þorsteinn gekk inn í eina drykkjustofu ok settist í bekk með föruneyti sínu; þá kom kona jarls í stofuna ok leit þá er komnir vóru ok sá at vera mundi útlendir menn. Hon spurði at hverir þeir væri. Þor-

steinn kvaðst norrænn vera, — „enn ek á leynt erendi við þik, ok göngum tvau saman“. Hon gerði svá. Þá mælti Þorsteinn: „Tíðindi hefir ek at segja þér, víg Jökuls sonar þíns“. Hon svarar: „Þau mega mér mikil þykkja, enn eigi ólíkleg, fyrir sakir hans tiltektar ok vándrar athafnar, enn hvat skyldir þik til at segja þessa harmsögu ok fara til langan veg?“ Þorsteinn svarar: „Mikit dregr mik til þess; ek hét honum með trúnaði at okkrum skilnaði at ek munda á yðvarn fund fara ok segja satt í frá okkrum skilnaði; er því eigi (at) leyna at ek varð hans banamaðr, því at ófært þótti várum mönnum at sitja undir hans hendi sakir manndrápa ok féràna, enn þó, þér at segja í trúnaði, kom ek á hans vald ok átti hann kost at drepa mik ef hann vildi, enn hann gaf mér líf ok lagði þat á við mik, at ek skylda á þinn fund fara at hans orðsendingu, ok sjá máttu, at hægra væri heima enn hætta á yðra miskunn. Nú hefir ek hér gull, er hann kvað yðr mundu við kannast ok bað mik þat bera til jartegna, at þú kæmir mér í sætt við jarl með þeirri umleitan, at ek fengi dóttur ykkra mér til konu, er Þórdís heitir; hann kvaðst ok vænta at meira mundir þú virða sending hans ok tilskipun enn tilverknað minn“. Vigdís roðnaði við mjök ok mælti: „Djarfr maðr muntu vera, enn þat hygg ek at þú segir sannindi af ykkr-

um fundi, ok ef Jökull gaf þér líf, þá væri þat mitt ráð, at þú fengir þat, því þú ert giftuvænlegr maðr at sjá; enn fyrir bænarorð Jökuls sonar míns mun ek byrja mál þitt við jarl, enn þú ver í leynum fyrst". Ok er jarl kom heim, þá gekk drotning á fund hans ok mælti: „Tíðindi er yðr at segja, þau er bæði okkr henda". Jarl svarar: „Þú munt segja dauða Jökuls sonar míns". Hon kvað þat satt vera. Jarl mælti: „Eigi mundi hann sóttdauðr verða". Hon svarar: „Þat er satt, at hann var veginn, ok sýndi hann áðr mikinn drengskap; hann gaf þeim manni líf, er þat gerði, ok sendi hann hingat á várt vald með sönnum jartegnum at þú gæfir honum grið ok upp sakirnar, þó (at) miklar sé; verða mætti þér ok styrkr at manninum, ef þú efldir hann með mægðum ok gjaforði dóttur þinnar at tilskipan Jökuls; hefir hann ok ætlat at þú mundir nokkurs virða hans síðustu bæn; máttu ok sjá hversu trúlyndr þessi maðr hefir verit í sínum heitum, þar sem hann fór hingat í ófriðarstað frá eignum sínum í hendr oss. Nú væntir ek fyrir minn flutning, enn sonar þíns orðsending, at þú munir gera sem ek beiðir, ok lítið hér á jartegnir". Hon sýnir honum þá gullit. Jarl blés þá við mæðilega ok mælti: „Mart hefir þú mælt ok mjök djarflega, at ek munda þeim manni gera sæmd, er drepit hefir son minn, ok væri sjá maðr heldr

dauða verðr enn eigi vingjafa“. Drotning mælti: „Á hitt er at líta, herra, hvat í er, at virða orð Jökuls ok dygð mannsins at ganga á vald þitt; í annan stað aldr þinn mikinn, at þú þarft forstjóra fyrir þér, ok mun sjá maðr þar vel til fallinn. Nú svá sem Jökull gaf honum líf, ok átti áðr alls kosti við hann ok sótti sjá maðr giftu til hans svá óvænlega sem hann stefndi, þá er ok einsætt at eigi farim vér þeim sigri, eða hamingju manns þessa enn drengiligu órræði sonar okkars, ok er þat mikill sigr at haga svá sem Jökull gerði, at gefa þeim líf er þvílíkar sakir hefir við oss gert, ok er þat hin mesta skömm at gera honum nú mein, þar sem hann er kominn á várt traust“. Jarl mælti: „Allmjök fylgir þú þessum manni ok hefir þér vel á hann litizt, ok fyrir víst vil ek sjá hann ok virða fyrir mér, hverr slægr mér þykkir í vera ok mun honum þat miklu skifta, hvernveg mér virðist hann fyrir augum“. Síðan var Þorsteinn fram leiddr ok stóð hann fyrir jarli, enn drotning hafði svá til stilt at honum var runnin hin mesta reiði. Þorsteinn mælti: „Alt er nú, herra jarl, á yðru valdi um minn hag; er yðr nú ok kunnigt hvat erendum ek hefir hingat sagt; vil ek biðja yðr til sætta, enn kvíða engu hvat þér vilit gert hafa; er þat ok höfðingja siðr at veita þeim líf er sjálfkrafa ganga upp á þeirra náð“. Jarl mælti: „Svá lízt mér

á þik sem ek muna gefa þér líf; mun þat nú ok vænzt til sonar bóta, at þú gangir í sonar stað, ef þú vilt með mér vera, því at hamingju mót er á þér; er þat ok eigi stórmannlegt at stríða þeim er á vald manns gengr“. Þorsteinn þakkar jarli lífgjöfina, ok var hann þar um hríð, ok könnuðust menn hugi við. Jarl fann brátt at Þorsteinn var vitr maðr ok merkilegr í öllum háttum. Þat var eitt sinn at Þorsteinn mælti til jarls: „Nú vil ek vita hvers af er kostr um mægðirnar við yðr, herra“. Jarl svarar: „Eigi vil ek því afneita, því (at) vera má at þat sé til hamingju várrar ættar, enn þat vil ek þú sér með oss“. Þorsteinn mælti: „Því vil ek játa ok kunna þökk at vera hér meðan þér lifið, enn eigi munu menn unna mér hér metorða eftir þinn dag ok verðr hverr eftir sínum forlögum at leita“. Jarl kvað líklega slíkt mælt.

6. Litlu síðar reið Þorsteinn heim ok segir feðr sínum alla ráðastofnan ok bað hann til ferðar, ok svá gerði Ketill. Jarl bjó veizlu, enn Þorsteinn sótti til með Raumdæla ok mörgu stórmenni, enn veizlan var prýdd góðum tilföngum; gekk hon út með enni mestu sæmd ok stórum fégjöfum, ok skildust þeir jarl ok Ketill með enni mestu vináttu. Þorsteinn var eftir með konu sína. Jafnan frétti Þorsteinn vingjarnleg orð til sín frá jarli. Brátt váru ástir góðar með þeim Þorsteini ok Þórdísi.

Þess er getið eitt kveld, at menn kvómu til jarls með þeim tíðindum, at þeir sögðu lát Ketils raums ok þat með at menn vildu, at Þorsteinn færi aftr til áttjarða sinna ok ríkis. Þorsteinn bar þetta mál fyrir konu sína ok jarl; hon bað hann fyrir sjá, ok kvaðst því vilja at fylgja sem hann vill. Honum kvaðst mest í hug at fara heim, taldi þat sízt öfundar eyri ok allir mundu honum þar bezt sæmdar unna. Þessu ráði samþykti ok jarl ok kvað líklegt at heima mundi honum auðit verða framgangs heldr enn hjá ókunnu fólki. Brátt eftir þetta tók jarl sótt; hann heimti til sín Þorstein mág sinn ok svá dóttur sína, ok mælti: „Búit nú ferð yðra svá heðan í braut, at þat sé með mikilli sæmd í fjárhlutum ok auðæfum, ok megu frændr várir því þó vel una at þeim sé hér ríki alt upp gefit í landi með því öllu sem hér fylgir. Enn ef ykkr verðr sonar auðit, látið hann hafa mitt nafn“. Þorsteinn kvað svá vera skyldu, enn því kvaðst hann eigi eftir jarls tign leita, at frændr hans vóru ótígnir.

7. Ingimundr jarl andaðist litlu síðar, enn Þorsteinn fór heim til eigna sinna, ok tók við föðurleifð sinni; hann var í hernaði á sumrum ok aflaði fjár ok virðingar, enn sat heima at búum sínum at vetrum ok þótti enn mesti sómamaðr. Ingjaldr hét maðr er bjó í Hefni, norðr á Hálogalandi; hann var bóndi hraustr, ok var

í hernaði á sumrum, enn sat um kyrt á vetrum. Þat var vingott með þeim Ingjaldi ok Þorsteini. Ingjaldr var góðr búþegn ok mikilhæfr maðr. Þorsteinn átti son við konu sinni, ok er sveinninn var fæddr var hann borinn at feðr sínum. Þorsteinn leit á hann ok mælti: „Sjá sveinn skal heita Ingimundr eftir móðurfeðr sínum, ok vænti ek honum hamingju sakir nafns“. Sveinninn var snemma með miklum þroska. Þeir Þorsteinn ok Ingjaldr áttu vinaboð saman á hverju hausti þá er þeir kvómu ór víkingu; ok eitt sinn er Ingjaldr var at veizlu hjá Þorsteini, þá rann sveinninn Ingimundr at Ingjaldi. Hann mælti þá: „Hamingjusamlegr sveinn ertu, ok fyrir vináttu okkar föður þíns þá vil ek bjóða þér heim til mín til slíks fóstrs, sem ek kann at veita þér bezt“. Þorsteinn kvaðst þiggja mundu boðit, ok fór sveinninn heim með Ingjaldi. Grímr hét son Ingjalds, enn annarr Hrómundr; þeir vóru vænlegir menn ok gerðust fóstbræðr Ingimundar. Þeir Þorsteinn ok Ingjaldr heldu uppteknum hætti um heimboð ok veizlugerðir, ok þóttust menn hafa iðgjöld Ketils, þar sem Þorsteinn var, þótt hann væri maðr minni vexti, eða eigi svá sterkr sem hann var. Þat var eitt sinn þá er Ingimundr hitti föður sinn, at hann mælti: „Gott fóstr hefir þú mér fengit, enn nú vil ek at þú fáir mér skip, ok vil ek herja í sumar eftir hætti hinna

fyrri frænda minna; em ek nú svá aldrs kominn, at ek má vel slíkt starfa, ok vil ek kosta til þessar ferðar sjálfr ok þú, enn eigi fóstri minn; enn veit ek, at ek má hafa af honum slíkt er ek vil“. Þorsteinn kvað þessa vel leitat, — „ok mun ek fá þér eitt skip“. Ingimundr kvað eigi minna mega við hlíta, ok fór heim ok segir fóstra sínum. Ingjaldr svarar: „Þat er gott tillag, enn ek skal fá Grími annat skip ok skuluð þit fara báðir samt með forsjó ok athygli; varizt ok (at) leggja þar at sem ofrefli er fyrir, er ok þat meiri virðing at aukast af litlum efnum, enn at hefjast hátt ok setjast með lægingu“. Síðan réðust þeir í hernað Ingimundr ok Grímr, ok fóru vel með víkingskap sínum; lögðu eigi at þar at eigi sætti ráði, ok fengu fimm skip at hausti ok vóru öll vel búin at vápnum ok mönnum ok öllum herskap. Þat sýndist brátt at Ingimundr var djarfr í framgöngu ok góðr drengr, traustr til vápns ok harðfengi, vinhollr ok góðgjarn, fastnæmr við vini sína, ok svá mátti höfðingja bezt farit vera sem honum var í fornum sið. Hann lýsir yfir því fyrir Grími, at hann ætlaði heim til föður síns at hausti ok vera þar um vetrinn nokkura stund með tuttugu menn; ok svá gerðu þeir. Þat fanst á heldr at Þorsteini (þótti) nokkut svá vita ofsa þarvist þeirra ok eigi með fullri forsjó. Ingimundr svarar: „Eigi lízt mér svá, ok eigi

áttu svá at mæla, ok sannlegra er hitt at þú beiðist slíks í móti sem þú vill af fjáraflanum eftir siðvenju hermanna, ok neyta þess svá at sæmd fylgi. Nú samir þér vel at veita oss vistina með várum tilföngum". Þórdís mælti: „Vel er slíkt mælt ok drengilega, ok svá mundi gert hafa móðurfaðir þinn". Þorsteinn mælti: „Ek skal ok svá gera ok er skörulega mælt". Þar eru þeir um vetrinn fram um jól, ok er þar góð vist ok glaðleg. Öllum þótti mikils um Ingimund vert, bæði um háttu hans ok yfirbragð; hann var kænn við alla leika ok at allri atgervi vel færr, ok óágjarn við sér minni menn, enn harðfengr ok framgjarn við sína óvini. Ok er jól leið mælti Ingimundr til föður síns: „Nú munu vér kumpanar fara til fóstra míns, ok vera þar þat er eftir er vetrar, því at hann mun kunna þökk at vèr sém þar". Þorsteinn mælti: „Hitt þætti mér nú ráð, at þú værir með oss í vetr, frændi". Ingimundr kvaðst fyrir hinu ráð hafa gert, ok svá gerðu þeir. Ingjaldr tók við þeim forkunnar vel ok sýndi á sér öfúsusvip, ok vóru þeir þar um vetrinn þat er eftir var; ok er váraði þá segir Ingimundr, at hann vill at þeir búi ferð sína í hernað, segir ir þá nú til alls betr færa enn fyrr. Ingjaldr kvað þat sannindi. Síðan fóru þeir annat sumar í hernað ok fengu miklar tekjur fjár af reyfurum ok ránsmönnum þeim sem lögðust á fé bænda eða

kaupmanna; fóru svá um sumarit. Þá mælti Ingimundr: „Ef eigi verða stórar mannraunir í várum ferðum, þá er einsætt at fara með hernaðinum drengilega“. Allir hlýddu hans boði ok banni, ok er nokkut svá var haustað kómu þeir við Svíasker; þar vóru víkingar fyrir ok bjuggust þegar hvárirtveggju til bardaga, ok börðust fyrst með skotum ok grjóti. Engi var liðsmunr. Þar urðu margir menn sárir af hvárumtveggju. Ingimundr fekk þar góðan orðstír þann dag, ok sannlega þóttust þeir góðum höfðingja þjóna, er hans menn vóru. Ok er kveldaði varð á hvíld nokkur bardaganum. Ingimundr mælti þá: „Látum eigi þat á finnast, at vér letimst þótt þessi fundr hafi hóti heldr verit með nokkurri mannhættu“. Þá stóð maðr upp á skipi þeirra sem fyrir vóru; hann var bæði mikill ok vasklegr; sjá mælti: Hverir eru þessir menn, er við oss hafa barizt í dag, enn þat er ósiðlegt at menn hafast eigi orð við; eru hér ok engar sakir í milli áðr, svá at ek vita“. Ingimundr svarar: „Ef þú spyrr at forráðsmönnum várs liðs, þá heitir annarr Ingimundr, enn annarr Grímr, eða hverr ertu?“ Hann svarar: „Sæmundr er mitt nafn; em ek ok formaðr þessa liðs, sygnskr maðr at ætterni; kunnigt er mér ok um yðr frændr, ok þar sem vér erum samlendir menn, þá samir oss betr at vera eins liðs enn berjast; höfum vér ok góða eina

frétt til yðvar. Nú viljum vér mæla til vinganar við yðr, eigi fyrir því, at vér þyrfim friðar at biðja fyrir liðsmunar sakir.“ Ingimundr svarar: „Vel viljum vér þetta mál virða, ok leggja eigi til hallmælis; nú munu vér eigi kjósa oss þann hlut til handa at girnast við yðr til óvíss frama, enn hafa nú handtekinn frið ok vináttu yðra“. Nú settu þeir grið ok frið sín í milli, ok heldu síðan allir saman þat er eftir var sumarsins, ok varð þeim nú gott til fjár ok sóma ok sigldu um Sognsjó um haustit. Sæmundr kvað (þá) þar skiljast mundu ok finnast þar at sumri með vináttu. Ingimundr játtar því. Sæmundr helt nú í fjörðinn, enn Ingimundr sigldi norðr með landi ok hafði mörg skip ok mikit fé; hann fór til föður síns með sextigi manna. Grímr mælti: „Ætlar þú eigi nú, fóstbróðir, at feðr þínum þykki ærnir gestir.“ Hann kveðst ætla, at nú væri nær hófi. Þorsteinn gekk í mót syni sínum ok bauð honum með allri ölúð. Ingimundr kvaðst svá gera mundu. Þorsteinn veitti þeim stórmannlega um vetrinn, ok kvaðst vel við una at eiga þvílíkan son, ok kvaðst hafa snemma sét á honum frændagiftu, — „ok svá sem ek sé at þinn þroski vex, þá skaltu hafa af mér því meiri sóma“. Ingimundr var þar um vetrinn, ok þótti mjök fara vaxandi hans virðing. Því meirr lét hann til sín koma um fégjafir ok aðra stórmensku

sem föngin vóru nægri; enn er váraði, þá ræddu þeir um ferðir sínar fóstbræðr. Grímr kvaðst eigi mundu um breyta ok fylgja honum. Síðan réðust þeir í hernað ok kom Sæmundr til móts við þá sem mælt var, ok fóru allir samt um sumarit. Þeir áttu saman félag um þrjú sumur í samt fyrir vestan haf, ok öfluðu fjár ok góðs orðróms. Ingimundr var fyrir þeim öllum um ráðagerðir ok vitsmuni ok allan skörungskap ok var þeirra félagsskapr á allan máta merkilegr. Ingimundr var með feðr sínum á vetrum; þóttist Þorsteinn ok aldri fullmikinn geta gert sóma Ingimundar sonar síns, þegar hann sá hvílíkr maðr hann vildi verða.

8. Þess er getit et síðasta sumar er þeir Sæmundr áttu fé saman, ok kvómu þá með miklu meira herfangi enn fyrr, þá gerðust þau tíðindi í Noregi, at herr samnaðist saman austr við Jaðar, ok var þá kominn nálega allr landherr í tvá staði; var þar öðrum megin Haraldr, er ýmist var kallaðr Dofrafóstri eða lúfa; hann barðist í mót landshöfðingjum, ok átti þann enn síðasta bardaga áðr hann ynni alt land undir sik er hann barðist í Hafrsfirði, sem víða getr í sögum, ok í því bili kómu þeir Ingimundr ok Sæmundr í land sem sagt var áðr, þar nær sem herrinn var saman kominn. Þá mælti Ingimundr: „Hér horfist nú til mikilla tíðinda, því at hér eiga hlut í allir enir stærstu menn

innan lands, þótt ek telja Harald konung mest verðan, ok sá maðr er mér vel at skapi, ok vil ek honum bjóða mitt lið, því at eigi er þat við hváriga muni.“ Sæmundr kvaðst eigi mundu hætta lífi sínu fyrir hans sakir; kom hann ok eigi í þann bardaga. Ingimundr svarar: „Sjá máttu, fóstbróðir, at mikill er afli konungs, eða hvárt þeim gegnir betr, er með honum eru, eða hinum, er í mót honum standa; at því er ek hygg mun hann þat ok góðu launa, þeim er honum veita nú sæmd ok eftirgöngu; enn mér mundi þykkja óvíst hvat fyrir lægi ef eigi er hans vili gerr, ok mun þat skilja með okkr.“ Síðan sigldi Sæmundr frá ok inn eftir Sognsjó með sitt lið. Enn Ingimundr sigldi inn í Hafrsfjörð ok leggr at skipaflota Haralds konungs. Þessir höfðingjar vóru mestir í mót Haraldi konungi, Þórir haklangr ok Ásbjörn kjötvi; þeir höfðu allmikit lið ok harðsnúit. Ingimundr lagði at við lyftingina á konungs skipinu, ok kvaddi konung á þessa leið: „Heill, heill, herra.“ Konungr svarar: „Vel fagnar þú, eða hverr ertu?“ „Ingimundr heiti ek, ok em (ek) Þorsteinsson, ok því hér kominn, at ek vil bjóða yðr mitt lið, ok hyggjum vér þá betr hafa er yðr veita, enn hina er við rísa; em ek nýkominn ór hernaði með nokkurum skipum.“ Konungr tók vel hans máli, ok kvaðst (hans) heyrt hafa getit at góðum hlutum — „ok þat mundà ek

vilja, at þér yrði launat þitt starf, því at ek skal allan Noreg undir mik leggja, ef hamingjan lofar, ok mikinn mun á ek at gera (yðar) ok þeirra, er nú hlaupast á braut í flokka fjándmanna várra, eða til eigna sinna, sem ek hefir spurt at Sæmundr hefir gert félagi þinn, ok kalla ek meira manndóm sýnast í slíkum tiltektum sem þú hefir haft. Ingimundr segir Sæmundi mart þjóðvel gefit.

9. Eftir þetta kvóðu við lúðrar um allan herinn, ok bjuggust menn til, hverr eftir sínum efnum. Þenna bardaga átti Haraldr konungr mestan; þá var með honum Rögnvaldr af Mæri ok margir aðrir stórir höfðingjar, ok þeir berserkir, er Úlfheðnar vóru kallaðir; þeir höfðu vargstakka fyrir brynjur, ok vörðu framstafn á konungs skipinu, enn konungr sjálfr varði lyftingina með hinni mestu prýði ok karlmensku; mátti þar sjá mörg hõgg bæði ok stór. Nú gerðust brátt mörg tíðindi ok stór á skamri stundu í höggum ok spjótalögum með grimmlegri grjótflaug; gerðist nú skjótt mikit mannfall af hvárumtveggjum. Ingimundr fylgdi vel Haraldi konungi ok aflaði sér góðs orðs. Fundinum lauk svá, sem mörgum er kunnigt ok fullfrægt er vorðit, at Haraldr konungr fekk ágætan sigr ok varð síðan einvoldugr yfir öllum Noregi; hann launaði höfðingjum öllum þeim er honum fylgdu, ok svá hverjum öðrum með

hinni mestu stórmensku. Rögnvaldi gaf hann jarldóm, ok mælti: „Þú hefir sýnt mikinn manndóm í fylgd þinni við mik; þú hefir ok látit son þinn fyrir mínar sakir, ok má hann eigi aftr gjalda, enn hitt má ek, at launa þér sæmdum, fyrst því at verða jarl ok þar með eyjar þær, er liggja fyrir vestan haf, er Orkneyjar heita; þær skaltu hafa í sonar bætr; margan annan sóma skaltu þiggja af mér;“ ok þat efndi konungr. Rögnvaldr sendi vestr Hallað son sinn, ok gat hann eigi haldit ríkinu fyrir víkingum. Þá sendi hann Torf-Einar son sinn ok lézt vænta, at hann mundi halda ríkinu. Hann var jarl fyrstr á Orkneyjum, ok af honum eru komnir allir Orkneyja jarlar, sem segir í ævi þeirra. Haraldr konungr gaf mörgum stór lén fyrir sína fylgd ok virði svá mikils við menn, hvárt með honum höfðu verit eða móti, at alla gæddi hann þá at nokkurum hlutum, enn hina sem honum höfðu mótsnúnir verit, rak hann ór landi, meiddi eða drap, svá at engir fengu nokkura viðréttu. Síðan mælti konungr til Ingimundar: „Mikla vináttu hefir þú við mik sýnt, enn aukit sjálfum þér frama; skal ek ávalt þinn vin vera, enn hlutskifti þitt skulu vera þrjár skipshafnir; þar með skaltu hafa herbúnað allan þeirra víkinga, er þú barðist við, ok til marks at þú hefir verit í Hafrsfirði, skaltu eignast at gjöf hlut þann, er átt hefir

Kjötvi, sem hann hafði mestar mætr á; nú er þat meirr til sanninda þessa fundar, enn þat sé mikit fé, enn þó sæmd í at þiggja af oss; enn þá er vér hafim skipat ríki várt, skal ek launa þér liðsemdina með heimboði ok vingjöfum". Ingimundr þakkar konungi gjafir ok góð orð, ok skildust með því. Konungr sagðist ok minnugr vera skyldi Sæmundar fyrir sínar tiltekjur ok dróttinssvik við sik.

**10.** Ingimundr hitti brátt eftir bardagann í Hafrsfirði Sæmund, ok segir honum, at eigi hefir fjarri farit hans hugboði um fundinn, — „ek veit ok, sakir orða konungs, at þér hæfir eigi kyrrum at sitja, ok kalla ek ráð, at þú leitir undan, því at konungr mun efna heit sín, enn ek spari þik til harðra álaga fyrir okkarn vinskap; þætti mér eigi óráðlegt at þú leitaðir til Íslands, sem nú gera margir virðingamenn þeir sem eigi bera traust til at halda sik fyrir ríki Haralds konungs". Sæmundr mælti: „Sýnir þú í þessu sem öðru trúskap þinn ok vingan, ok mun ek þetta ráðs taka". Ingimundr bað hann svá gera, — „ok hefði betr verit, at þú hefðir mér fylgt í Hafrsfirði, ok þurfa nú eigi at fara í eyðisker þetta". Sæmundr kvað hann mörgu nær geta. Síðan seldi hann jarðir sínar á laun ok bjóst til brautferðar, enn þakkaði Ingimundi sín tillög ok mælti enn til vináttu. Sæmundr fór síðan tll Íslands ok kom í Skagafjörð; var

þá enn víða ónumit landit; hann fór með eldi at fornum sið, ok nam sér land þar er nú heitir Sæmundarhlíð í Skagafirði ok gerðist þroskamikill maðr. Son hans hét Geirmundr, enn Reginleif dóttir, er átti Þóroddr hjálmr; þeirra dóttir var Hallbera, móðir Guðmundar ens ríka á Möðruvöllum ok Einars þveræings. Ingimundr fór til föður síns eftir bardagann í Hafrsfirði með miklum sóma. Þorsteinn tók við honum báðum höndum ok sagði hann hamingjusamlega snúit hafa sínum ráðum; kvað þat ok líklegt, — „þar sem þú ert dótturson Ingimundar jarls, ens göfgasta manns“. Hann var þar um vetrinn, ok á þeim vetri kom Ingjaldr til Þorsteins ok varð þá mikill fagnafundr. Ingjaldr kvað þá komit í þat efni um Ingimund, sem honum hefði hugr sagt — „enn veizlu hefir ek þér nú búna, fóstri minn, með öllum þeim föngum, sem ek hefir til“. Ingimundr kvaðst ok koma mundu. Ingjaldr fór heim ok bauð mörgum mönnum með sér. Síðan fór hverr sem boðit var. Þeir Ingjaldr efna þar seið eftir fornum sið til þess at menn leitaði eftir forlögum sínum. Þar var komin Finna ein fjölkunnig. Ingimundr ok Grímr kómu til veizlunnar með miklu fjölmenni. Finnan var sett hátt ok búit um hana veglega; þangat gengu menn til frétta, hverr ór sínu rúmi, ok spurðu at örlögum sínum. Hon spáði hverjum eftir því sem gekk, enn þat var nokkut mis-

jafnt hversu hverjum líkaði. Þeir fóstbræðr sátu í rúmum sínum ok gengu eigi til frétta; þeir lögðu ok engan hug á spár hennar. Völvan mælti: „Hví spyrja þeir enu ungu menn eigi at forlögum sínum, því at mér þykkir þeir merkilegastir menn af þeim sem hér eru saman komnir?“ Ingimundr svarar: „Mér er eigi annara at vita mín forlög enn fram koma, ok ætla ek mitt ráð eigi komit undir þínum tungurótum“. Hon svarar: „Ek mun þó segja þér ófregit; þú munt byggja land er Ísland heitir; þat er enn víða óbygt; þar muntu gerast virðingamaðr ok verða gamall; þínir ættmenn munu ok margir verða ágætir í því landi“. Ingimundr svarar: „Þetta er af því vel sagt, at þat hefir ek einhugsat at koma aldri í þann stað, ok eigi verð ek þá góðr kaupmaðr, ef ek sel áttjarðir mínar margar ok góðar, enn fara í eyðibygðir þær“. Finnan svarar: „Þetta mun fram koma, sem ek segi, ok þat til marks, at hlutr er horfinn ór pússi þínum, sá er Haraldr konungr gaf þér í Hafrsfirði, ok er hann kominn í holt þat, er þú munt byggja, ok er á hlutnum markaðr Freyr af silfri; ok þá er þú reisir bæ þinn mun saga mín sannast“. Ingimundr svarar: „Ef fóstra mínum væri eigi mótgerð í, þá mundir þú taka launin í höfði þér; enn með því (at) ek em eigi ágangsmaðr eða tyrrinn, þá mun þat fyrir farast“. Hon kvað

þetta eigi þurfa at reiðimálum gera. Ingimundr segir hana þar illu heilli hafa komit. Hon kvað nú svá búit vera mundu, hvárt er (honum) þætti vel eða illa. Ok enn mælti hon: („Forlög) Gríms eru ok þangat ok svá bróður hans Hrómundar, ok munu þeir báðir verða gildir bændr“. Um morgininn eftir leitaði Ingimundr hlutarins ok fann eigi; þat þótti honum eigi góðs viti. Ingjaldr bað hann vera glaðan, ok láta þetta eigi á sik bíta eða fyrir gleði standa, ok kvað marga ágæta menn láta sér nú sóma at fara til Íslands; hefir mér ok gott eina til gengit þótt ek byða hingat Finnunni“. Ingimundr sagðist honum enga þökk fyrir þetta kunna, — „enn þó mun aldri týnast okkat vinfengi“. Síðan ferr Ingimundr heim til föður síns ok var þar um vetrinn. Ok er váraði spurði hann fóstbræðr sína um ferðirnar, hvat þeim sýndist. Grímr kvaðst hyggja at eigi mundi tjóa at brjótast við forlögunum, — „ok ætla ek nú i sumar til Íslands ok vit báðir bræðr, ok láta sér nú þat margir sóma, þótt göfgir séu; er mér sagt gott frá landakostum, at þar gangi fé sjálfala á vetrum, enn fiskr i hverju vatni, skógar miklir, enn frjálsir af ágangi konunga ok illræðismanna“. Ingimundr svarar: „Eigi mun ek þangat, ok mun þat skilja með okkr“. Grímr kvað svá vera mega, — „enn eigi kemr mér þat á óvart þótt vit finnimst á Íslandi, því (at) óhægt mun

forlögin at flýja". Ingimundr kvað sér víst sviftu at þeirra skilnaði. Grímr sigldi út um sumarit ok báðir þeir bræðr, kómu í Borgarfjörð ok lögðu inn at Hvanneyri. Grímr kvaðst ætla at þat land mundi hann nema sér til ábúðar. Hann tók sér landnám svá mikit, at þar eru nú bæir margir í hans landeign. Hrómundr kvaðst mundu leita upp til fjalla, ok kvaðst þar mundu yndi nema í fjallaendum. Grímr kvað þat vel efnat, at þeir hefði bæði jarðkost fjallanna (ok) þó neyti af sjónum. Hrómundr nam Þverárhlíð ok þótti vera merkismaðr. Frá honum er kominn Illugi svarti. Grímr varð ok kynsæll ok kom mart göfugmenni frá honum, þótt hér sé eigi nefndir.

11. Þat sumar er þeir bræðr fóru til Íslands, þá fór Ingimundr til föður síns ok var með honum. Þorsteinn faðir hans tók þá at eldast; ok eitt sinn mælti Þorsteinn til Ingimundar: „Gott er nú at deyja, ok vita son sinn slíkan hamingjumann; uni ek því bezt við ævi mína, at ek hefir verit engi ágangsmaðr við menn; er ok líkast at með þeim enda slitni ævi mín, því at ek kennir nú sóttar. Nú vil ek þér, frændi, í kunnleika gera fjárfar mitt hvert er, enn eigi þykkir mér kynlegt, þótt þér svífi af þessum ættjörðum, ok læt ek mér eigi at því þykkja". Ingimundr kvaðst hug mundu á leggja at breyta eftir hans fyrirsögn. Þorsteinn kvaðst

ætla at Ingimundr mundi þykkja þar mikilmenni sem hann bygði, hvar sem hann væri. Þorsteinn segir honum þá marga hluti fyrir, ok brátt eftir þat andaðist hann. Var honum þá veittr sæmilegr umbúnaðr eftir fornum sið. Ingimundr tók við fjárforráðum ok öllum eignum; ætlaði hann þar at nema yndi ok settist nú um kyrt.

12. Haraldr konungr hinn hárfagri var nú kominn í fullan frið ok kyrrsetu, er mestr hefir verit allra fornkonunga í Norðrlöndum; hann mintist þá þess, er hann hafði játtað vinum sínum ok gerði þeim nú ríkulegar veizlur með stórum sæmdum; hann bauð einkum Ingimundi, ok er hann kom tók konungr allvel við honum ok mælti svá: „Þitt ráð spyrst mér á margan hátt sómasamlegt, enn þó skortir þik einn hlut, at þú ert kvánlauss, enn þó hefir ek hugsat þér ráðakost; var mér þat í hug þá er þú lagðir líf þitt í hættu fyrir mitt líf.“ Dóttir Þóris jarls þegjanda heitir Vigdís; hon er kvenna fríðust ok með miklu fé; því ráði mun ek þér í hendr koma“. Ingimundr þakkaði konungi, ok kvaðst fúss vera þessa ráðahags. Konungr veitir veizlu þessa með miklum ríkdóm ok metnaði, ok fara menn heim. Eftir þetta efnar Ingimundr til brúðhlaupsgerðar, ok at því búnu kemr þar Haraldr konungr ok mart annat stórmenni; gengr Ingimundr at eiga Vigdísi eftir

því sem stofnat var. Þetta brúðkaup var veitt með hinni mestu virðingu. Konungr lagði þar til mikinn kost í fégjöfum ok annarri sæmd. Ingimundr mælti til konungs: „Nú uni ek allvel við minn kost, ok stórr heiðr er at verða fyrir yðrum góðvilja, enn þat stendr mér í hug, er Finnan hefir mér spáð um ráðabreytni, því at ek vilda at þat sannaðist eigi at ek færa af ættjörðum mínum“. Konungr svarar: „Þar kann ek þó eigi af at taka, ok sé þat til nokkurs gert, ok vili Freyr þar láta sinn hlut niðr koma er hann vill sitt sæmdarsæti setja“. Ingimundr kvað sér fýst á at vita, hvárt hann fyndi hlutinn eðr eigi, þá er grafit væri fyrir öndvegissúlum hans, — „kann ok vera, at þat sé eigi til eingis gert; er nú ok eigi því at leyna, herra, at ek ætla at gera eftir Finnum, þeim er mér sýni heraðs vöxt ok lands skipan þar sem ek skal vera ok ætla ek at senda þá til Íslands“. Konungr kvað hann þat mega gera, — „enn þat hygg ek, at þangat munir þú koma, ok er þat ugglegt, hvárt þú ferr í lofi mínu, eða leynist þú sem nú tekr mjök at tíðkast“. „Þat mun mér aldri verða“, segir Ingimundr, „at ek fara í banni þínu“. Síðan skildu þeir konungr; fór Ingimundr heim, ok sat at búum; hann sendir eftir Finnum, ok kómu norðan þrír. Ingimundr segir, at hann vill kaupa at þeim, — „ok vil ek gefa yðr smjör ok tin, enn þér farit sendiferð mína til

Íslands at leita eftir hlut mínum ok segja mér frá landslegi". Þeir svara: „Semsveinum er þat forsending at fara, enn fyrir þína áskorun viljum vér prófa. Nú skal oss byrgja eina saman í húsi, ok nefni oss engi maðr", — ok svá var gert. Ok er liðnar vóru þrjár nætr kom Ingimundr til þeirra. Þeir risu þá upp ok vörpuðu fast öndinni ok mæltu: „Semsveinum er erfitt, ok mikit starf höfum vér haft, enn þó munum vér með þeim jartegnum fara, at þú munt kenna land, ef þú kemr, af várri frásögn, enn torvelt varð oss eftir at leita hlutinum ok mega mikit atkvæði Finnunnar, því at vér höfum lagt oss í mikla ánauð. Þar kómu vér á land sem þrír firðir gengu af landnorðri, ok vötn vóru mikil fyrir innan einn fjörðinn. Síðan kómu vér í dal einn djúpan, ok í dalnum undir fjalli einu vóru holt nokkur; þar var byggilegr hvammr, ok þar í holtinu öðru var hlutrinn, ok er vér ætluðum at taka hann, þá skauzt hann í annat holtit, ok svá sem vér sóttum eftir, hljóp hann á undan, ok nokkur hulda lá ávalt yfir svá at vér náðum eigi, ok muntu sjálfr fara verða". Hann kvaðst þá ok skyldu brátt fara, ok kvað eigi mundu stoða við at sporna. Vel gerði hann við Finna ok fóru þeir braut, enn hann settist um kyrt at búum sínum ok var vel auðigr at fé ok góðr drengr. Síðan hitti hann konung ok sagði honum sína meðferð ok fyriræetlan.

Konungr kvað sér slíkt eigi á óvart koma, ok sagði óhægt at gera við atkvæðum. Ingimundr kvað þat satt, — „ok hefir ek nú alls í leitat“. Konungr mælti: „Hvar landa sem þú ert, muntu sæmdarmaðr vera“. Konungr fekk honum enn sem fyrr nokkurn sæmdarhlut. Eftir þat gerði Ingimundr veizlu, ok bauð til vinum sínum ok höfðingjum með miklum ríkdóm, ok at þeirri veizlu kvaddi hann sér hljóðs ok mælti: „Ráðabreytni hefir ek ætlat fyrir mér, ok hygg ek mik fara munu til Íslands meirr af forlögum ok atkvæði ramra hluta, enn fýsi; enn þat er heimilt þeim er fara vilja með mér; hinum er ok leyfilegt eftir at vera er þat vilja, ok jafnkomnir eru hvárirtveggju várir vinir, hvárt sem heldr vilja kjósa fyrir sik“. Mikill rómr varð at máli hans, ok sögðu mikinn skaða at slíks manns brottferð, enn þó er fátt sköpum ríkara; urðu ok þess margir búnir at fara með Ingimundi þeir er mikils vóru virðir, bæði bændr ok lausir menn.

13. Þenna tíma var sem mest sigling til Íslands, ok í þat mund fæddi Vigdís barn; þat var sveinn; sá var vænn mjök. Ingimundr leit á sveininn ok mælti: „Sjá sveinn hefir hyggilegt augnabragð, ok skal eigi seilast til nafns; hann skal heita Þorsteinn, ok mun ek þess vilnast, at hamingja mun fylgja“. Sjá sveinn var snemma vænn ok gervilegr, stiltr vel, orðvíss, langsær,

vinfastr ok hófsmaðr um alla hluti. Son áttu þau annan; sjá var ok borinn at feðr sínum ok skyldi hann ráða fyrir nafni; hann leit á ok mælti: „Þessi sveinn er allmikilfenglegr, ok hefir hvassar sjónir; hann mun verða, ef hann lifir, ok eigi margra maki ok eigi mikill skapdeildarmaðr, enn tryggr vinum ok frændum, ok mun vera mikill kappi ef ek sér nokkut til; mun eigi nauðr at minnast Jökuls frænda várs, sem faðir minn bað mik? ok skal hann heita Jökull“. Hann vóx upp ok gerðist afreksmaðr at vexti ok afli. Hann var fálátr, ómjúkr ok ódæll, harðúðigr ok hraustr um alt. Þórir hét hinn þriði son Ingimundar skírgetinn; hann var vænn maðr ok mikill vexti, ok hafði mjök á sér kaupmanns æði. Fjórði hét Högni, fimti Smiðr; hann var frilluson. Þorsteinn var þeirra vitrastr allra bræðra. Þórdís hét dóttir Ingimundar, heitin eftir móður hans, önnur Jórunn. Jörundr hét maðr ok var son Þóris jarls þegjanda, bróðir Vígdísar; hann lýsir yfir því, at hann mun fara til Íslands með Ingimundi, lét bæði til halda vingan ok mágsemd. Ingimundr lézt því vel kunna. Hvati hét maðr ok Ásmundr þrælar Ingimundar. Þá hét maðr Friðmundr, annar Þórir, þriðji Refkell, fjórði Úlfkell, fimti Böðvarr. Þessir menn bjuggu ferð sína til Íslands með Ingimundi, ok höfðu allir stórfé.

14. Nú lætr Ingimundr í haf þegar hann

var búinn með sitt föruneyti ok áttu góða útivist ok kómu vestr fyrir (Ísland) ok sigldu inn á Borgarfjörð í *Grímsárós;* brátt spurðist skipkváman. Grímr reið til skips ok fagnaði vel fóstbróður sínum, ok kvaðst mikla þökk kunna háns þarkvómu, — „ok kemr hér nú at því sem mælt er, at torsótt er at forðast forlögin“. Ingimundr kvað þat satt vera, — „ok verðr eigi viðgert, fóstbróðir“. Grímr mælti: „Þat er mitt boð, at þú farir heim til mín ok lið þitt alt, ok haf alt af mínu fé, er þú vilt, hvárt þat eru lönd eða aðrir aurar“. Ingimundr þakkar boðit, ok kvaðst mundu vera hjá honum í vetr, — „enn þar sem ek hefir breytt ráðahag mínum til þessar ferðar, þá mun ek þangat á leita, sem mér var á vísat til landnáma, af tómi“. Ingimundr fór á Hvanneyri, kona hans ok synir, enn lið hans var alt umhverfis. Grímr veitti þeim stórmannlega, ok lét ekki undan dregit þeim til sæmdar um vetrinn; enn er váraði þá lét Grímr enn sem fyrr innanhandar alt þat er hann átti um land eða aðra hluti. Ingimundr kvað honum fara alt sem bezt sem ván var at, — „enn norðr mun ek halda, enn um flutning ok farargreiða verðum vér þín at njóta“. Grímr kvað svá vera skyldu; slíkt sama gerði ok Hrómundr, því allir fögnuðu Ingimundi ágæta vel. Hann fór norðr um sumarit í landaleitan, ok fór upp Norðrárdal ok kom ofan í eyðifjörð einn;

ok um daginn, er þeir fóru með þeim firði, þá hlupu ór fjalli at þeim tveir sauðir; þat vóru hrútar. Þá mælti Ingimundr: „Þat mun velfallit at þessi fjörðr heiti Hrútafjörðr". Síðan kómu þeir í fjörðinn ok gerði þá þoku mikla; þeir kómu á eyri eina; fundu þeir þar borð stórt nýrekit. Þá mælti Ingimundr: „Þat mun ætlat at vér skylim hér örnefni gefa ok mun þat haldast, ok köllum eyrina Borðeyri". Þá leið á sumarit, því mart var at færa, enn farit síð, ok kvómu nær vetri í dal þann er allr var víði vaxinn. Þá mælti Ingimundr: „Sjá dalr er mjök víði vaxinn; köllum hann Víðidal, ok hér ætla ek líkast til vetrsetu". Þeir vóru þar vetr annan, ok gerðu sér þar skála, er nú heitir Ingimundarhöll. Þá mælti Ingimundr: „Nú mun eigi vera vistin jafnglöð sem í Noregi, enn eigi þarf nú at minnast á þat, því at margir góðir drengir eru hér enn saman komnir til gamans, ok gleðjumst enn eftir tilföngum". Allir tóku vel undir.

**15.** Þar vóru þeir um vetrinn, ok höfðu leika ok allskyns gleði; enn er váraði ok nokkut leysti snjó ór hlíðum, þá mælti Ingimundr: „Forvitni er mér á at vita, ef nokkurir menn gangi á hátt fjall ok sæi, ef nokkut væri snjóminna at sjá í aðra staði, því at eigi þykki mér sem vér munim í þessum dal búnað reisa, ok eigi er ellegar jafnkeypi". Síðan gengu menn á

fjall eitt hátt, ok sá víða þaðan. Þeir kvómu aftr, ok sögðu Ingimundi at fjöll vóru snjólaus mjök þau er lágu í landnorðr, ok gott til at líta, — „enn hér er sem hin sama hríð sé ávalt er vér erum, ok kunnum vér þat at sjá, at þar eru landskostir miklu betri". Ingimundr svarar: „Þá er hóf at, ok væntum enn at nokkut grænt mun fyrir liggja; svá mun hlut til draga". Nú búast þeir snemma um várit, ok er þeir nálgast norðr til Vatnsdals, þá mælti Ingimundr: „Sú mun sannast spáin Finnanna, því at nú kenni ek landsleg at frásögn þeirra, at hér mun oss at vísat, ok vænkast nú mjök: ek sé nú ok land at víðleika með vexti, ok ef þar fylgja kostir þá má vera at hér sé vel byggjanda". Ok er þeir kvómu at Vatnsdalsá, þá mælti Vigdís kona Ingimundar: „Hér mun ek eiga dvöl nokkura, því at ek kenni mér sóttar". Ingimundr svarar: „Verði þat at góðu". Þá fæddi Vigdís meybarn; hon var Þórdís kölluð. Ingimundr mælti: „Hér skal Þórdísarholt heita". Síðan sótti liðit upp í dalinn, ok sá þar góða landakosti at grösum ok skógum; var fagrt um at litast; lyfti þá mjök brúnum manna. Ingimundr nam Vatnsdal allan fyrir ofan Helgavatn ok Urðarvatn. Þórdísarlækr fellr vestan í miðju vatni. Ingimundr kaus sér bústað í hvammi einum mjök fögrum, ok efnaði til bæjar; hann reisti hof mikit hundrað fóta langt, ok er

hann gróf fyrir öndvegissúlu(m), þá fann hann hlut sinn sem honum var fyrir sagt. Þá mælti Ingimundr: „Þat er þó satt at segja, at eigi má við sköpunum sporna, enn þó skal nú á þetta góðan hug leggja. Bær sjá skal heita at Hofi“. Menn Ingimundar skipuðu sér um dalinn ok tóku bústaði at hans ráði. Þetta haust vóru íslög mikil, ok er menn gengu á ísana, þá fundu menn birnu eina ok með henni húna tvá. Ingimundr var í þeirri ferð, ok kvað þat Húnavatn heita skyldu, — „enn fjörðr sá, er flóir allr af vötnum, hann skal heita Vatnafjörðr“. Eftir þat fór Ingimundr heim; hann setti saman virðulegt bú, ok gerðist brátt yfirmaðr Vatnsdæla ok þeirra sveita er nálægstar vóru; hann átti mart ganganda fé, bæði naut ok sauði ok annan búsmala. Þat sama haust hurfu frá honum sauðir ok fundust um várit í skógum; þar heitir nú Sauðadalr; ok má af því marka landskosti þá er í þat mund vóru at féit gekk alt sjálfala úti. Þess er enn getit, að svín hurfu frá Ingimundi ok fundust eigi fyrr enn annat sumar at hausti ok vóru þá saman hundrað; þau vóru stygg vorðin; göltr einn mikill ok gamall fylgdi þeim ok var kallaðr Beigaðr. Ingimundr safnar mönnum til at henda svínin, ok kvað svá rétt at mæla, at tvau höfuð væri á hvívetna. Þeir fóru eftir svínunum, ok ráku at vatni því, er nú er kallat Svínavatn ok vildu kvía þar við,

enn göltrinn hljóp á vatnit ok svamm yfir, ok varð svá móðr, at af honum gengu klaufirnar; hann komst á hól einn er nú heitir Beigaðarhóll ok dó þar. Ingimundr festi nú yndi í Vatnsdal; þá gerðust ok margar sveitir bygðar; tókust þá upp lög ok landsréttr.

**16.** Þá er Ingimundr hafði búit nokkura hríð at Hofi lýsir hann utanferð sinni at sækja sér húsavið, því at hann kvaðst vel vilja sitja bæ sinn, ok kvaðst vænta, at Haraldr konungr mundi honum vel taka. Vigdís segir hann vænan til góðs. Hann setti menn yfir fjárforráð sín með Vigdísi. Ingimundr hafði bjarndýrin með sér; honum fórst greitt ok kom við Noreg. Hann helt fréttum til Haralds konungs; var alt kyrt í landi, ok er hann fann Harald konung þá var honum vel fagnat; bauð konungr honum með sér at vera, ok þat þá Ingimundr; hann var um vetrinn með mikilli sæmd haldinn af konungi. Konungr spurði, hvernig honum hugnuðu landakostir; hann lét vel yfir; — „enn þat er mitt erindi mest, at afla mér húsaviðar“. Konungr mælti: „Þat er vel gert, er þér ok heimil vár mörk sem þú vill höggva láta enn ek mun láta til skips færa, ok skaltu engan hlut um þat annast, ok ver með mér“. Ingimundr mælti: „Hér máttu sjá, herra, bjarndýri, er ek náða á Íslandi, ok vilda ek at þú þægir af mér“. Konungr svarar: „Ek vil víst þiggja ok kunna

þökk fyrir". Þeir skiftust mörgum gjöfum við um vetrinn, ok er váraði var búit skip Ingimundar með farmi þeim er hann kaus ok því viðarvali er bezt fekk. Konungr mælti: „Ek sér þat, Ingimundr, at þú munt eigi sjálfr ætla oftar at fara til Noregs; nú þyrftir þú at hafa svá mikinn við at þér nægði, enn þat má eigi eitt skip bera. Nú er hér at líta á nokkur skip; kjós hér af hvert er þú vill". Ingimundr mælti: „Kjósit, herra, mér til handa; þat mun mestri giftu stýra". „Svá skal ok vera", (segir konungr), „mér er kunnast um; hér er skip er Stígandi heitir, er vér köllum bíta í siglingu allra skipa bezt, ok farsælla enn hvert annara, ok þat mun ek kjósa þér til handa; skipit er frítt ok eigi mikit". Ingimundr þakkar konungi gjöfina. Síðan fór hann af konungsfundi með mörgum vingjöfum. Hann sér brátt hversu fljótt skip Stígandi var. Þá mælti Ingimundr: „Vel hefir konungr mér skip valit, ok þat má rétt heita Stígandi, er svá less hafit". Þeir kvómu við Ísland ok sigldu fyrir norðan ok svá vestr fyrir. Þat höfði engir áðr gert. Ingimundr kom báðum skipunum í Húnavatnsós, ok gaf þar öll örnefni, er síðan hafa haldizt. Þar heitir Stígandahróf, er hann var upp settr. Þetta spyrst nú víða, útkváma Ingimundar, ok létu allir vel yfir því, er hann kom heim. Ingimundr átti ágætt bú með nógum efnum;

hann bætti nú mikit bæ sinn, því at efnin vóru nóg; hann fékk sér ok goðorð ok manna forráð. Jörundr háls, er annarr maðr var mestr sá er út kom með Ingimundi, hann nam sér land at ráði Ingimundar mágs síns fyrir utan Urðarvatn ok til Mógilslækjar, ok bjó á Grund út frá Jörundarfjalli í Vatnsdal, ok var mikill maðr fyrir sér sem ætterni hans var til. Már hét son hans, er bjó á Másstöðum í Vatnsdal, virðulegr maðr. Þeir óxu upp samtíðis ok Ingimundarsynir. Þá gerðist fjölbygðr dalrinn. Hvati hét maðr, er út kom með Ingimundi, hann nam land frá Mógilslæk til Giljár. Ásmundr nam land út frá Helgavatni ok um Þingeyrasveit. Sauðadalr liggr fyrir austan Vatnsdal, enn þá Svínadalr, ok er þar í Svínavatn, þá Beigaðarhóll. Þórólfr hét maðr ok var kallaðr heljarskegg; hann nam land í Forsæludal; hann var ójafnaðarmaðr mikill ok óvinsæll; hann gerði margan óskunda ok óspekt í heraðinu. Hann gerði sér virki suðr við Friðmundará skamt frá Vatnsdalsá í gjá eina, ok gekk nes í milli gjárinnar ok árinnar, enn hamarr stórr fyrir framan. Grunaðr var hann um þat, at hann mundi blóta mönnum, ok var eigi sá maðr í dalnum öllum, er óþokkasælli væri enn hann. Á Hrútastöðum hét þar er Hrúti bjó, enn Ásmundr at Gnúpi. Óttarr hét maðr, er bjó í Grímstungum; hann

átti Ásdísi, dóttur Ólafs frá Haukagili; þeirra son var Hallfreðr vandræðaskáld, enn dóttir hans hét Valgerðr, ofláti mikill ok væn at sjá.

17. Nú líða svá stundir fram. Ingimundr gerðist nokkut aldraðr ok helt hann ávalt búrisnu sinni; eigi er hér getit þingdeilda hans, at hann ætti stórmálum at skifta við menn, því at hann var samhuga við flesta ok óágangsamr. Gott var þá mannval víða þar nálægt, þótt hann væri með mestri virðingu, ok helt til þess góðgirnd hans, stórlæti ok vitsmunir. Synir hans vóxu upp ok vóru allir gervilegir með því móti sem fyrr segir. Þess er getit eitt sumar, at skip kom í Húnavatnsós, er norrænir menn áttu; stýrimaðr hét Hrafn; hann var fálátr í skaplyndi, stórr ok ódæll ok mikill af sjálfum sér, (hafði) verit lengi í víkingu ok bjóst mjök at vápnum ok klæðum. Ingimundr var vanr fyrstr manna til skips at koma ok taka af varningi slíkt er honum sýndist, ok enn gerði hann svá, hitti stýrimann at máli, ok lét honheimila vist með sér ef hann vildi. Hrafn kvað ok eigi annat sýnna ok fór hann heim með Ingimundi ok helt hann háttum sínum, var mjök einn um sitt. Fleiri höfðu þar verit með Ingimundi at honum hafði betr við líkat, því at Hrafn var honum eigi fylgjusamr, enn mjök ólíkr. Jafnan hafði hann í hendi gott sverð; oft rendi Ingimundr augum til sverðsins ok eitt sinn

beiddist hann at sjá. Hrafn sagði þess mundu kost. Ingimundr tók við ok brá; eigi þótti honum þá minna um vert, ok spurði ef hann vildi selja. Hrafn kvaðst eigi svo féþurfi at hann seldi vápn ór hendi sér, enn sagði, að bóndi skyldi sjá stað forgiftar sinnar af sér, ok kvaðst þar verit hafa, er hann þurfti vápna við, ok kvað enn mega svá vera. Ingimundr reiddist mjök ok þótti hann vanvirða sik, ok leitaði sér ráðs. Ok einn tíma er hann gekk til hofs síns, stilti hann svá til, at austmaðrinn fór með honum. Ingimundr talar þá til hans hugarlátlega, þat er hann fann at honum var bezt at skapi, hann vildi jafnan ræða um víking sína ok herferðir. Ingimundr gekk inn í hofit fyrir, ok eigi finnr hann fyrr enn Hrafn hleypr inn í hofit með sverðit. Ingimundr snerist at honum ok mælti: „Eigi er þat siðr at bera vápn í hofit, ok muntu verða fyrir goðareiði, ok er slíkt ófært, nema bætr komi fram“. Hrafn svarar: „Hér hefir þú lengi um setit ok ráð til sett, ok ef ek hefi misgert í lögum yðrum, þá ætla ek þat ráð at þú gerir um, því at þú ert kallaðr sannsýnn maðr“. Ingimundr kvað þat vænlegt til bóta at hann sæmdi goðin, enn lét þat helzt at duga, at hann gerði eigi at sjálfvilja sínum, ok því mun eigi jafnmikilla fyrir ván hefndanna, ok kvað þat sannlegast, at hann gæfi sverðit í vald hans, því at hann lézt eiga ok því at stjórna ok mýkja svá

reiði goðanna. Hrafn kvað hann mikit fé annat af sér hafa gert at eigi þætti honum þat betra, — „ok mun þér annat stórmannlegar fara“. Hann fór á brott um sumarit, ok er ór þessi sögu. Þetta sverð áttu þeir feðgar meðan þeir lifðu ok kölluðu Ættartanga. Eyvindr hét maðr ok var kallaðr sörkvir; hann kom út með Ingimundi ok fór utan eitt sumar ok þeir Þórormr; þeir vóru vinir. Ingimundr léði þeim Stíganda, ok kvaðst forvitni á at vita, þótt hann færi eigi sjálfr, hvárt hann kynni skríða. Vingóðr maðr var Ingimundr við alla góða menn. Þeir kvómu út annat sumar í Blönduárósi ok kunnu þat Ingimundi at segja, at skip mátti eigi fríðara vera. Þeir höfðu haft allgóða kaupferð. Eyvindr bjó í Blöndudal, enn Gautr í Gautsdal.

18. Hrolleifr hét maðr ok var kallaðr enn mikli; hann kom út í Hvítá ok móðir hans er Ljót hét; lítt var hon lofuð at skaplyndi, ok ein var hon sér í lýðsku, ok var þat líklegt, því at hon var fám góðum mönnum lík; son hennar var henni mjök líkr í skapsmunum. Hrolleifr var bróðurson Sæmundar, fóstbróður Ingimundar. Þau fóru á fund hans til Skagafjarðar, ok sögðu honum deili á sér, ok sögðu hann frænda sinn. Sæmundr svarar, ok kvaðst eigi mega dylja frændsemi við Hrolleif, — „enn þat er mitt hugboð, at verr sé þér fengit móður enn föður, ok mjök em ek hræddr um at þú sér

meirr í hennar ætt enn föðurfrænda". Hrolleifr kvað sér annat hallkvæmra enn illar getur. Sæmundr kvaðst mundu veita þeim vetrvist. Hrolleifr var allra manna sterkastr ok fór illa með afli sínu; við sér minni menn var hann glettinn ok ágangssamr, ok launaði illu gott með ráði móður sinnar. Hann var illa við Geirmund son Sæmundar, bæði í leikum ok í öðrum hlutum, ok gerðist fæð á með þeim frændum. Eitt sinn mælti Geirmundr til föður sins: „Þessi frændi okkarr leggr fram vistarlaun þau sem hann mun nægst til hafa, enn öðrum sé óhaldkvæm, þat er heitan ok harðyrði með óþyrmilegum meðferðum, hafa sumir hlotit af honum beinbrot eða önnur meiðsl, ok engum hlýðir um at tala". Sæmundr kvað hann víst verr launa vistina, enn stofnat var, —„ok má eigi um þat hræfa lengr". Hrolleifr kvað það skammsamlegt at krikta um smáhluti enn rækja eigi ættmenn sína; — „nenni ek víst eigi at ölmusur sparki í andlit mér". Sæmundr mælti: „Svá muntu kalla, enn meirr hefir þú skapsmuni Ljótar móður þinnar, sem mik grunaði, enn vár frænda. Nú hefir ek hugat þér landakosti ok bústað út á Höfðaströnd fyrir utan Höfða út frá Unadal; væri þat mitt ráð at þú vægðir við þá er þar búa næstir þér, Þórð bónda í Höfða ok Una í Unadal eða aðra bygðarmenn, ok bið þér bygðarleyfis". Hann

kvaðst ætla at hann mundi eigi skríða undir skegg þeim. Hrolleifr fór út í dalinn ok móðir hans ok bjuggu þar; síðan er þar kallaðr Hrolleifsdalr. Þau vinguðust lítt við menn, kómu þar fram hót eða heitan, ok sýndu búum sínum óþokkasvip í öllum búsifjum. Brátt tóku menn at hatast í móti, ok þótti Sæmundr hafa sent þeim ilt rekald. Þeim þótti í fyrstu ógott at mæla í móti, er hann var frændi Sæmundar Enn nú er mönnum tók at kynnast þeirra skaplyndi, vildu menn færa þau í brottu, ok aldri hefði þau komit. Uni var auðigr maðr, ok átti þann son er Oddr hét; hann var vel frumvaxta; dóttir hans hét Hróðný; hon var fríð kona ok vinnugóð. Hrolleifr fór brott á fund Una ok kvað eigi vera mega kátt eða glatt í dalverpi því, þótt menn hefði þat til skemtanar sem mætti, — „nú kalla ek vel sama, sagði hann, "at við festim mágsemd með okkr, ok eiga ek dóttur þína; má vera at þá batni búsifjar várar". Uni kvað hann eigi mundu skaplyndi til þess eiga at fá góðrar konu, — „ok eigi sýnir þú þat af þér, enn dóttir mín er eigi ógiftusamleg kona, ok mun ek synja þér ráðsins". Hrolleifr kvað hann þá þat upp taka, sem óráðlegra var, — „ok skal hon þá vera frilla mín, ok er henni þó fullkosta". Síðan vandi Hrolleifr þangat göngur sínar ok settist á ræður

við Hróðnýju; fór því fram um hríð at óvilja frænda hennar.

19. Þat var eitt sinn at Hrolleifr bjóst heim at fara, at Úni mælti við Odd son sinn: „Eigi sýnist mér meðalatferðarleysi í, er vér höfum eigi at um kvámur þessa manns, ok hættum vér oss meirr á unga aldri, þá er ek börðumst við Kolbein, ok hafða ek hinn hærra hlut, ok er hann höfðingi ok mikils ráðandi, enn sjá gengr einn til at vinna oss ósæmd“. Oddr kvað eigi hóglegt við heljarmann þann enn við fjölkyngi móður hans; — „segja menn at hann hafi kyrtil þann, er eigi bíta vápn á; nú mun ek hitta Hrolleif fyrst“, ok svá gerði hann. Þeir fundust upp á fjallinu milli dalanna. Oddr mælti: „Þat er þér tíðast at ganga jafnan þessa stigu, enn oss þætti betr at þú færir eigi svá upp“. Hrolleifr svarar: „Síðan ek var níu vetra hefir ek jafnan sjálfráði verit ferða minna, ok svá mun enn; skal ek þín orð einkis virða hér um, ok þykki mér sem ekki torfæri sé á leið minni þótt þú lafir á stigum“. Oddr kvað svara mega betr. Hrolleifr kom heim ok sagði móður sinni, at hann mundi nú taka þræl af verki, „ok fari hann með mér húsgöngur, því at þeir taka næsta at amast við mik“. Ljót svarar ok kvað þræl eigi mega þarfara vinna enn fylgja honum, — „ok hirtu eigi um læti þeirra kotkarla ok far í kyrtil þinn þegar þú vilt, ok

vit hversu dugir". Síðan fann Oddr föður sinn, ok sagði, at hann vill finna Sæmund, ok segja honum til málsins. Uni kvað sér illa líka öll frestin þau sem á yrði. Oddr fór á fund Sæmundar ok mælti: „Ill sending hefir komit til vár af þínu tilstilli þar sem er Hrolleifr frændi þinn, ok sitjum vér honum marga svívirðing, ok göngum því eigi frekt at, at hann er þinn frændi". Sæmundr kvað sér þat eigi á óvart koma, — „ok væri eigi illa þótt slíkir menn væri af ráðnir". Oddr kvaðst ætla at honum mundi eigi svá þykkja ef þat yrði gert, enn þar er þó sá maðr er við alla vill ilt eiga, ok virða menn þik til at eigi er at gert". Oddr fór (heim). Uni mælti: „Svá þykki mér sem Hrolleifr láti eigi af sínum ferðum ok þætti mér til þín koma, Oddr frændi, því at þú ert nú maðr ungr ok til alls færr, enn ek em örvasi fyrir aldrs sakir. Nú þótt hann sé harðr maðr, enn móðir hans margkunnig, þá má þó eigi svá búit vera". Oddr svarar ok kvaðst mundu í leita nokkurs. Eitt kveld bjóst Oddr við fimta mann í fyrirsát við Hrolleif, enn þeir fóru tveir saman ok spratt Oddr upp ok mælti: „Nú má vera at stöðvist ferð (þín) at sinni, Hrolleifr; mætti ok verða, at nú settist ilska þín, ok vefist þér um fætr". Hrolleifr kvað enn ósýnt, hverr mest mætti fagna at þeirra skilnaði, þótt þér ét fjölmennari enn ek; ætla ek nú (eigi) illa

þótt einhverjum blæði“. Síðan hlupust þeir at ok börðust. Hrolleifr var harðr maðr ok afrendr at afli; hann hafði ok kyrtil þann er móðir hans hafði gert honum ok eigi festi járn á. Nú er frá því at segja at Oddr vá Ljót, fylgdarmann Hrolleifs, enn gekk síðan mót Hrolleifi, ok mælti: „Illa bíta þik vápnin, ok allskonar er þér illa farit, bæði fjölkunnigr ok þó at öðru illa siðaðr“. Síðan slæmdi Oddr á fót Hrolleifi, ok beit þar er kyrtillinn tók eigi. Þá mælti Oddr: „Eigi hlífði þér nú gerningastakkrinn“. Hrolleifr hjó þá til Odds ok veitti honum banasár, ok annan mann til drap (hann), enn þrír kómu á flótta. Þat var síð um kveld upp frá bæ Una. Hrolleifr kom heim ok sagði móður sinni at þeim hefði illa vegnat, er í mót vóru. Hon lét vel yfir því, at eigi réði búkarlar, eða synir þeirra, ferðum hans, þeir er sætti illyrðum við hann. Hrolleifr kvaðst nú hafa launat Oddi — „þat er hann hrakti mik mest, ok kvað mik at öllu ósamjafnan dugandi mönnum, enn ek spáða honum þat sem nú er fram komit, at vaxa mundi hans svívirðing af okkrum fundi, sem nú gafst honum“.

**20.** Uni fór á fund Höfða-Þórðar ok sagði honum sín vandræði um víg Odds sonar síns, — „ok vilda ek hafa þitt liðsinni at rétta mitt mál; liggr þar ok mjök við þín sæmd, at óeirðarmenn hefist eigi hér í heraði“. Þórðr kvað hann

satt segja, — „ok mikill vandi er oss at hendi kominn, enn þó er Sæmundr skyldastr at leysa óhæfu frænda síns ok færa ór heraði". Síðan fóru þeir á fund Sæmundar, ok báðu hann rétta málit ok sögðu honum eigi sama annat. Sæmundr kvað svá vera skyldu. Var þá tekin upp bygð Hrolleifs ok fór hann til Sæmundar ok móðir hans, enn menn til fengnir búsins. Enn á sættarfundi um várit lukust upp málin, at Uni tók land Hrolleifs at sakabótum enn Hrolleifr gerr heraðssekr svá víða sem vötn fellu til Skagafjarðar. Sæmundr mintist nú á fornt vinfengi þeirra Ingimundar; ok er þeir fundust mælti Sæmundr: „Svá er með vexti, fóstbróðir, at maðr sá er kominn til mín, er eigi þykkir dæll í skaplyndi, enn hann er þó frændi minn ok heitir Hrolleifr. Nú vilda ek, at þú tækir við honum ok við móður hans, ok fáir þeim þar ráðstafa hjá þér". Ingimundr svarar: „Eigi hafa þau góða orðheill ok em ek ófúss at taka við þeim, enn synsemi mun þér í þykkja ok eigi stórmannlegt ef ek synja, enn meðallagi er oss til fallit, því at ek á sonu suma eigi mjök skaphæga". Sæmundr svarar ok kvað hann hamingjudrjúgan vera mundu ok flesta farsælast af honum. Ingimundr lét þat þá reynt, ef hér tækist vel. Síðan fór Hrolleifr til Ingimundar ok móðir hans Ljót með litlum orðstír.

21. Nú vóru þau Hrolleifr með Ingimundi tvá vetr eða þrjá; þau skiftu eigi skapsmunum sínum svá við sonu Ingimundar sem við aðra menn, enn þeir þoldu þat illa, ok einna verst Jökull, því at þeir áttu svá harða ok marga leika at við meiðingar stóð, ok kvað Jökull illa vera sendingina Sæmundar, — „ok sætir þó hófi", segir hann, „ef eigi verðr meira at, ok kvað aldri þann mannfjánda yfir þá skyldu ganga". Engi var munr þeirra á vöxt ok afl, því at hvárrtveggi var ærit sterkr. Ingimundr mælti: „Illa gerir þú, Hrolleifr, er þú stillir eigi skap þitt, ok launar eigi góðu gott; nú sér ek at eigi má svá búit hlýða, ok mun ek fá þér bústað hér yfir í Ási". Hrolleifr kvað sér þat ok eigi óvinveittra, — „enn vera hér við ill-lyndi sona þinna". „Leitt er mér at segja þik afhendan", kvað Ingimundr, „því at þat hefir ek aldri gert, ef ek hefir við manni tekit". Þorsteinn kvaðst ætla at síðar mundi verra. Ingimundr bygði þeim Hrolleifi, ok fekk móður hans bæinn í Ási ok bjuggu þau þar lengi, ok helt Hrolleifr sik í öllu til jafns við sonu Ingimundar. Í þenna tíma kómu út bræðr tveir; hét annarr Hallormr, enn annarr Þórormr ok vóru auðgir menn; þeir vóru með Ingimundi um vetrinn. Hallormr hefr uppi orð sín ok biðr Þórdísar dóttur Ingimundar; honum var vel svarat; kvað Ingimundr at honum mikinn styrk sakir ríkdóms ok var hon honum

gefin. Fylgdi henni heiman Karnesland; þeirra son var Þorgrímr; enn Þórormr bjó í Tungu inni neðri í *Vatns*dal; þar var síðan kölluð Þórormstunga.

22. Þess er getit, at veiðr mikil var í Vatnsdalsá, bæði laxa ok annarra fiska; þeir skiftu með sér verkum bræðr, synir Ingimundar, því at þat var siðr góðra manna barna í þann tíma at hafa nokkura iðn fyrir hendi. At þessu vóru þeir fjórir bræðr, Þorsteinn, Jökull, Þórir ok Högni, enn Smiðr hafðist annat at. Þeir bræðr fara í ána ok fengu mikit af. Hrolleifr hafði venju sína; vóru þat illar búsifjar við alla þá er í nánd vóru; hafði þat ok eigi verit vina ráð, at Ingimundr tók nokkurn tíma við honum. Synir Ingimundar tóku því stórilla er Hrolleifr sat í kostum þeirra enn miðlaði ilt eina í mót, ok kölluðu þat mjök hafa vorðit á fyrir föður sínum at hann tók hann til sín. Þeir áttu veiði allir saman Hofsmenn ok Hrolleifr; enn svá var mælt, at Hrolleifr skyldi hafa veiði, ef eigi kæmi Ingimundar synir til eða þeirra menn, enn at því gaf hann engan gaum, því at hann virði meira vilja sinn ok ranglæti enn hvat skilit var. Ok eitt sinn, er húskarlar Ingimundar kvómu til árinnar, mæltu þeir til Hrolleifs, at hann skyldi rýma netlögin fyrir þeim. Hrolleifr kvaðst mundu gefa at því engan gaum, hvat sem þrælar segði. Þeir svöruðu

ok sögðu honum þat betr sama, at halda eigi til kapps við þá Hofsmenn, ok kvóðu honum þat eigi endast munu, þótt hann kæmi því fram við aðra. Hrolleifr bað þá dragast í brott, vánda þræla, ok hæta sér eigi mönnum. Hann keyrði þá í braut hrakliga ok ómakliga. Þeir sögðu: „Illa gerir þú þat, svá mikils góðs sem Ingimundr er makligr frá þér, þá er hann tók við þér ok gaf þér bæði bú ok veiðina ok mart annat gott, þar er áðr þóttir þú hvergi hæfr meðr dugandi mönnum". Hrolleifr kvað sik eigi skyldan at ganga ór ánni fyrir ilskuþrælum, ok lætr vaða stein til eins þeirra, svo at sá liggr í svíma, ok lét þeim eigi skyldu hlýða at vera allfjölorðir. Þeir kvómu heim er menn sátu yfir borðum. Þeir fóru flaumósa. Ingimundr spyrr, hví þeir fara svá hrapalliga. Þeir kvóðust reknir braut ór ánni með meiðingum ok illum orðum af Hrolleifi. Jökull svarar: „Hann mun vilja gerast Vatnsdælagoði, ok vilja búa við oss sem aðra fyrr, enn þat skal aldri verða at sá manndjöfull kúgi oss". Þorsteinn kvað ofmikit bragð at vera, enn þó vænst at gæta til með stillingu, — „ok var ósynju nokkurn tíma tekit við Hrolleifi". „Mikit er til þess haft", kvað Ingimundr, „enn þó gerið þér svá vel, at þér sættist á, því at þér eigið ójöfnum til at verja; hann er heljarmaðr, ok ván at ilt hljótist af". Jökull kvaðst reyna skyldu, hvárt hann gengi

ór ánni, ok hljóp fram undan borðinu ok út. Ingimundr mælti: „Þorsteinn frændi, þér treysti ek bezt til um alla stilling, ok far þú með bræðrum þínum“. Þorsteinn lézt eigi vita, hversu hægt vera mundi at halda Jökli, — „enn ek mun eigi standa hjá, ef hann berst við Hrolleif“. Ok er þeir kómu at ánni, þá sá þeir at Hrolleifr var í ánni ok veiddi. Þá mælti Jökull: „Dragstu ór ánni, fjándinn, ok dirf þik eigi at þreyta við oss, ok skulum vér nú ellegar reyna með oss til fulls“. Hrolleifr mælti: „Eigi at síðr, þótt þèr sé(t) þrír eða fjórir, mun ek halda minni sýslu fyrir blóti þínu“. Jökull mælti: „Þitt illmenni treystir trollskap móður þinnar, ef þú ætlar að verja oss veiðina einn öllum“. Jökull (réðst þá í ána at honum enn Hrolleifr fór eigi burt). Þorsteinn mælti: „Lát af þrályndi þinni, Hrolleifr, (ok þat mun þér at illu verða), ef vér nám eigi réttu af þér, þá má vera at fleiri gjaldi; dugir eigi at þú gangir yfir menn með rangindum“. Jökull mælti þá: „Drepum mannfjánda þenna“. Þá lét Hrolleifr hefjast at landi þar sem grjót var fyrir ok grýtti at þeim ok þeir í móti um ána þvera, enn sumir skutu, ok varð Hrolleifi eigi skeinusamt. Jökull vill ráðast at honum annars staðar yfir ána, ok kvað eigi meðalskömm í vera, ef þeir bera eigi af honum. Þorsteinn mælti: „Hitt er mitt ráð, að víkjast aftr hing-

at, ok eiga heldr (undir) oss enn ganga í greipr þeim mæðginum, því at ek hygg hana skamt rá hefjast, ok er sem menn reyni sik eigi við dugandi menn, þótt vér eigim við gerningar þeirra". Jökull kvaðst aldri þat hirða, ok leitar at fara, enn bræðr hans grýta ok skjóta á Hrolleif. Nú kom maðr heim til Hofs hlaupandi, ok sagði Ingimundi, at í óefni var komit, ok þeir börðust um ána þvera, — „ok er búi þinn fæstum líkr". Ingimundr mælti: „Búit hest minn, ok vil ek til ríða". Hann var þá gamall ok nær blindr. Hafði hann ok þá af höndum látið öll fjárforráð ok svá bú. Sveinn var honum fenginn til fylgdar. Ingimundr var í blárri kápu. Sveinninn leiddi hestinn undir honum; ok er þeir kómu á árbakkann, þá sjá synir hans hann. Þorsteinn mælti: „Kominn er faðir várr, ok látum hefjast undan, ok mun hann ætla at vér mynim gera vilja hans, enn hræddr em ek um kvómu hans, ok bað nú Jökul hefta sik". Ingimundr reið á ána ok mælti: „Gakk ór ánni, Hrolleifr, ok hygg at hvat þér hæfir". Ok er Hrolleifr sá hann, skaut hann til hans spjóti, ok kom á hann miðjan. Ok er hann fekk lagit, reið hann aftr at bakkanum ok mælti: „Þú sveinn, fylg mér heim". Hann hitti eigi sonu sína; ok er þeir kvómu heim var mjök liðit á aftaninn. Ok er Ingimundr skyldi af baki fara,

þá mælti hann: „Stirðr em ek nú, ok verðum vér lausir á fótum inir gömlu mennirnir“. Ok er sveinninn tók við honum, þá þaut í sárinu. Sá sveinninn þá at spjótit stóð í gegnum hann. Ingimundr mælti: „Þú hefir mér lengi trúr verit, ger nú sem ek býðr þér; meiri ván, at ek krefja þik fás heðan af. Far þú nú ok seg Hrolleifi, at áðr morgin kemr, get ek at synir mínir þykkist eiga þangat at sjá eftir föðurhefndum sem hann er, ok gæti hann svá síns ráðs, at hann fari í braut áðr dagr komi; mín er eigi at betr hefnt þótt hann deyi, enn mér samir at skjóta skjóli yfir þann, er ek hefir áðr á hendr tekizt, meðan ek má mæla, hversu sem síðar ferr“. Hann braut spjótit af skafti, ok gekk inn með fulltingi sveinsins, ok settist í öndvegi sitt, ok bað hann eigi ljós gera áðr synir hans kæmi heim. Sveinninn kom til árinnar ok sá þar laxa marga, er Hrolleifr hafði veitt. Sveinninn mælti: „Þat er sannmælt, at þú ert mesti mannhundr; þú hefir þat gert, at vér munum aldri bætr bíða, veitt Ingimundi bónda bana, ok bað hann mik svá segja þér, at þú skyldir eigi morgins heima bíða, ok kvaðst þat ætla, at synir hans mundi til þín eiga eftir föðurhefndum at leita, ok gerða ek þetta meir at bæn hans, enn hitt at þú værir mér svá sparr undir öxi þeirra bræðra“. Hrolleifr svarar: „Ek trúi því er þú segir, enn eigi

skyldir þú heðan heill fara, ef þú hefðir eigi þessi tíðindi sagt“.

23. Nú er þat at segja frá Ingimundar sonum, at þeir fóru heim um kveldit, ok ræddu með sér at Hrolleifr væri endemismaðr. Þorsteinn mælti: „Enn vitum vér eigi gerla hversu ilt vér munum af honum hlotit hafa, ok segir mér eigi létt hugr um ferð föður várs“. Þeir kómu heim, ok gekk Þorsteinn í eldaskálann, ok stakk niðr hendinni, er hann hrataði, ok mælti: „Hví er vátt, húsfreyja?“ Hon svarar: „Þat ætla ek at runnit muni hafa úr klæðum Ingimundar bónda“. Þorsteinn svarar: „Þetta er hált sem blóð, ok kveykit ljós skjótt, ok svá var gert“. Sat þá Ingimundr í öndvegi sínu ok var dauðr; stóð þar spjótit í gegnum hann. Jökull mælti: „Allilt er slíkt at vita um svá göfgan mann, at slíkt illmenni skal hafa honum at bana orðit, ok förum þegar ok drepum hann“. Þorsteinn mælti: „Eigi kantu góðgirnd föður várs, ef hann hefir honum eigi undan skotit, eða hvar er sveinn sá er honum fylgdi?“ Nú sást hann eigi. Þorsteinn mælti: „Eigi get ek nú Hrolleifs heima at vænta, ok munum vér með ráðum verða hans at leita, enn eigi með áhlaupum, enn við þat megum vér huggast at mikill manna munr er orðinn með þeim Hrolleifi, ok njóta mun faðir minn þess frá þeim er sólina hefir skapt ok allan heiminn, hverr sem

sá er. Enn þat má vita, at þat mun nokkurr gert hafa". Jökull var svá óðr at varla fengu þeir stilt hann. Í því bili kom inn sveinninn ok sagði sitt erindi. Jökull kvað það óþurft. Þorsteinn mælti: „Eigi er hann um at kunna, því (at) hann gerði sem faðir várr vildi". Ingimundr var lagðr í bátinn frá skipinu Stíganda ok búit um virðulega sem þá var siðr um tígna menn. Þetta spurðist nú víða, ok þótti, sem var, mikil tíðindi ok ill. Þorsteinn mælti við bræðr sína: „Þat sýnist mér ráð, at vér setimst eigi í sæti föður várs, hvárki heima né í mannboðum, meðan hans er óhefnt", — ok svá gerðu þeir, ok sóttu lítt til leika eða mannfundi. Enn er Eyvindr sörkvir frá þetta, þá mælti hann við fóstrson sinn: „Far þú ok seg Gauti vin mínum, hvat ek tek til, ok slíkt þætti mér honum til liggja". Síðan brá hann saxi undan skikkju sinni, ok lét fallast á ofan, ok dó svá. Ok er Gautr spyrr þetta, mælti hann: „Er-at vinum líft Ingimundar, ok skal neyta góðs bragðs Eyvindar vinar míns", — ok brá saxi fyrir brjóst sér, ok drap sik. Hermundr hét son hans Eyvindar ok Hrómundr hinn halti, er síðarr verðr getið.

24. Látum þar nú fyrst líða um, enn segjum nokkut frá Hrolleifi; hann hittir móður sína, ok segir henni tíðindin; hon kvað engan komast yfir skapadægr sitt; kvað Ingimund hafa lengi aldrs notið; — „er þat mitt ráð", segir hon,

„at þú farir á brott fyrst, því at blóðnætr eru bráðastar; vitja þá hingat er mér þætti vænst, at nokkut yrði af framkvæmd um mína ráðagerð, enn eigi sé ek þar á milli, hvárt drjúgara verðr, vitsmunir Þorsteins ok gifta, eða brögð mín“. Síðan fór Hrolleifr norðr til Skagafjarðar ok kom í Sæmundarhlíð, ok var Sæmundr þá andaðr; enn Geirmundr réð þá fyrir eignum; bróðir hans hét Arnaldr. Geirmundr spyrr tíðinda. Hrolleifr kvaðst segja líflát Ingimundar bónda frá Hofi. Geirmundr svarar: „Þar fór nýtr maðr, eða hvat varð honum at bana? Hrolleifr sagði: „Hann var hafðr at skotspæni“, — ok sagði síðan allan atburðinn. Geirmundr svarar: „Þat sé ek, at þú ert hinn versti óhappamaðr, ok far á brottu, hin vánda mannfýla, ok kom hér aldri“. Hann kvaðst hvergi fara mundu, — „ok skal ek hér drepinn þér til svívirðingar, ok man ek þat enn, at faðir minn fell í liði föður þíns ok Ingimundar, ok hefir þat af þér hlotizt ok þínum mönnum“. Geirmundr kvað þat dugandi menn henda at falla í bardögum, — „ok fram mun ek þik selja, þegar er Ingimundarsynir koma“. Honum kvaðst þess at ván eða annars verra. Hann var þar á laun í gervibúri. Ingimundarsynir vóru heima um vetrinn, ok sátu á hinn óæðra bekk ok fóru til engra leika eða þings, ok vóru mjök ókátir. Ok er skamt var til sumars, þá heimti

Þorsteinn bræðr sína á mál ok mælti: „Öllum oss ætla ek þat einn veg gefit, at mál mundi þykkja at leita um föðurhefnd, enn eigi er þat allauðsóttlegt; sýnist mér þat ráð, at sá er ráðleitni hefir til eftir at leita, at sá skal kjósa einn kostgrip af eigu várri“. Þeir kvóðust þat vilja, — „ok ertu bezt til fallinn af oss sakir vitsmuna“.

25. Einn morgin var Þorsteinn snemma á fótum ok mælti til bræðra sinna: „Nú skulum vér búast norðr til heraða, hvat sem fyrir starf kemr“. Þeir vóru saman fimm bræðr, ok eigi fleiri menn. Þeir kvómu at kveldi eins dags til Geirmundar, ok tók hann allvel við þeim, ok vóru þar um nóttina í góðum beinleika, enn um morgininn mælti Þorsteinn við bræðr sína: „Nú skulu þér, bræðr, vera at tafli í dag, enn ek skal tala við Geirmund“. Þeir gerðu svá Þorsteinn mælti til Geirmundar: „Því erum vér bræðr hér komnir, at vér leitum eftir Hrolleifi, er vér hyggjum hér vera með þér, ertu ok mjök skyldr til að veita oss, þar sem þér senduð feðr várum þann mannfóla, er svá mikit ilt hefir at hlotizt, þótt þat sé eigi at yðrum vilja; á hann ok enga góða frændr, nema þik einn“. Geirmundr svarar: „Alt er slíkt satt, ok er vitrlega eftir leitat, enn eigi er Hrolleifr hér nú“. Þorsteinn mælti: „Hitt ætla ek sannara, at hann siti í útibúri þínu;

tak nú hér hundrað silfrs ok lát hann á brott, ok skal ek svá til stilla, at hann sé eigi hér tekinn á þínum varnaði, svá at þér sé þat lagit til ámælis, enn vér munum þó eftir honum leita, þó at föður várs sé eigi at hefndra; seg honum at þú þykkist eigi traust til hafa at halda hann fyrir oss, ok sitja fyrir fjándskap várum, enn ella hafa vináttu (vára)". Geirmundr svarar: „Nú skal ok við ganga at hann er hér, ok virði nú hverr sem vill; mun ek svá gera, sem þú leggr ráð til, ok segja honum at fara á burt, ok leitið þér þá eftir honum, er hann (er) eigi hjá mér". „Svá skal vera" segir Þorsteinn. Geirmundr hitti nú Hrolleif ok mælti: „Nú eru hér komnir Ingimundarsynir, ok leita eftir þér; mun nú eigi verða vist þín lengr hér með mér, því at ek vil eigi leggja mik í hættu fyrir þik eða fé mitt, við málaefni þín ill, enn þeir bræðr eru bæði ráðugir ok atgöngumiklir". Hrolleifr svarar: „Þess var ván, at þér mundi klækilega verða, ok hafðu alla óþökk fyrir þína liðveizlu, ok verð á brottu skjótt". Geirmundr mælti: „Þat mun ek gera". Síðan hitti hann Þorstein (ok segir:) „Þat þykki mér bezt til mín gert, at þér hrapit at engu, ok sitið hér í dag". Hann kvað svá vera skyldu. Bjuggust síðan annan dag, ok fór(u) vestr yfir skörðin, enn þeyr hafði á verit, ok sá manns sporin í snjónum. Þá mælti

Þorsteinn: „Nú skulu vér niðr setjast ok mun ek segja yðr viðtal okkar Geirmundar. Ek varð varr at Hrolleifr var þar". Jökull mælti: „Þú ert kynlegr maðr, vildir sitja kyrr, enn föðurbani þinn sat hjá þér; ef ek hefða vitat þat, þá mundi eigi kyrt með öllu verit hafa". Þorsteinn kvað þat eigi örvænt, — „enn þat samir betr, at gera Geirmund eigi beran at þessu; nú skulum vér fara fullum dagleiðum, ok vita ef vér kæmim eigi síðar vestr enn hann, því at heim munu liggja spor hans, ok nú mun Ljót, móðir hans, blóta í mót sumri, sem hon er vön at þeirra sið, enn þá mun eigi fram koma hefndin, ef áðr er framit blótit". Jökull mælti: „Skyndum þá". Hann var þá fremstr á stígum af öllum þeim. Þá leit hann aftr ok mælti: „Ilt er þeim mönnum, er ölmusur eru at vexti ok fráleik, sem er Þorsteinn, bróðir minn, ok mun nú draga ór höndum hefndina, er vér komumst hvergi". Þorsteinn svarar: „Eigi er enn sýnt at minna megi tillög mín ok ráðagerðir, enn áhlaup þín óvit(r)leg". Síð um aftaninn kómu þeir ofan at bænum at Hofi, ok sátu menn undir borðum.

26. Þorsteinn hitti úti smalamann sinn ok mælti: „Far þú í Ás ok drep á dyrr, ok hygg at hversu skjótt er til hurðar gengit, ok kveð meðan vísu; gef þér þat til erendis at spyrja at sauðum, ok spurðr muntu vera hvárt vér

sém heim komnir, enn þú skalt segja at vér sém eigi heim komnir". Sauðamaðr fór ok kom í Ás ok drap á dyrr, ok var eigi fyrr til gengit, enn hann hafði kveðit tólf vísur. Þá kom húskarl út ok spurði tíðinda, eða hvárt þeir bræðr væri heim komnir; hann kvað þá eigi heim komna, ok spurði at sauðum sínum. Hann kvað þá eigi þar komna. Sauðamaðr fór aftr ok sagði Þorsteini, hve margar vísur hann hafði kveðit. Þorsteinn kvað hann úti hafa staðit þá stund, at mart mátti athafast inni á meðan; eða komtu nokkut inn? Hann kvaðst ganga inn ok skygnast um. Þorsteinn spurði: „Var bjartr eldr á arni eða eigi?" Hann svarar: „Svá nokkut sem fyrir litlu hefði verit kveyktr". Þorsteinn mælti: „Sáttu nokkra nýlundu í húsinu?" Hann kvaðst sét hafa hrúgu eina mikla, ok koma undan fram rautt klæði. Þorsteinn mælti: „Þar muntu sét hafa Hrolleif ok blótklæði hans; nú mun þangat eftir at leita; búumst nú skjótt, ok hættum á hvat gerir". Þeir fóru ok kvómu í Ás, ok var ekki manna úti. Þeir sá hlaðit skíðum á húsvegginn tveim megin mænis. Þeir sá hús standa lítit fyrir dyrum, ok hlið í milli ok heimadyranna. Þorsteinn mælti: „Þetta mun vera blóthús, ok mun Hrolleifi hingat ætlat, þá hon hefir fullgert sitt efni ok allan sinn fjándskap, enn mér er minna um þat; nú gangit þér í krókinn hjá

húsinu, enn ek mun sitja yfir dyrum uppi ok hafa kefli í hendi; enn ef Hrolleifr gengr út, þá mun ek kasta keflinu til yðar, ok hlaupit þér þá til mín“. Jökull mælti: „Auðsét er þat, bróðir, at þú vilt virðing af þessu hafa, sem öllu öðru, enn ek vil eigi þat, ok mun ek sitja við keflit“. „Þorsteinn mælti: „Þú munt ráða vilja, þó eigi sé svá betr, því at mér þykki þú ráðinn til nokkurra slysa“. Jökull settist í skíðahlaðann, ok vánu bráðara kom út maðr ok kagaði hjá dyrum, ok sá eigi mennina, er komnir vóru. Þá kom út maðr annarr ok hinn þriði, ok var þat Hrolleifr. Jökull kendi hann gerla, ok vazt við hart ok fell skíðahlaðinn, ok þó gat hann kastat keflinu til bræðra sinna, ok hljóp ofan af húsinu ok gat þrifit Hrolleif, svá at honum gafst eigi undanrásin. Engi var þeirra aflamunr, ok ultu báðir ofan fyrir brekkuna, ok lágu ýmsir undir; ok er þeir bræðr kvómu at, mælti Högni: „Hvat fjánda ferr hér at oss, er ek veit eigi hvat?“ Þorsteinn svarar: „Þar ferr Ljót kerling ok hefir breytilega um búit“; hon hafði rekit fötin fram yfir höfuð sér, ok fór öfug, ok rétti höfuðit aftr milli fótanna; ófagrlegt var hennar augnabragð, hversu hon gat þeim trollslega skotið. Þorsteinn mælti til Jökuls: „Dreptu nú Hrolleif, þess hefir þú lengi fúss verit“. Jökull svarar: „Þess em ek nú albúinn“. Hjó hann

þá af honum höfuðit, ok bað hann aldri þrífast. „Já! já!“ sagði Ljót, — „nú lagði allnær, at ek munda vel geta hefnt Hrolleifs sonar míns, ok eru þeir Ingimundarsynir giftumenn miklir“. Þorsteinn svarar: „Hvat er nú helzt til marks um þat“. Hon kveðst hafa ætlat at snúa þar um landslagi öllu, — „enn þér ærðist allir ok yrðið at gjalti eftir á vegum úti með villudýrum, ok svá mundi ok gengit hafa, ef þér hefðið mik eigi fyrr sét enn ek yðr“. Þorsteinn kvað þess ván at hamingja skifti með þeim. Síðan dó Ljót kerling í móð sínum ok trolldómi, ok eru þau ór þessi sögu.

27. Eftir dráp þeirra Hrolleifs ok Ljótar fóru þeir bræðr heim, ok urðu menn þeim fegnir. Nokkuru síðar mælti Þorsteinn við bræðr sína: „Nú þykkjumst ek kominn til at kjósa kostgrip einhvern af eigu várri“. Þeir játtuðu því. „Þá kýs ek bæinn at Hofi ok landit með búinu“. Þeir kváðu þat varla einn grip vera ok þótti freklega áhorfast. Þorsteinn kvað alt saman eiga at fara land ok bú; — „enn þótt yðr þykki þetta nokkut freklega horfa, þá er á hitt at líta, at vár virðing mun þá mest, at vér sém sem sáttastir, ok hitt annat, at ek sjái sem helzt fyrir; eru hér ok fleiri kostgripir ok ann ek (yðr) þeirra allvel“. Var þá lagit til skiftis; hlaut Högni skipit Stíganda, því (at) hann var farmaðr. Þórir hafrsþjó hlaut goðorðit,

enn Jökull Ættartanga; hann hafði sverðit á leikmótum ok hestaþingum, enn Þorsteinn bar hann á leiðum ok lögmótum, því at Jökull vildi at svá væri. Þórir mælti ok slíkum orðum, þótt hann ætti goðorðit, at hann unni Þorsteini bezt allra virðinga af málaferlum. Þorsteinn mælti: „Þat er mér auðsætt, at þér bræðr mínir vilið mér í öllu sæmdar leita, enn þótt ek hafa kosit mér bústað, þá ann ek yðr þó fjár fyrir; nú þykki mér ráð at vér færim sess várn í öndvegi föður várs“, ok svá gerðu þeir. Þorsteinn gerðist höfðingi yfir Vatnsdælum ok Vestrhópi, ok öllum þeim sveitum sem Ingimundr faðir hans hafði haft. Þorsteinn átti þá konu, er Þuríðr gyðja hét ok var Sölmundardóttir Guðmundarsonar; hann var faðir Víga-Barða. Þótti þá virðingarvænlegt at tengjast við Vatnsdæla. Jökull bjó í Tungu, enn Smiðr á Smiðsstöðum. Þórir hafrsþjó at Nautabúi; þat heitir nú at Undunfelli.

28. Nú skal segja frá þeim manni, er fyrr var nefndr, er hét Þórólfr sleggja; hann gerðist hinn mesti óspektarmaðr, bæði var hann þjófr, ok þó um annat stórilla fallinn; þótti mönnum með stórmeinum hans bygð ok einkis ills örvænt fyrir honum; ok þótt hann hefði eigi fjölmenni hjá sér, þá átti hann þá hluti, er hann vænti trausts at, þat vóru tuttugu kettir; þeir vóru ákaflega stórir, ok allir svartir ok mjök

tryldir. Fóru menn nú til Þorsteins, ok sögðu honum sín vandræði, ok létu til hans koma um alla heraðsstjórn, ok sögðu Þórólf frá mörgum stolit hafa, ok gert þó mart ómannlegt annat. Þorsteinn kvað þá satt segja, — „enn eigi er allhægt við heljarmanninn at eiga, ok við köttu hans, ok þar til spari ek alla mína menn. Þeir sögðu hann varla mega halda sæmd sinni, ef eigi væri at gert. Eftir þetta safnaði Þorsteinn mönnum ok vildi undir sér eiga fyrir mannfjölda sakir. Með honum vóru bræðr hans allir ok austmaðr hans. Þeir fóru á Sleggjustaði. Þórólfr gaf sér eigi at; aldri mátti hann góða menn með sér hafa. Hann gekk inn er hann sá mannareiðina, ok mælti: „Nú er við gestum at taka, ok ætla er þar til köttu mína, ok mun ek setja þá alla í dyrr út, ok mun seint ráðast inngangan, ef þeir verja dyrnar“. Síðan magnaði hann þá mjök, ok vóru þeir þá stórum illilegir með emjun ok augnaskotum. Jökull mælti við Þorstein: „Nú tóktu gott ráð, at þú lézt eigi sitja mannfjánda þenna lengr kyrran“. Þeir vóru átján menn. Þórólfr mælti: „Nú skal eld gera, ok hirði ek eigi þótt reykr fylgi, því at kváma Vatnsdæla mun eigi vera friðsamleg“. Hann lét ketil yfir eld ok bar undir ull ok hverskonar harka, ok var fult húsit af reyk. Þorsteinn kom at dyrum ok mælti: „Útgöngu beiðum vér þik, Þórólfr“.

Hann kvaðst ætla at þat eitt mundi erindi þeirra, at eigi væri vingjarnlegt. Þá tóku kettirnir þegar at amra ok illa láta. Þorsteinn mælti: „Þetta er ill sveit". Jökull svarar: „Göngum inn at þeim, ok hirðum eigi um köttu þessa". Þorsteinn kvað þat eigi skyldu, — „því at meiri ván er, at vér haldim eigi liði váru heilu með öllu saman, köttunum ok vápnum Þórólfs, því at hann er garpr mikill, ok þætti mér betra, at hann gæfi sik upp sjálfr ok gengi út, því at meira efni hefir hann til eldingar, enn honum megi vel eira inni at vera". Þórólfr reiddi ketilinn af eldinum, enn feldi á ullarhlaðann, ok lagði út remmuna, svá at þeir Þorsteinn máttu eigi vera allnær dyrunum. Hann mælti þá: „Varizt þér köttuna, at þeir hremsi yðr eigi, ok fleygjum eldinum upp at húsunum". Jökull þreif einn eldibrand mikinn, ok fleygði upp at dyrunum, enn kettirnir hörfuðu undan, ok fell hurðin við þat aftr. Veðrit stóð á húsin, enn bálit tók at vaxa. Þorsteinn mælti: „Stöndum út við garðinn, þar er reykrinn er mestr, ok sjám þá hvat hann taki til, því at meira efni hefir hann til um eldsgerð, enn þat megi honum lengi duga"; varð Þorsteinn þess ok nærgætr; hljóp Þórólfr þá út með kistur tvær fullar af silfri, ok fór með reyknum, ok þá er hann kom út, var þar fyrir austmaðrinn ok mælti: „Hér ferr nú fjándinn, ok er nú ills-

legr“. Austmaðrinn hljóp eftir honum ofan til Vatnsdalsár. Þórólfr kom þar at, er vóru augu djúp eða fen. Þórólfr snerist þá í mót honum, ok greip til hans ok brá honum undir hönd sér ok mælti: „Til rásar kostar þú nú, ok förum at því báðir saman“, — ok hljóp í fenit, ok sukku svá at hvárrgi kom upp. Þorsteinn mælti: „Stórilla hefir nú tekizt, er austmaðr minn hefir týnzt, enn þat mun bóta, at endast mun fé Þórólfs at bæta hann“, ok svá var gert. Þar heita síðan Sleggjustaðir, er Þórólfr hafði búit, ok sást jafnan kettir, ok ilt þótti þar oftlega síðan. Sjá bær er ofan frá Helgavatni.

29. Már Jörundarson færði bú sitt af Grund á Másstaði; góð var frændsemi með þeim Ingimundarsonum. Þat var til tíðinda eitt haust, at Máv(i) hurfu sauðir nokkurir, ok var víða leitat ok fundust eigi. Þorgrímr hét maðr, ok var kallaðr skinnhúfa; hann bjó á Hjallalandi; hann var fjölkunnigr mjök ok þó at öðru illa. Var nú orðræða mikil um sauðahvörfin ok þótti dalrinn víðast vel skipaðr. Eitt kveld er sauðamaðr kom heim, spurði Már tíðinda; hann sagði at sauðir hans vóru fundnir, ok hafði engi illr at vorðit, — „enn þó fylgir annat meira. Land hefir ek fundit í skógum ok er ágæta jörð góð ok hafa sauðirnir þar verit, ok eru allvel holdir“. Már spurði: „Hvárt er þat í mínu landi eða annarra“; hann kvaðst ætla at honum mundi

berast, — „enn þó liggja við lönd Ingimundarsona; má ok ór þínu landi at eins í ganga". Már sá landskostinn, ok þótti góðr ok eignaði sér. Þorgrímr kvaðst ætla, at þeir mundi haldit fá landinu fyrir Ingimundarsonum. Þorsteinn spyrr þetta ok mælti: „Mjök þykki mér Már frændi minn bera sinn sann á þetta ok unna oss varla laga". Litlu eftir þat hitti Jökull Þorstein bróður sinn, ok varð þeim talat mart, ok sagði Jökull þat mikil fyrn, ef menn skyldu ræna þá þar í dalnum, — „ok dregst sú mannfýla mjök óþarfi til, hann Þorgrímr skinnhúfa, at reita oss, ok væri hæfilegt at hann tæki gjöld fyrir". Þorsteinn kvað hann eigi sparnaðarmann, — „enn eigi veit ek hvárt hann er svá þegar upp næmdr". Þorsteinn bað at þeir færi á fund Þorgríms. Jökull kvaðst þess albúinn; ok er Þorgrímr varð þess varr, fór hann ok hitti Má; þeir kvöddust vel. Þorgrímr lézt kominn af hlaupi, — „ok munu Ingimundarsynir hér koma". Már spurði hvat hann vissi til þess. Þorgrímr svarar: „Þeir eru nú á ferð komnir til bæjar míns, ok vilja drepa mik, ok mun þat jafnan sýnast, at ek veit fleira enn aðrir menn". Ok er þeir kvómu á bæinn, mælti Þorsteinn: „Hér eigum vér við hrekkvísan um, er Þorgrímr er, því at hann mun eigi heima vera". Jökull mælti: „Gerum hér þó nokkut ilt". Þorsteinn kvaðst þat eigi vilja; — „nenni ek eigi

at þat sé mælt, at vér takim upp fé hans enn fáim eigi veitt hann sjálfan“, ok fóru heim við svá búit. Eitt sinn mælti Þorsteinn enn til bræðra sinna: „Forvitni væri mér á at freista, at vér gætim fundit Þorgrím“. „Nú em ek ok albúinn“, sagði Jökull. Enn fór Þorgrímr at hitta Má, ok mælti: „Enn eru þeir eigi afhuga við mik Ingimundarsynir; vilda ek, at þú færir nú heim með mér, ok skulu þeir þat sanna, at ek þori at bíða þeirra heima“. Már fór þangat. Þá riðu ok at garði Ingimundarsynir, ok fundust þeir í túni. Þorsteinn mælti: „Eigi ferr þannveg frændsemi vár, Már, sem skyldi; vilda ek at hvárir vægði til við aðra, enn þú settir eigi niðr vandræðamenn þá er bægjast vilja við oss“. Már kvað þá sýna af sér óvingjarnlegar heimsóknir, ok lézt eigi mundu láta sinn hlut fyrir þeim. Jökull kvað ok einsætt, at þeir reyndu þá með sér. Þorsteinn kvaðst tregr til vandræða við frændr sína, — „enn þó er eigi örvænt at þar komi, ef vér náim eigi réttindum“. Þeir fóru á brott, því (at) þeir máttu eigi ná Þorgrími fyrir fjölkyngi hans enn mótgangi Más, ok var annattveggja, at Þorgrímr hvarf af bæ sínum eða Már sat þar við fjölmenni, ok stóð þetta mál svo nokkura hríð. Í þenna tíma kom út Högni Ingimundarson með skip sitt Stíganda ok var með Þorsteini um vetrinn, ok sagði frá ferðum sín-

um merkilega meðan hann hafði utan verit; svá ok þat, at hann hafði eigi skip reynt jafngott Stíganda. Mikill orðrómr gerðist á um heraðit um málaferli þeirra frænda. Jökull hitti oft Þorstein bróður sinn ok kvað hann enn undan vilja (láta) við Má. Þorsteinn svarar: „Svá hefir verit til þessa, enn þó munu vér nú sitja um Þorgrím, ok segir mér þó í meðallagi hugr um". Þeir bjuggust heiman bræðr einn dag, ok vóru hálfr þriði tugr manna; vóru þeir bræðr fimm. Þá mælti Þorgrímr: „Nú eru ils efni í; þeir munu hér koma brátt Ingimundarsynir"; hann hljóp út ok tók klæði sín áðr. Hann hitti Má ok sagði at þá væri Ingimundarsynir á ferð, — „ok munu oss ætla með grimmum hug at fá, ok er nú ráð at búast við, ok leiða þeim hlaup þeirra". Már safnaði mönnum. Hrómundr son Eyvindar sörkvis, kappi mikill, hann átti dóttur Más, hann var þar á búi; hann kvað einsætt at þeir reyndi þá með sér. Þeir urðu alls ellifu manna, ok umfram tveir systursynir Más, ungir menn ok vænlegir. Þorgrímr mælti: „Þat er ráð at fara í mót Ingimundarsonum", ok svá var gert. Þorsteinn sá þat ok mælti: „Nú mun oss gefa til at reyna oss, ok þykki mér nú ráð, at hverr gefist eftir efnum". Jökull brá þá Ættartanga, ok kvaðst allgott til hyggja, at reyna hann í hálsum manna Más. Þeir fundust á Karnsnesi.

Þorgrímr segir Mávi, at hann mundi felast — „ok má þó vera, at ek sé eigi óþarfari enn þótt ek standa hjá yðr, enn ek trúi mér eigi til framgöngu“. Már svarar engu. Tókst síðan bardagi, ok er hann hafði gengit um hríð, mælti Jökull: „Eigi hæli ek bitinu hans Ættartanga“. Þorsteinn svarar: „Slík dæmi eru með oss, ok verðr nú várum mönnum skeinisamt“. Jökull var fremstr af öllum ok hjó til beggja handa. Maðrinn var afrendr at afli, enn hinn mesti fullhugi; hann hjó svá at lamdist fyrir enn eigi beit. Jökull mælti: „Ertu nú heillum horfinn, Ættartangi, eða hvat?“ Þorsteinn svarar: „Ok svá sýnist mér sem þeir standi upp, er ek hefir höggit, eða sjái þér nokkut Þorgrím?“ Þeir kvóðust eigi hann sjá. Þorsteinn bað Jökul þá víkja frá orrostunni, ok vita hvárt þeir sæi hann eigi, — „enn þú, Högni frændi, halt upp meðan bardaganum“. Hann kvaðst svá gera mundu. Síðan leituðu þeir hans. Jökull mælti: „Ek sé hvar fjándinn kemr upp“. Þorsteinn mælti: „Þar liggr nú grenskollinn, ok í því koglaði hann til þeirra þaðan sem hann lá; þat var við ána. Jökull hljóp eftir honum ok báðir þeir bræðr. Þorgrímr hljóp undan til árinnar. Jökull komst svá nær, at sverðit tók til hans, ok af þat er nam, enn þat vóru þnjónapparnir báðir alt við bakhlut. Þar heitir síðan Húfuhylr, er hann hljóp á kaf. Jökull

mælti: „Beit nú Ættartangi“. Þorsteinn svarar: „Svá get ek at heðan af sé“. — Þess verðr nú at geta síðan hvat tíðinda varð í bardaganum. Hrómundr gekk fast fram í mót Högna, ok áttust þeir hart höggvaskifti við; lauk svá þeirra skifti, at Högni fell fyrir Hrómundi, ok í því kom Jökull at, ok tók þá í annat sinn æsing sinn inn mikla; sótti þá at Hrómundi með ákafa; skorti þá eigi at sverðit beit, bæði hans ok annarra. Hann hjó á fót Hrómundi, ok veitti honum svá mikil sár at hann var alla ævi síðan örkumlaðr, ok hét Hrómundr halti. Þar fellu systursynir Más. Ok nú er svá er komit bardaganum, þá sá menn af bæjum fund þeirra, ok fóru til at skilja þá; var þar fyrstr Þorgrímr at Karnsá, ok aðrir bændr, hann var frændi Ingimundarsona; vóru þeir þá skildir, ok var sárt mart, enn allir mæddir. Þorgrímr mælti: „Þú, Már, hefir sýnt þrályndi mikla við þá bræðr í mótgangi, enn þeir eru eigi þínir líkar við at eiga; er þat nú mitt ráð, at þú vægir til við þá, ok selir Þorsteini sjálfdæmi“. Hann kvað þetta heilræði, ok sættust at þessu. Þorsteinn kvaðst eigi mundu gerð upp lúka fyrr enn á nokkuru lögþingi. Fóru menn nú heim af þessum fundi. Ok er þat þing kom, er Þorsteinn vildi gerð upp lúka, fjölmentu þeir mjök Hofverjar. Þorsteinn mælti þá: „Þat er flestum mönnum kunnigt hér um

sveitir, hversu fór um fund várn Más frænda várs, ok svá hitt, at þat mál er undir mik komit. Er þat nú gerð mín, at jafnt skal víg Högna bróður míns ok ákvámur þær, er fengu menn Más, smár ok stórar. Hrómundr skal sekr vera milli Hrútafjarðarár ok Jökulsár í Skagafirði fyrir víg Högna, enn hafa ekki fyrir örkuml sín. Már skal eiga Hjallaland, því at ór hans landi at eins má upp ganga, enn gjalda oss bræðrum hundrað silfrs. Þorgrímr skinnhúfa skal eigi hafa fyrir sína ákvámu, ok er hann þó verra verðr. Síðan fóru menn heim, ok vóru sáttir at þessu. Skinnhúfa fór í brott ór heraði, ok kom niðr norðr á Melrakkasléttu ok var þar til dauðadags. Þorsteinn átti tvá sonu; hét annarr Ingólfr, hann var manna vænstr, annarr hét Guðbrandr, hann var ok fríðr maðr. Jórunni dóttur Ingimundar átti Ásgeirr æðikollr, faðir Kálfs ok Hrefnu, er átti Kjartan Óláfsson, ok Þorbjargar, er kölluð var bæjarbót.

30. Frá Þórólfi heljarskinn er þat at segja, at hann bjó fyrst í Forsæludal, ok var illa kendr af mönnum. Þorsteinn frá Hofi kom til hans, ok kvaðst eigi vilja bygð hans þar, — „nema þú takir annan hátt, enn þú hefir áðr, ella munu vér eigi láta kyrt vera“. — Þórólfr kvað þat vænzt at Þorsteinn réði því hvárt hann byggi þar eða eigi, — „enn sjálfr mun ek ráða háttum mínum“. Síðan færði hann bú sitt, ok gerði sér

virki suðr við Friðmundará. Þórólfr lagðist at fé manna, ok gerðist hinn mesti þjófr; hann átti ok blótgrafir, því at menn hugðu at hann blótaði bæði mönnum og fé. Ilt varð honum til eftirgöngu manna þeirra er góðir vóru, enn þó vóru þeir níu saman þá er þeir vóru flestir, allir hans jamningjar eða verri. Ok er þeir spurðu at Þorsteinn ætlaði at gera til þeirra, flýðu sumir ór virkinu, ok vildu eigi bíða. Heraðsmenn hittu Þorstein, ok báðu hann þenna mann af taka, er svá var illr í bygðarlagi, at menn máttu eigi um tæla eða við búa. Hann kvað þá satt mæla; sendi síðan eftir bræðrum sínum Jökli ok Þóri. Á Þóri kom stundum berserksgangr; þótti þat þá með stórum meinum um þvílíkan mann, því at honum varð þat at engum frama. Jökull mælti til Þorsteins: „Vel gerir þú þat, at þú lætr hér í dalnum engi illmenni fá nokkura uppreist". Síðan fóru þeir nítján saman, ok er þeir sá virki Þórólfs, mælti Þorsteinn: „Eigi veit ek, hversu vér fám at sótt virkinu fyrir árgljúfrum þessum". Jökull svarar: „Þetta er engi torveldi, ok mun ek gefa hér ráð til. Þú, Þorsteinn, ok menn með þér skulið skjóta at þeim ok glettast við þá, enn ek mun fara upp með ánni við fá menn, ok vita, ef ek mætta komast á bak þeim í virkit, ok ætti þeir þá við hvárumtveggjum at sjá". Þorsteinn kvað þat hættuferð mikla. Jökull fór

þá upp með ánni við fá menn. Þeir Þórólfr sá eigi þat, ok bað þá sína menn vel gefast, — „enn þó hafa þeir bræðr rammar fylgjur; leitu vér þá til leyna várra ef at oss ekr“. Jökull komst yfir ána fyrir ofan virkit; hann hafði í hendi öxi mikla, er hann átti; síðan komst hann at virkinu, ok gat krækt öxinni upp á virkit, ok las sik síðan eftir skaftinu, ok komst svá í virkit; hann fór snyðjandi at leita Þórólfs, ok varð hann eigi fyrir augum. Jökull gat þá at líta hvar Þórólfr kom upp ór blótgröf sinni, ok hljóp ór virkinu, enn Jökull eftir honum. Menn Jökuls leita at förunautum Þórólfs, ok eru þar eltingar miklar. Þá var Þórólfr kominn á mýri nokkura upp með ánni, enn Jökull sótti eftir. Enn er Þórólfr sá at hann mundi eigi komast undan, þá settist hann niðr í mýrinni ok grét. Þar heitir síðan Grátsmýrr. Jökull kom þá at honum, ok kvað hann vera mikla mannfýlu ok illmenni, enn þó engan þróttinn í. Jökull hjó hann þá banahögg. Þorsteinn sótti at virkinu, því at þeir illvirkjarnir vóru þá aftr komnir. Jökull skopar at skeið, ok komst í virkit, ok er þeir sjá þat, er í virkinu vóru, óttuðust þeir, ok hljópu undan honum tveir í nestangann, ok drap hann þá báða. Hinn þriði hljóp fyrir hamra ofan. Eigi þótti röskvari ferð farin hafa verit, enn sú er Jökull fór þá. Þeir fóru heim

bræðr eftir þetta, ok höfðu unnit mikla heraðsbót í drápi Þórólfs heljarskinns.

31. Þorsteinn frá Hofi var stórlátr af búi sínu við heraðsmenn; þar var öllum mönnum matr heimill ok hestaskifti ok allr annarr fargreiði, ok skylt þótti þat öllum utanheraðsmönnum, at hitta Þorstein fyrstan, ok segja honum tíðindi ór sveitnm, ok þat er til nýlundu varð. Eyjarengi heitir þat, er bezt er með Hofslandi; þar áttu verkmenn Þorsteins tjald á sumrum. Þau sá einn dag at tíu menn áðu í enginu, ok var kona eitt; þeir vóru allir í litklæðum. Vesl hafði einn yfir sér ok slæður af góðu klæði; þau sá hvat þessi maðr gerði; hann brá sverði, ok sneið af neðan þat er saurugt hafði vorðit í reiðinni, ok kastaði á brott; þat var spannarbreitt, ok mælti svá at þau heyrðu, at hann kvaðst eigi vilja reiða eftir sér saur. Eigi hittu þau mennina, enn illa þótti þeim gert, at æja í engjum manna. Griðkona tók þat er hann hafði af skorit, ok kvað þenna mann mega heita enn mesta ofláta. Þorsteinn spurði þau tíðinda um kveldit, enn þau kvóðust engin segja kunna, ok þó nýlundu litla. Síðan sögðu þau þat sem þau höfðu sét ok heyrt til manna þessa, ok sýndu þat sem hann hafði skorit af slæðunum. Þorsteinn kvað þetta bragð tveggja hvárt, at spilla gripum sínum, þótt stykki á, ok síðan at æja í engjum manna, —

„nokkurs heimsks manns ok óráðvands, ella mikils manns ok ofláta. Þessir menn hafa ok eigi mik hitt, sem siðr er til langferðamanna. Nú mun ek geta til, at þar mun hafa verit Bergr hinn rakki, er út hefir komit í sumar, systurson Finnboga hins ramma frá Borg ór Víðidal; hann er rammr at afli, ok hinn mesti ofrkappsmaðr". Var þetta sem annat, þat er Þorsteinn leiddi getum um, at hann varð nærgætr. Bergr kom til Borgar, ok tók Finnbogi við honum allvel, ok spurði hann tíðinda, enn hann sagði slík er hann vissi. Finnbogi spurði hvárt hann hefði nokkut hitt Þorstein Ingimundarson. Bergr kvaðst eigi hann hitt hafa, ok riðit fyrir neðan garð. Finnbogi lét hitt þó venjulegra, at hitta hann fyrst, ok segja honum tíðindi. Bergr kvaðst eigi vilja lægja sik svá, at finna hann, — „því at erindi mitt var eigi til hans".

32. Þorgrímr hét maðr, er bjó at Borg hinni minni í Víðidal; hann festi sér konu þá er Þorbjörg hét ok var Skíðadóttir. Þorgrímr bauð þeim Finnboga ok Bergi til boðsins; þeir hétu ferðinni. Brúðhlaupit skyldi vera at vetrnóttum at Skíða. Hann hitti þá Ingimundarsonu, ok bauð þeim til boðsins, — „því at mér þykkir þetta eigi með fullum sóma nema þér komið". Þeir hétu at fara. Veðrátta var eigi allgóð, ok ilt yfir Vatnsdalsá, ok fórst þeim Víðdælum heldr ógreitt; létu þeir Finnbogi eftir hestana

at bónda þess er bjó við ána. Áin var opin um mitt, enn lágu at fram höfuðísar. Bergr mælti: „Ek mun bera yfir fólk“, — ok svá gerði hann, sótti knálega; frost var á mikit, ok fraus um hann klæðin. Skíði gekk í mót boðsmönnum ok fyrirboðsmenn hans, Þorsteinn ok þeir bræðr. Síðan vóru eldar gervir, ok þídd klæði manna. Þorsteinn bóndi gekk mjök at vinna mönnum beinleika ok taka við klæðum manna, því at hann var hverjum manni lítillátari. Finnbogi gekk fyrstr, ok skyldi sitja í öndvegi gegnt Þorsteini, þá Bergr, hann var í slæðum ok skinnólpu; stóð þetta út af honum, er hann var allfrosinn, ok þurfti hann rúm mikit, ok færðist at eldinum, ok vildi þíða sik. Hann gekk þar hjá, sem Þorsteinn var ok mælti: „Gef mér rúm, maðr“. Hann gekk svá snúðigt at Þorsteinn hrataði fyrir, ok við því búit, at hann mundi falla á eldinn. Jökull sá þetta ok varð reiðr mjök; hann helt á Ættartanga, spratt upp ok hljóp at honum, laust milli herðanna Bergi með hjöltunum, svá at hann fell við áfram, ok mælti: „Hvat vill skelmir þinn; viltu eigi hlífa goða várum Vatnsdæla“? Bergr spratt upp, ok varð ákaflega reiðr, ok tók til vápna; stóðu þá menn í milli þeirra, ok helt þó við, at þeir mundu á berjast, því at Bergi eirði it versta; urðu þeir þó skildir. Þorsteinn mælti: „Illa hefir nú enn tekizt fyrir bráðræði Jökuls bróður

míns; vil ek bjóða fébætr svá at Bergr sé vel sæmdr af". Bergr kvað sik eigi fé skorta, ok kvaðst sjálfr hefna skyldu. Jökull kvað hann æ því vesalla verða skyldu, sem þeir ættist fleira við. Skíði bað at þeir Finnbogi færi á brott, ok ættist menn eigi við. Þorsteinn kvað þat eigi hæfa at ráðahag þessum væri brugðit, — „ok skulum vér ríða bræðr með várum mönnum á Másstaði", ok svá var.

33. Bergr lýsti högginu til Húnavatnsþings, ok bjó þangat til málit. Síðan kvómu menn til þings ok leituðu um sættir. Bergr kvaðst eigi mundu fébætr taka, ok því at eins sættast, at Jökull gangi undir þrjú jarðarmen, sem þar var siðr eftir stórar afgerðir, — „ok sýna svá lítilæti við mik". Jökull kvað fyrr mundu hann tröll taka enn hann lyti honum svá. Þorsteinn kvað þetta vera álita mál, — „ok mun ek ganga undir jarðarmenit". Bergr kvað þá goldit. Hit fyrsta jarðarmen tók í öxl, annat í bróklinda, þriðja í mitt lær. Þá gekk Þorsteinn undir hit fyrsta. Bergr mælti þá: „Svínbeygða ek nú þann, sem æztr var af Vatnsdælum". Þorsteinn svarar: „Þetta þurftir þú eigi at mæla, enn þat mun fyrst í mót koma þessum orðum, at ek mun eigi ganga undir fleiri". Finnbogi mælti: „Þetta er víst eigi vel mælt, enn þó kemr eigi mikit fyrir vansa Bergs, er hann fekk af Jökli, ef hér skal staðar nema, ok þykkir yðr alt lágt hjá

yðr Vatnsdælum, ok vil ek skora á þik, Þorsteinn, til hólmgöngu á vikufresti við stakkgarð þann, er stendr í eyjunni fyrir neðan bæ minn at Borg". Bergr mælti þá: „Slíkt it sama vil ek mæla við þik, Jökull, at ek býð þér hólmgöngu at ákveðnum tíma Finnboga, ok skulu þér þá lútir fara Hofverjar". Jökull svarar: „Heyr hvat mannfýlan mælir, at þú dirfir þik at því at jafnast við oss, eða bjóða mér hólmgöngu, því at mér þykkir mér eigi ofætlat þótt ek berimst við ykkr Finnboga báða; skal ok þat vera, ok vil ek leysa undan Þorstein bróður minn, því at þat er skaði, at honum verði nokkut til meins, enn þat er þó eigi örvænt, ef þeir Finnbogi berjast, því at hann er hinn mesti ofrhugi, enn hér er hváruga at spara sem vér erum; fór Bergr þá lútari bikkjan, er ek sló hann, svá at hann fell við, enda kom þú nú til hólmstefnunnar, ef þú hefir heldr manns hug enn merar; enn ef nokkurir koma eigi, þá skal þeim reisa níð með þeim formála, at hann skal vera hvers manns níðingr ok vera hvergi í samlagi góðra manna, hafa goða gremi ok griðníðings nafn". Skilja þeir síðan við svá búit, ok fór hverr heim til síns heimilis. Var þetta nú gert at tíðindasögn um sveitir. Þat bar saman hólmstefnur þessar, ok Þorsteinn hafði vinaboð at Hofi, því at svá gerði hann hvert haust. Helga hét kona, hon kom út með Bergi ok var

frilla hans; hon var mikil kona ok sköruleg, framsýn ok forspá, ok margkunnig um flesta hluti; hon mælti til Bergs: „Óvitrlega hefir ykkr frændum vorðit, at þit ætlið at þreyta hamingju við sonu Ingimundar; þat ferr eigi svá, því at Þorsteinn er reyndr bæði at viti ok gæfu, enn þat er sannmælt til Jökuls, at engi (er) berserkr slíkr í öllum Norðlendingafjórðungi sem hann, ok ertu eigi hans jafningi, þóttu sér mikill fyrir þér, ok svá mikla sneypu sem þú hefir áðr farit fyrir honum, þá ferr þú nú aðra hálfu meiri, ef þit eigizt nokkut við“. Bergr svarar: „Mikit hefir Jökull um mælt, svá at mér er þat eigi þolanda“. Helgi svarar: „Þóttu sér svá heimskr, at þú kunnir eigi fyrir þér at sjá, þá skal ek þat at gera, at sjá hólmganga skal engi verða“. „Muntu eigi ráða? sagði Bergr“. Eigi vissi Finnbogi þessi ráð.

34. Svá er sagt, at þann sama morgin at fara skyldi til hólmgöngu þessarrar, var komit á svá mikit kafafjúk með frosti at engu vetta var út komanda. Þann sama morgin snemma var barit á dyrr at Hofi. Þorsteinn gekk til dyra ok heilsaði Jökli bróður sínum. Hann mælti: „Ertu búinn, Þorsteinn, til hólmstefnunnar?“ Hann svarar: „Þykki þér einsætt at fara, því at þetta er illviðri?“ Jökull mælti: „Þat þykki mér víst“. Þorsteinn svarar: „Gakk inn fyrst, bróðir, ok bíðum ef veðr batnar“.

Jökull kvaðst eigi inn vilja ok þiða á sér snjó — „ok þóttu vilir hvergi fara, þá skal ek þó fara". Þorsteinn mælti: „Aldri skal sá munr hreysti okkarrar, at ek sitja eftir enn þú færir, ok bíð mín". Þorsteinn gekk inn ok bjóst ok mælti við boðsmenn sína, at þeir skyldu þar sitja, ok eigi þaðan fara fyrr enn algott væri; bað húsfreyju ok sonu sína vinna mönnum beinleika. Þeir fóru báðir bræðr saman. Þá mælti Þorsteinn: „Hver er nú ráðagerð þín?" Jökull svarar: „Þetta veit ek þik eigi fyrr gert hafa at leita ráða undir mik; mun hér ok til lítils at sjá, ef þeirra þarf við, enn þó verðr mér eigi til þessa ráðfátt; við skulum fara til Undunfells, ok skal Þórir fara með okkr, bróðir okkar. Þeir gjörðu svá, fóru þaðan, ok kómu at kveldi til Faxa-Brands; hann var vinr Jökuls, vóru þar um nóttina. Brandr átti hest föxóttan, er kallaðr var Freysfaxi; hann var virkr at hestinum ok þótti góðr; var hann ok öruggr til alls, bæði vígs ok annars; höfðu flestir þat fyrir satt, at Brandr hefði átrúnað á Faxa. Um morgininn eftir var hin sama hríð, nema meiri væri. Þeir vildu fara bræðr þótt eigi batnaði. Brandr hafði tjaldat sleða með húðum, ok beitt fyrir Faxa, ok kvað þá mundu hitta leið báða saman. Jökull mælti: „Þorsteinn ok Þórir skulu setjast í sleða, enn vit Faxa-Brandr skulum ganga fyrir". Þeir koma snemma dags undir stakkgarð-

inn, ok var ekki komit. Um morgininn mælti Finnbogi til Bergs: „Ætlar þú eigi Jökul kominn vera til hólmstefnunnar?“ „Eigi ætla ek, segir hann, „því at þat er einkis manns at fara í þvílíku veðri“. „Annarr maðr er Jökull þá enn ek ætla“, segir Finnbogi, „ef hann er eigi kominn, ok hefði betr verit, at ganga eigi jafnlangt fram við hann, ok þola nú eigi hverja skömm á aðra ofan“. „Þat hafi þit ofsíð sét“, segir Helga, „ok svá ilt sem nú er frá at taka, þá mun þó síðar verra“. „Ætlar þú Jökul kominn“, segir Bergr. „Eigi mun ek um ætla“, segir hon, „enn hitt ætla ek, sem gangast mun, at hann er eigi yðvarr maðr“. Fellr þetta þar niðr, enn þeir fara hvergi. Þeir bræðr biðu til nóns, ok er svá var komit, þá fóru þeir Jökull ok Faxa-Brandr til sauðahúss Finnboga, er þar var hjá garðinum, ok tóku súlu eina, ok báru undir garðinn; þar vóru ok hross, er þangat höfðu farit til skjóls í hríðinni. Jökull skar karlshöfuð á súluendanum, ok reist á rúnar, með öllum þeim formála sem fyrr var sagðr. Síðan drap Jökull meri eina, ok opnuðu hana hjá brjóstinu, ok færðu á súluna, ok létu horfa heim á Borg; fóru síðan heimleiðis ok vóru at Faxa-Brands um nóttina; vóru nú kátir mjök um kveldit. Jökull mælti: „Þannig er nú, Þorsteinn frændi, at þú ert maðr miklu vinsælli enn ek, ok átt vini fleiri, enn þó er nú svá komit, at vinir mínir duga nú eigi

verr enn þínir; þykki mér sem Fax(a)-Brandr hafi vel dugat". „Vel hefir Brandr gefizt", segir Þorsteinn. Brandr mælti: „Gott er slíkum manni at duga við sem Jökull er, því at hann er fárra líki". Þeir Faxa-Brandr ok Jökull kvóðu þetta gerningaveðr verit hafa, ok kendu þat Helgu frá Borg. Þeir kvómu heim bræðr, ok urðu allir menn þeim fegnir; spurðist þetta nú um allar sveitir, hversu mikla sneypu Borgarmenn höfðu enn farit fyrir þeim bræðrum.

35. Einhvern tíma skamt frá þessu heimti Finnbogi ok þeir Bergr menn saman um Víðidal ok urðu saman þrír tigir. Helga spurði hvat þeir ætlaði. Finnbogi kvaðst eiga ferð til Vatnsdals. „Já", sagði Helga, „nú munu þit ætla ykkr at hefna á þeim bræðrum, enn ek ætla at þit farið því fleiri ófarar, (sem) þér eigizt fleira við". „Á þat skal nú hætta", segir Finnbogi. Helga svarar: „Fari þér, eigi mun yðr óannara heim enn heiman". Þetta spurðist nú brátt víða, ok kom til Hofs til Þorsteins; hann sendi orð bræðrum sínum ok kvómu þeir til hans, segir hann þeim slíkt er hann hafði spurt; gera nú þat ráð, at þeir safna mönnum, ok þann dag er þeirra Finnboga var utan ván, kómu saman at Hofi níu manna. Þar var Már af Másstöðum frændi þeirra, ok Eyjólfr ór Karnsnesi ok aðrir vinir þeirra; var þá ok sén reið þeirra Finnboga. Þorsteinn mælti: „Nú skulu vér stíga á hesta

vára, ok ríða í mót þeim, því at ek vil eigi spark þeirra á bæ mínum". Þeir gera svá. Jökull mælti: „Ríðum at vel, ok hlaupum á þá, svá at þeir verði eigi viðbúnir". Þorsteinn svarar: „Eigi skulu vér óðlega láta, ok skal ek hafa orð fyrir oss, ok vita hvat þeir vilja, ok má vera, at lítils þurfi við, enn veit ek, frændi, at þú ert búinn til allra atgerða". Jökull svarar: „Ván var þess, at þú mundir eigi vilja, at lengi stæði mínar ráðagerðir yfir". „Vel dugði þá, frændi", sagði Þorsteinn, „er þín ráð vóru höfð, enn nú mun lítils við þurfa". Finnbogi mælti til sinna manna: „Menn ríða frá Hofi eigi allfáir, ok er þat sannast at segja, at Þorsteini kemr fátt á óvart; eru nú tveir kostir fyrir höndum ok hvárrgi góðr, ríða undan ok heim við svá búit, ok er þat þó hin mesta sneypa, eða at hætta á fundi við þá, ok er þó nokkut hættu(efni) við liðsmun þann, sem mér sýnist at sé". „Mun nú eigi verða at hætta á eitthvat", segir Bergr, „ok skulum vér víst finnast". Finnbogi mælti: „Stígum af baki, ok bindum hesta vára, ok höldum oss saman vel, hvat sem í gerist". Þetta sjá þeir Þorsteinn, ok stigu af baki, ok bundu sína hesta. Þá mælti Þorsteinn: „Nú skulu vér ganga til móts við þá, enn ek skal hafa orð fyrir oss". Þá mælti Þorsteinn: „Hverr er foringi þessa manna, sem hér eru komnir?" Finnbogi segir til sín. Þor-

steinn mælti: „Hver eru erindi higat í dalinn?“ „Oft eru smá erindi um sveitir“, segir Finnbogi. Þorsteinn mælti: „Þat get ek, at nú sé vorðit þat erindi, sem ætlat var, þá er (þér) fóruð heiman, þótt annan veg hafi at borit enn hugsat var, at finna oss bræðr. Ef svá er, þá hefir nú vel til borit; skal nú gera þér tvá kosti, Finnbogi; eigi fyrir því tvá, at eigi væri hitt maklegra, at þú hefðir einn: Far heim til Borgar við svá búit, ok sit í búi þínu. Hinn er annarr kostr, at nú skulu vér þreyta hólmgöngur várar, ok þó með því móti, at nú munu hvárir(tveggju) njóta síns brautargengis, ok muntu þá vita hvat þú vinnr á, þótt þú sér bæði stórr ok sterkr. Þat skal þessu fylgja, at þú skalt fara brott ór Víðidal at vári, ok vera eigi vistum milli Jökulsár í Skagafirði ok Hrútafjarðarár, ok ætla þér aldri síðan at deila kappi við oss bræðr. Enn þú, Bergr, hefir mjök dregizt til óvissu við oss bræðr; þú gerðir mér ok lítit óspektarbragð, fyrst er þú komt í herað, þá áðir þú hestum þínum í engjum mínum, ok ætlaðir mik þat lítilmenni, at ek munda hirða hvar hestar þínir bitu gras; enn þar er Jökull bróðir minn laust þik högg, þat skaltu hafa bótalaust, því at þú afníttir, þá er þér vóru boðnar; þú skalt ok eigi vera í þessu takmarki, er Finnboga er bannat, ok hafi þit þá nokkurar minjar várra viðskifta; takið nú

skjótt annan hvárn". Jökull stóð hjá Þorsteini með Ættartanga, ok var búinn at bregða. Finnbogi ok þeir Bergr ganga til hesta sinna ok stíga á bak, ríða á brott, ok létta eigi fyrr enn þeir koma heim til Borgar. Helga stóð úti, ok spyrr tíðinda; þeir kvóðust engin segja kunna. „Vera má, at ykkr þykki svá, enn eigi mun þat öðrum þykkja, þar sem þit erut gervir heraðssekir sem illræðismenn, ok hefir nú yfir tekit um ykkrar ófarar". Þorsteinn ok þeir bræðr riðu heim til Hofs ok hverr til síns heimilis; þakkaði Þorsteinn þeim vel fylgdina; sat hann nú enn (í) virðingu um þetta mál sem öll önnur. Um várit seldi Finnbogi landit at Borg, ok réðst norðr á strandir í Trékyllisvík ok bjó þar. Bergr fór ok á brott, ok er þat eigi sagt í þessi sögu, hvat hann lagði helzt fyrir sik, ok lýkr þar skiftum þeirra Ingimundarsona.

36. Frá því er sagt eitt sumar, at skip kom í Hrútafjörð; þar vóru á systr tvær, Þórey ok Gróa; þær fóru báðar til vistar til Hofs, ok vóru þar um vetrinn með Þorsteini, enn sóttu hann at um várit at hann skyldi fá þeim staðfestu nokkura. Þórey keypti land at ráði Þorsteins, ok bjó þar, enn Gró fekk hann bústað nær sér. Þorsteinn hafði beðið ámæli af konu sinni Þuríði, at hann legði hug á Gró fyrir sakir fjölkyngi hennar. Gróa keypti malt ok bjó til veizlu, ok bauð Ingimundarsonum þangat.

Eigi þóttu þær systr svá lítils háttar vera; hon bauð ok Mávi af Másstöðum ok mörgum heraðsmönnum; ok ena þriðju nótt áðr Þorsteinn skyldi heiman ríða, dreymdi hann, at kona sú, er fylgt hafði þeim frændum, kom at honum, ok bað hann hvergi fara; hann kvaðst heitit hafa. Hon mælti: „Þat lízt mér óvitlegra, ok þú munt ok ilt af hljóta“, — ok svá fór þrjár nætr at hon kom, ok ávítaði hann, ok kvað honum eigi hlýða mundu, ok tók á augum hans. Þat var siðvenja þeirra þegar Þorsteinn skyldi nokkut heiman fara, at allir kvómu þann dag til Hofs, er ríða skyldu. Kómu þeir Jökull ok Þórir, Már, ok þeir menn aðrir, er fara skyldu. Þorsteinn bað þá heim fara; hann kvaðst vera sjúkr. Þeir gera svá. Þann aftan þá er sól var undir gengin, sá sauðamaðr Gró at hon gekk út, ok gekk andsælis um hús sín ok mælti: „Erfitt mun verða at standa í mót giftu Ingimundarsona“. Hon horfði upp í fjallit, ok veifði gizka eða dúki, þeim er hon hafði knýtt í gull mikit, er hon átti, ok mælti: „Fari nú hvat sem búit er“. Síðan gekk hon inn, ok lauk aftr hurðu. Þá hljóp aurskriða á bæinn, ok dóu allir menn. Ok er þetta spurðist, þá ráku þeir bræðr á burt Þóreyju systur hennar ór sveit. Þar þótti reimt jafnan síðan, er bygð Gró hafði verit, ok vildu menn þar eigi búa frá því upp.

37. Þorgrímr at Karnsá gat barn við frillu

sinni, er Nereiðr hét, ok af orðum konu hans var barnit út borit. Ástúðigt var með þeim bræðrum Ingimundarsonum, ok oft fundust þeir. Eitt sinn hitti Þorsteinn bræðr sína; leiddi Þórir hann á götu. Þorsteinn spyrr þá Þóri, hverr honum þætti fyrir þeim bræðrum. Þórir kvað þat eigi getumál, — „at þú ert fyrir oss um allar ráðagerðir ok vitsmuni“. Þorsteinn svarar: „Jökull er brjóst fyrir oss um öll harðræði.“ Þórir kvaðst minstháttar af þeim fyrir þat, — „at á mik kemr berserksgangr jafnan þá er ek vilda sízt, ok vilda ek, bróðir, at þú gerðir at“. *Þorsteinn mælti:* „Því em ek hér kominn, at ek hefir spurt, at Þorgrímr frændi várr hefir látið bera út barn sitt af orðum konu sinnar, ok er þat illa gert; þykki mér ok með stórum meinum, at þú ert eigi í öðli þínu sem aðrir menn“. Þórir kvaðst hvatvetna mundi til vinna at þetta hyrfi af honum. Þorsteinn kvaðst ok vilja ráð til leggja, — „eða hvat muntu vilja til vinna?“ Þórir svarar: „Þat sem þú vilt.“ Þorsteinn mælti: „Einn er sá hlutr er ek beiðumst, enn þat er goðorð til handa sonum mínum.“ Þórir kvað þat vera skyldu. Þorsteinn mælti: „Nú vil ek heita á þann, er sólina hefir skapat, því at ek trúi hann máttkastan, at sjá ótími hverfi af þér; vil ek þat gera í staðinn fyrir hans sakir, at hjálpa við barninu, ok fæða upp til þess at sá er skapat hefir manninn mætti honum til sín snúa síðan, því at ek get honum

þess auðit verða.“ Síðan stigu þeir á hesta sína, ok fóru þangat til, er þeir vissu at barnit var fólgit, ok þræll Þóris hafði fundit við Karnsá, ok sá þeir, at breitt hafði verit yfir andlitið ok kraflaði fyrir nösunum, ok var þá komit at bana. Þeir tóku barnit, ok fluttu heim til Þóris, ok hann fæddi upp sveininn, ok var kallaðr Þorkell krafla; enn berserksgangr kom aldri síðan á Þóri; komst svá Þorsteinn at goðorðinu. — Óláfr bjó at Haukagili, enn Óttarr í Grímstungum; hann átti Ásdísi dóttur Óláfs, ok á lögfundum áttu þeir eina búð. Synir Þorsteins vóxu upp ok vóru gervilegir menn. Guðbrandr var mikill maðr ok sterkr. Ingólfr var manna fríðastr ok þó mikill; hann hafði ok atgervi yfir flesta menn. Ok á einu haustþingi kómu þar margir menn saman, ok var leikr stofnaðr. Ingólfr var í leiknum, ok sýndi þá enn atgervi sína, ok eitt sinn er hann sótti eftir knetti sínum, bar svá til, at hann fló til Valgerðar Óttarsdóttur; hon svipti at mötli sinum, ok töluðust þau við um hríð. Honum sýndist konan forkunnlega fríð; ok hvern dag þann er eftir var þingsins kom hann til tals við hana. Eftir þat gerir hann þangatkvómur sínar jafnan. Óttari var þetta í móti skapi, ok kom á ræðu við Ingólf, ok bað hann eigi þat gera, er báðum þeim var til ósæmdar, ok kvaðst heldr vilja gefa honum konuna með sæmd, enn hann fífldi hana með

vanvirðu. Ingólfr kvaðst gera mundu um kvómur sem honum sýndist, ok kvað honum enga ósæmd at því. Óttarr hitti nú Þorstein, ok bað hann eiga hlut í með Ingólfi, at hann gerði at. Hann kvað svá vera skyldu. Þorsteinn mælti til Ingólfs: „Hví verðr þér þat fyrir at gera Óttari sneypu eða svívirða dóttur hans; hefir þú ilt ráð upp tekit, ok mun okkr verða at sundrþykki, ef þú gerir eigi at“. Lét Ingólfr þá af kvómum, enn orti mansöngsvísur nokkurar um Valgerði ok kvað síðan. Óttarr fór enn á fund Þorsteins, ok kvaðst illa una við kveðskapinn Ingólfs; — „þykki mér þú skyldr til at leggja nokkut ráð á“. Þorsteinn kvað eigi at sínu skapi gert, — „ok hefir ek um talat ok tjóar mér eigi“. Óttarr mælti: „Bæta máttu fé fyrir Ingólf, eða leggja leyfi til, at vér sækim hann til laga“. —„Fýsa vil ek þik“, kvað Þorsteinn, — „at þú gefir at engan gaum, ok máttu at lögum gera þat“. Óttarr fór stefnuför til Hofs ok stefndi Ingólfi til Húnavatnsþings, ok bjó mál til sóknar; ok er Jökull spyrr þetta, gerði hann sik óðan um, ok kvað slíkt mikil endemi, ef þeir frændr skyldi þar sekir gervir í átthaga sínum, ok kvað Þorstein mjög eldast, —„ok þótt vér sém eigi lögmenn, þá munu vér eyða málit með öxarhömrum“. Ok er várþing kom, bað Ingólfr Þorstein leggja ráð til um málit, ella kvaðst hann mundu færa öxi í höfuð

Óttari. Þorsteinn mælti: „Nú vil ek at þú neytir goðorðsins, ok takir við"; ok svá var gert. Ok er í dóm kom málit, gengu þeir Ingólfr ok Jökull at dómum ok hleyptu upp með höggum, ok fell niðr málit. Litlu eftir þingit segir Óttarr Óláfi mági sínum, at hann mundi eigi við vera, ok selja land sitt. Hann gerði svá, færði bú sitt suðr um heiði.

38. Enn eigi langan tíma upp frá þessu tók Þorsteinn sótt ok andaðist, ok þó at fyrr segi líflát Þorsteins, þá lézt Jökull fyrstr þeirra bræðra, enn Þórir lifði lengst. Þorkell krafla var þá þrévetr, er Þórir andaðist fóstri hans. Þá fór Þorkell til Þórórms ok var þar uppfóstraðr. Eigi ætluðu menn at fá mundu iðgjöld Þorsteins ok bræðra hans, enn þó þótti mörgum synir hans vel stíga í spor honum. Ingólfr þótti konunum vænstr, svá sem kveðit var:

Allar vildu meyjar
með Ingólfi ganga
þær er vaxnar váru;
vesöl kvaðst hon æ til lítil.

Þeir bræðr skiftu arfi með sér. Ingólfr bjó at Hofi, enn Guðbrandr at Guðbrandsstöðum. Ingólfr átti Halldísi dóttur Óláfs frá Haukagili; hon var yngri enn Ásdís er Óttarr átti, er móðir var Valgerðar ok Hallfreðar vandræðaskálds. Ingólfr kom at finna Valgerði jafnan er hann fór til þings eða frá. Þat líkaði Óttari illa; hon gerði honum ok klæði öll þau er mest skyldi vanda.

39. Nokkurum vetrum eftir líflát Þorsteins Ingimundarsonar fann Óttarr, er hann reið af þingi á Bláskógaheiði, mann sekjan, er Þórir nefndist, kominn at austan ór Fjörðum, ok kvaðst hafa sekr vorðit um konumál, ok bað hann Óttar viðtöku. Óttarr kvaðst mundu gera á þessu kost, — „ef þú ferr sendiferð mína“. Hann spyrr hver sú væri. Óttarr svarar: „Ek (mun) senda þik norðr í Vatnsdal til Ingólfs, at þú sitir um líf hans, eða annars hvárs þeirra bræðra, því at eigi er ólíklegt, ef at líkindum ferr, at þeir verði eigi giftudrjúgir. Nú ef þú ferr, mun ek veita þér ásjá“. Hann kvaðst til þess vel færr, — „því at eigi brestr mik áræði“. Hann fór heim með Óttari, ok keyptu þessu saman, at hann skyldi drepa Ingólf eða Guðbrand, ef hann næði honum heldr; enn Óttarr skyldi koma honum utan. Hann fór norðr til Vatnsdals, ok kom til Hofs; var þar um nótt, ok bað Ingólf ásjá, ok kvaðst vera sekr maðr. Ingólfr kvaðst eigi þurfa utanheraðsmanna, ok kvað sér slíka auðfengna, bað hann á brottu verða skjótt, ok kvaðst illa á hann lítast. Þórir fór á brott ok kom til Guðbrands; hann tók við honum, ok var hann þar um hríð; ok einn morgin bað Guðbrandr hann taka sér hest ok gekk út, enn Þórir eftir, ok er Guðbrandr kom á þresköldinn, þá laut hann við, enn

Þórir veitti honum þá tilræði, ok er hann heyrði at öxin þaut, veik hann sér hjá dyrunum, enn Þórir hjó í ásinn, er fram tók ór vindskeiðunum, ok stóð öxin þar föst, enn Þórir hljóp á brott ór garði enn Guðbrandr eftir. Þórir hljóp yfir árgljúfrin þegar er hann kom at, ok lá fallinn. Guðbrandr skaut eftir honum sverði, ok kom á hann miðjan. Hann hafði knýtt beizlinu um sik, ok kom sverðit á beizlshringinn. Guðbrandr hljóp yfir ána, ok at Þóri ok var hann þá dauðr; kasaði hann hann þar. Skörð vóru fallin í sverðinu, ok eitt þat er leggja mátti í fingrar góm. Brýnt var at síðan, ok var it bezta vápn. Guðbrandr fór at finna bróður sinn, ok sagði honum þessi tíðindi, ok kvað þetta vera ráð Óttars ok lét þá við slíku mundu búast eiga. Ingólfr kvað slík mikil firn, ok riðu þegar suðr til Borgarfjarðar ok báru þetta at Óttari, enn hann mælti móti, því at þar var þá fjölment, ok náðu þeir honnm eigi; var þá leitat um sættir, ok sættust at því, at Óttarr galt hundrað silfrs, enn Þórir skyldi ógildr. Þat fylgdi ok þessi sætt, at Ingólfr skyldi óheilagr falla, ef hann kæmi at finna Valgerði, svá at Guðbrandr fylgdi honum eigi. Þá mælti Ingólfr: „Til þess máttu ætla, Óttarr, ef fleiri farar verða óvingjarnlegar til vár enn sjá, at þá mun eigi fébótum viðkoma, ok þér mun þá at verðugu goldin svikræðin“. Hann

kvað þat marga mæla mundu, at væri sakir til áðr þetta var gert. Síðan skildu þeir.

40. Svartr hét maðr, er skipi sínu kom á Minþakseyri; hann var suðreyskr at ætterni, maðr mikill ok sterkr, óvinsæll ok lítt við alþýðuskap; hann kom af brotnu skipi; ok er menn vissu hvers háttar maðr hann var, þá urðu engir til at taka við honum, ok fór hann um sveitir unz hann kom til Óttars, ok bað hann viðtöku ok ásjá. Hann svarar: „Ómaklega sýnist mér til þín gert, at veita eigi slíkum manni sem þú ert, ok vil ek við þér taka, því at þú ert maðr eigi lítilmótlegr, ok hygg ek at mér sé traust at þér mikit“; hann kvað hann þess maklegan. Svartr átti nokkut fé; var hann nú með Óttari, ok eigi lengi áðr hann mælti til Svarts: „Ek vil senda þik norðr til Vatnsdals til Hofs. Sá maðr býr þar, er Ingólfr heitir; hann er sakadólgr minn, ok hefir gert mér margskonar skammir, ok fæ ek eigi rétt af honum, enn hann er þó mikilhæfr maðr, enn ek hygg þik munu gæfu til bera með mínu tilstilli at hefna, því at mér lízt vel á þik“. Svartr kvaðzt verit hafa þar, er eigi þótti öllum einn veg; kvað þat ok líklegra, at hann fengi erindit, sagðist verit hafa í víkingu, ok oft einn á brott komizt. Skip stóð uppi í Hvítá, ok með þeim hætti keyptu þeir saman, at hann skyldi höggva hönd eða fót af Ingólfi, eða drepa

Guðbrand, ef hann næði eigi Ingólfi, enn Óttarr skyldi fá honum vetrvist ok koma honum utan. Svartr skyldi leita fyrir sér, ef hann kæmi eigi fram verkinu, enn ella fara til vistar sinnar. Óttarr fekk sér varning frá skipi, ok fekk hann Svarti til meðferðar, ok fekk honum ok mann til fylgdar, ok hesta tvá, sagði honum til bygða, eða hverjar leiðir honum var bezt at fara norðr eða norðan. Svartr fór þar til er hann kom í Hvanndali; tók þar af hestum sínum ok bjó um varning sinn enn hestar gengu á bit. Svartr kom gangandi til Hofs snemma dags ok var Ingólfr úti ok skefti spjót. Svartr kvaddi Ingólf ok kvað sér eigi greitt farizt hafa, kvað sér horfna á heiðinni hesta tvá, enn varning sinn liggja þar, kistu ok húðfat, ok bað Ingólf fá til menn at leita með sér, eða flytja föng sín til bygða, kvaðst vilja flytjast norðr til Eyjafjarðar, ok kvað sik verit hafa at Hrafnagili fyrir nokkurum vetrum. Ingólfr kvað nú fátt manna á bænum, — „enn ek vil hvergi fara ok verð i brottu i stað“. „Þá muntu vilja fylgja mér á götu ok vísa mér til annars bæjar“, ok svá var. Hann fór með honum á götuna, ok varaðist Ingólfr hann þó af hugboði sínu, því at Svartr vildi ávalt síðar fara; hann var gyrðr sverði enn hafði spjót í hendi mjök mikit; þat var fjaðraspjót langskeft ok vafit járni skaftit. Svartr beiddist viðtöku, enn Ing-

ólfr hefði af varningi slíkt er hann vildi, — „ertu víðfrægr maðr, ok samir þér vel at taka útlenda menn, allra helzt ef eigi skortir fé til forgiftar". „Eigi em ek því vanr", kvað Ingólfr, „at taka ókunna menn til mín, gefast þeir margir illa, ok ertu eigi til þess óliklegr, því at þú hefir illslegt bragð á þér", ok vísaði honum skjótt af höndum, ok kvaðst engu vilja við hann kaupa, ok hvarf aftr. Svartr fór, ok kom til Guðbrands, ok sagði honum ena sömu sögu. Guðbrandr mælti: „Eigi gefizt þér vel enir ókunnu menn, enn sækja má ek láta varning þinn, enn gerum síðan sem sýnist um vistafar". Þeir fóru ok fundu varninginn, enn ætluðu hestana mundu hafa í brott hlaupit. Þeir fundu þá fljótt. Guðbrandr hafði heim til sín alt saman, ok tók við Svarti. Ok er þat spyrr Ingólfr, hitti hann bróður sinn ok þótti óvarleg hans tiltekja, — „ok vil ek at hann fari á brott". Guðbrandr kvaðst ætla, að eigi mundi sjá maðr honum til skaða ætlaðr, ok kvað hann sik eigi líklegan hafa til gert síðan hann kom. Ingólfr svarar: „Þá lízt okkr eigi þat einn veg, þvíat mér lízt maðrinn flugumannlegr, ok illa mun hann reynast, ok vil (ek) eigi, at hann sé hjá þér, því at mér segir illa hugr um hann, enn mér þykkir betri (fyrirvarinn)", — enn þat varð þó eigi, ok var (hann) þar um vetrinn. Enn um várit, þá er sumra tók, færði Guðbrandr lið

sitt í sel, ok var svo til skipat, at húsfreyja reið ein saman, enn Guðbrandr ok Svartr einum hesti báðir, ok reið Svartr at baki. Enn er þau kómu á mýrar þær, er nú heita Svartsfellsmýrar, þá liggr í hestrinn undir þeim ok bað Guðbrandr Svart skreiðast aftr af hestinum ok svá gerir hann; ok sem Svartr sér, at Guðbrandr varast hann eigi, þá snýr hann spjótinu. Þetta sér húsfreyja, ok mælti: „Varastu hundinn, er vill svíkja þik ok drepa“. Ok í því lagði Svartr Guðbrand með spjótinu undir hendina, ok þegar á hol. Guðbrandr fekk brugðit sverðinu, ok slæmir eftir honum ok í sundr í miðju. Húsfreyja kom til sels, ok sagði líflát þeirra beggja, ok þóttu þetta ill tíðindi. Ingólfr spyrr þetta, ok kvað farit hafa eftir sínu hugboði, ok bjó þegar mál á hendr Óttari til alþingis um fjörráð við sik ok bróður sinn. Ok er menn kómu til þings var leitat um sættir, ok var þat mjök torsótt við Ingólf. Enn sakir þess at margir góðgjarnir áttu hlut í, ok hitt annat, at Ingólfr hafði eigi haldit sætt sína við Óttarr um fundi við Valgerði, þá tók hann sættir, ok kómu fyrir fjörráð við Guðbrand þrjú hundruð silfrs; skyldi þá ok niðr falla sættarof við Óttar um Valgerðarmál; skiljast nú við þetta ok vóru sáttir. Ingólfr átti tvá sonu við konu sinni ok hétu þeir Surtr ok Högni. Þeir vóru báðir gervilegir menn. Ingólfr þótti mikill höfð-

ingi ok stíga vel í spor sínum feðr um marga hluti. Óláfr at Haukagili tók þá at eldast mjök.

41. Útilegumenn ok ránsmenn vóru mjök í þenna tíma, bæði suðr ok norðr, svá at nálega mátti engi á sínu halda. Á einni nátt ræntu þeir at Haukagili mat miklum, því at þar vóru gnóttir hversvetna. Óláfr fór ok hitti Ingólf, ok sagði honum. Ingólfr bjóst heiman við fimtánda mann. Óláfr bað hann vera varfæran, ok kvað sér meira varða, at hann kæmi heill heim, enn hitt, hvar matr hans færi. Þeir riðu suðr á heiði ok ræddu um ránit Óláfs. Þjófarnir höfðu rænt til fimtán hundraða. Þeir Ingólfr kómu á sporin þeirra, ok röktu þau, þar til er þeir viltust um, því at sporin lágu þá á tvá vega. Þá skiftu þeir ok liði sínu, fóru átta í öðrum stað, enn sjau í öðrum, ok leita svá lengi. Þar vóru sel skamt frá þeim ok fóru þeir þangat. Þar sá þeir átján hross hjá selinu, ok ræddu um at þar mundu vera komnir þjófarnir, ok kvóðu þá ráðlegast, at leita eftir förunautum sínum. Ingólfr kvað þat fyrir sumt óráðlegra, — „þvíat þeir megu þá ná til hellisins, því at hann er skamt frá þeim, ok eru þeir hólpnir ef þeir fá hann, ok er þá vár för sljóleg, enn eigi víst hvar várir menn eru“. Ingólfr spratt af baki ok hljóp í gil nokkut er hjá honum var, ok þrífr upp hellur tvær; lætr aðra koma fyrir brjóst

sér enn aðra milli herða ok gyrði at utan. Hann hafði í hendi sverðit Ættartanga, ok gekk síðan at selinu. Þat var tvídyrt. Þat segja menn, at Ingólfr væri þar þá eigi fjölmennari enn við annan mann. Þá mælti förunautr Ingólfs, at þeir mundu gera sína menn við vara. Ingólfr kvaðst verja mundu seldyrnar, enn hann færi eftir mönnum þeirra. Hann kvaðst nú eigi mundu á brott fara, — „þykki mér þínir eigi ofmargir“. Ingólfr vildi þegar inn ráða at þeim, ok bað hann fylgja sér drengilega. Þjófarnir lögðu þegar at honum, er hann kom inn, ok honum hlífðu hellur þær er hann hafði, ok svöddu lögin af honum; sóttu þeir þá at Ingólfi öllum megin, enn hann varðist vel ok drengilega. Þá reiddi hann upp Ættartanga, ok kom sverðit í höfuð þeim er stóð at baki honum, svá at sá fekk bana, enn hjó þann banahögg er fyrir stóð, ok drap Ingólfr þá báða í einu höggi. Þeir áttu snarpan bardaga, ok lauk svá, at Ingólfr drap fimm menn, enda var þá fallinn fylgdarmaðr hans; vóru þeir þá komnir út ór selinu, enn Ingólfr var sárr mjök. Kómu þá at menn hans. Þjófarnir stukku þá í brott, enn þeir tóku ránit ok bundu á hesta sína, ok ráku norðr aftr. Ingólfr lá í sárum vetr þenna ok greri yfir at kalla. Enn um várit er sumarhita tók, rifnuðu upp aftr öll, svá at þat leiddi hann til bana. Ok áðr Ing-

ólfr andaðist, bað hann sik grafa í öðru holti enn þeir vóru grafnir frændr hans, ok kvað þá hugkvæmra Vatnsdalsmeyjum, ef hann væri svá nær götu. Síðan andaðist hann. Þar heitir Ingólfsholt, sem hann var jarðaðr. Alþýða manna harmaði mjök svá fall Ingólfs. Tólf vetr lifði hann eftir andlát föður síns með mikilli virðingu. Óttarr gifti Valgerði dóttur sína stafhylzkum manni. Enn er Ingólfr var andaðr, var höfðingjalaust í Vatnsdal, því at synir Ingólfs vóru eigi tilfærir sakir aldrs að varðveita goðorðit. Var nú um leitat, hversu fara skyldi. Enn þat vóru lög í þann tíma, meðan erfingjar vóru í ómegð, at sá skyldi af þingmönnum varðveita goðorðit, sem bezt þætti til fallinn.

42. Þorkell krafla Þorgrímsson var maðr bæði mikill ok sterkr; hann var þá tólf vetra, er þetta var tíðinda. Þorgrímr gekk eigi við faðerni hans, enn hann var þó miklu fræknlegri enn skírgetnir synir hans. Þorkell silfri frá Helgavatni var hamrammr mjök ok þó margkunnigr; hann var vellauðigr at fé, eigi vinsæll ok óþokkasæll af flestum mönnum, enn þó verðr mikils. Þenna sama dag, er fundrinn var stefndr at Karnsá um goðorðsmálit, mælti kona Þorkels silfra: „Hvat ætlar þú í dag at gera?“ Þorkell svarar: „Fara til fundarins ok vera í kveld goðorðsmaðr, er ek kem heim“. „Eigi vilda ek at þú færir“, segir hon, „til þess at

þú ætlaðir þér at verða yfirmaðr Vatnsdæla, því at þér mun þat eigi lagit verða, enda ertu eigi til þess feldr". Hann svarar: „Í öðru skulu þín ráð standast enn eigi hér um". Til þessa fundar ætlaði ok Klakka-Ormr ok Þorgrímr frá Karnsá, dótturson Ingimundar. Þorgrímr þótti bezt tilfallinn fyrir frændsemi við Vatnsdæli, enn þó skyldi þat til hlutfalls leggja, því at margir þóttust vel til fallnir. Þessi fundr var lagiðr at einmánaði í Forsæludal at Klakka-Orms. Þorkel silfra dreymdi ena næstu nótt áðr fundrinn var, ok sagði Signýju konu sinni, at hann þóttist ríða ofan eftir Vatnsdal hesti rauðum, ok þótti honum trautt við jörðina koma — „ok vil ek svo ráða, at rautt mun fyrir brenna, ok til virðingar snúa". Signý kvaðst annan veg ætla — „sýnist mér þetta illr draumr", ok kvað hest mar heita, enn mar er mannsfylgja, ok kvað rauða sýnast ef blóðug yrði — „ok má vera, at þú sér veginn á fundinum, ef þú ætlar þér goðorðit, því at nógir munu þér þess fyrirmuna". Þorkell lét sem hann heyrði eigi, ok bjóst vel heiman at klæðum ok vápnum, því at hann var skartsmaðr enn mesti ok kom í síðasta lagi. Þorgrímr kom snemma dags, ok sat í öndvegi hjá Ormi; hann gekk aldri við faðerni Þorkels kröflu. Hann lék sér þá enn á gólfi með öðrum börnum, ok var bæði mikill ok sterkr ok manna

fríðastr. Hann nam staðar fyrir Þorgrími ok horfði á hann mjök lengi, ok á taparöxi er hann helt á. Þorgrímr spurði hví ambáttarson sjá styrði svo á hann. Þorkell kvað eigi ofmikit sitt gaman, þó (at) hann horfi á hann. Þorgrímr spurði: „Hvat viltu til vinna, krafla, at ek gefa þér öxina, því at ek sér at þér lízt vel á hana, ok hitt, at ek ganga við frændsemi þinni". Þorkell bað hann ákveða. Þorgrímr mælti: „Þú skalt færa öxina í höfuð Silfra, svá at hann fái aldri goðorðit Vatnsdæla; þykki mér þú þá sjálfr færa þik í Vatnsdælakyn". Þorkell kvaðst þetta gera mundu. Þorgrímr leggr nú ráð til, at hann láti sem verst með öðrum sveinum. Silfri sat svo jafnan, at hann setti hönd undir kinn, enn lagði fót á knê sér. Þorkell skyldi hlaupa í saur, enn aðra stund inn, ok koma við klæði Silfra ok vita ef hann reiddist. Nú ræða þeir um goðorðit ok verða eigi ásáttir; vildi hverr sinn hlut fram draga. Þá leggja þeir hlut í skaut, ok kom jafnan upp hlutr Silfra, því at hann var margkyndugr. Þorgrímr gekk þá fram ok mætti Þorkatli kröflu í dyrum hjá sveinum. Þorgrímr mælti þá: „Nú vil ek at þú greiðir öxarverðit". Þorkell mælti þá: „Öxar em ek allfúss, ok má ek vel greiða verðit, þótt eigi sé nú þann veg vara til sem þú vildir". Þorgrímr svarar: „Fleira mun nú tekit enn vara ein". Þorkell

mælti: „Viltu nú at ek drepa Silfra?“ „Já“, kvað Þorgrímr. Þá var komit goðorðit í hlut Silfra. Þorkell krafla kom inn í stofu ok gekk hjá Silfra ok kom við fót honum, enn hann hratt honum frá sér sér ok kallaði hann ambáttarson. Þorkell hljóp upp í sætið hjá ok keyrði taparöxina í höfuð honum, ok var Þorkell silfri þegar dauðr — ok kvaðst eigi of mikit vinna til öxarinnar. Þorgrímr kvað sveininn hafa verit illa beiddan, — „enda hefir hann eigi vel staðizt; hefir piltr þessi nú næsta sagt sig sig í Vatnsdæla kyn ok mun ek ganga við faðerni þínu“. Síðan tók Þorgrímr goðorðit ok var kallaðr Karnsárgoði. Sæzt var á víg Silfra, því at synir hans vóru ungir. Þorkell fór heim til Karnsár með föður sínum, ok beiddist at fara utan, ok vita hve til tækist, ef hann hitti Sigurð jarl Hlöðvesson frænda sinn. Þorgrímr kvað hann hafa skyldu þat er hann vildi.

43. Björn hét austmaðr, er skip átti búit til hafs; með honum fór Þorkell krafla utan; þeir kvómu við Orkneyjar. Þá var Sigurðr jarl í eyjunum. Björn var jarli kunnigr, ok leitaði at hann tæki við þeim Þorkatli ok kvað hann góðra manna ok mikils verðan ok mjök fyrir íslenzkum mönnum; jarl kvaðst mundu taka við þeim, ok spurði at ætt Þorkels, enn hann sagði til hver var, enn hann hugleiddi þat lítt. Síðan tók jarl við þeim. Einlyndr þótti þeim

jarlsmönnum Þorkell vera; aldri gekk hann ór rúmi sínu nema jarl gengi, ok honum var hann mjök fylgjusamr. Eitt sinn um várit fór hirðin til leiks ór höllinni, enn jarl sat eftir með fá menn ok mælti: „Þú ert staðfastari enn flestir menn aðrir, Þorkell, at þú ferr eigi til leika, eða hvat sagðir þú mér af ætterni þínu“. Þorkell taldi þá ætt sína ok vaknaði jarl við ok svarar: „Þú munt vera skyldr mér, ok ertu seinn mjök í slíkum sögnum“. Jarl jók þá virðing hans, ok um sumarit eftir fór jarl í hernað, ok spurði Þorkel hvárt hann vildi fara með honum. Hann kvaðst fara vildu, ef jarl vildi. Þeir herjuðu víða um sumarit. Ok eitt sinn, er þeir gerðu upprás í Skotlandi ok kvómu aftr til skipa, spurði jarl, hversu margra manna vant væri. Var þá at hugat, ok var Þorkels eins saknat. Hann hafði verit á skipi jarls. Þeir kvóðu engan skaða vera um svá tómlátan mann. Jarl bað fara í stað ok leita hans; ok svá var. Þeir fundu Þorkel í skógarrjóðri við eik eina; tveir menn sóttu at honum, enn fjórir lágu dauðir hjá honum. Á brott hlupu atsóknarmenn Þorkels þegar jarlsmenn kvómu. Jarl spurði hvat dvalit hefði. Þorkell mælti: „Þat hefir ek heyrt yðr mæla, at renna skyldi frá skipum ok á land upp, enn aldri þat at renna til skipa svá at hverr hlypi frá öðrum“. Jarl svarar: „Þú segir satt, frændi, skal ok svá

vera heðan af; enn sá skal engi hlutskifti taka, er þat gerir, at renna frá merki af landi ofan". Jarl spurði hvárt þat væri landsmenn, er dauðir lágu hjá honum, eða hans menn. Þorkell kvað þat landsmenn. Hann kvaðst farit hafa hjá kastala einum, — „ok þar sem ek gekk, hröpuðu ór steinvegginum steinar nokkurir, ok þar í fann ek fé eigi svá lítit; ok þetta sá kastalamenn, ok sóttu eftir mér, ok varð þá fundr várr slíkr sem sjá mátti". Jarl tjáði þá fyrir þeim frækleik hans. Síðan spurði jarl, hve mikit fé þat væri. Hann kvað vera tuttugu merkr silfrs. Jarl kvað hann eiga þann fjárhlut ok engan annan. Þorkell kvað jarl eiga, ok alt sitt hlutskifti. Jarl kvað þá báða eiga skyldu, ok eigi kom þat fé í skifti. Jarl lagði mikla virðing á Þorkel fyrir þessa för; hann var með jarli tvá vetr, þá fýstist Þorkell til Íslands ok sagði þat jarli. Hann svarar: „Þess væntir mik, at frændum þínum verði sæmd at þér". Hann gerðist handgenginn jarli, ok hann gaf honum öxi gullrekna ok góð klæði, ok kvaðst vera skyldu vinr hans. Jarl gaf honum kaupskip með farmi þeim sem hann kjöri. Gullhring sendi hann Þorgrími til frelsis Nereiði, er vá hálfa mörk. Nereiði sendi hann allan kvenbúnað góðan fyrir frændsemi. Síðan lét Þorkell í haf ok fórst honum vel. Hann kom skipi sínu í Húnavatnsós. Þorgrímr Karn-

sárgoði reið til skips, ok fagnaði vel syni sínum, ok bauð honum til sín, ok þat þá hann. Þorgrímr gaf Nereiði frelsi svá sem jarl hafði orð til sent. Litlu eftir þetta tók Þorgrímr sótt ok andaðist, enn synir hans skírgetnir tóku arf allan sem lög stóðu til. Þórormr var bróðir Klakka-Orms, föður Þorgríms, föður Þorkels. Þórormr fór á fund Þorkels ok bauð honum til sín, ok þat þá hann. Þorkell var blíðr maðr ok lyndisgóðr.

**44.** Þorgils hét maðr, er bjó at Svínavatni; hann átti sér húsfreyju, ok með henni fjóra sonu, ok eru tveir nefndir, Þorvaldr ok Ormr. Glæðir hét bróðurson Þorgils, enn (hann) var systurson Guðmundar ens ríka á Möðruvöllum. Glæðir var áburðarmaðr mikill, málugr ok óvitr ok hiñn mesti gapuxi. Þeir feðgar Þorgils ok Þorvaldr fóru til Klakka-Orms at biðja Sigríðar dóttur hans; var því vel svarat, ok ákveðin brúðhlaupsstefna at vetrnóttum í Forsæludal. Þar var fáment heima, enn starf mikit fyrir höndum, bæði at sækja á fjall sauði ok svín, ok mart annat at gera. Þorkell bauðst til at fara með verkmönnum á fjall. Ormr kvaðst þat vllja. Þeir fóru síðan ok sóttist þeim seint, því at féit var stygt; sótti enginn knálegar enn Þorkell. Þat þótti torsóttlegast at eiga við svínin. Þorkell var óhlífinn ok bauðst jafnan til þess er öðrum þótti verr at gera. Ok er þeir skyldu

búa sér vistir, mælti Þorkell: „Mun eigi vel fallit at taka oss grísinn nokkurn til matar?“ Þorkell tók einn, ok bjó til borðs. Allir urðu á þat sáttir, at Þorkell var fyrir þeim um alla liðsemd. Þeir kvómu heim. Ávaldi hét maðr er var með Klakka-Ormi, hann var Ingjaldsson; hann var umsýslumaðr, enn Hildr kona hans fyrir innan stokk; hon var dóttir Eyvindar sörkvis. Litlu áðr enn brúðhlaupit skyldi vera, kom Glæðir austan ór Fjörðum ok frétti nú þessi tíðindi ok ráðastofnan. Glæðir kvaðst hafa ok spurt önnur tíðindi, — „enn þat er fjallferð Þorkels kröflu, at hann var valiðr til svínagæzlu; kvað hann (þat) ok maklegast um ambáttarsoninn, ok kvað hann drepit hafa grísinn þann er drukkit hafði spenann um nóttina áðr, ok legit hjá galta, því at hann kól sem aðra hundtík“. Þorgils mælti: „Þetta er heimsklegt gaman, er þú hefir, ok er svá sagt, at Þorkell hafi svo farit, at þannig sami bezt, bæði þar ok annarstaðar“. „Auvirðlega þykki mér honum tekizt hafa“, segir Glæðir. Nú koma menn til brúðhlaups, þá mælti Þorkell til Orms fóstra síns: „Ek mun vinna mönnum beina, ok vera fyrir starfi ok til ætlanar“. Ormr kvaðst þat gjarna vilja þiggja. Þorkell veitti vel ok stórmannlega. Þeir Ormr sátu í öndvegi enum óæðra megin ok hans menn. Þorkell gekk mjök um beina, ok var lítilátr í sinni þjónustu. Þeir ór Svínadal hlógu

at honum mjök, ok kvóðu ærit stóran vera ambáttar soninn. Þorkell kvað meiri kurteisi at láta gleði ok gamanræður koma í mót beinleika, enn skaup eða atyrði. Glæðir kvað hann mörg stórvirki unnit hafa — „ok máttu af þér stórlega láta; þat nú fyrir skemstu, er þú drapt grísinn, þann er eina nótt hafði drukkit spenann; er þat ok þín iðn“. Þorkell svarar: „Fá eru mín stórvirki, Glæðir, enn þó munu þau fleiri enn þín, ok er þér óskylt um þetta at tala“. Glæðir hló at Þorkatli fyrir Þorvaldi, ok kvað hann fimastan við matreiðuna. Þorvaldr kvað Glæði óvitrlega mæla. Ok um kveldit fóru menn at sofa. Um morgininn gekk Þorkell í útibúr ok hvatti öxina jarlsnaut, ok gekk síðan í anddyri; þá var Glæðir þar ok tók laugar. Þá gengu menn hjá honum með slátrtrog. Glæðir mælti til Þorkels: „Nær muntu verit hafa búverkunum í morgin, ok munu vér skulu nú njóta hans galta, ok lát þat feitast, er fyrir oss kumpána kemr; þat hæfir vel ambáttarsyni“. „Mun eigi vel fallit at brytja fyrst höfuðit“, kvað Þorkell, „ok velja stykkin fyrir þik, ok aldri veit ek at þú sér nú svá frekr, at torsótt sé at fylla þik“. Þann dag skyldi frá boðinu ríða. Þorgils spurði hvárt búinn væri dagverðr. Þorkell kvað búinn þegar soðit var, ok kvað skamt til þess, ok gekk út verkmanna dyrr ok inn aðrar dyrr, ok tók öxi sína ok stóð hjá

dyrum. Ok er Glæðir gekk út, gekk Þorkell eftir honum ok hjó til hans í höfuðit, ok hafði Glæðir þegar bana. Þorkell hljóp til norðrdyra því at þeir vóru fyrir suðrdyrum. Matr stóð um alt húsit. Þorgils var fjölmennr, ok hlupu menn hans um húsit, ok hyggja Þorkel eigi skulu út skulu komast, ok ætla at hafa hendr á honum. Þorkell hljóp um sætin. Skot vóru um húsit ok lokhvílur, ok ór einni lokhvílu mátti hlaupa í skotit. Hann leitar þangat sem konur sátu ok földuðu sér; hann hljóp þar at er Hildr var fyrir. Hon spurði hví hann færi svo hart. Þorkell segir sem var. Hon bað hann fara í skotið hjá sér ok þar komst hann út. Þorgils mælti: „Snúum þar at er konurnar eru, því at mér þótti maðrinn þangat hlaupa“. Hildr tók öxi í hönd sér, ok kvað eigi skyldu einn þeirra af sér taka. Þorgils hyggr Þorkel þar nú vera munu, ok biðr bera klæði at þeim, ok svá var gert, ok fanst Þorkell eigi. Þorgils sá nú, at þetta var eigi utan prettr ok dvöl, ok fóru út síðan, ok er þeir kvómu út, þóttust þeir sjá svip manns niðr við ána. Þorgils bað leita þangat, ok svá var gert, ok fanst hann eigi. Þorkell vissi, at þar var hellir við ána, er nú heitir Kröfluhellir, ok þar var hann. Þeir Þórormr ok Klakka-Ormr leituðu um sættir. Eigi vildi Þorgils bætr taka, enn brugðu eigi ráðahag

þessum, ok kvóðu mannhefndir skyldu fyrir koma víg Glæðis. Þórormr leiddi brúðmenn ór garði ok leitaði jafnan um sættir ok fekk eigi, ok skildu at því. Þorkell var ýmist þann vetr á Karnsá með bræðrum sínum eða með öðrum frændum sínum, því at allir vildu honum veita nokkura ásjá, ok hugðu gott til, at nokkurr þroski yrði hans í þeirri sveit, svá at eigi settist þar utanheraðsmenn yfir þá. Þeir fóru Vatnsdælir at leita honum traustø til Þórdísar spákonu, er bjó at Spákonufelli; hon var mikils verð ok margs kunnandi, ok báðu hana ásjá ok fulltings um mál Þorkels, ok kvóðu þar allmikit undir þykkja, at (hon) legði til nokkut ráð. Hon kvað ok svá vera skyldu. Þorgils fór at hitta Guðmund ríka, ok kvað honum skyldast vera, at mæla eftir frænda sinn, — „enn ek mun at fylgja". Guðmundr mælti: „Eigi þykki mér málit svá hægt, því at ek hygg at Þorkell verði mikilmenni, enn margr frændi til aðstoðar, enn mér hefir svá til spurzt, at eigi (sé) fyrir sakleysi tiltekt Þorkels. Nú bú þú til málit, enn ek mun við taka í sumar á þingi". Um várit bjó Þorgils málit til alþingis. Vatnsdælir fjölmentu mjök, ok svá hvárirtveggju. Þorgils reið til þings með mikla sveit manna. Þorkell reið ok til þings með frændum sínum. Þar reið með þeim Þórdís spákona, ok átti ein sér búð ok hennar menn; tók

þá Guðmundr við málinu. Þeir Vatnsdælir buðu sættir, enn þeir Guðmundr vildu eigi utan sektir. Þórormr hitti Þórdísi ok ræðst um við hana, því at hon var forvitra ok framsýn, ok var tekin til þess at gera um stór mál. Hon mælti þá: „Fari Þorkell hingat til búðar minnar, ok sjám hvat í gerist“. Svá gerði Þorkell. Þórdís mælti við Þórorm: „Far þú, ok bjóð Guðmundi sættir, enn ek gera um málit“. Þorkell gaf Þórdísi tvau hundruð silfrs. Þórormr bauð dóm Þórdísar á málinu, enn Guðmundr nítti, ok kvaðst eigi vilja taka fébætr. Þórdís mælti: „Ek ætla mér ok engan vanda við Guðmund“. Síðan mælti hon við Þorkel: „Far þú nú í kufl minn enn svarta, ok tak stafsprotann í hönd þér er Högnuðr heitir; eða muntu þora at ganga í flokk Guðmundar við svá búit?“. Hann kvaðst þora mundu með hennar ráði. Hon svarar: „Hættu nú til þessa. Nú skaltu ganga til Guðmundar, ok drepa sprotanum þrisvar sinnum á ena vinstri kinn honum, ok eigi sýnist mér þú bráðfeiglegr ok vænti ek at dugi“. Hann kom í flokkinn Guðmundar, ok sá engi maðr til hans. Hann kom at Guðmundi, ok gat á leið komit því sem honum boðit var. Nú frestaðist framsókn sakarinnar ok dvelst málit. Þorgils mælti: „Hví gengr eigi fram málit“. Guðmundr kvað brátt greiðast mundu, enn þat varð eigi, ok dvaldist stundin, svá at ónýtt var málit til sóknar.

Þórdís hitti Vatnsdæli, ok bað þá ganga at dómum, ok bjóða fé fyrir manninn, — „ok má vera at nú taki þeir, ok lúkist svá málit". Þeir gerðu svá, gengu til dóma ok hittu Guðmund, ok buðu sættir ok fébætr. Guðmundr svarar: „Ek veit eigi hvat þér vilið bjóða, enn mikils vil ek þat virða í málinu, at sá er veginn var, hafði mælt sér til óhelgi". Þeir kvóðust vel vilja bjóða fyrir hans sakir, ok báðu hann um mæla. Ok er hann skildi (í) hvert efni komit var málinu, ok eigi mátti sækja til laga, þá tók hann sjálfdæmi af Þórormi, at gera fé slíkt sem hann vildi, at undanskildum utanferðum, ok heraðssektum; var þá handsalat niðrfall at sökum. Þá sendi Þórdís Þorkel í annat sinn til Guðmundar, at láta koma stafsprotann við hægri kinn honum, ok svá gerði hann. Þá tók Guðmundr minnit, ok þótti kynlegt at þat hafði frá honum horfit. Guðmundr gerði hundrað silfrs fyrir víg Glæðis, ok fellu þá niðr gagnsakir, ok guldu þau Þórormr ok Þórdís alt féit ok skildust sáttir. Þorkell fór til Spákonufells með Þórdísi heim. Þorgils mælti til Guðmundar: „Hví skipaðist svá skjótt hugr þinn um málin í dag? Guðmundr svarar: „Því at ek kunna eigi orð at mæla frá munni, ok því var ek tregr, ok má vera, at við ramman væri reip at draga". Fóru nú heim af þingi.

45. Vatnsdælar efldu Þorkel kröflu mjök til

virðingar um alla hluti. Þeir báðu konu til handa honum, ok goðorðit lagðist til hans, því at þeir Surtr ok Högni Ingólfssynir vóru þá ellifu vetra enn annarr fimtán, ok náðu þeir eigi staðfestum sínum af Þorkatli, ok var Hofsland keypt til handa honum, ok gerðist Þorkell nú höfðingi yfir Vatnsdælum. Lið Óttars dreifðist norðr til sveita, ok var eigi at því gaumr gefinn. Hallfreðr ok Galti synir Óttars fóru norðr ok enn fleira barna hans. Oft kom Hallfreðr til Skegg-Ávalda, ok talaði við dóttur hans, er Kolfinna hét. Þeirrar konu fekk Gríss Sæmingsson, enn þó lék et sama orð á með þeim Hallfreði sem segir í sögu hans. Ok eitt sinn er hann kom út, því at hann var farmaðr, enn Gríss var á þingi, þá kom Hallfreðr þar sem Kolfinna var í seli, ok lá þar hjá henni. Ok er (Gríss) vissi þetta, líkar honum stórilla; enn Hallfreðr fór utan þegar samsumars. Á leiðmóti í Vatnsdal var fjölmenni mikit ok tjölduðu menn búðir, því at vera skyldi tveggja nátta leið. Þorkell átti búð mesta ok fjölmennasta. Skegg-Ávaldi átti búð saman ok Hermundr son hans, ok er Galti Óttarsson var genginn erinda sinna, mætti hann Hermundi, enn hann mintist á sakir þær er Hallfreðr hafði gert við þá, ok hljóp at Galta, ok drap hann ok fór síðan í búð til föður síns. Ok er Þorkell spyrr vígit, spratt hann upp með sveit

sína, ok vill hefna. Hildr stóð í dyrum, móðir Hermundar, ok mælti: „Hitt er nú, Þorkell, betra ráð, at hlaupa eigi svá skjótt, ok var þér þat í hug eitt sinn þá er vit fundumst, at þú mundir eigi drepa son minn fyrir augum mér“. Þorkell (mælti): „Nú er fleira í komit, enn þá vissum vér ván; gakk nú út ór búðinni“, kvað Þorkell, — „því at þá muntu eigi sjá son þinn höggvinn fyrir augum þér, ef þú gerir svá“. Hon skildi þó raunar hvat hann mælti til hjálpar manninum, ok þótti bæði skjótt ok skörulegt hans órræði, ok tók hon síðan búnaðinn af höfði sér, ok bjó hann með, enn settist í rúm hans, at eigi gengi fleiri konur út en ván var. Þorkell bað þær skynda, ok þröngdist at þeim, ok mælti: „Standið þér eigi svá, því at ærin er þó raun konunnar, at hon sjái eigi manninn höggvinn, eða heyra til“. Þeir vildu þegar inn hlaupa, ok drepa Hermund. Þorkell fór þá í búðar dyrnar, ok mælti: „Sjám hvat oss hæfir, at drepa eigi heraðsmenn vára sjálfra ok þingmenn, ok sættumst heldr“. Var þá leitat um sættir milli þeirra, ok var svá til þuklat, at hvárirtveggju undu vel við, ok gervar bætr svá miklar, at þeir vóru vel sæmdir, er taka áttu. Leysti Þorkell svá þetta mál sér af hendi með drengskap, ok allir undu vel við. Öllum málum var til hans skotit um heraðit,

því at hann þótti mestrar náttúru í Vatnsdælakyni, annarr enn Þorsteinn Ingimundarson.

46. Nærri þessum tíma kom út Friðrekr biskup ok Þorvaldr Koðransson, er kallaðr var enn víðförli. Þessu næst kom út annat skip, ok vóru þar á berserkir tveir ok hét Haukr hvárrtveggi; þeir urðu óvinsælir af mönnum, því at þeir buðu mönnum nauðung til kvenna eða fjár, ella buðu þeir hólmgöngu. Þeir grenjuðu sem hundar, ok bitu í skjaldarrendr, ok óðu eld brennanda berum fótum. Þeir biskup ok Þorvaldr fóru með nýjan sið, at bjóða mönnum aðra trú, enn sú er hér var áðr. Þeir vóru at Giljá hinn fyrsta vetr. Landsmenn stygðust við nýgervingum þessum, er þeir biskup fóru með. Koðran tók trú ok skírn í fyrsta lagi, ok kona hans. Óláfr at Haukagili var svá gamall, at hann lá í rekkju, ok drakk horn. Um haustit at vetrnóttum bauð Óláfr til sín vinum sínum, einkum Þorkatli mági sínum. Þeir biskup ok Þorvaldr vóru þar. Vel at eins tók Þorkell þeim, ok lét þá vera eina saman í húsi, því at þeir höfðu annan sið. Enn fyrsta aftan veizlunnar var sén ferð berserkjanna, ok kvíddu menn mjök við þeim. Þorkell spurði biskup, ef hann vildi ráð til leggja, at berserkir þessir fengi bana. Biskup bað þá taka við trú, ok láta skírast, enn hann kvaðst mundu af ráða illmenni þessi, — „með yðrum atgangi“. Þorkell

mælti: „Alt er þá nærr, ef þér sýnið mönnum jarteinir“. Biskup mælti: „Látið gera elda þrjá á gólfi í skálanum“, ok svá var gert. Síðan vígði biskup eldana, ok mælti: „Nú skal skipa bekkina af mönnum þeim er beztir eru áræðis með stóra lurka, því at þá bíta eigi járn, ok skal svá ber(j)a þá til bana“. Síðan gengu þeir nafnar inn, er þeir kvómu, ok óðu eldinn fyrsta ok svá annan, ok brunnu þá mjök, ok urðu nú furðulega hræddir af eldshitanum, ok vildu þegar at bekkjunum. Síðan vóru þeir lamdir til bana, ok vóru færðir upp með gili því, er síðan heitir Haukagil. Biskup þóttist kominn til kaups við Þorkel, at hann tæki við trú, ok léti skírast. Þorkell kvaðst eigi vilja aðra trú hafa — „enn þeir Þorsteinn Ingimundarson höfðu ok Þórir fóstri minn; þeir trúðu á þann er sólina hefir skapat, ok öllum hlutum ræðr“. Biskup svarar: „Þá sömu trú boða ek með þeirri grein, at trúa á einn guð, föður, son ok heilagan anda, ok láta skírast í vatni í hans nafni“. Þat þótti Þorkatli mest af bregða, er í vatni skyldi þvóst, ok kvaðst eigi nenna enn um sinn at hafa þessa breytni, enn kvaðst þó hyggja, at sjá mundi góð, — „ok þessi skipan mun hér ok við gangast. Óláfr bóndi, mágr minn, er gamall, hann skal taka við þessi trú ok allir aðrir þeir er

vilja, enn ek mun enn bíða um tíma". Síðan var Óláfr skírðr, ok andaðist í hvítaváðum, ok enn vóru skírðir fleiri menn at þeirri veizlu. Þorkell var skírðr þá er kristni var lögtekin á Íslandi, ok allir Vatnsdælar. Þorkell var mikill höfðingi; hann lét kirkju gera á bæ sínum, ok helt vel trú sína.

**47.** Bræðr tveir bjuggu í Engihlíð í Langadal, Fostólfr ok Þróttólfr; þeir vóru miklir fyrir sér. Þeir tóku við manni til ásjá, ok vildu hann hafa í leynum meðan þeir færi til þings á Kili fram frá Reykjavöllum, enn þeir myndi lúka málum hans. Aðrir tveir bræðr bjuggu at Móbergi í Langadal ok hétu Húnröðr ok Úlfheðinn, synir Véfreðar Ævarssonar ens gamla. Úlfheðinn var vinsælli þeirra bræðra. Þórólfr hét maðr, er kallaðr var leikgoði; hann var með þeim bræðrum. Úlfheðinn var mikill vinr Hólmgöngu-Starra, ok þat segja menn, þá er Þórarinn illi skoraði á hann til hólmgöngu, at Úlfheðinn fór með honum til hólmstefnunnar, ok í þeirri ferð gerði at þeim veðr ilt, ok ætluðu þeir vera gerninga veðr. Bárðr hét maðr, ok var kallaðr styrfinn; hann fór með þeim. Þeir báðu hann aftra veðrit, því at hann var margkunnigr. Hann bað þá handkrækjast ok gera hring; síðan gekk hann andsælis þrysvar ok mælti írsku; hann bað þá já við kveða. Þeir gerðu svá. Síðan veifði hann gizka til fjalls, ok tók þá af veðrit. Þeir Þróttólfr ok Fostólfr fóru til þings, sem fyrr segir, enn maðrinn var meðan í Þjófadal, ok vænti, at þá mundi minna fé goldit, ef hann færi eigi sjálfr. Þeir riðu ok til þings Húnröðr ok Þórólfr leikgoði.

Hross hlupu frá þeim skamt frá Reykjavöllum ok leituðu víða, ok fundu eigi. Þeir sá mann skamt frá sér, ok hugðu vera illmenni, ok hann mundi tekit hafa hross þeirra; þeir fréttust ok eigi fyrir, ok hlupu þegar at honum ok drápu hann; riðu síðan til þings ok sögðu þeim bræðrum Þróttólfi ok Fostólfi; þeim líkaði stórilla, ok beiddu bóta fyrir, ok kvóðust sæzt hafa við frændr hins vegna ok grið tekit, ok síðan goldit fé fyrir hann. Húnröðr kvaðst ætla, at vera muni önnur fégjöld til skyldri, ok riðu við þat af þinginu. Þeir bræðr keyptu land á Kólkumýrum er í Holti heitir. Þorfinnr hét maðr, ok bjó á Breiðabólstað í Vatnsdal, frændi þeirra; hann átti ferð út á Skagaströnd, ok svá bar til at Úlfheðinn fór út þangat, ok Þórólfr leikgoði með honum, ok er þeir kvómu til Breiðavaðs á Blöndu, riðu þeir Þorfinnr ok bræðrnir, Fostólfr ok Þróttólfr, seinna nokkut. Þeir Fostólfr kvóðu vel á komit at finna Úlfheðin, — „því at þeir bræðr drápu mann okkarn í sumar, ok skal ríða eftir þeim“. „Eigi mun ek eftir ríða“, kvað Þorfinnr, ok svá var. Síðan ríða þeir bræðr eftir í ákefð. Þetta sér Þórólfr leikgoði. (Þá) mælti hann: „Ríðum undan hart, hér fara þeir bræðr eftir okkr“. „Nei“, kvað Ulfheðinn, — „þat gerir ek eigi, því at þeir kalla mik þá renna“. Þórólfr hleypti út á ána, enn þeir bræðr unnu á Úlfheðni, ok lá hann þar eftir. Síðan riðu þeir bræðr aftr, ok sögðu Þorfinni tíðindin. Hann kvað ómaklega gert við góðan dreng, ok fór hann heim í Vatnsdal. Úlfheðinn var særðr til ólífis. Húnröðr fór eftir honum, bróðir hans, ok flutti hann heim, ok bað hann

Húnröð bróður sinn sættast á mál þessi eftir sik, ok kvað eigi hefnda mundu auðit verða, — „því at ek minnumst nú á ferðina hina fyrri, ok veit ek þann engan sóttdauðan vorðit hafa, er í þeirri ferð vóru“. Síðan andaðist Úlfheðinn, enn Húnröðr lét ólíklega við sættinni, ok bjó málit til alþingis. Þorfinnr bauð sætt ok fébætr, enn Húnröðr kvaðst eigi vilja, nema sektir þeirra, ok svá varð, ok reið við þat af þingi. Þeir bræðr gerðu virki mikit í Holti á Kólkumýrum, ok varð Húnröði torfelt at sækja þá. Skúmr hét lausingi einn, hann hafði aflat fjár, ok orðinn auðigr. Húnröðr eyddi fyrir honum, ok fór hann utan, ok kom til Noregs, ok fór norðr í Þrándheim. Hann fekk þar stórfé ok dvaldist þar; kom auðigr í annan tíma. Húnröðr eyddi öllum peningum sínum, ok svá þeim er Skúmr hafði átt, svá at hann varð nálega félauss. Hann fór á fund Þorkels Vatnsdælagoða ok sagði honum sín vandræði. Þorkell mælti: „Ilt ráð hefir þú upp tekit, at taka eigi bætr eftir bróður þinn, þar sem hann sagði þér svá fyrir, at þér mundi eigi annat hlýða, ok hefir þú nú hvártki fé né hefndir; enn fyrir því, er þú hefir sótt mik heim at ráðum, þá mun ek fara til með þér, ok leita um sættir“. Síðan hitti Þorkell þá bræðr, ok spurðu hvárt þeir vildu sættast við Húnröð ef kostr væri; þeir létu seinlega við, ok kvóðu honum nú eigi betra at sættast, enn þá er honum var boðit. Þorkell mælti: „Nú skulu þit gera annathvárt, at fara utan sem mælt var, ella mun ek engin ráð leggja til með yðr“. Þeir kvóðust hans orð mikils skyldu virða, — „ok viljum vit þik sízt

í móti okkr hafa". Þeir fóru nú utan, ok kvómu í Þrándheim; þá mælti Þróttólfr: „Eigi skiftir þat högum til, at Húnröðr, góðr drengr, skal vera félauss vorðinn, ok hlotit þat mest af okkr, enn þræll hans Skúmr skal vorðinn auðigr sem Njörðr". Síðan fóru þeir ok drápu hann, enn tóku fé hans alt ok sendu Húnröði. Litlu síðar kom Þróttólfr út, ok fór á fund Þorkels kröflu, ok bað hann fylgja at sætt þeirra Húnröðar. Þorkell kvað svá vera skyldu. Hann ferr síðan á fund Húnröðar, ok með vitrleika sínum ok góðum vilja, þá sætti hann þá heilum sáttum, svá at hvárirtveggju undu vel við hans ummæli. — Þorkell varð gamall maðr, ok þá er hann lá í banasótt sinni, stefndi hann til sín vinum sínum, frændum ok þingmönnum. Þorkell mælti þá: „Ek vil yðr kunnigt gera, at ek hefir fengit sjúkdóm nokkurn, ok þykki mér líklegt, at hann muni skilja várar samvistur, ok hafi þér vel hlítt minni forsjá, ok verit mér hlýðnir ok eftirlátir". Síðan bað hann virkta öllum sínum frændum ok virktavinum; bjóst Þorkell mjök kristilega við sínum dauða, eftir því sem honum samdi, því at hann var vel kristinn maðr, ok ræktaði vel trú sína. Eftir þat andaðist hann, ok var mjök harmdauði þingmönnum sínum ok öllum heraðsmönnum, því at hann þótti sem var, enn mesti heraðshöfðingi ok mikill giftumaðr, ok enn líkasti enum fyrrum Vatnsdælum, svá sem Þorsteini ok Ingimundi, ok bar Þorkell þat fyrir, at hann var rétt trúaðr maðr ok elskaðr sem sá, er framast elskaði sannan guð. Ok gerum vér þar enda á Vatnsdælasögu.

# Nöfn.

# HRAFNKELS SAGA FREYSGOÐA.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

**VALD. ÁSMUNDARSON.**




REYKJAVÍK.

KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1893.

# FORMÁLI.

Hrafnkels saga freysgoða er hér prentuð eftir útgáfu Konráðs Gíslasonar, Khöfn 1847, sem er útgefin af norræna fornritafélaginu (det nordiske litteratur-samfund). Auk þess hefir verið haft til samanburðar eftirrit af sögunni, sem séra Þorleifr Jónsson á Skinnastöðum hefir ritað með samanburði handrita og ætlað til prentunar, enn það virðist alveg samhljóða útgáfu Konráðs Gíslasonar.

Af sögu þessari er að eins eitt blað til á skinni. Það er í safni Árna Magnússonar (AM. 162, I, fol.), og er ritað skömmu eftir 1400; það nær frá miðjum 9. kapítula fram í 11. kap.; hefst á orðunum *„ætta þat eigi“* (í þessari útgáfu á bls. 16), og endar á orðunum *„var boðit til varnar ne(ma)“* (í þessari útgáfu á bls. 22). Utan af þessu blaði hefir verið skorið bæði af framröndinni og neðri röndinni, svo að málið hefir verið skert.

Mörg pappírshandrit eru til af sögunni, svo sem í safni Árna Magnússonar (AM. 144, 156, 157 e. og 158 í fol. 443, 451, 496 (að eins upphaf og endir) 551 c. og 551 d. í 4to). Ekkert af þessum handritum er eldra enn frá 17. öld. Eitt af handritunum, og líklega hið elzta, Mánaskálarbók (AM. 551 e., 4to), slengir saman Hrafnkelssögu og Droplaugarsona sögu hinni meiri (Fljótsdælu).

Auk þessa eru nokkur handrit til af sögunni í öðrum bóksöfnum erlendis og hér á landi. Öll þessi handrit eru mjög lík, nema lítilsháttar orðamunr er víða.

Hrafnkels saga hefir verið gefin út á prenti þrisvar áðr. 1. af Konráði Gíslasyni og P. G. Thorsen, Khöfn 1839. 2. af Konráði Gíslasyni, Khöfn 1847. 3. af Karl L. S. Sommerfeldt, Kristiania 1879. — Lítill hluti hennar er og prentaðr í „Antiquités Russes“, Khöfn 1852.

Margar þýðingar eru til af sögu þessari í heilu lagi og ágrip, einkum á dönsku, svo sem í mánaðarritinu „Minerva“ 1818, í tímaritinu „Dannebroge“ 1841, aftan við útgáfu Konráðs Gíslasonar og Thorsens 1847 eftir N. L. Westergaard, í „Billeder af Livet paa Island“ eftir Fr. Winkel-Horn, Khöfn 1871, og ágrip í „Sagabibliothek“ P. E. Müllers Sjálandsbiskups, í „Træk af Livet paa Island“ eftir C. Rosenberg og víðar. Á þýzku hefir sagan verið þýdd 1883 af Dr. Heinrich Lenk í Vín með fróðlegum inngöngum og athugasemdum.

Í þessari útgáfu er alveg fylgt útgáfu Konráðs frá 1847, nema sögunni er skift í 20 kapítula.

Hrafnkels sögu má að mörgu leyti álíta með hinum beztu Íslendinga sögum að efni, þótt hún sé stutt og ekki mjög forn að málinu til. Skapferlis einkunnir persónanna í sögunni koma mjög ljóst og vel fram, og hinar fjörugu samræður, sem eru í henni, gera hana mjög skemtilega.

Það verðr ekki með vissu sagt á hvaða árum viðburðir þeir, sem sagan segir, hafa gerzt, enn það hlýtr að hafa verið á fyrra helming 10. aldar, eftir því sem einnig má ráða af öðrum sögum.

Sigurðr fornfræðingr Vigfússon rannsakaði sögustaðina í Hrafnkels sögu á ferð sinni um Austfjörðu 1890. Munu þær rannsóknir koma á prent í Árbók Fornleifafélagsins, þeirri sem næst verðr gefin út. Eftir þessum rannsóknum eru flest staðleg atriði í sögunni nákvæmlega rétt hermd. — Þó má þess geta, að í handritunum stendr í 7. kap. (bls. 10): *Þá reið Þorbjörn braut ok ofan eftir Hrafnkelsdal*, þar sem á að vera *upp*, því að örnefnið Laugarhús er kunnugt enn í dag.

Sigurðr fornfræðingr gróf í haug Hrafnkels goða á Aðalbóli og fann þar mannabein og fleiri menjar, sem sýndu að þetta er fornmanna dys. Þetta eru að líkindum bein Hrafnkels, og eru þau nú komin á Forngripasafnið.

## TÍMATAL.

| | | |
|---|---|---|
| Fæddr Hrafnkell freysgoði . . . . . . | um | 905. |
| Útkoma þeirra feðga Hallfreðar og Hrafnkels . . . . . . . . . . . . . . . | — | 920. |
| Víg Einars Þorbjarnarsonar . . . . . | — | 945. |
| Sámr Bjarnason gerir Hrafnkel sekan á þingi og hrekr hann frá Aðbóli . . . . . . . . . . . . . . . . . . . | — | 946. |
| Hrafnkell vegr Eyvind og réttir aftr hlut sinn á Sámi . . . . . . . . . . | — | 952. |



# Hrafnkels saga freysgoða.

Þat var á dögum Haralds konungs hins hárfagra, Hálfdanar sonar hins svarta, Guðröðar sonar veiðikonungs, Hálfdanar sonar hins milda ok hins matarilla, Eysteins sonar frets, Óláfs sonar trételgju Svíakonungs, at sá maðr kom skipi sínu til Íslands, í Breiðdal, er Hallfreðr hét; þat er fyrir neðan Fljótsdalsherað. Þar var á skipi kona hans ok sonr, er Hrafnkell hét; hann var þá fimtán vetra gamall, mannvænn ok gervilegr. Hallfreðr setti bú saman. Um vetrinn andaðist útlend ambátt, er Arnþrúðr hét; ok því heitir þar síðan á Arnþrúðarstöðum. Enn um várit færði Hallfreðr bú sitt norðr yfir heiði ok gerði bú þar sem heitir í Geitdal. Ok eina nótt dreymdi hann, at maðr kom at honum ok mælti: „Þar liggr þú, Hallfreðr, ok heldr óvarlegr; fær þú á braut bú

þitt ok vestr fyrir Lagarfljót; þar er heill þín öll". Eftir þat vaknar hann, ok færir bú sitt út yfir Rangá í Tungu, þar sem síðan heitir á Hallfreðarstöðum, ok bjó þar til elli. Enn honum varð þar eftir ein geit ok hafr, ok hinn sama dag sem Hallfreðr var á braut, hljóp skriða á bæinn, ok týndust þar þessir gripir. Ok því heitir þat síðan í Geitdal.

**2.** Hrafnkell lagði þat í vanda sinn at ríða yfir á heiðar á sumarit. Þá var Jökulsdalr albygðr upp at brúnni. Hrafnkell reið upp eftir Fljótdalsheraði, ok sá, hvar eyðidalr gekk upp af Jökulsdal; sá dalr sýndist Hrafnkeli byggilegri enn aðrir dalir, þeir sem hann hafði áðr sét. Enn er Hrafnkell kom heim, beiddi hann föður sinn fjárskiftis, ok sagðist hann bústað vilja reisa þar. Þetta veitir faðir hans honum; ok hann gerir bæ í dal þeim, ok kallar á Aðalbóli. Hrafnkell fekk Oddbjargar Skjaldúlfsdóttur ór Laxárdal; þau áttu tvá sonu: hét hinn ellri Þórir, enn hinn yngri Ásbjörn. Enn þá er Hrafnkell hafði land numit að Aðalbóli, þá efldi hann blót mikit. Hrafnkell lét gera hof mikit. Hrafnkell elskaði ekki annat goð meir enn Frey, ok honum gaf hann alla hina beztu gripi sína hálfa við sik. Hrafnkell bygði allan dalinn, ok gaf mönnum lönd, enn vildi þó vera yfirmaðr þeirra, ok tók goðorð yfir þeim. Við þetta var

lengt nafn hans ok kallaðr freysgoði, ok var ójafnaðarmaðr mikill enn mentr vel. Hann þröngdi undir sik Jökulsdalsmönnum til þingmanna. Hrafnkell vár linr ok blíðr við sína menn enn stríðr ok stirðlyndr við Jökulsdalsmenn, ok fengu menn af honum engan jafnað. Hrafnkell stóð mjök í einvígum, ok bætti engan mann fé; því at engi maðr fekk af honum neinar bætr, hvat sem hann gerði.

Fljótsdalsherað er yfirferðarilt, grýtt mjök ok blautt; enn þó riðu þeir feðgar jafnan hvárir til annarra, því at gott var í frændsemi þeirra. Hallfreði þótti sú leið torsótt, ok leitaði sér leiðar fyrir ofan fell þau, er standa í Fljótsdalsheraði; fekk hann þar þurrari leið ok lengri ok heitir þar Hallfreðargata. Þessa leið fara þeir einir, er kunnugastir eru um Fljótsdalsherað.

3. Bjarni hét maðr, er bjó á þeim bæ, er at Laugarhúsum heitir; þat er í Hrafnkelsdal. Hann var kvángaðr ok átti tvá sonu við konu sinni, ok hét annar Sámr, enn annarr Eyvindr, vænir menn ok efnilegir. Eyvindr var heima með föður sínum; enn Sámr var kvángaðr ok bjó í norðanverðum dalnum á bæ þeim, er heitir á Leikskálum, ok átti hann mart fé. Sámr var uppivöðslumaðr mikill ok lögkænn; enn Eyvindr gerðist farmaðr, ok fór utan til Noregs ok var þar um vetrinn. Þaðan fór hann út í lönd ok nam staðar í Miklagarði, ok fekk

þar góðar virðingar af Grikkjakonungi ok var þar um hríð.

Hrafnkell átti þann grip í eigu sinni er honum þótti betri enn annarr. Þat var hestr brúnmóálóttr at lit, er hann kallaði Freyfaxa. Hann gaf Frey vin sínum þann hest hálfan. Á þessum hesti hafði hann svá mikla elsku, at hann strengdi þess heit, at hann skyldi þeim manni at bana verða, er honum riði án hans vilja.

4. Þorbjörn hét maðr; hann var bróðir Bjarna ok bjó á þeim bæ í Hrafnkelsdal, er at Hóli heitir, gegnt Aðalbóli fyrir austan. Þorbjörn átti fé lítit, enn ómegð mikla. Sonr hans hét Einarr hinn ellsti; hann var mikill ok vel mannaðr. Þat var á einu vári, at Þorbjörn mælti til Einars, at hann myndi leita sér vistar nökkurrar: „því at ek þarf eigi meira forvirki, enn þetta lið orkar, er hér er; enn þér man verða gott til vistar, því at þú ert mannaðr vel; eigi veldr ástleysi þessarri brautkvaðningu við þik, því at þú ert mér þarfastr barna minna; meir veldr því efnaleysi mitt ok fátækt, enn önnur börn mín gerast verkmenn; man þér verða betra til vistar enn þeim“. Einarr svarar: „Of síð hefir þú sagt mér til þessa, því at nú hafa allir ráðit sér vistir, þær sem beztar eru; enn mér þykkir þó ilt, at hafa af órvöl ein“. Tók Einarr nú hest sinn ok reið á Aðalból; Hrafnkell sat í stofu; hann heilsar honum vel

ok glaðlega. Einarr leitar til vistar við Hrafnkel. Hann svarar: „Hví leitar þú þessa svá síð? því at ek mynda við þér fyrstum tekit hafa. Enn nú hefi ek ráðit öllum hjónum mínum, nema til þeirrar einnar iðju, er þú mant eigi hafa vilja". Einarr spurði, hver sú væri. Hrafnkell kvaðst eigi mann hafa ráðit til smalaferðar, enn lézt mikils viðþurfa. Einarr kveðst eigi hirða, hvat hann ynni, hvárt sem þat væri eða annat; enn lézt tveggja missera bjargarvist hafa vilja. „Ek geri þér skjótan kost", segir Hrafnkell, „þú skalt reka heim fimmtigi ásauðar í seli ok viða heim öllum sumarviði; þetta skaltu vinna til tveggja missera vistar; enn þó vil ek skilja á við þik einn hlut sem aðra smalamenn mína; Freyfaxi gengr í dalnum fram með liði sínu; honum skaltu umsjá veita vetr ok sumar. Enn varnað býð ek þér á einum hlut: ek vil at þú komir aldri á bak honum, hversu mikil nauðsyn sem þér er á; því at ek hefi hér allmikit ummælt, at þeim manni skyldi ek at bana verða, sem honum riði. Honum fylgja tólf hross; hvert sem þú vilt hafa þér til þarfa af þeim á nátt eða degi, skulu þau þér til reiðu. Ger nú sem ek mæli fyrir, því at þat er forn orðskviðr, at ‚eigi veldr sá, er varar annan'. Nú veiztu, hvat ek hefi um mælt". Einarr kvað sér eigi mundu svá meingefit, at ríða þeim

hesti, er honum var bannat, ef þó væri hross önnur til reiðar.

5. Einarr ferr nú heim eftir klæðum sínum, ok flytr heim á Aðalból. Síðan var fært í sel fram á Hrafnkelsdal, þar sem heitir at Grjótteigsseli. Einarr ferr allvel at um sumarit, svá at aldri verðr sauðvant alt til miðsumars; enn þá varð vant nær þrjátigi ásauðar eina nátt. Leitar Einarr um alla haga, ok finnr ekki; honum var vant fjárins nær viku. Þat var einn morgin, at Einarr gekk út snimma, ok er þá létt af allri sunnanþokunni ok úrinu. Hann tekr staf í hönd sér, beizl ok þófa; gengr hann þá fram yfir Grjótteigsá; hon fellr fyrir framan selit; enn þar á eyrunum lá fé þat, er heima hafði verit um kveldit. Hann stökti því heim at selinu, enn ferr at leita hins, er vant var áðr. Hann sér nú stóðhrossin fram á eyrunum, ok hugsar at höndla sér hross nökkurt til reiðar, ok þóttist vita, at hann myndi fljótara yfirbera, ef hann riði, enn gengi. Ok er hann kom til hrossanna, þá elti hann þau, ok váru þau nú skjör, er aldri váru vön at ganga undan manni, nema Freyfaxi einn; hann var svá kyrr sem hann væri grafinn niðr. Einarr veit, at líðr morgininn, ok hyggr at Hrafnkell myndi eigi vita, þótt hann riði hestinum. Nú tekr hann hestinn ok slær við beizli, lætr þófa á bak hestinum undir sik, ok ríðr upp

hjá Grjótárgili, svá upp til jökla, ok vestr með jöklinum, þar sem Jökulsá fellr undir; svá ofan með ánni til Reykjasels. Hann spurði alla sauðamenn at seljum, ef nökkurr hefði sét þetta fé, ok kvaðst engi sét hafa. Einarr reið Freyfaxa alt frá eldingu ok til miðs aftans; hestrinn bar hann skjótt yfir ok víða, því at hann var góðr af sér. Einari kom þá í hug, at honum myndi mál heim at reka þat fé fyrst, er heima var, þótt hann fyndi hitt eigi; reið hann þá austr yfir hálsa í Hrafnkelsdal. Enn er hann kemr ofan at Grjótteigi, heyrir hann sauðajarm fram með gilinu, þangat sem hann hafði fram um riðit áðr; snýr hann þangat til, ok sér renna á móti sér þrjátigi ásauðar, þat sama sem vantat hafði áðr viku, ok stökti hann því heim með fénu. Hestrinn var vátr allr af sveita, svá at draup ór hverju hári; hann var mjök leirstokkinn ok móðr ákaflega; hann veltist um tólf sinnum, ok eftir þat setr hann upp gnegg mikit; síðan tekr hann á mikilli rás ofan eftir götunum. Einarr snýr eftir honum, ok vill komast fyrir hestinn, ok vildi höndla hann ok færa hann aftr til hrossanna; enn hann var þá svá styggr, at Einarr komst hvergi í nánd honum. Hestrinn hleypr ofan eftir dalnum, ok nemr eigi staðar fyrr enn hann kemr heim á Aðalból; þá sat Hrafnkell yfir borðum; ok er hestrinn kemr fyrir dyrr, þá gneggjar

hann hátt. Hrafnkell mælti við eina konu, þá er inni þjónaði fyrir borðum, at hon skyldi fara til duranna — „því at hross gneggjaði, ok þótti mér líkt vera gneggi Freyfaxa“. Hon gengr fram í dyrnar, ok sér Freyfaxa mjök ókræsilegan. Hon segir Hrafnkeli, at Freyfaxi var fyrir dyrum úti mjök óþokkalegr. „Hvat man garprinn vilja, er hann er heim kominn?“ segir Hrafnkell — „eigi man þat góðu gegna“. Síðan gekk hann út, ok sér Freyfaxa ok mælti við hann: „Illa þykkir mér, at þú ert þann veg til gerr, fóstri minn; enn heima hafðir þú vit þitt, er þú sagðir mér til; ok skal þessa hefnt verða, ok far þú til liðs þíns“. Enn hann gekk þegar upp eftir dalnum til stóðs síns.

6. Hrafnkell ferr í rekkju sína um kveldit, ok sefr af náttina. Enn um morgininn lét hann taka sér hest ok leggja á söðui, ok ríðr upp til sels; hann ríðr í blám klæðum, öxi hafði hann í hendi, enn ekki fleira vápna. Þá hafði Einarr nýrekit fé í kvíar; hann lá á kvíagarðinum, ok taldi fé, enn konur váru at mjólka. Þau heilsuðu honum. Hann spurði, hversu þeim færi at? Einarr svarar: „Illa hefir mér at farit, því at vant var þrjátigi ásauðar nær viku; enn nú er fundinn“. Hrafnkell kvaðst eigi at slíku telja, — „eða hefir eigi verr at farit? hefir þat eigi svá oft til borit, sem ván hefir at verit, at fjárins hefir verit vant; enn

hefir þú eigi nökkut riðit Freyfaxa hinn fyrra dag?“ Einarr kvaðst eigi þræta megu alls um þat. „Fyrir hví reittu þessu hrossi, er þér var bannat, þar er hin váru nóg til, er þér váru heimuluð? Þar mynda ek hafa gefit þér upp eina sök, ef ek hefða eigi svá mikit um mælt. Enn þó hefir þú vel við gengit“. Enn við þann átrúnað, at ekki verði at þeim mönnum, er heitstrengingar fella á sik, þá hljóp hann af baki til hans, ok hjó hann banahögg. Eftir þat ríðr hann heim við svá búit á Aðalból, ok segir þessi tíðendi. Síðan lét hann fara annan mann til smala í selit. Enn hann lét færa Einar vestr á hjallann frá selinu, ok reisti þar vörðu hjá dysinni; þetta er köllut Einarsvarða, ok er þaðan haldinn miðr aftann frá selinu.

7. Þorbjörn spyrr yfir á Hól víg Einars sonar síns. Hann kunni illa tíðendum þessum. Nú tekr hann hest sinn, ok ríðr yfir á Aðalból, ok biðr Hrafnkel bóta fyrir víg sonar síns. Hann kveðst fleiri menn hafa drepit enn þenna einn, — „er þér þat eigi ókunnigt, at ek vil engan mann fé bæta, ok verða menn þat þó svá gert at hafa; enn þó læt ek svá sem mér þykki þetta verk mitt í verra lagi víga þeirra, er ek hefi unnit; hefir þú verit nábúi minn langa stund, ok hefir mér líkat vel til þín, ok hvárum okkar til annars; myndi okkr Ein-

ari ekki annat smátt til orðit, ef hann hefði eigi riðit hestinum; enn vér munum nú þess iðrast, er vér várum of málgir; ok sjaldan myndim vér þess iðrast, þó at vér mæltim færra enn fleira; man ek þat nú sýna, at mér þykkir þetta verk mitt verra enn önnur þau, er ek hefi unnit; ek vil byrgja bú þitt at málnytu í sumar, enn slátrum í haust, svá vil ek gera við þik hver misseri, meðan þú vilt búa. Sonu þína ok dætr skulum vér á braut leysa með minni forsjá, ok efla þau svá, at þau mætti fá góða kosti af því. Ok alt, er þú veizt í mínum húsum vera, ok þú þarft at hafa heðan af, þá skaltu mér til segja, ok eigi fyrir skort sitja heðan af um þá hluti, er þú þarft at hafa. Skaltu búa, meðan þér þykkir gaman at; enn far þá hingat til mín, er þér leiðist; man ek þá annast þik til dauðadags, ok skulum vit þá vera sáttir. Vil ek þess vænta, at þat mæli fleiri, at sá maðr sé vel dýrr". „Eigi vil ek þenna kost", segir Þorbjörn. „Hvern viltu þá?" segir Hrafnkell. Þá mælti Þorbjörn: „Ek vil, at vit takim menn til gerðar með okkr". Hrafnkell svarar: „Þá þykkist þú jamnmentr mér, ok munum vit eigi at því sættast". Þá reið Þorbjörn í braut, ok *upp* eftir Hrafnkelsdal. Hann kom til Laugarhúsa ok hittir Bjarna bróður sinn, ok segir honum þessi tíðendi; biðr at hann muni nökkurn hlut í eiga um þessi mál. Bjarni kvað

eigi sitt jamnmenni við at eiga, — „þar sem Hrafnkell er; enn þó at vér stýrim penningum miklum, þá megum vér eigi deila af kappi við Hrafnkel; ok er þat satt, er mælt er, at ‚sá er svinnr, er sik kann'; hefir hann þá marga málaferlum vafit, er meira bein hafa í hendi haft enn vér; sýnist mér þú vitlítill við hafa orðit, er þú hefir svá góðum kostum neitat; vil ek mér hér engu af skifta". Þorbjörn mælti þá mörg herfileg orð til Bjarna bróður síns, ok segir því síðr dáð í honum sem meira lægi við. Hann ríðr nú í braut, ok skilja þeir bræðr með lítilli blíðu. Hann léttir eigi fyrr enn hann kemr ofan til Leikskála; drepr þar á dyrr; var þar til dura gengit. Þorbjörn biðr Sám útganga. Sámr heilsaði vel frænda sínum, ok bauð honum þar at vera. Þorbjörn tók því heldr seint. Sámr sér ógleði á Þorbirni, ok spyrr tíðenda; enn hann segir víg Einars sonar síns. „Þat eru eigi mikil tíðendi", segir Sámr, „þótt Hrafnkell drepi menn". Þorbjörn spyrr, ef Sámr vildi nökkura liðveizlu veita sér; „er þetta mál þann veg, þótt mér sé nánastr maðrinn, at þó er yðr eigi fjarri höggvit". „Hefir þú nökkut eftir sæmdum leitat við Hrafnkel?" segir Sámr. Þorbjörn segir alt hit sanna, hversu farit hafði með þeim Hrafnkeli. „Eigi hefi ek varr orðit fyrr", segir Sámr, „at Hrafnkell hafi svá boðit nökkurum sem þér. Nú vil ek ríða með þér upp á Aðalból, ok för-

um vit lítillátlega at við Hrafnkel, ok vita, ef hann vill halda hin sömu boð; man honum nökkurn veg vel fara". „Þat er bæði", segir Þorbjörn, „at Hrafnkell man nú eigi vilja; enda er mér þat nú eigi heldr í hug, enn þá er ek reið þaðan". Sámr segir: „Þungt get ek, at deila kappi við Hrafnkel um málaferli". Þorbjörn svarar: „Því verðr engi uppreist yður ungra manna, at yðr vex alt í augu; hygg ek at engi maðr eigi jamnmikil auvirði at frændum sem ek; sýnist mér slíkum mönnum illa farit sem þér, er þykkist lögkænn vera, ok ert gjarn á smásakar, enn vilt eigi taka við þessu máli, er svá er brýnt; man þér verða ámælissamt sem maklegt er, fyrir því at þú ert hávaðamestr í ætt vorri; sé ek nú, hvat sök horfir". Sámr svarar: „Hverju góðu ertu þá nær enn áðr, þótt ek taka við þessu máli, ok sém vit þá báðir hraktir?" Þorbjörn svarar: „Þó er mér þat mikil hugarbót, at þú takir við málinu; verði at því sem má". Sámr svarar: „Ófúss geng ek at þessu; meir geri ek þat fyrir frændsemis sakar við þik; enn vita skaltu, at mér þykkir þar ekki at duga sem þú ert". Þá rétti Sámr fram höndina, ok tók við málinu af Þorbirni.

8. Sámr lætr nú taka sér hest ok ríðr upp eftir dal, ok ríðr á bæ einn ok lýsir víginu; fær sér menn á hendr Hrafnkeli. Hrafnkell

spyrr þetta, ok þótti hlægilegt, er Sámr hefir tekit mál á hendr honum. Leið af sumar þetta ok vetr hinn næsti. Enn um várit, er komit var at stefnudögum, ríðr Sámr heiman upp á Aðalból ok stefnir Hrafnkeli um víg Einars. Eftir þat ríðr Sámr ofan eftir dal, ok kvaddi búa til þingreiðar, ok sitr síðan um kyrt, þar til er menn búast til þings. Hrafnkell sendi þá ofan eftir Jökulsdal ok kvaddi upp menn. Hann fær ór þinghá sinni sjautigi manna. Með þenna flokk ríðr hann austr yfir Fljótsdalsherað, ok svá fyrir vatnsbotninn ok um þveran háls til Skriðudals ok upp eftir Skriðudal ok suðr í Öxarheiði til Berufjarðar, ok rétta þingmannaleið á Síðu. Suðr ór Fljótsdal eru sautján dagleiðir á Þingvöll. Enn eftir þat er hann var í braut riðinn ór heraði, þá samnar Sámr at sér mönnum; fær hann mest til reiðar með sér einhleypinga, ok þá er hann hafði saman kvatt, fær Sámr þessum mönnum vápn ok klæði ok vistir. Sámr snýr aðra leið ór dalnum. Hann ferr norðr til brúar, ok svá yfir brú, ok þaðan yfir Möðrudalsheiði, ok váru í Möðrudal um nátt; þaðan ríða þeir til Herðibreiðstungu, ok svá fyrir ofan Bláfjöll, ok þaðan í Króksdal ok svá suðr á Sand, ok koma ofan í Sauðafell, ok þaðan á Þingvöll, ok var þá Hrafnkell eigi kominn. Fórst honum því seinna, at hann átti lengri leið. Sámr tjaldar búð mönnum sínum

hvergi nær því, sem Austfirðingar eru vanir at tjalda; enn nökkuru síðar kom Hrafnkell á þing. Hann tjaldar búð sína, svá sem hann er vanr. Hann spyrr, at Sámr er á þingi. Honum þótti þat hlægilegt. Þetta þing var harla fjölment. Váru þar flestir höfðingjar, þeir er váru á Íslandi. Sámr finnr alla höfðingja ok bað sér trausts ok liðsinnis. Enn einn veg svöruðu allir, at engi kvaðst svá gott eiga Sámi upp at gjalda, at ganga vildi í deild við Hrafnkel goða, ok hætta svá sinni virðingu. Segja ok þat einn veg flestum farir hafa, þeim er þingdeilur hafa haft við Hrafnkel, at hann hafi alla menn hrakit af málaferlum þeim er við hann hafa haft. Sámr gengr heim til búðar sinnar, ok var þeim frændum þungt í skapi, ok ugðu, at þeirra mál myndi svá niðr falla, at þeir myndi ekki af hafa nema skömm ok svívirðing, ok svá mikla áhyggju hafa þeir frændr, at þeir njóta hvárki svefns né matar; því at allir höfðingjar skárust undan liðsinni við þá frændr, jafnvel þeir sem þeir væntu, at þeim myndi lið veita.

9. Þat var einn morgin snimma, at Þorbjörn karl vaknar. Hann vekr Sám ok bað hann upp standa, — „ok má ek eigi sofa“. Sámr stendr upp ok ferr í klæði sín. Þeir ganga út ok ofan at Öxará fyrir neðan brúna. Þar þvá þeir sér. Þórbjörn mælti við Sám: „Þat er ráð mitt, at þú látir reka at hesta vára ok búumst heim;

er nú auðsét, at oss vill ekki annat enn svívirðing". Sámr svarar: „Þat er vel, af því at þú vildir eigi annat, enn deila við Hrafnkel, ok vildir eigi þá kosti þiggja, er margr myndi þegit hafa, sá er eftir sinn náung átti at sjá; frýðir þú oss mjök hugar ok öllum þeim, er í þetta mál vildu eigi ganga með þér; skal nú ok aldri fyrr af láta enn mér þykkir fyrir ván komit, at ek geta nokkut at gert". Þá fær Þorbirni svá mjök, at hann grætr. Þá sjá þeir vestan at ánni, hóti neðar enn þeir sátu, hvar fimm menn gengu saman frá einni búð. Sá var hár maðr ok eigi þreklegr, er fyrir þeim var ok fyrstr gekk, í laufgrænum kyrtli, ok hafði búit sverð í hendi, réttleitr maðr ok rauðlitaðr, ok vel í yfirbragði, ljósjarpr á hár ok mjök hærðr. Sá maðr var auðkennilegr, því at hann hafði ljósan lepp í hári sínu hinum vinstra megin. Sámr mælti: „Stöndum upp ok göngum vestr yfir ána til móts við þessa menn". Þeir ganga nú ofan með ánni; ok sá maðr, er fyrir gekk, heilsar þeim fyrri ok spyrr, hverir þeir væri; enn þeir sögðu til sín. Sámr spurði þenna mann at nafni; enn hann nefndist Þorkell ok kvaðst vera Þjóstarsson. Sámr spurði, hvar hann væri ættaðr, eða hvar hann ætti heima? Hann kveðst vera vestfirzkr at kyni ok uppruna, enn eiga heima í Þorskafirði. Sámr mælti: „Hvárt ertu goðorðsmaðr?" Hann kvað þat fjarri fara.

„Ertu þá bóndi?“ segir Sámr. Hann kvað þat eigi vera. Sámr mælti: „Hvat manna ertu þá?“ Hann svarar: „Ek em einn einhleypingr; kom ek út í fyrra sumar; hefi ek verit utan sjau vetr, ok farit út í Miklagarð, enn em handgenginn Garðskonunginum; enn nú em ek á vist með bróður mínum, þeim er Þorgeirr heitir“. „Er hann goðorðsmaðr“, segir Sámr. Þorkell svarar: „Goðorðsmaðr er hann víst um Þorskafjörð ok víðar um Vestfjörðu“. „Er hann hér á þinginu?“ segir Sámr. „Hér er hann víst“, segir Þorkell. „Hversu margmennr er hann?“ segir Sámr. „Við sjautigi manna“, segir Þorkell. „Eru þér fleiri bræðrnir?“ segir Sámr. „Er hinn þriði“, segir Þorkell. „Hverr er sá?“ segir Sámr. „Hann heitir Þormóðr“, segir Þorkell, „ok býr í Görðum á Álftanesi; hann á Þórdísi dóttur Þórólfs Skallagrímssonar frá Borg“. „Viltu nokkut liðsinni veita okkr?“ segir Sámr. „Hvers þurfu þit við?“ segir Þorkell. „Liðsinnis ok afla höfðingja“, segir Sámr, „því at vit eigum málum at skifta við Hrafnkel goða um víg Einars Þorbjarnarsonar; enn vit megum vel hlíta okkrum flutningi með þínu fulltingi“. Þorkell svarar: „Svá er sem ek sagða, ek em engi goðorðsmaðr“. Hví ertu svá afskifta gerr“, segir Sámr, „þar sem þú ert höfðingjason sem aðrir bræðr þínir?“ Þorkell svarar: „Eigi sagða ek, at ek ætta þat eigi;

enn ek selda þat í hendr Þorgeiri bróður mínum, mannaforráð mitt, áðr enn ek fór utan; síðan hefi ek eigi við tekit, fyrir því at mér þykkir vel komit, meðan hann varðveitir; gangi þit á fund hans; biðið hann ásjá; hann er skörungr í skapi ok drengr góðr, ok í alla staði vel mentr, ungr maðr ok metnaðargjarn; eru slíkir menn vænstir til, at veita ykkr liðsinni". Sámr segir: „Af honum munum vit ekki fá, nema þú sér í flutningi með okkr". Þorkell segir: „Því man ek heita, at vera heldr með ykkr enn móti, með því at mér þykkir ærin nauðsyn til, at mæla eftir náskyldan mann; fari þit nú fyrir til búðarinnar, ok gangið inn í búðina; er mannfólk í svefni; þit munuð sjá, hvar standa innar um þvera búðina tvau húðföt, ok reis ek upp ór öðru, enn í öðru hvílir Þorgeirr bróðir minn; hann hefir haft kveisu mikla í fætinum síðan hann kom á þingit, ok því hefir hann lítt sofit um nætr; enn nú sprakk fótrinn í nótt, ok er ór kveisunaglinn; enn nú hefir hann sofnat síðan, ok hefir réttan fótinn út undan fötunum fram á fótafjölina, sakir ofrhita, er á er fætinum; gangi sá hinn gamli maðr fyrir, ok svá innar eftir búðinni; mér sýnist hann mjök hrymdr bæði at sýn ok elli; þá er þú maðr", segir Þorkell, „kemr at húðfatinu, skaltu hrasa mjök ok fall á fótafjölina, ok tak í tána þá, er um er bundit, ok hnykk at þér

ok vit, hversu hann verðr við". Sámr mælti: „Heilráðr mantu okkr vera; enn eigi sýnist mér þetta ráðlegt". Þorkell svarar: „Annathvárt verði þit at gera, at hafa þat sem ek legg til, eða leita eigi ráða til mín". Sámr mælti ok segir: „Svá skal gera sem hann gefr ráð til". Þorkell kvaðst mundu ganga síðar, — „því at ek bíð manna minna".

**10.** Ok nú gengu þeir Sámr ok Þorbjörn ok koma í búðina; sváfu þar menn allir; þeir sjá brátt, hvar Þorgeirr lá. Þorbjörn karl gekk fyrir, ok fór mjök hrasandi. Enn er hann kom at húðfatinu, þá fell hann á fótafjölina, ok þrífr í tána, þá er vanmátta var, ok hnykkir at sér; enn Þorgeirr vaknar við, ok hljóp upp í húðfatinu, ok spurði, hverr þar færi svá hrapallega, at hlypi á fætr mönnum, er áðr váru vanmátta. Enn þeim Sámi varð ekki at orði. Þá snaraði Þorkell inn í búðina, ok mælti til Þorgeirs bróður síns: „Ver eigi svá bráðr né óðr, frændi, um þetta, því at þik man eigi saka; enn mörgum tekst verr enn vill, ok verðr þat mörgum, at þá *fær* eigi alls gætt jafnvel, er honum er mikit í skapi. Enn þat er várkunn, frændi, at þér sé sárr fótr þinn, er mikit mein hefir í verit; mantu þess mest á þér kenna. Nú má ok þat vera, at gömlum manni sé eigi ósárari sonardauði sinn, enn fá engar bætr, ok skorti hvatvetna sjálfr; man hann þess gerst kenna á sér;

ok er þat at vánum, at sá maðr gæti eigi alls vel, er mikit býr í skapi“. Þorgeirr svarar: „Eigi hugða ek, at hann mætti mik þessa kunna, því at eigi drap ek son hans; ok má hann af því eigi á mér þessu hefna“. „Eigi vildi hann á þér þessu hefna“, segir Þorkell; „enn fór hann at þér harðara enn hann vildi, ok galt hann óskyggnleika síns, enn vænti sér af þér nokkurs traustsː er þat nú drengskapr, at veita gömlum manni ok þurftigum; er honum þetta nauðsyn, enn eigi seiling, þó at hann mæli eftir son sinn; enn nú ganga allir höfðingjar undan liðveizlu við þessa menn, ok sýna í því mikinn ódrengskap“. Þorgeirr mælti: „Við hvern eiga þessir menn at kæra?“ Þorkell svarar: „Hrafnkell goði hefir vegit son Þorbjarnar saklausan. Vinnr hann hvert óverk at öðru, enn vill engum manni sóma unna fyrir“. Þorgeirr mælti: „Svá man mér fara sem öðrum, at ek veit eigi mik þessum mönnum eiga svá gott upp at inna, at ek vilja ganga í deilur við Hrafnkel. Þykkir mér hann þann veg fara hvert sumar við þá menn, sem málum eigu at skifta við hann, at flestir menn fá litla virðing eða enga áðr lúki, ok sé ek þar fara einn veg öllum; get ek af því flesta menn ófúsa til, þá sem engi nauðsyn dregr til“. Þorkell svarar: „Þat má vera, at svá færi mér at, ef ek væra höfðingi, at mér þætti ilt at deila við Hrafnkel; enn

2*

eigi sýnist mér svá, fyrir því at mér þætti við þann bezt at eiga, er allir hrekjast fyrir áðr; ok þætti mér mikit vaxa mín virðing eða þess höfðingja, er á Hrafnkel gæti nökkura vík róit, enn minkast ekki, þó at mér færi sem öðrum, fyrir því at ‚má mér þat, sem yfir margan gengr'; ‚hefir sá' ok ‚jafnan, er hættir'". „Sé ek", segir Þorgeirr, „hversu þér er gefit, at þú vilt veita þessum mönnum; nú mun ek selja þér í hendr goðorð mitt og manna forráð, ok haf þú þat sem ek hefi haft áðr, enn þaðan af höfum vit jafnað af báðir, ok veittu þá þeim, er þú vilt". „Svá sýnist mér", segir Þorkell, „sem þá muni goðorð várt bezt komit, er þú hafir sem lengst; ann ek engum svá vel sem þér at hafa, því at þú hefir marga hluti til mentar um fram alla oss bræðr; enn ek óráðinn hvat er ek vil af mér gera af bragði. Enn þú veizt, frændí, at ek hefi til fás hlutazt síðan ek kom til Íslands; má ek nú sjá, hvat mín ráð eru; nú hefi ek flutt sem ek man at sinni. Kann vera, at Þorkell leppr komi þar, at hans orð verði meira metin". Þorgeirr svarar: „Sé ek nú hversu horfir, frændi, at þér mislíkar; enn ek má þat eigi vita, ok munum vit fylgja þessum mönnum, hversu sem ferr, ef þú vilt". Þorkell mælti: „Þess bið ek, at mér þykkir betr at veitt sé". „Til hvers þykkjast þessir menn færir", segir Þorgeirr, „svá at framkvæmd

verði at þeirra máli?" „Svá er sem ek sagða í dag", segir Sámr, „at styrk þurfum vit af höfðingjum, enn málaflutning á ek undir mér". Þorgeirr kvað honum þá gott at duga, — „ok er nú þat til, at búa mál til sem réttlegast. Enn mér þykkir sem Þorkell vili, at þit vitið hans áðr dómar fara út; munu þit þá hafa annathvárt fyrir ykkra þrá, nökkura huggun eða læging enn meiri enn áðr, ok hrelling ok skapraun. Gangit nú heim ok verit kátir, af því at þess munu þit við þurfa, ef þit skuluð deila við Hrafnkel, at þit berið ykkr vel upp um hríð; enn segi þit engum manni, at vit höfum liðveizlu heitit ykkr". Þá gengu þeir heim til búðar sinnar; váru þá allteitir. Menn undruðust þetta allir, hví þeir hefði svá skjótt skapskifti tekit, þar sem þeir váru ógladir, er þeir fóru heiman.

**11.** Nú sitja þeir þar til dómar fara út. Þá kveðr Sámr upp menn sína, ok gengr til Lögbergs; var þar þá dómr settr. Sámr gekk þá djarflega at dóminum. Hann hefir þegar upp váttnefnu, ok sótti mál sitt at réttum landslögum á hendr Hrafnkeli goða, miskviðalaust ok með skörulegum flutningi. Þessu næst koma þeir Þjóstarssynir með mikla sveit manna; allir menn vestan af landi veittu þeim lið, ok sýndist þat, at Þjóstarssynir váru menn vinsælir. Sámr sótti málit í dóm, þangat til er Hrafn-

keli var boðit til varnar, nema sá maðr væri þar viðstaddr, er lögvörn vildi fram hafa fyrir hann at réttu lögmáli. Rómr varð mikill at máli Sáms, ok spurt hvárt engi vildi lögvörn fram bera fyrir Hrafnkel. Menn hlupu til búðar Hrafnkels, ok sögðu honum, hvat um var at verá. Hann veikst við skjótt ok kvaddi upp menn sína, ok gekk til dóma; hugði at þar myndi lítil vörn fyrir landi; hafði hann þat í hug sér, at leiða smámennum at sækja mál á hendr honum; ætlaði hann at hleypa upp dóminum fyrir Sámi ok hrekja hann af málinu. Enn þess var nú eigi kostr. Þar var fyrir sá mannfjöldi, at Hrafnkell komst hvergi nær, ok var honum þröngt frá í braut með miklu ofríki, svá at hann náði eigi at heyra mál þeirra, er hann sóttu; var honum því óhægt, at færa lögvörn fram fyrir sik. Enn Sámr sótti málit til fullra laga, til þess er Hrafnkell varð alsekr á þessu þingi. Hrafnkell gengr þegar til búðar, ok lætr taka hesta sína, ok ríðr í braut af þingi, ok undi illa við sínar málalyktir, því at hann átti aldri fyrr slíkar. Ríðr hann þá austr Lyngdalsheiði, ok svá austr á Síðu; ok eigi léttir hann fyrr enn hann kemr í Hrafnkelsdal ok sezt á Aðalból, ok lét sem ekki hefði í orðit. Enn Sámr var á þingi eftir ok gekk mjök uppstertr. Mörgum mönnum þykkir vel, þó at þann veg hafi at borizt, at Hrafnkell hafi hneykju far-

it, ok minnast nú, at hann hefir mörgum ójafnað sýnt.

12. Sámr bíðr til þess at slitit er þinginu. Búast menn þá heim. Þakkar hann þeim bræðrum sína liðveizlu; enn Þorgeirr spurði Sám hlæjandi, hversu honum þætti at fara. Hann lét vel yfir því. Þorgeirr mælti: „Þykkist þú nú nökkuru nær enn áðr?“ Sámr mælti: „Beðit þykkir mér Hrafnkell hafa sneypu mikla, er lengi man uppi vera; ok er þetta við mikla fémuni“. Þorgeirr mælti: „Eigi er maðrinn alsekr, meðan eigi er háðr féránsdómr; ok hlýtr þat at hans heimili at gera; þat skal vera fjórtán náttum eftir vápnatak“. Enn þat heitir vápnatak, er alþýða ríðr af alþingi. „Enn ek get“, segir Þorgeirr, „at Hrafnkell muni heim kominn, ok ætli at sitja á Aðalbóli; get ek, at hann muni halda mannaforræði fyrir yðr. Enn þú munt ætla at ríða heim ok setjast í bú þitt, ef þú náir at bezta kosti. Get ek, at þú hafir þat svá þinna mála, at þú kallir hann skógarmann; enn slíkan ægishjálm get ek at hann beri yfir aðra menn sem áðr, nema þú hljótir at fara nökkuru lægra“. „Aldri hirði ek þat“, segir Sámr. „Hraustr maðr ertu“, segir Þorgeirr, „ok þykkir mér sem Þorkell frændi minn vili eigi gera endamjótt við þik. Hann vill nú fylgja þér, þar til er ór slítr með ykkr Hrafnkeli, ok megir þú þá sitja um kyrt. Man yðr

nú þykkja vit skyldastir at fylgja þér, er vit höfum áðr mest í fengizt; skulum vit nú fylgja þér um sinnsakar í Austfjörðu; eða kantu nökkura þá leið til Austfjarða, at eigi sé almannavegr?“ Sámr sagðist fara mundu hina sömu leið sem hann fór austan, ok varð hann nú þessu feginn. Þorgeirr valdi lið sitt ok lét sér fylgja fjörutigi manna. Sámr hafði ok fjörutigi manna. Var þat lið vel búit at vápnum ok hestum.

13. Eftir þat ríða þeir allir hina sömu leið, þar til er þeir koma í nætrelding í Jökulsdal; fara yfir brú á ánni; ok var þetta þann morgin, er féránsdóm átti at heyja. Þá spyrr Þorgeirr, hversu þeir mætti helzt á óvart koma. Sámr kveðst mundu kunna ráð til þess. Hann snýr þegar af leiðinni ok upp á múlann, ok svá eftir hálsinum milli Hrafnkelsdals ok Jökulsdals þar til er þeir koma utan undir fjallit, er bærinn stendr undir niðri á Aðalbóli. Þar gengu grasgeilar í heiðina upp; enn þar var brekka brött ofan í dalinn, ok stóð þar bærinn undir niðri. Þar stígr Sámr af baki ok mælti: „Látum lausa hesta vára ok geymi tuttugu menn; enn vér sextigi saman hlaupum at bænum, ok get ek, at fátt mani manna á fótum“. Þeir gerðu nú svá, ok heita þar síðan Hrossageilar. Þá bar skjótt at bænum. Váru þá liðin rismál; eigi var fólk upp staðit. Þeir skutu stokki

á hurð ok hlupu inn, Hrafnkell lá í rekkju sinni; taka þeir hann ok alla hans heimamenn, þá er vápnfærir váru. Konur ok börn var rekit í eitt hús. Í túninu stóð útibúr; af því ok heim á skálavegginn var skotit váðási einum; þeir leiða Hrafnkel þar til ok hans menn. Hann bauð mörg boð fyrir sik ok sína menn. Enn er þat tjáði eigi, þá bað hann mönnum sínum lífs; „því at þeir hafa ekki til saka gert við yðr; enn þat er mér engi ósæmd, þó at þér drepið mik; man ek eigi undan því mælast; enn undan hrakningum mælumst ek; er yðr engi sæmd í því“. Þorkell mælti: „Þat höfum vér heyrt, at þú hafir lítt verit leiðitamr þínum óvinum, ok er nú vel, at þú kennir þess í dag á þér“. Þá taka þeir Hrafnkel ok hans menn, ok bundu hendr þeira á bak aftr. Eftir þat brutu þeir upp útibúrit, ok tóku reip ofan ór krókum; taka síðan knífa sína, ok stinga raufar á hásinum þeirra, ok draga þar í reipin, ok kasta þeim svá upp yfir ásinn, ok binda þá svá átta saman. Þá mælti Þorgeirr: „Svá er nú komit kosti yðrum, Hrafnkell, sem maklegt er; ok myndi þér þykkja þetta ólíklegt, at þú myndir slíka skömm fá af nökkurum einum manni sem nú er orðit. Eða hvárt viltu Þorkell nú gera, at sitja hér hjá Hrafnkeli ok gæta þeirra, eða viltu fara með Sámi ór garði á braut í örskotshelgi við bæinn ok heyja féránsdóm á grjóthól nökkurum,

þar sem hvárki er akr né eng". Þetta skyldi þann tíma gera, er sól væri í fullu suðri. Þorkell svarar: „Ek vil hér sitja hjá Hrafnkeli; sýnist mér þetta starfaminna". Þeir Þorgeirr ok Sámr fóru þá ok háðu féránsdóm. Ganga heim eftir þat, ok tóku Hrafnkel ofan ok hans menn, ok settu þá niðr í túninu; ok var þá sigit blóð fyrir augu þeim. Þá mælti Þorgeirr til Sáms, at hann skyldi gera við Hrafnkel slíkt, er hann vildi —, „því at mér sýnist nú óvandleikit við hann". Sámr svarar þá: „Tvá kosti geri ek þér, Hrafnkell, sá annarr, at þik skal leiða ór garði braut ok þá menn sem mér líkar, ok vera drepinn; enn með því at þú átt ómegð mikla fyrir at sjá, þá vil ek þess unna þér, at þú sjáir þar fyrir. Ok ef þú vllt líf þiggja, þá far þú af Aðalbóli með alt lið þitt, og haf þá eina fémuni, er ek skapa þér, ok man þat harðla lítit; enn ek skal taka staðfestu þessa ok mannaforráð alt; skaltu þar aldri tilkall veita né þínir erfingjar; hvergi skaltu nær vera, enn fyrir austan Fljótsdalsherað; ok máttu nú eiga handsöl við mik, ef þú vilt þenna upp taka". Hrafnkell mælti: „Mörgum myndi betri þykkja skjótr dauði enn slíkar hrakningar; enn mér man fara sem mörgum öðrum, at lífit man kjósa, ef kostr er; geri ek þat mest sökum sona minna; því at lítil man vera uppreist þeira, ef ek dey frá". Þá var Hrafnkell leystr ok seldi

hann Sámi sjálfdæmi. Sámr skifti Hrafnkeli af fé slíkt, er hann vildi, ok var þat raunlítit. Spjót sitt hafði Hrafnkell með sér, enn ekki fleira vápna. Þenna dag færði Hrafnkell sik braut af Aðalbóli ok alt sitt fólk. Þorkell mælti þá við Sám: „Eigi veit ek, hví þú gerir þetta; mant þú þessa mest iðrast sjálfr, er þú gefr Hrafnkeli líf“. Sámr kvað þá svá vera verða.

14. Hrafnkell færði nú bú sitt austr yfir Fljótsdalsherað ok um þveran Fljótsdal fyrir austan Lagarfljót. Við vatnsbotninn stóð einn lítill bær, er hét á Lokhyllu. Þetta land keypti Hrafnkell í skuld; því at eigi var kostrinn meiri enn þurfti til búshluta at hafa. Á þetta lögðu menn mikla umræðu, hversu hans ofsi hefði niðr fallit, ok minnist nú margr á fornan orðskvið, at ‚skömm er óhófs ævi‘. Þetta var skógland mikit, ok mikit merkjum, enn vánt at húsum, ok fyrir þat efni keypti hann landit litlu verði. Enn Hrafnkell sá eigi mjök í kostnað, ok feldi mörkina, því at hon var stór, ok reisti þar risulegan bæ, þann er síðan heitir á Hrafnkelsstöðum. Hefir þat jafnan síðan verit kallaðr góðr bær. Bjó Hrafnkell þar við mikil óhægendi hin fyrstu misseri. Hann hafði mikinn atdrátt af fiskum. Hrafnkell gekk mjök at verkum meðan bærinn var í smíð. Hrafnkell dró á vetr kálf ok kið hin fyrstu misseri; hann helt vel, svá at

nær lifði hvatvetna, þat er til ábyrgðar var; mátti svá at kveða at nálega væri tvau höfuð á hverju kykvendi. Á því sama sumri lagðist mikil veiðr í Lagarfljót. Af slíku gerðust mönnum búshægendi í heraðinu, ok þat helzt vel hvert sumar.

15. Sámr setti bú á Aðalbóli eftir Hrafnkel, ok síðan eflir hann veizlu virðulega, ok býðr til öllum þeim, er verit höfðu þingmenn Hrafnkels; Sámr býðst til at vera yfirmaðr þeirra í stað Hrafnkels; menn játuðust undir þat ok hugðu þó enn misjafnt til. Þjóstarssynir réðu honum þat, at hann skyldi vera blíðr ok góðr til fjárins ok gagnsamr sínum mönnum, styrktarmaðr hvorra sem með þyrfti, — „ok þá eru þeir eigi menn, ef þeir fylgja þér eigi vel, hvers sem þú þarft við; enn því ráðum vit þér þetta, at vit vildum, at þér tækist alt vel, því at þú virðist okkr vaskr maðr; gættu nú vel til, ok vertu varr um þik, af því at ‚vant er við vándum at sjá'". Þjóstarssynir létu senda eftir Freyfaxa ok liði hans, ok kváðust vilja sjá gripi þessa, er svá gengi miklar sögur af. Þá vóru hrossin heim leidd. Þeir bræðr líta á hrossin. Þorgeirr mælti: „Þessi hross lítast mér þörf búinu; er þat mitt ráð, at þau vinni slíkt er þau megu til gagns mönnum, þangat til er þau megu eigi lifa lengr fyrir aldrs sökum; enn hestr þessi sýnist mér eigi betri enn

aðrir hestar, heldr því verri, at mart ilt hefir af honum hlotizt; vil ek eigi at fleiri víg hljótist af honum, enn áðr hafa af honum orðit; man þat nú maklegt, at sá taki við honum er hann á“. Þeir leiða nú hestinn ofan eftir vellinum; einn hamarr stendr niðr við ána, enn fyrir neðan hylr djúpr; þar leiða þeir nú hestinn fram á hamarinn. Þjóstarssynir drógu fat eitt á höfuð hestinum, taka síðan háar stengr ok hrinda hestinum af fram, binda stein við hálsinn, ok týndu honum svá. Heitir þar síðan Freyfaxahamarr. Þar ofan frá standa goðahús þau er Hrafnkell hafði átt. Þorkell vildi koma þar; lét hann fletta goðin öll; eftir þat lætr hann leggja eld í goðahúsit ok brenna alt saman. Síðan búast boðsmenn í braut; velr Sámr þeim ágæta gripi báðum bræðrum, ok mæla til fullkominnar vináttu með sér og skiljast allgóðir vinir. Ríða nú rétta leið vestr í Fjörðu ok koma heim í Þorskafjörð með virðingu. Enn Sámr setti Þorbjörn niðr á Leikskálum; skyldi hann þar búa; enn kona Sáms fór til bús með honum á Aðalból, ok býr Sámr þar um hríð.

16. Hrafnkell spurði austr í Fljótsdal, at Þjóstarssynir höfðu týnt Freyfaxa ok brent hofit. Þá svarar Hrafnkell: „Ek hygg þat hégóma at trúa á goð“, ok sagðist hann þaðan af aldri skyldu á goð trúa; ok þat efndi hann síðan, at hann blótaði aldri. Hrafnkell sat á

Hrafnkelsstöðum ok rakaði fé saman. Hann fekk miklar virðingar í heraðinu; vildi svá hverr sitja ok standa sem hann vildi. Í þann tíma kómu sem mest skip af Noregi til Íslands. Námu menn þá sem mest lönd í heraðinu um Hrafnkels daga. Engi náði með frjálsu at sitja nema Hrafnkel bæði orlofs; þá urðu ok allir at heita honum sínu liðsinni. Hann hét ok sínu trausti. Lagði hann land undir sik alt fyrir austan Lagarfljót. Þessi þinghá varð brátt miklu meiri ok fjölmennari, enn sú er hann hafði áðr haft; hon gekk út til Selfljóts ok upp um Skriðudal, ok upp alt með Lagarfljóti. Var nú skipun á komin um land hans; maðrinn var miklu vinsælli enn áðr; hafði hann hina sömu skapsmuni um gagnsemd ok risnu; enn miklu meir var nú maðr gæfr ok hægri enn fyrr at öllu. Oft fundust þeir Sámr ok Hrafnkell á mannamótum, ok mintust þeir aldri á sín skifti. Leið svá fram sex vetr. Sámr var vinsæll af sínum þingmönnum, því at hann var hægr ok kyrr ok góðr órlausna, ok mintist á þat, er þeir bræðr höfðu ráðit honum. Sámr var skartsmaðr mikill.

17. Þess er getit, at skip kom af hafi í Reyðarfjörð, ok var stýrimaðr Eyvindr Bjarnason; hann hafði utan verit sjau vetr. Eyvindr hafði mikit við gengizt um mentir, ok var orðinn hinn vaskasti maðr. Eru honum sögð

brátt þau tíðendi, er gerzt höfðu, ok lét hann sér um þat fátt finnast. Hann var fáskiftinn maðr. Þegar Sámr spyrr þetta, ríðr hann til skips; verðr nú mikill fagnafundr með þeim bræðrum. Sámr býðr honum vestr þangat; enn Eyvindr tekr því vel, enn biðr Sám at ríða heim fyrir, enn senda hesta á móti varningi hans. Hann setr upp skip sitt ok býr um. Sámr gerir nú svá, ferr heim ok lætr reka hesta á móti Eyvindi; ok er hann hefir búit um varnað sinn, býr hann ferð sína til Hrafnkelsdals; ferr upp eftir Reyðarfirði. Þeir váru fimm saman; hinn sétti var skósveinn Eyvindar; sá var íslenzkr at kyni skyldr honum. Þenna svein hafði Eyvindr tekit af válaði ok flutt utan með sér ok haldit sem sjálfan sik; þetta bragð Eyvindar var uppi haft; var þat alþýðu rómr, at fáir væri hans líkar. Þeir ríða um Þórsdalsheiði, ok ráku fyrir sér sextán klyfjaða hesta. Váru þar húskarlar Sáms tveir, enn þrír farmenn; váru þeir ok allir í litklæðum ok riðu við fagra skjöldu. Þeir riðu um þveran Skriðudal ok yfir Háls, yfir til Fljótsdals, þar sem heita Bolungarvellir, ok ofan at Gilsáreyri; hon gengr ofan at Fljótinu milli Hallormsstaða og Hrafnkelsstaða; ríða þeir þá upp með Lagarfljóti, fyrir neðan völl á Hrafnkelsstöðum, ok svá fyrir vatnsbotninn, ok yfir Jökulsá at Skálavaði. Þá var jafnnær ris-

málum ok dagmálum. Kona ein var við vatnit, ok þvó léreft sín; hon sér ferð manna; griðkona sú sópar saman léreftunum, ok hleypr heim; hon kastar þeim niðr úti hjá viðarkesti, enn hleypr inn. Hrafnkell var þá eigi upp staðinn; vildir menn lágu í skálanum, enn verkmenn váru til iðnar farnir; þetta var um heyannir. Konan tók til orða, er hon kom inn: „Satt er þat flest, er fornkveðit er, at ‚svá ergist hverr sem eldist', verðr sú lítil virðing, er snimma leggst á, ef maðr lætr síðan af með ósóma, ok hefir eigi traust til at reka þess réttar nökkuru sinni, ok eru slíkt mikil undr um þann mann, sem hraustr hefir verit; nú er annan veg háttat þeirra lífi, er upp vaxa með feðrum sínum, ok þykkja yðr engis háttar hjá yðr; enn þá er þeir eru frumvaxta, fara land af landi, ok þykkja þar mestháttar sem þá koma þeir; koma við þat út, ok þykkjast þá höfðingjum meiri. Eyvindr Bjarnason reið hér yfir á at Skálavaði, með svá fagran skjöld, at ljómaði af; er hann svá mentr, at hefnd væri í honum". Lætr griðkonan ganga af kappi. Hrafnkell ríss upp ok svarar henni: „Kann vera at þú mælir mart helzti satt, eigi fyrir því, at þér gangi gott til; er nú vel, at þér aukist erfiði; far þú hart suðr á Víðivöllu eftir þeim Hallsteinssonum, Sighvati ok Snorra; bið þá skjótt til mín koma með þá menn, sem þar eru vápnfærir". Aðra

griðkonu sendir hann út á Hrólfsstaði eftir þeim Hrólfssonum, Þórði ok Halla, ok þeim sem þar váru vápnfærir; þessir hvárirtveggju váru gildir menn ok allvel mentir. Hrafnkell sendi ok eftir húskörlum sínum. Þeir urðu alls átján saman. Þeir vápnuðust harðfengilega; ríða þar yfir á sem hinir fyrri.

**18.** Þá váru þeir Eyvindr komnir upp á heiðina. Eyvindr ríðr til þess, er hann kemr vestr á miðja heiðina. Þar heita Bersagötur. Þar er svarðlaus mýrr, ok er sem ríði í efju eina fram, ok tók jafnan í kné eða í miðjan legg, stundum í kvið; þá er undir svá hart sem hölkn. Þá er hraun stórt fyrir vestan; ok er þeir koma á hraunit, þá lítr sveinninn aftr, ok mælti til Eyvindar: „Menn ríða þar eftir oss“, segir hann, „eigi færri enn átján; er þar mikill maðr á baki í blám klæðum, ok sýnist mér líkt Hrafnkeli goða; þó hefi ek nú lengi eigi sét hann“. Eyvindr svarar: „Hvat man oss skifta? Veit ek mér engis ótta ván af reið Hrafnkels; ek hefi honum ekki í mót gert. Man hann eiga örendi vestr til dals at hitta vini sína“. Sveinninn svarar: „Þat býðr mér í hug, at hann muni þik hitta vilja“. „Eigi veit ek“, segir Eyvindr, „til hafa orðit með þeim Sámi bróður mínum síðan þeir sættust“. Sveinninn svarar: „Þat vilda ek, at þú riðir undan vestr til dals; mantu þá geymdr; ek kann skapi Hrafnkels, at hann

man ekki gera oss, ef hann náir þér eigi; er þá alls gætt, ef þín er eins; ok er þá ekki dýr í festi, ok er vel, hvat sem af oss verðr". Eyvindr sagðist eigi mundu brátt undan ríða, — „því at ek veit eigi hverir þessir eru; myndi þat mörgum manni hlægilegt þykkja, ef ek renn at öllu óreyndu". Þeir ríða nú vestr af hrauninu. Þá er fyrir þeim önnur mýrr, er heitir Oxamýrr; hon er grösug mjök; þar eru bleytur svá at nálega er ófært yfir; af því lagði Hallfreðr karl hinar efri götur, þó at þær væri lengri. Eyvindr ríðr vestr á mýrina; lá þá drjúgum í fyrir þeim; dvaldist þá mjök fyrir þeim. Hina bar skjótt eftir, er lausir riðu; ríða þeir Hrafnkell nú leið sína á mýrina. Þeir Eyvindr eru þá komnir af mýrinni; sjá þeir þá Hrafnkel ok sonu hans báða; þeir báðu Eyvind þá undan at ríða. „Eru nú af allar torfærur; mantu ná til Aðalbóls meðan mýrrin er á millum". Eyvindr svarar: „Eigi man ek flýja undan þeim mönnum, er ek hefi ekki til miska gert". Þeir ríða þá upp á hálsinn. Þar standa fjöll lítil. Á hálsunum utan í fjallinu er meltorfa ein, blásin mjök; bakkar hávir váru umhverfis. Eyvindr ríðr at torfunni; þar stígr hann af baki ok bíðr þeirra. Eyvindr mælti þá: „Nú munum vér skjótt vita þeirra örendi". Eftir þat ganga þeir upp á torfuna, ok brjóta þar upp grjót nökkut. Hrafnkell snýr þá af götunni ok suðr at torf-

unni; hann hafði engi orð við Eyvind, ok veitti þegar atgöngu. Eyvindr varðist vel ok drengilega. Skósveinn Eyvindar þóttist eigi kröftugr til orrustu, ok tók hest sinn, ok ríðr vestr yfir háls til Aðalbóls, ok segir Sámi, hvat leika er. Sámr brá skjótt við, ok sendi eftir mönnum; urðu þeir saman tuttugu; var þetta lið vel búit. Ríðr Sámr austr á heiðina ok at þar, er vetfangit hafði verit. Þá er umskifti á orðit með þeim; reið Hrafnkell þá austr frá verkunum. Eyvindr var þá fallinn ok allir hans menn. Sámr gerði þat fyrst, at hann leitaði lífs með bróður sínum; var þat trúlega gert — þeir váru allir líflátnir fimm saman. Þar váru ok fallnir af Hrafnkeli tólf menn, enn sex riðu í braut. Sámr átti þar litla dvöl; hann ok hans menn ríða þegar eftir. Þeir Hrafnkell ríða nú undan sem máttu; hafa þó mædda hesta. Þá mælti Sámr: „Ná megum vér þeim, því at þeir hafa mædda hesta, enn vér höfum alla hvílda; ok man nálægr verða, hvárt vér náim þeim eða eigi, áðr enn þeir komast af heiðinni". Þá var Hrafnkell kominn austr yfir Oxamýri. Ríða nú hvárirtveggju alt til þess, er Sámr kemr á heiðarbrúnina; sá hann þá, at Hrafnkell var kominn langt ofan í brekkurnar; sér Sámr, at hann muni undan taka ofan í heraðit; hann mælti þá: „Hér munum vér aftr snúa, því at Hrafnkeli man gott til manna verða". Snýr Sámr

þá aftr við svá búit; kemr þar til er Eyvindr lá, tekr til ok verpr haug eftir hann ok félaga hans. Er þar kölluð nú Eyvindartorfa og Eyvindarfjöll ok Eyvindardalr.

19. Sámr ferr þá með allan varnaðinn heim á Aðalból. Ok er hann kemr heim, sendir Sámr eftir þingmönnum sínum, at þeir skyldi koma þar um morgininn fyrir dagmál; ætlar hann þá austr yfir heiði. „Verðr ferð vár slík er má“, segir hann. Um kveldit ferr Sámr í hvílu, ok var þar drjúgt komit manna. Hrafnkell reið heim ok sagði tíðendi þessi. Hann etr mat; ok eftir þat samnar hann mönnum at sér, svá at hann fær sjautigi manna, ok ríðr við þetta lið vestr yfir heiði, ok kemr á óvart til Aðalbóls, ok tekr Sám í rekkju ok leiðir hann út. Hrafnkell mælti þá: „Nú er svá komit kosti þínum, Sámr, at þér myndi ólíklegt þykkja fyrir stundu, at ek á nú vald á lífi þínu. Skal ek nú eigi vera þér verri drengr, enn þú vart mér. Man ek bjóða þér tvá kosti: at vera drepinn; hinn er annarr, at ek skal einn skera ok skapa okkar á milli“. Sámr kvaðst heldr kjósa at lifa; enn kvaðst þó hyggja, at hvárrtveggi myndi harðr. Hrafnkell kvað hann þat ætla mega, — „því at vér eigum þér þat at launa; ok skylda ek hálfu betr við þik gera, ef þess væri vert. Þú skalt fara braut af Aðalbóli ofan til Leikskála, ok sezt þar í bú þitt. Skaltu hafa með

þér auðævi þau, sem Eyvindr hefir átt; þú skalt eigi fleira hafa heðan í fjármunum, utan þat er þú hefir hingat haft; þat skaltu alt í braut hafa. Ek vil taka við goðorði mínu, svá ok við búi ok staðfestu; sé ek at mikill ávöxtr hefir á orðit á góðsi mínu, ok skaltu eigi þess njóta. Fyrir Eyvind bróður þinn skulu engar bætr koma, fyrir þat at þú mæltir herfilega eftir hinn fyrra frænda þinn; ok hafi þér þó ærnar bætr eftir Einar frænda yðvarn, þar er þú hefir haft ríki ok fé sex vetr. Enn eigi þykkir mér meira vert dráp Eyvindar ok manna hans enn meiðsl við mik ok menn mína. Þú gerðir mik sveitarrækan; enn ek læt mér líka at þú sitir á Leikskálum; ok man þér duga, ef þú ofsar eigi þér til vansa. Minn undirmaðr skaltu vera, meðan vit lifum báðir. Máttu ok til þess ætla, at þú mant því verr fara, sem vit eigumst fleira ilt við“. Sámr ferr nú braut með lið sitt ofan til Leikskála, ok sezt þar í bú sitt. Nú skipar Hrafnkell á Aðalbóli búi sínum mönnum; Þóri son sinn setr hann á Hrafnkelsstaði (ok þar forráðakonu til með honum). Hefir nú goðorð yfir öllum sveitum. Ásbjörn var með föður sínum, því at hann var yngri.

**20.** Sámr sat á Leikskálum þenna vetr; hann var hljóðr ok fáskiftinn; fundu margir þat, at hann undi lítt við sinn hlut. Enn um vetrinn, er daga lengdi, fór Sámr við annan mann ok

hafði þrjá hesta yfir brú, ok þaðan yfir Möðrudalsheiði, ok svá yfir Jökulsá á ferju, svá til Mývatns, þaðan yfir Fljótsheiði ok Ljósavatnsskarð, ok létti eigi fyrr enn hann kom vestr í Þorskafjörð; er þar tekit vel við honum. Þá var Þorkell nýkominn út ór för; hann hafði verit utan fjóra vetr. Sámr var þar viku, ok hvíldi sik; síðan segir hann þeim viðskifti þeirra Hrafnkels, ok biðr þá bræðr ásjá ok liðsinnis enn sem fyrr. Þorgeirr hafði meir svör fyrir þeim bræðrum í þat sinni; kvaðst fjarri sitja, — „er langt á milli vár. Þóttumst vér allvel í hendr þér búa, áðr vér gengum frá, svá at þér hefði hægt verit at halda. Hefir þat farit eftir því sem ek ætlaða, þá er þú gaft Hrafnkeli líf, at þess myndir þú mest iðrast; fýstum vit þik, at þú skyldir Hrafnkel af lífi taka; enn þú vildir ráða. Er þat nú auðsét, hverr vizkumunr ykkarr hefir orðit, er hann lét þik sitja í friði, ok leitaði þar fyrst á, er hann gat þann af ráðit, er honum þótti þér vera meiri maðr. Megum vit eigi hafa okkr til falls gæfuleysi þitt þetta. Er okkr ok eigi svá mikil fýst á at deila við Hrafnkel, at vit nennim at leggja þar við virðing okkra oftar. Enn bjóða viljum vit þér hingat með skuldalið þitt alt undir okkarn áraburð, ef þér þykkir hér skapraunar minna, enn í nánd Hrafnkeli“. Sámr kveðst eigi því nenna; sagðist vilja heim aftr, ok bað þá skifta

hestum við sik; var þat þegar til reiðu. Þeir bræðr vildu gefa Sámi góðar gjafir; enn hann vildi engar þiggja, ok sagði þá vera litla í skapi. Reið Sámr heim við svá búit til Leikskála, ok bjó þar til elli; fekk hann aldri uppreisn á móti Hrafnkeli, á meðan hann lifði. Enn Hrafnkell sat í búi sínu, ok helt virðingu sinni marga vetr. Hann varð sóttdauðr, ok er haugr hans í Hrafnkelsdal, út frá Aðalbóli; var lagit í haug hjá honum mikit fé, herklæði hans öll ok spjót hans hit góða. Synir hans tóku við mannaforráði. Þórir bjó á Hrafnkelsstöðum, enn Ásbjörn á Aðalbóli. Báðir áttu þeir goðorðit saman, ok þóttu miklir menn fyrir sér. Ok lýkr hér frá Hrafnkeli at segja.

# Nöfn.

# GUNNLAUGS SAGA ORMSTUNGU.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR
**VALD. ÁSMUNDARSON.**



REYKJAVÍK.
KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*
1893.

# FORMÁLI.

Gunnlaugs saga ormstungu hefir oft verið gefin út áðr. Hin fyrsta útgáfa hennar kom út í Kaupmannahöfn 1775, og vann Jón Eiríksson mest að þeirri útgáfu. 2. útgáfa er í „Íslendingasögum“, II. bindi, Khöfn 1847, enn þær hefir Jón Sigurðsson búið til prentunar að mestu leyti. Hin 3. er í „Analecta Norrœna“, sem Theodor Möbius gaf út í Leipzig 1859 og aftr 1877. Hin 4. er gefin út í Kristjaníu 1862 af O. Rygh. Hin 5. er í „Oldnordisk Læsebog“ af L. F. A. Wimmer, Khöfn 1870 og aftr 1877. Hin 6. er útgáfa Jóns Þorkelssonar, Rvík, 1880 og hin 7. er útgáfa E. Moghs, Halle 1886.

Margar þýðingar eru einnig til af sögunni. Hinni fyrstu útgáfu hennar fylgir latnesk þýðing, og auk þess hefir hún verið þýdd á dönsku, þýzku og ensku.

Tvö skinnhandrit eru til af sögunni. Annað þeirra er í hinu konunglega bókasafni í Stokkhólmi og talið vera frá síðari hluta 14. aldar. Það er þetta handrit, sem lagt hefir verið til grundvallar við flestar hinar síðari útgáfur sögunnar, enda er það elzt og bezt allra handrita sem til eru af henni. Á þessari sömu skinnbók er einnig síðari hlutr „Heiðarvíga sögu“. 12 blöð af þeim hluta handritsins vóru lánuð Árna Magnússyni og brunnu í Kaupmannahöfn sem kunnugt er. Hitt skinnhandritið er nr. 557, 4to, í safni Árna

Magnússonar. Það er talið ritað á 15. öld. Á því eru alls 12 sögur; fyrst Valdimars saga, þá Gunnlaugs saga, enn endar á orðunum: *með oss þann greiða er þú vilt* (í 11. kap., bls. 40 í þessari útgáfu), og vanta þá tvö blöð af sögunni. Hinar sögurnar eru: Hallfreðar saga, Hrafns saga Sveinbjarnarsonar, Eiríks saga rauða, Rögnvalds þáttr ok Rauðs, Damusta saga, Hróa þáttr heimska, Eiríks saga víðförla, Stúfs þáttr skálds Þórðarsonar kattar, Karls þáttr vesæla og Sveinka þáttr, enn vantar í sumar. Þetta söguhandrit fékk Árni Magnússon frá Jóni biskupi Vídalín, og getr Árni þess, að Skálholtskirkja hafi ef til vill átt það. Er því vafasamt, með hve góðri heimild það er komið í safn Árna.

Auk þessara tveggja skinnhandrita er til fjöldi pappírshandrita af sögunni.

Í útgáfu þeirri af Gunnlaugs sögu, sem hér birtist, er farið eftir útgáfunni í „Íslendingasögum“, II, Khöfn 1847, og útgáfu Jóns Þorkelssonar. Stafsetningin er að mestu leyti hin sama sem á útgáfu J. Þ., enda í samræmi við þá stafsetning, sem yfirleitt er fylgt í þessum texta-útgáfum vorum.

Í útgáfu E. Moghs, Halle 1866, er lagt til grundvallar handr. AM. 557, 4to, enn með því að það er textaútgáfa, sem ekki virðist fylgja nákvæmlega handr., gátum vér ekki hér farið eftir henni.

Gunnlaugs saga hefir ávalt verið talin ein af hinum merkustu Íslendinga sögum. Hún kemr víða saman við aðrar sögur, og er engin ástæða til að rengja hana í neinu. Þess hefir verið getið til, að kaflinn í Sólarljóðum

10—14. v. ætti við þá Gunnlaug og Hrafn, enn þótt efnið sé hið sama er það ekki líklegt, að Svafaðr og Skartheðinn sé sama sem Gunnlaugr og Hrafn. — Þessi saga hefir orðið ýmsum skáldum að yrkisefni, enda er hún mjög vel til þess fallin. Á henni er bygð skáldsaga eftir Fouqué í þrem bindum (1826) og skáldritið „Helga und Gunnlaug" eftir Bleibtreu og Edzardi, Hannover 1875.

Hin elztu handrit sögunnar segja að Ari prestr enn fróði Þorgilsson hafi samið hana, og er það ekki ólíklegt, enn síðan hafa aðrir aukið inn í hana smáatríðum ýmsum. Það sem auðsjáanlega eru viðbætr frá síðari tímum, er hér prentað með skáletri.

Geta má þess að Landnáma nefnir ömmu Gunnlaugs ormstungu í móðurætt *Þorbjörgu* á fleirum enn einum stað, enn Gunnlaugs saga nefnir hana *Þorgerði*. Það er ekki ólíklegt að Landnáma sé þar réttari.

Útgáfa Jóns Sigurðssonar er eins og vænta má einkar nákvæm. Eftir henni hefir dr. Jón Þorkelsson farið í sinni útgáfu, enn stórum bætt vísurnar með nýjum leshættum. Í síðustu vísuna í sögunni (vísu Þorkels Hallkelssonar) hefir Jón Þorkelsson ort 5. og 6. vo., af því að þessi vísuorð vantar í öll handrit, enn líklegt er að efni þeirra muni hafa verið líkt því sem dr. J. Þ. getr til.

Útgáfa Jóns Þorkelssonar er alþýðleg texta-útgáfa, enn fullnægir þó þeim kröfum, sem gera má til vísindalegrar útgáfu, enda er þar tilfærðr hinn helzti orðamunr handritanna neðanmáls.

Tímatalið í sögunni er bygt á ritgerð Guðbr. Vigfússonar um tímatal í Íslendingasögum. E. Mogh setr utanför þeirra Gunnlaugs og Hrafns ári síðar enn Guðbr. Vigfússon, enn eg sé enga gilda ástæðu til þess.

---

## TÍMATAL.

Fæddr Gunnlaugr ormstunga . . . 983.
Utanferð Gunnlaugs. Gunnlaugr kemr um haustið til Englands . . . . . . . . . . . . . . . . 1001.
Gunnlaugr er í Lundúnum um vetrinn. Kemr um vorið til Dyflinnar og hittir Sigtrygg konung silkiskegg. Fer sama sumar til Orkneyja og hittir Sigurð jarl Hlöðvisson. Kemr um haustið til Konungahellu . . . . . . . . 1002.
Gunnlaugr er í Skörum með Sigurði jarli um vetrinn. Kemr til Uppsala um vorið og hittir Óláf konung Eiríksson og Hrafn Önundarson. Hrafn fer til Íslands um sumarið, enn Gunnlaugr til Englands . . . . . . . 1003.
Gunnlaugr dvelr með Aðalráði konungi . . . . . . . . . . . . . . . 1003—1004.
Hrafn biðr Helgu hinnar fögru á alþingi . . . . . . . . . . . . . . 1004.

Helga er föstnuð Hrafni á alþingi. Gunnlaugr fær brottfararleyfi hjá Aðalráði konungi eftir mitt sumar. Fer til Noregs og þaðan til Íslands. Brúðkaup þeirra Hrafns og Helgu að Borg að vetrnóttum . . . . . . . . . . 1005.

Einvígi þeirra Gunnlaugs og Hrafns á alþingi. Utanferð þeirra Hrafns og Gunnlaugs . . . . . . . . . . . . . . . 1006.

Gunnlaugr er í Orkneyjum um vetrinn. Fer til Þrándheims um sumarið . . 1007.

Gunnlaugr er á Hlöðum með Eiríki jarli um vetrinn, berst við Hrafn um vorið og andast skömmu síðar . . . . . 1008.

Andlát Sveins konungs tjúguskeggs . . . 1014.

---



# Saga þeira Hrafns og Gunnlaugs ormstungu,

eftir því sem sagt hefir Ari prestr enn fróði Þorgilsson, er mestr fræðimaðr hefir verit á Íslandi á landnámssögur ok forna fræði.

1. Þorsteinn hét maðr, hann var Egilsson Skallagríms sonar, Kveldúlfs sonar hersis ór Noregi; enn Ásgerðr hét móðir Þorsteins ok var Bjarnardóttir. Þorsteinn bjó at Borg í Borgarfirði. Hann var auðigr at fé ok höfðingi mikill, vitr maðr ok hógværr ok hófsmaðr um alla hluti. Engi var hann afreksmaðr um vöxt eða afl, sem Egill faðir hans, enn þó var hann et mesta afarmenni ok vinsæll af allri alþýðu. Þorsteinn var vænn maðr, hvítr á hár ok eygr manna bezt. *Svá segja fróðir menn, at margir í ætt Mýramanna, þeir sem frá Agli eru komnir, hafi verit manna vænstir, enn þat sé þó mjök sundrgreinilegt, því at sumir í þeiri ætt er kallat at ljótastir menn hafi verit. Í þeiri ætt hafa*

*ok verit margir atgervismenn um marga hluti, sem var Kjartan Óláfsson þá ok Víga-Barði ok Skúli Þorsteinsson. Sumir vóru ok skáldmenn miklir í þeiri ætt: Björn Hítdælakappi, Einarr prestr Skúlason, Snorri Sturluson ok margir aðrir.* Þorsteinn átti Jófríði Gunnarsdóttur Hlífarsonar. *Gunnarr hefir bezt vígr verit ok mestr fimleikamaðr á Íslandi af búandmönnum, annarr Gunnarr at Hlíðarenda, þriði Steinþórr á Eyri.* Jófríðr var átján vetra, er Þorsteinn fekk hennar; hon var ekkja. Hana hafði átt fyrr Þóroddr, son Tungu-Odds, ok var þeira dóttir Húngerðr, er þar fæddist upp at Borg með Þorsteini. Jófríðr var skörungr mikill. Þau Þorsteinn áttu margt barna, enn þó koma fá við þessa sögu. Skúli var ellstr sona þeira, annarr Kollsveinn, þriði Egill.

2. Eitt sumar er þat sagt, at skip kom af hafi í Gufárós. Bergfinnr er nefndr stýrimaðr fyri skipinu, norrænn at ætt, auðigr at fé ok heldr við aldr. Hann var vitr maðr. Þorsteinn bóndi reið til skips, ok réð jafnan mestu, hver kaupstefna var, ok svá var enn. Austmenn vistuðust, enn Þorsteinn tók við stýrimanninum, fyri því at hann beiddist þangat. Bergfinnr var fátalaðr of vetrinn, enn Þorsteinn veitti honum vel. Austmaðrinn hendi mikit gaman at draumum.

Um várit einn dag ræddi Þorsteinn um við

Bergfinn, ef hann vildi ríða með honum upp undir Valfell. Þar var þá þingstöð þeira Borgfirðinga. Enn Þorsteini var sagt, at fallnir væri búðarveggir hans. Austmaðrinn kveðst þat víst vilja, ok riðu þeir heiman of daginn þrír saman, ok húskarlar Þorsteins, þar til er þeir koma upp undir Valfell til bæjar þess er at Grenjum heitir. Þar bjó einn maðr félítill, er Atli hét; hann var landseti Þorsteins, ok beiddi Þorsteinn Atla, at hann færi til starfs með þeim ok hefði pál ok reku. Hann gerði svá. Ok er þeir koma til búðartoftanna, þá tóku þeir til starfs allir ok færðu út veggina. Veðrit var heitt af sólu, ok varð þeim Þorsteini ok Austmanni erfitt. Ok er þeir höfðu út fært veggina, þá settist Þorsteinn niðr ok Austmaðr í búðartoftina, ok sofnaði Þorsteinn ok lét illa í svefni. Austmaðr sat hjá honum ok lét hann njóta draums síns, ok er hann vaknaði, var honum erfitt orðit. Austmaðr spurði, hvat hann hefði dreymt, er hann lét svá illa í svefni. Þorsteinn svaraði: „Ekki er mark at draumum“. Ok er þeir riðu heim um kveldit, þá spyrr Austmaðr, hvat Þorstein hefði dreymt. Þorsteinn segir: „Ef ek segi þér drauminn, þá skaltu ráða hann sem hann er til“. Austmaðr kveðst á þat hætta mundu. Þorsteinn mælti þá: „Þat dreymdi mik, at ek þóttist heima vera at Borg ok úti fyri karldyrum, ok sá ek upp á húsin, ok á mænin-

um álft eina væna ok fagra, ok þóttist ek eiga ok þótti mér allgóð. Þá sá ek fljúga ofan frá fjöllunum örn mikinn. Hann fló hingat ok settist hjá álftinni ok klakaði við hana blíðlega, ok hon þótti mér þat vel þekkjast. Þá sá ek, at örninn var svarteygr ok járnklær vóru á honum; vasklegr sýndist mér hann. Því næst sá ek fljúga annan fugl af suðrætt. Sá fló hegat til Borgar, ok settist á húsin hjá álftinni ok vildi þýðast hana. Þat var ok örn mikill. Brátt þótti mér sá örninn, er fyri var, ýfast mjök, er hinn kom til, ok börðust þeir snarplega ok lengi, ok þat sá ek, at hvárumtveggja blæddi; ok svá lauk þeira leik, at sinn veg hné hvárr þeira af húsmæninum, ok vóru þá báðir dauðir. Enn álftin sat eftir, hnipin mjök ok daprleg. Ok þá sá ek fljúga fugl ór vestri; þat var valr. Hann settist hjá álftinni ok lét blítt við hana, ok síðan flugu þau í brott bæði samt í sömu ætt, ok þá vaknaða ek. Ok er draumr þessi ómerkilegr“, segir hann, „ok man vera fyri veðrum, at munu mætast í lofti ór þeim ættum, er mér þóttu fuglarnir fljúga“. Austmaðr segir: „Ekki er þat mín ætlan“, segir hann, „at svá sé“. Þorsteinn mælti: „Ger af drauminum slíkt er þér sýnist líklegast ok lát mik heyra“. Austmaðr mælti: „Fuglar þeir munu vera manna fylgjur; enn húsfreyja þín er eigi heil, ok man hon fæða meybarn frítt og fagrt,

ok man þú unna því mikit; enn göfgir menn munu biðja dóttur þinnar ór þeim ættum, sem þér þóttu ernirnir fljúga at, ok leggja á hana ofrást ok berjast of hana ok látast báðir af því efni. Ok því næst man hinn þriði maðr biðja hennar, ór þeiri ætt, er valrinn fló at, ok þeim man hon gift vera. Nú hefi ek þýddan draum þinn, ok hygg eftir munu ganga". Þorsteinn svarar: „Illa er draumr ráðinn ok óvingjarnlega", sagði hann, „ok mant þú ekki drauma ráða kunna". Austmaðr segir: „Þú mant at raun um komast, hversu eftir gengr". Þorsteinn lagði fæð á Austmanninn, ok fór hann á brott um sumarit, ok er hann nú ór sögunni.

3. Um sumarit bjóst Þorsteinn til þings ok mælti til Jófríðar húsfreyju, áðr hann fór heiman: „Svá er háttat", segir hann, „at þú ert með barni, ok skal þat barn út bera, ef þú fæðir meybarn; enn upp fæða, ef sveinn er". Ok þat var þá siðvandi nökkurr, er land var alt alheiðit, at þeir menn, er félitlir vóru, enn stóð ómegð mjög til handa, létu út bera börn sín, ok þótti þó illa gert ávalt. Ok er Þorsteinn hafði þetta mælt, þá svarar Jófríðr: „Þetta er óþinslega mælt", segir hon, „slíkr maðr sem þú ert, ok man þér eigi sýnast þetta at láta gera, svá auðigr maðr sem þú ert". Þorsteinn svarar: „Veizt þú skaplyndi mitt", segir hann, „at eigi man hlýðisamt verða, ef af er brugðit". Síðar

reið hann til þings; enn Jófríðr fæddi meðan meybarn ákafa fagrt. Konur vildu þat bera at henni, enn hon kvað þess litla þörf, ok lét þangat kalla smalamann sinn, er Þorvarðr hét, ok mælti hon: „Hest minn skaltu taka ok leggja söðul á, ok færa barn þetta vestr í Hjarðarholt Þorgerði Egilsdóttur, ok bið hana upp fæða með leynd, svá at Þorsteinn verði eigi varr við, ok þeim ástaraugum renni ek til barns þessa, at víst eigi nenni ek, at þat sé út borit. Enn hér eru þrjár merkr silfrs, er þú skalt hafa at verkkaupi; enn Þorgerðr skal fá þér fari vestr þar ok vist um haf“. Þorvarðr gerði sem hon mælti. Síðan reið hann vestr í Hjarðarholt með barnit ok fekk Þorgerði í hendr, enn hon lét upp fæða landseta sinn, er bjó inn á Leysingjastöðum í Hvammsfirði. Enn hon tók Þorvarði fari norðr í Steingrímsfirði í Skeljavík ok vist of haf, ok fór hann þar utan, ok er hann nú ór sögunni.

Ok er Þorsteinn kom heim af þingi, þá sagði Jófríðr honum, at barnit er út borit, sem hann hafði fyri mælt, enn smalamaðr var í brott hlaupinn, ok stolit í brott hesti hennar. Þorsteinn kvað hana hafa vel gert, ok fekk sér smalamann annan. Nú liðu svá sex vetr, at þetta varð ekki víst. Ok þá reið Þorsteinn til heimboðs vestr í Hjarðarholt, til Óláfs pá, mágs síns, Höskuldssonar, er þá þótti vera með mestri

virðingu allra höfðingja vestr þar. Þorsteini var þar vel fagnat sem líklegt var, ok einhvern dag at veizlunni er þat sagt, at Þorgerðr sat á tali við Þorstein bróður sinn í öndvegi; enn Ó-láfr átti tal við aðra menn. Enn yfirgegnt þeim á bekkinum sátu meyjar þrjár. Þá mælti Þorgerðr: „Hversu lízt þér, bróðir, á stúlkur þessar, er hér sitja gegnt okkr?“ Hann svarar: „Allvel“, segir hann, „ok er þó ein fegrst miklu, ok hefir hon vænleik Óláfs, enn hvíti ok yfir-bragð várt Mýramanna“. Þorgerðr svarar: „Víst er þat satt, er þú segir, bróðir, at hon hefir hvíti ok yfirbragð várt Mýramanna, enn ei vænleik Óláfs pá, því at hon er ei hans dótt-ir“. „Hversu má þat vera?“ segir Þorsteinn, „enn þó sé hon þín dóttir“. Hon svarar: „Með sannendum at segja þér, frændi“, kvað hon, „þá er þessi þín dóttir, enn eigi mín, hin fagra mær“; ok segir honum síðan alt sem farit hafði ok biðr hann fyrigefa sér ok konu sinni þessi afbrigði. Þorsteinn mælti: „Ekki kann ek ykkr at ásaka um þetta, ok veltr þangat sem vera vill um flesta hluti; ok hafi þit vel yfir slétt vanhyggju mína. Lízt mér svá á mey þessa, at mér þykkir mikil gifta í at eiga jafn-fagrt barn; eðr hvat heitir hon?“ „Helga heit-ir hon“, segir Þorgerðr. „Helga hin fagra“, segir Þorsteinn. „Nú skalt þú búa ferð hennar heim með mér“. Hon gerði svá. Þorsteinn var

þaðan út leiddr með góðum gjöfum, ok reið Helga heim með honum ok fæddist þar upp meðr mikilli virðing ok ást af föður ok móður ok öllum frændum.

4. Í þenna tíma bjó uppi á Hvítársíðu, á Gilsbakka, Illugi svarti Hallkelsson, Hrosskels sonar. Móðir Illuga var Þuríðr dylla, dóttir Gunnlaugs ormstungu. Illugi var annarr mestr höfðingi í Borgarfirði enn Þorsteinn Egilsson. Illugi svarti var stóreignamaðr ok harðlyndr mjök, ok helt vel vini sína. Hann átti Ingibjörgu, dóttir Ásbjarnar Harðarsonar ór Örnólfsdal. Móðir Ingibjargar var Þorgerðr, dóttir Miðfjarðar-Skeggja. Börn Ingibjargar ok Illuga vóru mörg, enn fá koma við þessa sögu. Hermundr hét son þeira, enn annarr Gunnlaugr. Báðir vóru þeir efnilegir menn ok þá frumvaxta. Svá er sagt frá Gunnlaugi, at hann var snemmendis bráðgerr, mikill ok sterkr, ljósjarpr á hár, ok fór allvel, svarteygr ok nökkut nefljótr, ok skapfellegr í andliti, miðmjór ok herðimikill, kominn á sig manna bezt, hávaðamaðr mikill í öllu skaplyndi, ok framgjarn snemmendis, ok við alt óvæginn ok harðr, ok skáld mikit ok heldr níðskár, ok kallaðr Gunnlaugr ormstunga. Hermundr var þeira vinsælli ok hafði höfðingjabragð á sér. Ok er Gunnlaugr var tólf vetra gamall, bað hann föður sinn fararefna, ok kvaðst hann vilja fara utan ok sjá sið annarra manna.

Illugi bóndi tók því seinlega, kvað hann eigi mundu þykkja góðan í útlöndum, er hann þóttist trautt mega semja hann þar heima, sem hann vildi. Ok einhvern morgin var þat, alllitlu síðar, at Illugi bóndi gekk út snemma ok sá, at útibúr hans var opit, og vóru lagðir út vörusekkar nökkurir á hlaðit sex, ok þar lénur með. Hann undraðist þetta mjök. Þar gekk þá at maðr ok leiddi fjogur hross, ok var þar Gunnlaugr, son hans, ok mælti: „Ek hefi sekkana út lagit", segir hann. Illugi spurði, hví hann gerði svá. Hann sagði, at þat skyldi vera fararefni hans. Illugi mælti: „Engi ráð skalt þú taka af mér, ok fara hvergi, fyrr enn ek vil", ok kipti inn aftr vörusekkunum. Gunnlaugr reið þá í brott þaðan ok kom um kveldit ofan til Borgar, og bauð Þorsteinn bóndi honum þar at vera, ok þat þiggr hann. Gunnlaugr segir Þorsteini, hversu farit hafði með þeim feðgum. Þorsteinn bað hann þar vera þeim stundum sem hann vildi, ok þar var hann þau misseri ok nam lögspeki at Þorsteini, ok virðist öllum mönnum þar vel til hans. Jafnan skemtu þau Helga sér at tafli ok Gunnlaugr. Lagði hvárt þeira góðan þokka til annars bráðlega, sem raunir bar á síðan. Þau vóru mjök jafnaldrar. Helga var svá fögr, at þat er sögn fróðra manna, at hon hafi fegrst kona verit á Íslandi. Hár hennar var svá mikit, at þat mátti

hylja hana alla, ok svá fagrt sem gullband, og engi kostr þótti þá þvílíkr sem Helga en fagra í öllum Borgarfirði ok víðara annars staðar.

Ok einhvern dag, er menn sátu í stofu at Borg, þá mælti Gunnlaugr til Þorsteins: „Einn er sá hlutr í lögum, er þú hefir eigi kent mér: at fastna mér konu“. Þorsteinn segir: „Þat er lítit mál“, ok kendi honum atferli. Þá mælti Gunnlaugr: „Nú skalt þú vita, hvárt mér hafi skilizt, ok man ek nú taka í hönd þér ok láta sem ek festa mér Helgu dóttur þína“. Þorsteinn segir: „Þarfleysi ætla ek þat vera“, segir hann. Gunnlaugr þreifaði þá þegar í hönd honum ok mælti: „Veit mér nú þetta“, segir hann. „Ger sem þú vilt“, segir Þorsteinn, „enn þat skulu þeir vita, er hjá eru staddir, at þetta skal vera sem ómælt ok þessu skulu engi undirmál fylgja“. Síðan nefndi Gunnlaugr sér vátta ok fastnaði sér Helgu, ok spurði síðan, hvárt þá mætti svá nýta. Hann kvað svá vera mega, ok varð mönnum mikit gaman at þessu, þeim er við vóru staddir.

5. Önundr hét maðr, er bjó suðr at Mosfelli. Hann var auðmaðr hinn mesti, ok hafði goðorð suðr þar um nesin. Hann var kvángaðr maðr, ok hét Geirný kona hans, Gnúpsdóttir, Molda-Gnúps sonar, er nam suðr Grindavík. Þeira synir vóru þeir Hrafn ok Þórarinn ok Eindriði. Allir vóru þeir efnilegir menn; enn

þó var Hrafn fyrir þeim í hvívetna. Hann var mikill maðr ok sterkr, manna sjálegastr ok skáld gott, ok er hann var mjök rosknaðr, þá fór hann landa á milli ok virðist hvervetna vel, þar sem hann kom. Þá bjó suðr á Hjalla í Ölfusi þeir Þóroddr hinn spaki Eyvindarson ok Skafti, son hans, er þá var lögsögumaðr á Íslandi. Móðir Skafta var Rannveig, dóttir Gnúps Molda-Gnúpssonar, ok vóru þeir systra synir Skafti ok Önundarsynir. Var þar vinátta mikil með frændsemi. Þá bjó út at Rauðamel Þorfinnr Selþórisson, ok átti sjau sonu, ok vóru allir efnilegir menn. Þeir hétu svá: Þorgils, Eyjólfr ok Þórir, ok vóru þeir mestir menn út þangat. Ok þessir menn, er nú eru nefndir, vóru allir uppi á einn tíma.

Ok þessu næst urðu þau tíðindi, er bezt hafa orðit hér á Íslandi, at landit varð alt kristit, ok alt fólk hafnaði fornum átrúnaði. Gunnlaugr ormstunga, er áðr var frá sagt, var nú ýmist at Borg með Þorsteini, eðr Illuga föður sínum á Gilsbakka, sex vetr, ok var hann þá átján vetra, ok samdist þá mikit með þeim feðgum. Maðr hét Þorkell svarti. Hann var heimamaðr Illuga ok náfrændi, ok hafði þar upp vaxit. Honum tæmdist arfr norðr í Vatnsdal í Ási, ok beiddi hann Gunnlaug fara með sér, ok hann gerði svá, ok riðu norðr tveir saman í Ás ok fengu féit, ok greiddu þeir féit af höndum, er varðveitt höfðu, með atgöngu Gunnlaugs.

Ok er þeir riðu norðan, gistu þeir í Grímstungum at auðigs bónda, er þar bjó. Ok um morgininn tók smalamaðr hest Gunnlaugs, ok var þá sveittr mjök, er þeir fengu. Gunnlaugr laust smalamanninn í óvit. Bóndi vildi eigi svá búit hafa ok beiddi bóta fyri. Gunnlaugr bauð at gjalda bónda mörk. Bónda þótti þat oflítit. Gunnlaugr kvað þá vísu:

Mörk bauðk mundangs sterkum
manni; leygjar hranna
grásímu skalt góma
glós býtir þau nýta.
Iðrask mant, ef yðrum
afraðs Fróða ór sjóði
lætr eyðandi líða
linds samhaga kindar.

Þessi varð sætt þeira, sem Gunnlaugr bauð, ok riðu þeir suðr heim við svá búit.

Ok litlu síðar beiddi Gunnlaugr föður sinn fararefna í annat sinn. Illugi segir: „Nú skal vera sem þú vilt,“ segir hann. „Hefir þú nú heldr samit þik ór því sem var“. Reið Illugi þá heiman skjótt ok keypti skip hálft til handa Gunnlaugi, er uppi stóð í Gufárósi, at Auðuni festargram. *Þessi Auðun vildi eigi utan flytja sonu Ósvífs hins spaka eftir víg Kjartans Óláfssonar, sem segir í Laxdœla sögu, ok varð þat þó síðar enn þetta.* Ok er Illugi kom heim, þá þakkaði Gunnlaugr honum vel. Þorkell svarti réðst til ferðar með Gunnlaugi, ok var fluttr

varnaðr þeira til skips; enn Gunnlaugr var at Borg, meðan þeir bjoggu skipit, ok þótti glaðara at tala við Helgu, enn vera í starfi með kaupmönnum. Einhvern dag spurði Þorsteinn Gunnlaug, ef hann vildi ríða til hrossa með honum upp í Langavatnsdal. Gunnlaugr kvaðst þat vilja. Nú ríða þeir tveir saman, þar til er þeir koma til selja Þorsteins, er heita á Þorgilsstöðum. Ok vóru þar stóðhross, er Þorsteinn átti, fjogur saman, ok vóru rauð at lit. Hestr var allvænlegr ok lítt reyndr. Þorsteinn bauð at gefa Gunnlaugi hestinn; enn hann kvaðst eigi hrossa þurfa, er hann ætlaði af landi. Ok þá riðu þeir til annarra stóðhrossa. Var þar hestr grár með fjórum merum, ok var sá beztr í Borgarfirði, ok bauð Þorsteinn at gefa þann Gunnlaugi. Hann svarar: „Eigi vil ek þessi heldr enn hin; eðr hví býðr þú mér eigi þat, er ek vil þiggja?" „Hvat er þat," segir Þorsteinn: Gunnlaugr mælti: „Helga hin fagra, dóttir þín". Þorsteinn svarar: „Eigi man svá skjótt ráðast," segir hann, ok tók annat mál; ok riðu heimleiðis ofan með Langá. Þá mælti Gunnlaugr: „Vita vil ek," segir hann, „hverju þú vill svara mér um bónorðit". Þorsteinn svarar: „Ekki sinni ek hégóma þínum," segir hann. Gunnlaugr mælti: „Þetta er alhugi minn, enn eigi hégómi." Þorsteinn svarar: „Vita skyldir þú fyrst, hvat þú vildir. Ertu

ei ráðinn til utanferðar? ok lætr þó sem þú skylir kvángast. Er þat ekki jafnræði með ykkr Helgu, meðan þú ert svá óráðinn, ok man því ekki verða á litit". Gunnlaugr mælti: „Hvar til ætlar þú um gjaforð dóttur þinnar, ef þú vilt eigi gifta syni Illuga svarta? eðr hvar eru þeir í Borgarfirði, er meira háttar sé enn hann?" Þorsteinn svarar: „Ekki fer ek í mannjöfnuð, segir hann; enn værir þú slíkr maðr sem hann, þá myndi þér ei frá vísat." Gunnlaugr mælti: „Hverjum vilt þú heldr gifta dóttur þína enn mér?" Þorsteinn svarar: „Margt er hér gott mannval. Þorfinnr at Rauðamel á sjau sonu ok alla vel mannaða." Gunnlaugr svarar: „Hvárgi þeira Önundar né Þorfinns er jafnmenni föður míns, því at þik skortir sýnt við hann. Eðr hvat hefir þú í móti því, er hann deildi kappi við Þorgrím goða Kjallaksson á Þórnesþingi, ok við sonu hans, ok hafði einn þat er við lá?" Þorsteinn svarar: „Ek stökta í brott Steinari, syni Önundar sjóna, ok þótti þat heldr mikilræði". Gunnlaugr svarar: „Egils nauztu at því, föður þíns, enda man þat fám bóndum vel endast at synja mér mægðar". Þorsteinn svarar: „Hafðu í frammi kúgan við þá uppi við fjöllin, enn þat kemr þér fyri ekki hér úti á Mýrunum". Um kveldit koma þeir heim. Ok um morguninn ríðr Gunnlaugr upp á Gilsbakka ok bað föður sinn ríða til kvánbæna með sér

til Borgar. Illugi svarar: „Þú ert óráðinn maðr, þar sem þú ert ráðinn til utanferðar, enn lætr nú sem þú skulir starfa í kvánbænum, ok veit ek, at slíkt er ekki við skaplyndi Þorsteins“. Gunnlaugr svarar: „Ek ætla þó utan alt eins, ok líkar mér ekki, utan þú fylgir þessu“. Síðan reið Illugi heiman með tólfta mann ofan til Borgar, ok tók Þorsteinn vel við honum. Um morguninn snemma ræddi Illugi til Þorsteins: „Ek vil tala við þik“. Þorsteinn svarar: „Göngum upp á borgina ok tölum þar“. Ok svá gerðu þeir. Gunnlaugr gekk með þeim. Þá mælti Illugi: „Gunnlaugr frændi minn kveðst hafa vakið bónorð við þik fyri sína hönd, at biðja Helgu dóttur þinnar; enn nú vil ek vita, hvern stað eiga skal málit. Er þér kunnig ætt hans ok fjáreign vár. Skal hvárki til spara af várri hendi staðfestu né manna forráð, ef þá er nærr enn áðr“. Þorsteinn svarar: „Þat eitt finn ek Gunnlaugi, at mér þykir hann vera óráðinn,“ segir hann; „enn ef hann væri þér líkr í skaplyndi, þá mynda ek lítt seinka“. Illugi svarar: „Þetta man okkr verða at vinslitum, ef þú synjar okkr feðgum jafnræðis“. Þorsteinn svarar: „Fyri þín orð“, segir hann, „ok okkra vingan, þá skal Helga vera heitkona Gunnlaugs, enn eigi festarkona, ok bíða þrjá vetr; enn Gunnlaugr skal fara utan ok skapa sik eftir góðra manna siðum; enn ek skal lauss allra

mála, ef hann kemr ei svá út, eðr mér virðist eigi skapferði hans". Ok við þetta skilja þeir. Ríðr Illugi heim, enn Gunnlaugr til skips. Ok er þeim gaf byr, létu þeir í haf ok kvámu skipi sínu norðr við Noreg og sigldu inn eftir Þrándheimi til Niðaróss, ok lágu þar í lægi ok skipuðu upp.

6. Í þenna tíma réð fyrir Noregi Eiríkr jarl Hákonarson ok Sveinn bróðir hans. Eiríkr jarl hafði þá atsetu inn á Hlöðum at föðurleifð sinni, ok var ríkr höfðingi. Skúli Þorsteinsson var þá með jarli ok var hirðmaðr hans ok vel metinn. Þat er frá sagt, at þeir Gunnlaugr ok Auðun festargramr gengu, sjau menn saman, inn á Hlaðir. Gunnlaugr var svá búinn, at hann var í grám kyrtli ok hvítum leistbrókum. Sull hafði hann á fæti niðri á ristinni; freyddi ór upp blóð ok vágr, er hann gekk. Ok með þeim búningi gekk hann fyrir jarlinn ok þeir Auðun, ok kvöddu hann vel. Jarl kendi Auðun ok spyrr hann tíðinda af Íslandi, enn Auðun sagði slík sem vóru. Jarl spyrr Gunnlaug, hverr hann væri, enn hann sagði honum nafn sitt ok ætt. Jarl mælti: „Skúli Þorsteinsson", sagði hann, „hvat manna er þessi á Íslandi?" „Herra", segir hann, „takið honum vel; hann er hins bezta manns son á Íslandi, Illuga svarta af Gilsbakka, ok fóstbróðir minn". Jarl mælti: „Hvat er fæti þínum, Íslendingr?" „Sullr er á, herra",

sagði hann. „Ok gekk þú þó eigi haltr?“ Gunnlaugr svarar: „Ei skal haltr ganga, meðan báðir fætr eru jafnlangir“. Þá mælti hirðmaðr jarls, er Þórir hét: „Þessi rembist mikit, Íslendingrinn, ok væri vel, at vér freistaðim hans nökkut“. Gunnlaugr leit við honum ok mælti:

(2) Hirðmaðr es einn,
sá es einkar meinn.
Trúið honum vart,
hann es illr ok svartr.

Þá vildi Þórir grípa til öxar. Jarl mælti: „Lát vera kyrt“, segir hann, „ekki skulu menn gefa at slíku gaum, eðr hvé gamall maðr ertu, Íslendingr?“ Gunnlaugr svarar: „Ek em nú átján vetra“, segir hann. „Þat læt ek um mælt“, segir jarl, „at þú verðir ei annarra átján“. Gunnlaugr mælti ok heldr lágt: „Bið mér engra forbæna“, segir hann, „enn bið þér heldr“. Jarl mælti: „Hvat sagðir þú nú, Íslendingr?“ Gunnlaugr svarar: „Svá sem mér þótti vera eiga, at þú bæðir mér engra forbæna, enn bæðir sjálfum þér hallkvæmri bæna“. „Hverra þá?“ segir jarl. „At þú fengir ei þvílíkan dauðdaga, sem Hákon jarl faðir þinn“. Jarl setti svá rauðan sem blóð, ok bað taka fól þetta skjótt. Þá gekk Skúli fyrir jarl ok mælti: „Gerið fyrir mín orð, herra, ok gefið manninum grið, ok fari hann á brott sem skjótast“. Jarl mælti: „Verði hann á brottu sem skjótast, ef hann vill

griðin hafa, ok komi aldri í mitt ríki síðan". Þá gekk Skúli út með Gunnlaugi ok ofan á bryggjur. Þar var Englandsfar albúit til útláts, ok þar tók Skúli Gunnlaugi far ok Þorkatli frænda hans. Enn Gunnlaugr fekk Auðuni skip sitt til varðveizlu ok fé sitt, þat er hann hafði eigi með sér. Nú sigla þeir Gunnlaugr í Englandshaf ok kvámu um haustit suðr við Lundúnabryggjur, ok réðu þar til hlunns skipi sínu.

7. Þá réð fyrir Englandi Aðalráðr konungr Játgeirsson ok var góðr höfðingi. Hann sat þenna vetr í Lundúnaborg. *Ein var þá tunga á Englandi sem í Noregi ok í Danmörku; enn þá skiftust tungur í Englandi, er Vilhjálmr bastarðr vann England. Gekk þaðan af í Englandi valska, er hann var þaðan ættaðr.* Gunnlaugr gekk bráðlega fyrir konung ok kvaddi hann vel ok virðulega. Konungr spurði, hvaðan af löndum hann væri. Gunnlaugr segir sem var, — „enn því hefi ek sótt á yðvarn fund, herra, at ek hefi kvæði ort um yðr, ok vildi ek, at þér hlýddið kvæðinu". Konungr kvað svá vera skyldu. Gunnlaugr flutti fram kvæðit vel ok skörulega; enn þetta er stefit í:

(3) Herr sésk allr enn ørva
Englands sem guð þengil;
ætt lýtr grams ok gumna
gunnbráðs Aðalráði.

Konungr þakkaði honum kvæðit ok gaf honum at bragarlaunum skarlatsskikkju skinndregna enum beztum skinnum ok hlaðbúna í skaut niðr, ok gerði hann hirðmann sinn, ok var Gunnlaugr með konungi um vetrinn ok virðist vel. Ok einn dag um morgininn snemma þá mætti Gunnlaugr þrim mönnum á stræti einu, ok nefndist sá Þórormr, er fyrir þeim var. Hann var mikill ok sterkr ok furðu torvellegr. Hann mælti: „Norðmaðr“, segir hann, „sel mér fé nökkut at láni“. Gunnlaugr svarar: „Ekki mun þat ráðlegt at selja fé sitt ókunnum mönnum“. Hann svarar: „Ek skal gjalda þér at nefndum degi“. „Þá skal á þat hætta“, segir Gunnlaugr. Síðan seldi hann honum féit. Ok litlu síðar fann Gunnlaugr konunginn ok segir honum fjárlánit. Konungr svarar: „Nú hefir lítt til tekizt. Þessi er hinn mesti ránsmaðr ok víkingr ok eig ekki við hann; enn ek skal fá þér jafnmikit fé“. Gunnlaugr svarar: „Illa er oss þá farit“, segir hann, „hirðmönnum yðrum, göngum upp á saklausa menn, enn látum slíka sitja yfir váru, ok skal þat aldri verða“. Ok litlu síðar hitti hann Þórorm ok heimti féit at honum; enn hann kvaðst eigi gjalda mundu. Gunnlaugr kvað þá vísu þessa:

(4) Meðalráð es þér, Móði
málma galdrs, at halda
— att hafið ér við prettum

oddrjóð — fyr mér hoddum.
Vita mátt hitt, at heitik
— hér sék á því féri;
þat fekksk nafn af nøkkvi —
naðrstunga — mér ungum —

„Nú vil ek bjóða þér lög", segir Gunnlaugr, „at þú gjalt mér fé mitt, eðr gakk á hólm við mik ella á þriggja nátta fresti". Þá hló víkingrinn ok mælti: „Til þess hefir enginn orðit fyrri enn þú, at skora mér á hólm, svá skarðan hlut sem margr hefir fyri mér borit, ok em ek þessa albúinn", ok við þat skildu þeir Gunnlaugr at sinni. Gunnlaugr sagði konungi svá búit. Hann svarar: „Nú er komit í allóvænt efni. Þessi maðr deyfir hvert vápn. Nú skaltu mínum ráðum fram fara, ok er hér sverð, er ek vil gefa þér, ok með þessu skaltu vega, enn sýn honum annat". Gunnlaugr þakkaði konungi vel. Ok er þeir vóru til hólms búnir, þá spyrr Þórormr, hvernig sverð þat væri er hann hafði. Gunnlaugr sýnir honum ok bregðr, enn hafði lykkju um meðalkafla á konungsnaut ok dregr á hönd sér. Berserkrinn mælti, er hann sá sverðit: „Ekki hræðumst ek þat sverð", segir hann, ok hjó til Gunnlaugs með sverði, ok af honum mjök svá skjöldinn allan. Gunnlaugr hjó þegar í mót með konungsnaut, enn berserkrinn stóð hlífarlauss fyri, ok hugði, at hann hefði hit sama vápn, ok hann sýndi; enn Gunnlaugr hjó hann þegar banahögg. Konungr þakk-

aði honum verkit, ok af þessu fekk hann mikla frægð í Englandi ok víða annarstaðar. Um várit, er skip gengu milli landa, þá bað Gunnlaugr Aðalráð konung orlofs at sigla nökkut. Konungr spyrr, hvat hann vildi þá. Gunnlaugr svarar: „Ek vilda efna þat, sem ek hefi heitit ok ætlat“, ok kvað vísu þessa:

(5) Hlýt ek veggjar vitja
viggs döglinga þriggja
— því hefk hljótum heitit
hjarls — ok tveggja jarla.
Hverfka ek aftr áðr arfi
auðveitis — gef rauðan
ormabeð fyr arma —
odd-Gefnar mér stefni.

„Svá skal ok vera, skáld“, segir konungr, ok gaf honum gullhring, er stóð sex aura — „enn því skaltu heita mér“, segir konungr, „at koma aftr til mín at öðru hausti, fyri því at ek vil ei láta þik fyri sakir íþróttar þinnar“.

8. Síðan siglir Gunnlaugr af Englandi með kaupmönnum norðr til Dyflinnar. Þá réð fyri Írlandi Sigtryggr konungr silkiskegg, son Óláfs kvarans ok Kormlaðar drotningar. Hann hafði þá skamma stund ráðit ríkinu. Gunnlaugr gekk þá fyri konung ok kvaddi hann vel ok virðulega. Konungr tók honum sæmilega. Gunnlaugr mælti: „Kvæði hefi ek ort um yðr, ok vilda ek hljóð fá“. Konungr svarar: „Ekki hafa menn til þess orðit fyrri, at færa mér

kvæði, ok skal víst hlýða". Gunnlaugr kvað þá drápuna, ok er þetta stefit:

(6) Elr Sváru skæ
Sigtryggr við hræ.

Ok þetta er þar:

(7) Kann ek máls of skil,
hvern ek mæra vil
konungmanna kon,
hann es Kvarans son.
Mana gramr við mik
— venr hann gjöfli sik,
þess man grepp vara —
gullhring spara.
Segi hildingr mér,
ef hann heyrði ger
dýrligra brag,
þat er drápulag.

Konungr þakkaði honum kvæðit, ok kallaði til sín féhirði sinn, ok mælti svá: „Hverju skal launa kvæðit?" Hann svarar: „Hverju vili þér herra?" segir hann. „Hversu er launat", segir konungr, „ef ek gef honum knörru tvá?" Féhirðirinn svarar: „Ofmikit er þat, herra", segir hann. „Aðrir konungar gefa at bragarlaunum gripi góða, sverð góð eða gullhringa góða". Konungr gaf honum klæði sín af nýju skarlati: kyrtil hlaðbúinn og skikkju með ágætum skinnum og gullhring er stóð mörk. Gunnlaugr þakkaði honum vel ok dvaldist þar skamma stund, ok fór þaðan til Orkneyja.

Þá réð fyri Orkneyjum Sigurðr jarl Hlöðv-

isson. Hann var vel til íslenzkra manna. Gunnlaugr kvaddi jarl vel ok sagði sik hafa at færa honum kvæði. Jarl kvaðst hlýða vilja kvæði hans, svá stórra manna sem hann var á Íslandi. Gunnlaugr flutti kvæðit, ok var þat flokkr, ok vel ortr. Jarl gaf honum breiðöxi, silfrrekna alla, at kvæðislaunum, ok bauð honum með sér at vera. Gunnlaugr þakkaði honum gjöfina ok boð hit sama, enn kveðst verða at fara austr til Svíþjóðar, ok gekk síðan á skip með kaupmönnum, þeim er sigldu til Noregs, ok kvómu um haustit austr við Konungahellu. Þorkell frændi hans fylgdi honum jafnan. Ór Konungahellu fengu þeir leiðtoga upp í Gautland hit vestra, ok kómu fram í kaupstað þeim er í Skörum heitir. Þar réð fyri jarl sá er Sigurðr hét og var við aldr. Gunnlaugr gekk fyrir hann ok kvaddi hann vel, ok kvaðst kvæði hafa ort um hann. Jarl gaf gott hljóð til. Gunnlaugr kvað kvæðit, ok var þat flokkr. Jarl þakkaði honum ok launaði honum vel, ok bauð honum með sér at vera um vetrinn. Sigurðr jarl hafði jólaboð mikit um vetrinn. Ok atfangadag jóla koma þar sendimenn Eiríks jarls norðan af Noregi, tólf saman. Þeir fóru með gjöfum til Sigurðar jarls. Jarlinn fagnaði þeim vel og skipaði þeim um jólin hjá Gunnlaugi. Þar var ölteiti mikil. Gautar ræddu um, at engi jarl væri frægri enn Sigurðr.

Noregsmönnum þótti Eiríkr jarl miklu framar. Ok um þetta þrættu þeir, ok tóku Gunnlaug til órskurðarmanns hvárirtveggju um þetta mál. Gunnlaugr kvað þá vísu þessa:

(8) Segið ér frá jarli,
oddfeimu stafir, þeima;
hann hefir litnar hvítar
— hárr karl es sá — bárur.
Sigrreynir hefir sénar
sjalfr í miklu gjalfri
austr fyr unnar hesti
Eiríkr bláar fleiri.

Hvárirtveggju undu vel við órskurðinn; enn betr Noregsmenn. Sendimenn fóru þaðan eftir jólin með fégjöfum, er Sigurðr jarl sendi Eiríki jarli. Sögðu þeir nú Eiríki jarli órskurðinn Gunnlaugs. Jarli þótti Gunnlaugr hafa sýnt við sik einurð ok vináttu, ok lét þau orð um fara, at Gunnlaugr skyldi þar friðland hafa í hans ríki. Þat frétti Gunnlaugr síðan, hvat jarl hafði um mælt. Sigurðr jarl fekk Gunnlaugi leiðtoga austr í Tíundaland í Svíþjóð sem hann beiddi.

9. Í þenna tíma réð fyri Svíþjóð Óláfr konungr sænski, son Eiríks konungs sigrsæla ok Sigríðar hinnar stórráðu, dóttur Sköglar-Tosta. Hann var ríkr konungr ok ágætr, metnaðarmaðr mikill. Gunnlaugr kom til Uppsala nær þingi þeira Svía um várit, ok er hann náði konungsfundi, kvaddi hann konunginn. Hann tók

honum vel ok spyrr, hverr hann væri. Hann kvaðst vera íslenzkr maðr. Konungr mælti: „Hrafn“, segir hann, „hvat manna er hann á Íslandi?“ Maðr stóð upp af enum óæðra bekk, mikill ok vasklegr, gekk fyrir konung ok mælti: „Herra“, segir hann, „hann er hinnar beztu ættar ok sjálfr hinn vaskasti maðr“. „Fari hann þá ok siti hjá þér“, sagði konungr. Gunnlaugr mælti: „Kvæði hefi ek at færa yðr“, sagði hann, „ok vildi ek, at þér hlýddið ok gæfið hljóð til“. „Gangið fyrst ok sitið“, sagði konungr, „ekki er nú tóm til yfir kvæðum að sitja“. Þeir gerðu svá. Tóku þeir þá tal með sér, Gunnlaugr ok Hrafn; sagði hvárr öðrum frá ferðum sínum. Hrafn kvaðst farit hafa áðr um sumarit af Íslandi til Noregs og öndverðan vetr austr til Svíþjóðar. Þar gerist brátt vel með þeim. Ok einn dag, er liðit var þingit, vóru þeir báðir fyri konungi Gunnlaugr ok Hrafn. Þá mælti Gunnlaugr: „Nú vilda ek, herra“, segir hann, „at þér heyrðið kvæðit“. „Þat má nú“, segir konungr. „Nú vil ek flytja kvæði mitt, herra“, segir Hrafn. „Þat má vel“, segir hann. „Þá vil ek flytja fyrr kvæði mitt herra“, segir Gunnlaugr, „ef þér vilið svá“. „Ek á fyrr at flytja, herra“, segir Hrafn, „er ek kom fyrr til yðvar“. Gunnlaugr mælti: „Hvar kvámu feðr okkrir þess“, segir hann, „at faðir minn væri eftirbátr föður þíns?

hvar nema alls hvergi? Skal ok svá með okkr vera". Hrafn svarar: „Gerum þá kurteisi", segir hann, „at færa þetta ei í kappmæli, ok látum konung ráða". Konungr mælti: „Gunnlaugr skal fyrri flytja, þvíat honum eirir illa, ef hann hefir eigi sitt mál". Þá kvað Gunnlaugr drápuna, er hann hafði orta um Óláf konung, ok er lokit var drápunni, þá mælti konungr: „Hrafn", sagði hann, „hversu er kvæðit ort?" „Vel, herra", sagði hann, „þat er stórort kvæði ok ófagrt ok nökkut stirðkveðit, sem Gunnlaugr er sjálfr í skaplyndi". „Nú skaltu flytja þitt kvæði, Hrafn", segir konungr. Hann gerir svá. Ok er lokit var, þá mælti konungr: „Gunnlaugr", segir hann, „hversu er kvæði þetta ort?" Gunnlaugr svarar: „Vel, herra", segir hann, „þetta er fagrt kvæði, sem Hrafn er sjálfr at sjá, ok yfirbragðslítit; eðr hví ortir þú flokk um konunginn, segir hann, eðr þótti þér hann eigi drápunnar verðr?" Hrafn svarar: „Tölum þetta ei lengr, til man verða tekit þótt síðar sé", segir hann, ok skildu nú við svá búit. Litlu síðar gerðist Hrafn hirðmaðr Óláfs konungs ok bað hann orlofs til brottferðar. Konungr veitti honum þat. Ok er Hrafn var til brottferðar búinn mælti hann til Gunnlaugs: „Lokit skal nú okkarri vináttu, fyri því at þú vildir hrópa mik hér fyri höfðingjum. Nú skal ek einhverju sinni eigi þik minnr van-

virða, enn þú vildir mik hér". Gunnlaugr svarar: „Ekki hryggja mik hót þín", segir hann, „ok hvergi munu vit þess koma, at ek sé minna virðr enn þú". Óláfr konungr gaf honum góðar gjafir at skilnaði, ok fór hann í brott síðan.

Hrafn fór austan um várit ok kom til Þrándheims, ok bjó skip sitt ok sigldi til Íslands um sumarit, ok kom skipi sínu í Leiruvág fyri neðan Heiði, ok urðu honum fegnir frændr ok vinir, ok var hann heima þann vetr með föður sínum. Ok um sumarit á alþingi fundust þeir frændr, Skafti lögmaðr ok Skáld-Hrafn. Þá mælti Hrafn: „Þitt fullting vilda ek hafa til kvánbænar við Þorstein Egilsson, at biðja Helgu dóttur hans". Skafti svarar: „Er hon eigi áðr heitkona Gunnlaugs ormstungu?" Hrafn svarar: „Er eigi liðin sú stefna nú", segir hann, „sem mælt var með þeim? enda er miklu meiri hans ofsi, enn hann muni nú þess gá eðr geyma". Skafti svarar: „Gerum sem þér líkar". Síðan gengu þeir fjölmennir til búðar Þorsteins Egilssonar. Hann fagnaði þeim vel. Skafti mælti: „Hrafn, frændi minn, vill biðja Helgu dóttur þinnar, ok er þér kunnig ætt hans ok auðr fjár ok menning góð, frændaafli mikill ok vina". Þorsteinn svarar: „Hon er áðr heitkona Gunnlaugs, ok vil ek halda öll mál við hann, þau sem mælt vóru". Skafti mælti: „Eru nú eigi liðnir þrír vetr, er

til vóru nefndir með yðr?“ „Já“, sagði Þorsteinn; „enn ei er sumar liðit, ok má hann enn til koma í sumar“. Skafti svarar: „Enn ef hann kemr eigi sumarlangt, hverja ván skulum vér þá eiga þessa máls?“ Þorsteinn svarar: „Hér munu vér koma annat sumar, ok má þá sjá, hvat ráðlegast þykkir, enn ekki tjár nú þetta at tala lengr at sinni“. Ok við þat skyldu þeir, ok riðu menn heim af þingi. Ekki fór þetta tal leynt, at Hrafn bað Helgu. Ei kom Gunnlaugr út á því sumri. Ok annat sumar á alþingi fluttu þeir Skafti bónorðit ákaflega; kváðu þá Þorstein lausan allra mála við Gunnlaug. Þorsteinn svarar: „Ek á fár dætr fyri at sjá ok vilda ek gjarna, at engum manni yrði þær at rógi. Nú vil ek finna fyrst Illuga svarta“. Ok svá gerði hann. Ok er þeir fundust, þá mælti Þorsteinn: „Þykki þér ek eigi lauss allra mála við Gunnlaug son þinn?“ Illugi mælti: „Svá er víst, segir hann, „ef þú vilt. Kann ek hér nú fátt til at leggja, er ek veit eigi gerla efni Gunnlaugs sonar míns“. Þorsteinn gekk þá til Skafta, ok keyptu þeir svá, að brúðhlaup skyldi vera at vetrnáttum at Borg, ef Gunnlaugr kvæmi eigi út á því sumri, enn Þorsteinn laus allra mála við Hrafn, ef Gunnlaugr kvæmi til ok vitjaði ráðsins. Eftir þat riðu menn heim af þinginu, ok frestaðist tilkváma Gunnlaugs, enn Helga hugði ilt til ráða.

**10.** Nú er at segja frá Gunnlaugi, at hann fór af Svíþjóðu þat sumar, er Hrafn fór til Íslands, ok fekk þá góðar gjafir af Óláfi konungi að skilnaði þeira. Aðalráðr konungr tók við Gunnlaugi allvel, ok var hann með honum um vetrinn með góðri sæmd. Í þenna tíma réð fyri Danmörku Knútr hinn ríki Sveinsson, ok hafði nýtekit við föðurleifð sinni, ok heitaðist jafnan at herja til Englands, fyri því at Sveinn konungr, faðir hans, hafði unnit mikit ríki á Englandi, áðr hann andaðist vestr þar. Ok í þann tíma var mikill herr danskra manna vestr þar, ok var sá höfðingi fyri, er Hemingr hét, son Strút-Haralds jarls ok bróðir Sigvalda jarls, ok hélt hann þat ríki undir Knút konung, er Sveinn konungr hafði áðr unnit. Um várit bað Gunnlaugr konunginn sér orlofs til brottferðar. Hann svarar: „Ei samir þér nú at fara frá mér, til slíks ófriðar sem nú horfir hér í Englandi, þar sem þú ert minn hirðmaðr“. Gunnlaugr svarar: „Þér skuluð ráða, minn herra, ok gef mér orlof at sumri til brottferðar, ef Danir koma eigi“. Konungr svarar: „Sjám vit þá“. Nú leið þat sumar ok vetrinn eftir, ok kvámu Danir eigi. Ok eftir mitt sumar fekk Gunnlaugr orlof til brottferðar af konungi, ok fór Gunnlaugr þaðan austr til Noregs og fann Eirík jarl í Þrándheimi á Hlöðum, ok tók jarl honum þá vel ok bauð honum þá með sér at vera. Gunn-

laugr þakkar honum boðit, ok kveðst þó vilja fara fyrst út til Íslands á vit festarmeyjar sinnar. Jarl mælti: „Nú eru öll skip í brottu, þau er til Íslands bjoggust“. Þá mælti hirðmaðr einn: „Hér lá Hallfreðr vandræðaskáld í gær út undir Agðanesi“. Jarlinn svarar: „Svá má vera“, segir hann. Hann sigldi heðan fyrir fimm náttum“. Eiríkr jarl lét þá flytja Gunnlaug út til Hallfreðar, ok tók hann við honum með fagnaði. Ok gaf þegar byr undan landi, ok vóru vel kátir. Þat var síð sumars. Hallfreðr mælti til Gunnlaugs: „Hefir þú frétt bónorðit Hrafns Önundarsonar við Helgu hina fögru?“ Gunnlaugr kveðst frétt hafa ok þó ógerla. Hallfreðr segir honum slíkt sem hann vissi af, ok þat með, at margir menn mæltu þat, at Hrafn væri ei óröskvari enn Gunnlaugr. Gunnlaugr kvað þá vísu þessa:

(9) Rœkik lítt, þót leiki
— létt veðr es nú — þéttan
austanvindr at öndri
andness viku þessa.
Meir sjámk hitt, en hæru
hoddstríðandi bíðit,
orð, at eigi verðak
jafnrøskr taliðr Hrafni.

Hallfreðr mælti þá: „Þess þyrfti, félagi, at þér veitti betr enn mér málin við Hrafn. Ek kom skipi mínu í Leiruvág fyri neðan heiði fyri fám vetrum, ok átta ek at gjalda hálfa mörk silfrs húskarli

Hrafns, ok helt ek því fyri honum; enn Hrafn reið til vár með sex tigu manna, ok hjó strengina, ok rak skipit upp á leirur, ok búit við skipbroti. Varð ek þá at selja Hrafni sjálfdæmi ok galt ek mörk, ok eru slíkar mínar at segja frá honum". Ok þá var þeim eintalat um Helgu, ok lofaði hann mjök vænleik hennar. Gunnlaugr kvað þá vísu þessa:

(10) **Manat háðvörum hyrjar**
**hríðmundaði Þundar**
**hafnar hørvi drifna**
**hlýða jörð at þýðask.**
**Þvíat lautsíkjar lékum**
**lyngs, es várum yngri,**
**alnar gims á ýmsum**
**andnesjum því landi.**

„Þetta er vel ort", segir Hallfreðr. Þeir tóku land norðr á Melrakkasléttu í Hraunhöfn hálfum mánaði fyri vetr, ok skipuðu þar upp.

Þórðr hét maðr. Hann var bóndason þar á Sléttunni. Hann gekk í glímur við þá kaupmennina, ok gekk þeim illa við hann. Þá varð komit saman fangi með þeim Gunnlaugi. Ok um nóttina áðr hét Þórðr á Þór til sigrs sér, ok um daginn, er þeir fundust, tóku þeir glímu. Þá laust Gunnlaugr báða fætrna undan Þórði ok feldi hann mikit fall; enn fótrinn Gunnlaugs stökk ór liði, sá er hann stóð á, ok fell Gunnlaugr þá með Þórði. Þá mælti Þórðr: „Vera má", segir hann, „at þér vegni eigi ann-

at betr". „Hvat þá?" segir Gunnlaugr. „Málin við Hrafn, ef hann fær Helgu hinnar vænu at vetrnóttum, ok var ek hjá í sumar á alþingi, er þat réðst". Gunnlaugr svarar engu. Þá var vafiðr fótrinn ok í liðinn færðr, ok þrútnaði allmjök. Þeir Hallfreðr riðu tólf menn saman, ok kvámu suðr á Gilsbakka í Borgarfirði þat laugarkveld, er þeir sátu at brúðhlaupinu at Borg. Illugi varð feginn Gunnlaugi syni sínum ok hans förunautum. Gunnlaugr kvaðst þá þegar vilja ofan ríða til Borgar. Illugi kvað þat ekki ráð, ok svá sýndist öllum nema Gunnlaugi; enn Gunnlaugr var þá ófærr fyri fótarins sakir, þótt hann léti ekki á sjást, ok varð því ekki af ferðinni. Hallfreðr reið heim um morgininn til Hreðuvatns í Norðrárdal. Þar réð fyri eignum þeira Galti bróðir hans og var vaskr maðr.

11. Nú er at segja frá Hrafni, at hann sat at brúðhlaupi sínu at Borg, ok er þat flestra manna sögn, at brúðrin væri heldr döpr, ok er þat satt, sem mælt er, at 'lengi man þat er ungr getr', ok var henni nú ok svá. Þat varð til nýlundu þar at veizlunni, at sá maðr bað Húngerðar Þóroddsdóttur ok Jófríðar, er Svertingr hét ok var Hafr-Bjarnarson, Molda-Gnúps sonar, ok skyldu þau ráð takast um vetrinn eftir jól uppi at Skáney. Þar bjó Þorkell, frændi Húngerðar, son Torfa Valbrandssonar. Móðir Torfa var Þórodda, systir Tungu-Odds.

Hrafn fór heim til Mosfells með Helgu konu sína. Ok er þau höfðu þar skamma stund verit, þá var þat einn morgin, áðr þau risu upp, at Helga vakir, enn Hrafn svaf, ok lét hann illa í svefni. Ok er hann vaknaði, spyrr Helga, hvat hann hefði dreymt. Hrafn kvað þá vísu:

(11) Hugðumk ormi á armi
ýdøggvar þér høggvinn;
væri beðr í blóði,
brúðr, þinn roðinn mínu.
Knættit endr of undir
ölstafns Njörun Hrafni
— líka getr þat lauka
lind — hrædreyrgar binda.

Helga mælti: „Þat man ek aldri gráta“, segir hon, „ok hafi þér illa svikit mik, ok man Gunnlaugr út kominn“. Ok grét Helga þá mjök. Ok litlu síðar fluttist útkváma Gunnlaugs. Helga gerðist þá svá stirð við Hrafn, at hann fekk eigi haldit henni heima þar, ok fóru þau þá heim aftr til Borgar, ok nýtti Hrafn lítit af samvistum við hana. Nú búast menn til boðs um vetrinn. Þorkell frá Skáney bauð Illuga svarta ok sonum hans. Ok er Illugi bóndi bjóst, þá sat Gunnlaugr í stofu ok bjóst ekki. Illugi gekk til hans ok mælti: „Hví býst þú ekki, frændi?“ Gunnlaugr svarar: „Ek ætla eigi at fara“. Illugi mælti: „Fara skaltu víst, frændi,“ segir hann, „ok slá ekki slíku á þik, at þrá eftir einni konu, ok lát sem þú vit-

ir eigi, ok man þik aldri konur skorta". Gunnlaugr gerði sem faðir hans mælti, ok kvámu þeir til boðsins, ok var þeim Illuga ok sonum hans skipat í öndvegi, enn þeim Þorsteini Egilssyni ok Hrafni, mág hans, ok sveitinni brúðguma í annat öndvegi gegnt Illuga. Konur sátu á palli, ok sat Helga hin fagra næst brúðinni, ok rendi oft augum til Gunnlaugs, ok kemr þar at því, sem mælt er, at 'eigi leyna augu, ef ann kona manni'. Gunnlaugr var þá vel búinn, ok hafði þá klæðin þau hin góðu, er Sigtryggr konungr gaf honum, ok þótti hann þá mikit afbragð annarra manna fyri margs sakir, bæði afls ok vænleiks ok vaxtar. Lítil var gleði manna at boðinu. Ok þann dag, er menn vóru í brottbúningi, þá brugðu konur göngu sinni ok bjoggust til heimferðar. Gunnlaugr gekk þá til tals við Helgu, ok töluðu lengi, ok þá kvað Gunnlaugr vísu:

(12) Ormstungu varð engi
allr dagr und sal fjalla
hœgr, síz Helga en fagra
Hrafns kvánar réð nafni.
Lítt sá Höðr enn hvíti
hjørþeys, faðir meyjar
— gefin var Eir til aura
ung — við minni tungu.

Ok enn kvað hann:

(13) Væn ák verst at launa,
vín-Gefn, föður þínum
— fold nemr flaum af skaldi

flóðhyrs — ok svá móður,
þvít gørðu Bil borða
bæði senn und klæðum
— herr hafi haulds ok svarra
hagvirki — svá fagra.

Ok þá gaf Gunnlaugr Helgu skikkjuna Aðalráðsnaut, ok var þat gersimi sem mest. Hon þakkaði honum vel gjöfina. Síðan gekk Gunnlaugr út, ok vóru þá komin hross ok hestar söðlaðir, ok margir allvænlegir ok bundnir heima á hlaðinu. Gunnlaugr hljóp á bak einhverjum hesti ok reið á skeið eftir túninu, ok at þangat, er Hrafn stóð fyri, ok varð Hrafn at hopa undan. Gunnlaugr mælti: „Ekki er at hopa undan, Hrafn“, segir hann, „fyri því at enga ógn býð ek þér at sinni; enn þú veizt, til hvers þú hefir unnit“. Hrafn svarar ok kvað vísu:

(14) Samira okkr of eima,
Ullr benloga Fullu,
frægir folka Ságu,
fangs í brigð at ganga.
Mjök eru margar slíkar,
morðrunnr, fyr haf sunnan
— ýtir es sævar Sóta
sannfróðr — konur góðar.

Gunnlaugr svarar: „Vera má“, segir hann, „at margar sé, enn eigi þykkir mér svá“. Þá hlupu þeir Illugi at ok Þorsteinn, ok vildu ekki, at þeir ættist við. Þá kvað Gunnlaugr vísu:

(15) Gefin vas Eir til aura
armdags en litfagra

— þann kveða menn, né minna,
mínn jafnoka — Hrafni,
allra nýztr meðan austan
Alráðr farar dvalði
— því es menrýri minni
málgráðr — Rögni stála.

Ok eftir þetta riðu menn heim hvárirtveggju, ok var alt kyrt ok tíðendalaust um vetrinn. Nýtti Hrafn síðan ekki af samvistum við Helgu, þá er þau Gunnlaugr höfðu fundizt.

Ok um sumarit riðu menn fjölmennir til þings: Illugi svarti og synir hans með honum, Gunnlaugr og Hermundr; Þorsteinn Egilsson og Kollsveinn son hans; Önundr frá Mosfelli ok synir hans allir; Svertingr Hafr-Bjarnarson. Skafti hafði þá enn lögsögu. Ok einn dag á þinginu, er menn gengu fjölmennir til lögbergs, ok er þar var lokit at mæla lögskilum, þá kvaddi Gunnlaugr sér hljóðs ok mælti: „Er Hrafn hér Önundarson?“ Hann kveðst þar vera. Gunnlaugr ormstunga mælti þá: „Þat veizt þú, at þú hefir fengit heitkonu minnar ok dregst til fjandskapar við mik. Nú fyri þat vil ek bjóða þér hólmgöngu hér á þinginu á þriggja nátta fresti í Öxarárhólma“. Hrafn svarar: „Þetta er vel boðit, sem ván var at þér“, segir hann, „ok em ek þess albúinn, þegar þú vill“. Þetta þótti ilt frændum hvárstveggja þeira, enn þó vóru þat lög í þann tíma, at bjóða hólmgöngu, sá er vanhluta þóttist verða fyri öðrum.

Ok er þrjár nætr vóru liðnar, bjoggust þeir til hólmgöngu, ok fylgdi Illugi svarti syni sínum til hólmsins með miklu fjölmenni, enn Skafti lögsögumaðr fylgdi Hrafni ok faðir hans, ok aðrir frændr hans. Ok áðr Gunnlaugr gengi út í hólminn, þá kvað hann vísu þessa:

(16) Nú emk út á eyri
allvangs búinn ganga
— happs unni guð greppi —
gørva tognum hjørvi.
Hnakk skal Helgu lokka
— haus vink frá bol lausan
loks — með ljósum mæki
ljúfsvelgs í tvau kljúfa.

Hrafn svarar ok kvað þetta:

(17) Veitat greppr, hvárr greppa
gagnsæli hlýtr fagna.
Hérs bensigðum brugðit,
búin es egg í leggi.
Þat man ein ok ekkja
ung mær, þótt vit særimst,
þorna spöng af þingi
þegns hugrekki fregna.

Hermundr helt skildi fyri Gunnlaug bróður sinn; enn Svertingr Hafr-Bjarnarson fyrir Hrafn. Þrim mörkum silfrs skyldi sá leysa sik af hólminum er sárr yrði. Hrafn átti fyrr at höggva, er á hann var skorat, ok hjó hann í skjöld Gunnlaugs ofanverðan, ok brast sverðit þegar sundr undir hjöltunum, er til var höggvit af miklu afli. Blóðrefillinn hraut upp af

skildinum, ok kom á kinn Gunnlaugi ok skeindist hann heldr enn eigi. Þá hlupu feðr þeira þegar á millum ok margir aðrir menn. Þá mælti Gunnlaugr: „Nú kalla ek at Hrafn sé sigraðr, er hann er slyppr“. „Enn ek kalla at þú sér sigraðr“, segir Hrafn, „er þú ert sárr vorðinn“. Gunnlaugr var þá allöfr ok reiðr mjök ok kvað ekki reynt vera. Illugi faðir hans kvað ekki skyldu reyna meira at sinni. Gunnlaugr svarar: „Þat mynda ek vilja“, segir hann, „at vit Hrafn mættimst svá öðru sinni, at þú værir fjarri, faðir, at skilja okkr“. Ok við þetta skildu þeir at sinni ok gengu menn til búða sinna. Ok annan dag eftir í lögréttu var þat í lög sett, at af skyldi taka hólmgöngur allar þaðan í frá, og var þat gert at ráði allra vitrustu manna er við vóru staddir; enn þar vóru allir þeir er vitrastir vóru á landinu. Ok þessi hefir hólmganga síðast verið framin á Íslandi, er þeir Hrafn ok Gunnlaugr börðust. Þat hefir hit þriðja þing verit fjölmennast, annat eftir brennu Njáls, hit þriðja eftir Heiðarvíg. Ok einn morgin, er þeir bræðr Hermundr ok Gunnlaugr gengu til Öxarár at þvá sér, þá gengu öðrum megin at ánni konur margar, ok var þar Helga hin fagra í því liði. Þá mælti Hermundr: „Sér þú Helgu vinkonu þína hér fyri handan ána?“ Gunnlaugr svarar: „Sé ek hana víst“. Ok þá kvað Gunnlaugr vísu þessa:

(18) Alin vas rýgr at rógi
— runnr olli því Gunnar;
lág vask auðs at eiga
óðgjarn — fira barnum.
Nús svanmærrar síðan
svartaugum ver bauga
lanns til lýsi-Gunnar
lítil þörf at títa.

Síðan gengu þeir yfir ána, ok töluðu þau Helga ok Gunnlaugr um stund. Ok er þeir gengu austr yfir ána, þá stóð Helga og starði á Gunnlaug lengi eftir. Gunnlaugr leit þá aftr yfir ána ok kvað vísu þessa:

(19) Brámáni skein brúna
brims af ljósum himni
Hristar hørvi glæstrar
haukfránn á mik lauka;
enn sá geisli sýslir
síðan gullmens Fríðar
hvarma tungls ok hringa
Hlínar óþurft mína.

Ok eftir þetta um liðit riðu menn heim af þinginu, ok var Gunnlaugr heima á Gilsbakka. Ok einn morgin, er hann vaknaði, þá vóru allir menn upp risnir, nema hann lá. Hann hvíldi í lokrekkju innar af seti. Þá gengu í skálann tólf menn, allir alvápnaðir. Ok var þar kominn Hrafn Önundarson. Gunnlaugr spratt upp þegar ok gat fengið vápn sín. Þá mælti Hrafn: „Við engu skal þér hætt vera“, segir hann; „enn þat er erendi mitt hingat, at þú skalt nú

heyra. Þú bautt mér hólmgöngu í sumar á alþingi, ok þótti þér sú ekki reynd verða. Nú vil ek þér bjóða, at vit farim báðir á brott af Íslandi ok utan í sumar, ok gangim á hólm í Noregi. Þar munu eigi frændr okkrir fyri standa". Gunnlaugr svarar: „Mæl drengja heilastr, ok þenna kost vil ek gjarna þiggja, ok er hér at þiggja, Hrafn", segir hann, „þann greiða, sem þú vill. Hrafn svarar: „Þat er vel boðit, enn ríða munu vér fyrst at sinni"; ok við þetta skildu þeir. Þetta þótti frændum hvárstveggja þeira stórum illa, enn fengu þó ekki at gert fyri ákafa þeira sjálfra, enda varð þat fram at koma, sem til dró.

12. Nú er at segja frá Hrafni, at hann bjó skip sitt í Leiruvágum. Tveir menn eru þeir nefndir, er fóru með Hrafni, systursynir Önundar föður hans. Hét annarr Grímr, enn annarr Óláfr, ok vóru báðir gildir menn. Öllum frændum Hrafns þótti mikill svipr, er hann fór í brott; enn hann sagði svá: kvaðst því Gunnlaug á hólm skorat hafa, at hann kvaðst engar nytjar hafa Helgu, ok kvað annanhvárn verða at hníga fyri öðrum. Síðan sigldi Hrafn í haf, er þeim gaf byr, ok kvámu skipi sínu í Þrándheim, ok var þar of vetrinn ok frétti ekki til Gunnlaugs á þeim vetri, ok þar beið hann Gunnlaugs um sumarit; ok enn annan vetr var hann í Þrándheimi, þar sem heitir í Lifangri.

Gunnlaugr ormstunga réðst til skips með Hallfreði vandræðaskáldi norðr á Sléttu, ok urðu þeir síðbúnir mjök, ok sigldu þeir í haf, þegar byr gaf, ok kvámu við Orkneyjar litlu fyri vetr. Sigurðr jarl Hlöðvisson réð þá fyri eyjunum ok fór Gunnlaugr til hans ok var þar um vetrinn ok virði jarl hann vel. Ok um várit bjóst jarl í hernað. Gunnlaugr bjóst til ferðar með honum, ok herjuðu um sumarit víða um Suðreyjar ok Skotlandsfjörðu, ok áttu margar orrustur, ok reyndist Gunnlaugr hinn hraustasti ok hinn vaskasti drengr, ok hinn harðasti karlmaðr, hvar sem þeir kvámu. Sigurðr jarl snerist snemmendis sumars aftr, enn Gunnlaugr sté þá á skip með kaupmönnum, þeim er sigldu til Noregs, ok skildu þeir Sigurðr jarl með mikilli vináttu. Gunnlaugr fór norðr til Þrándheims á Hlaðir á fund Eiríks jarls, ok var þar öndverðan vetr, ok tók jarl vel við honum ok bauð honum með sér at vera, ok þat þektist hann. Frétt hafði jarl áðr viðskifti þeira Hrafns, svá sem var, ok sagði Gunnlaugi, at hann legði bann fyri, at þeir berðist þar í hans ríki. Gunnlaugr kvað hann slíku ráða mundu, ok var Gunnlaugr þar um vetrinn ok jafnan fálátr. Ok um várit einn dag gekk Gunnlaugr úti, ok Þorkell frændi hans með honum. Þeir gengu í brott frá bænum; ok á völlum fyri þeim var mannhringr, ok í hringinum innan vóru tveir menn með vápnum

ok skylmdust. Var þar annarr nefndr Hrafn, enn annarr Gunnlaugr. Þeir mæltu, er hjá stóðu, at Íslendingar hyggi smátt ok væri seinir til at muna orð sín. Gunnlaugr fann, at hér fylgdi mikit háð, ok hér var mikit spott at dregit, ok gekk Gunnlaugr í brott þegjandi. Ok litlu síðar eftir þetta segir Gunnlaugr jarli, at hann kveðst eigi lengr nenna at þola háð ok spott hirðmanna hans um mál þeira Hrafns, ok beiddi jarl fá sér leiðtoga inn í Lifangr. Jarli var sagt áðr, at Hrafn var í brottu ór Lifangri ok farinn austr til Svíþjóðar, ok því gaf hann Gunnlaugi orlof at fara ok fekk honum leiðtoga tvá til ferðarinnar. Nú ferr Gunnlaugr af Hlöðum við sjaunda mann inn í Lifangr, ok þann morgin hafði Hrafn farit þaðan með fimta mann, er Gunnlaugr kvam þar um kveldit. Þaðan fór Gunnlaugr í Veradal ok kom þar at kveldi jafnan, sem Hrafn hafði áðr verit um nóttina. Gunnlaugr ferr, til þess er hann kom á efsta bæ í dalnum, er á Súlu hét, ok hafði Hrafn þaðan farit um morgininn. Gunnlaugr dvaldi þá ekki ferðina ok fór þegar um nóttina. Ok um morgininn í sólarroð þá sá hvárir aðra. Hrafn var þar kominn, sem vóru vötn tvau, ok á meðal vatnanna vóru vellir sléttir, þat heita Gleipnisvellir; enn fram í vatnit annat gekk nes lítit, er heitir Dinganes. Þar námu þeir Hrafn við í nesinu ok vóru fimm saman. Þeir

vóru þar með Hrafni frændr hans Grímr ok Óláfr. Ok er þeir mættust, þá mælti Gunnlaugr: „Þat er nú vel, er vit höfum fundizt“. Hrafn kvaðst þat ekki lasta mundu, — „ok er nú kostr hvárr er þú vill“, segir Hrafn, „at vér berimst allir, eðr vit tveir, ok sé jafnmargir hvárir“. Gunnlaugi kveðst vel líka, hvárt at heldr er. Þá mæltu þeir frændr Hrafns Grímr ok Óláfr: — kváðust eigi vilja standa hjá, er þeir berðist. Svá mælti ok Þorkell svarti frændi Gunnlaugs. Þá mælti Gunnlaugr við leiðtogana jarls: „Þit skuluð sitja hjá ok veita hvárigum, ok vera til frásagnar um fund várn“. Ok svá gerðu þeir.

Síðan gengust þeir at ok börðust fræknlega allir. Þeir Grímr ok Óláfr gengu báðir í mót Gunnlaugi einum, ok lauk svá þeira viðskifti, at hann drap þá báða, enn hann varð ekki sárr. Þetta sannar Þórðr Kolbeinsson í kvæði því er hann orti um Gunnlaug ormstungu:

(20) Hlóð, áðr Hrafni næði,
hugreifum Óleifi
Göndlar hlyms ok Grími
Gunnlaugr hjørvi þunnum.
Hann varð hvatra manna
hugmóðr drifinn blóði
— Ullr réð ýta falli
unnviggs — bani þriggja.

Þeir Hrafn sóttust meðan ok Þorkell svarti

frændi Gunnlaugs, ok fell Þorkell fyri Hrafni ok lét líf sitt, ok allir fellu förunautar þeira at lyktum. Ok þá börðust þeir tveir með stórum höggum ok öruggum atgangi, er hvárr veitti öðrum, ok sóttust einart í ákafa. Gunnlaugr hafði þá sverðit Aðalráðsnaut, ok var þat hit bezta vápn. Gunnlaugr hjó þá um síðir til Hrafns mikit högg með sverðinu, ok undan Hrafni fótinn. Hrafn fell þó eigi at heldr, ok hnekti þá at stofni einum, ok studdi þar á stúfinum. Þá mælti Gunnlaugr: „Nú ertu óvígr“, segir hann, „ok vil ek eigi lengr berjast við þik, örkumlaðan mann“. Hrafn svarar: „Svá er þat“, segir hann, „at mjök hefir á leikizt minn hluta, enn þó myndi mér enn vel duga, ef ek fengi at drekka nökkut“. Gunnlaugr svarar: „Svík mik þá ei“, segir hann, „ef ek færi þér vatn í hjálmi mínum“. Hrafn svarar: „Ei mun ek svíkja þik“, segir hann. Síðan gekk Gunnlaugr til lækjar eins ok sótti í hjálminum ok færði Hrafni; enn hann seildist í mót hinni vinstri hendinni, enn hjó í höfuð Gunnlaugi með sverðinu hinni hægri hendi, ok varð þat allmikit sár. Þá mælti Gunnlaugr: „Illa sveiktu mik nú, ok ódrengilega fór þér, þar sem ek trúða þér“. Hrafn svarar: „Satt er þat“, segir hann, „enn þat gekk mér til þess, at ek ann þér eigi faðmlagsins Helgu hinnar fögru“. Ok þá börðust þeir enn í ákafa; enn svá lauk

at lyktum, at Gunnlaugr bar af Hrafni, ok lét Hrafn þar líf sitt. Þá gengu fram leiðtogar jarlsins ok bundu höfuðsárit Gunnlaugs. Hann sat þá meðan ok kvað þá vísu þessa:

(21) Oss gekk mætr á móti
mótrunnr í styr spjóta,
hríð gervandi hjørva,
Hrafn framlega jafnan.
Hér varð mörg í morgin
málmflaug of Gunnlaugi
hergerðanda á hörðu,
hringþollr, nesi Dinga.

Síðan bjoggu þeir um dauða menn ok færðu Gunnlaug á hest sinn eftir þat, ok kómust með hann alt ofan í Lifangr. Ok þar lá hann þrjár nætr ok fekk alla þjónustu af presti ok andaðist síðan ok var þar jarðaðr at kirkju. Öllum þótti mikill skaði at um hvárntveggja þeira, Gunnlaug ok Hrafn, með þeim atburðum sem varð um líflát þeira.

13. Ok um sumarit, áðr þessi tíðendi spurðust út hegat til Íslands, þá dreymdi Illuga svarta, ok var hann þá heima á Gilsbakka: Honum þótti Gunnlaugr at sér koma í svefninum, ok var blóðugr mjök, ok kvað vísu þessa fyri honum í svefninum. Illugi mundi vísuna, er hann vaknaði ok kvað síðan fyri öðrum:

(22) Vissak Hrafn — enn Hrafni
hvöss kom egg í leggi —
hjaltugguðum høggva
hrynfiski mik brynju,

þá es hræskærr í hlýra
hlaut fen ari benja
— klauf grannsproti Gunnar
Gunnlaugs höfuð — nunna.

Sá atburðr varð suðr at Mosfelli hina sömu nátt, at Önund dreymdi, at Hrafn kvæmi at honum ok var allr alblóðugr. Hann kvað vísu þessa:

(23) Roðit vas sverð; enn sverða
sverðrögnir mik gerði.
Váru reynd í randum
randgálkn fyr ver handan.
Blóðug hykk í blóði
blóðgögl of skör stóðu.
Sárfíkinn hlaut sára
sárgammr of á þramma.

Ok um sumarit annat eftir á alþingi mælti Illugi svarti til Önundar at lögbergi: „Hverju viltu bæta mér son minn“, sagði hann, „er Hrafn son þinn sveik hann í trygðum?“ Önundr svarar: „Fjarkominn þykkist ek til þess“, sagði hann, „að bæta hann, svá sárt sem ek helt á þeira fundi; man ek ok engra bóta beiða þik fyri minn son“. Illugi svarar: „Kenna skal þá nakkvarr at skauti þinn frændi eðr þinna ættmanna“. Ok eftir þingit um sumarit var Illugi jafnan dapr mjök.

Þat var sagt um haustit, at Illugi reið heiman af Gilsbakka með þrjá tigu manna ok kvam til Mosfells snemma morgins. Önundr kvamst í kirkju ok synir hans, enn Illugi tók

frændr hans tvá. Hét annarr Björn, enn annarr Þorgrímr. Hann lét drepa Björn, enn fóthöggva Þorgrím. Reið Illugi heim eftir þat, ok varð þessa engi rétting af Önundi. Hermundr Illugason undi lítt eftir Gunnlaug bróður sinn ok þótti ekki hans hefnt at heldr, þótt þetta væri at gert. Maðr hét Hrafn, ok var bróðurson Önundar at Mosfelli. Hann var farmaðr mikill ok átti skip, er uppi stóð í Hrútafirði. Ok um várit reið Hermundr Illugason heiman einn samt ok norðr Holtavörðuheiði, ok svá til Hrútafjarðar ok út á Borðeyri til skips kaupmannanna. Kaupmenn vóru þá búnir mjök. Hrafn stýrimaðr var á landi ok margt manna hjá honum. Hermundr reið at honum ok lagði í gegnum hann spjótinu, ok reið þegar í brott; enn þeim varð öllum bilt félögum Hrafns við Hermund. Engar kvámu bætr fyri víg þetta. Ok með þessu skilr skifti þeira Illuga svarta ok Önundar at Mosfelli.

Þorsteinn Egilsson gifti Helgu dóttur sína, er stundir liðu fram, þeim manni, er Þorkell hét ok var Hallkelsson; hann bjó út í Hraundal. Ok fór Helga til bús með honum og varð honum lítt unnandi, því at hon verðr aldri afhuga Gunnlaugi, þótt hann væri dauðr; enn Þorkell var þó vaskr maðr at sér ok auðigr at fé ok skáld gott. Þau áttu börn saman ekki allfá. Þórarinn hét son þeira ok Þorsteinn,

ok enn fleiri börn áttu þau. Þat var helzt gaman Helgu, at hon rekti skikkjuna Gunnlaugsnaut, ok horfði þar á löngum. Ok eitt sinn kom þar sótt mikil á bæ þeira Þorkels ok Helgu, ok krömdust margir lengi. Helga tók þá ok þyngd ok lá þó eigi. Ok einn laugaraftan sat Helga í eldaskála, ok hneigði höfuð í kné Þorkatli bónda sínum, ok lét senda eftir skikkjunni Gunnlaugsnaut. Ok er skikkjan kvam til hennar, þá settist hon upp, ok rakti skikkjuna fyri sér ok horfði á um stund. Ok síðan hné hon aftr í fang bónda sínum, ok var þá örend. Þorkell kvað þá vísu þessa:

(24) Lagðak orms at armi
arms góða mér tróðu
— guð brá Lofnar lífi
líns — andaða mína.
*[Þung var þorna spangar*
*þraut, enn humra brautar]*
þó er beiði bíða
bliks þungara miklu.

Helga var til kirkju færð, enn Þorkell bjó þar eftir, ok þótti öllum mikit fráfall Helgu, sem ván var at. Ok lýkr þar nú sögunni.

## Vísnaskýringar.

Vísurnar eru meira og minna aflagaðar í handritunum, og hefir dr. Jón Þorkelsson reynt að laga þær og gert svo margar tilgátur við þær, að ekki þótti ómaksins vert að prenta tilgáturnar með breyttu letri. Enn jafnframt og hér koma stuttar skýringar þeirra, eru þessar tilgátur tilgreindar við hverja vísu, og eru þær allar eftir dr. Jón Þorkelsson, nema annars sé getið.

1 (Gunnlaugr). Bauðk mundangs[1] sterkum manni mörk. Glós[2] hranna leygjar býtir, (þú) skalt nýta þau góma[3] grásímu[4]. Fróða afraðs eyðandi[5], (þú) mant iðrask, ef (þú) lætr linds kindar samhaga[6] líða ór yðrum sjóði.

1. *mundangs*, eignarf. af *mundang* hvk., meðallagi, miðlungs. — 2. *glór*, glófagr, *glós* eignarf. af *glór; hrönn*, alda; *leygr* (tilg. f. *tygjar* í hdr.) eldr; *hranna leygr*, gull; gulls *býtir*, mannkenning. — 3. *gómr*, fingrgómr, fingr. — 4. *síma*, hvk., band, *grásíma*, grátt band. — 5. *Fróði* = Fróði Friðleifsson Dana konungr; *afrað*, sáð; *Fróða sáð*, gull; gulls *eyðandi* mannkenning. — 6. *lindr* = *linnr*, ormr, *kind* = kyn; *samhagi*, sameiginlegr bústaðr; orma *samhagi*, ormaból, gull.

Eg bauð meðalmanni þessum mörk (silfrs). Þú skalt hirða fé þetta, og munt iðrast þess ef þú eyðir því.

Dr. Björn Ólsen skýrir fyrri hlut vísunnar öðruvísi og getr til að lesa mætti:

Mörk bauðk mundangs sterkum
manni — teygjask, hranna —

grásimna — skaltu — góma
— glóðbýtir, þá nýta, —

þ. e. Bauðk mundangs sterkum manni mörk grásimna góma; hranna glóðbýtir teygjask skaltu nýta þá.

*Teygjask* er tilg. dr. Jóns Þorkelssonar. Vísuhelmingrinn þarf ekki nýrrar skýringar, þótt hann sé lesinn þannig.

Það er ekki ólíklegt, að þessari vísu sé síðar bætt inn í söguna, því að hana vantar í elzta handritið (Stokkhólmsbókina).

2 (Gunnlaugr). Þessi vísa þarf ekki skýringar við; *meinn* er = meinsamr.

3 (Gunnlaugr). Allr herr sésk[1] enn ørva Englands þengil sem guð; ætt gunnbráðs[2] grams[3] og gumna[4] lýtr Aðalráði.

1. = óttast. — 2. *gunnbráðr*, bráðr til orrustu, hraustr. — 3. konungr. — 4. *gumi*, maðr.

Allr lýðr óttast hinn örláta Englands konung sem guð. Bæði konungmenni og hinir óæðri menn lúta Aðalráði.

4 (Gunnlaugr). Málma galdrs Móði[1], þér es meðalráð at halda hoddum[2] fyr mér; ér hafið att prettum við oddrjóð[3]. Hitt mátt (þú) vita, at heitik naðrstunga[4]. Ek sé hér féri[5] á því. Mér fekksk þat nafn ungum af nøkkvi[6].

1. *málma galdr*, vopna gnýr, bardagi; *Móði*, sonr Þórs, einn af Ásum; *málma galdrs Móði*, mannkenning. — 2. *hoddar*, fé. — 3. mannkenning. — 4. *naðr*, ormr, *naðrstunga* = ormstunga. — 5. *féri* = feri = færi. — 6. *nøkkvi*, þáguf. af *nekkvat*, nokkuð; af nøkkvi, af nokkru, einhverju.

Vera mætti að 3. vo. ætti að vera: átt hafið ér við prettinn, því að *att hafi þér við prettum oddrjóð* (

staðinn fyrir: *prettum við oddrjóð)* er mjög stirt orðalag; *prettinn* er algengt í daglegu máli; prettinn er þá Gunnlaugr sjálfr, er hann lætr koma krók á móti bragði í viðskiftum þeirra Þórorms.

Bardagamaðr, þér er miðlungi gott að halda hoddum fyr mér; því þar mun koma krókr á móti bragði og sé eg færi á því. Vita skaltu að eg heiti ormstunga; það nafn fékk eg ungr, og ekki að orsakalausu.

5 (Gunnlaugr). Ek hlýt vitja veggjar viggs[1] þriggja döglinga[2]. Hefk heitit því hljótum hjarls[3]. Hverfka ek aftr áðr arfi auðveitis[4] stefni mér odd-Gefnar[5]. Gef rauðan ormabeð[6] fyr arma.

1. *vigg* (hvk) hestr; *veggjar vigg*, hús. — 2. *döglingr*, konungr. — 3. *hjarl* (hvk.) land, *hljótr hjarls*, landeigandi, landsstjóri, — *hljótum* á ef til vill að vera h l j ó t ö n d u m, því það er nær því sem handr. virðast hafa. — 4. *auðveitir*, auðugr maðr, höfðingi; *arfi* auðveitis, erfingi slíks manns, hér: konungr. — 5. *odd-Gefn,* valkyrja, orrusta. — 6. *ormabeðr*, gull.

Eg hlýt að koma til þriggja konunga og tveggja jarla. Hefi eg heitið því (þessum) landstjórum. Eg hverf ekki aftr fyrr enn konungr stefnir mér til bardaga.

6 (Gunnlaugr). Sigtryggr elr Sváru skæ[1] við hræ.

1. *Svára* er líkl. tröllkona; *skœr,* hestr; *Sváru skœr* tröllkonu hestr, úlfr.

Sigtryggr elr úlf á hræum, fellir marga menn.

7 (Gunnlaugr). Ek kann of skil máls, hvern konungmanna kon[1] ek vil mæra[2]; hann es Kvarans son. Gramr[3] mana spara gullhring við mik; hann venr sik gjöfli[4]; þess man grepp vara[5]. Hildingr[6] segi mér, ef hann heyrði ger[7] dýrlegra brag; þat es drápulag.

1. *konr*, kynsmaðr ættingi. — 2. *mæra*, víðfrægja. — 3. = konungr — 4. = gjafmildi. — 5. *vara*, gruna. — 6. = konungr (í handr. stendr *siklingr; hildingr* er tilg.). — 7. *ger*, líkl. = gerla.

Eg veit fullvel deili á, hvern konung eg vil víðfrægja. Konungr mun ekki spara gullhring við mig; hann er vanr að gefa; það grunar skáldið. Segi konungr mér, ef hann hefir heyrt dýrlegra kvæði; það er drápulag.

8 (Gunnlaugr). Oddfeimu stafir[1], ér segið frá þeima jarli. Hann hefr litnar hvítar[2] bárur. Sá karl es hárr[3]. Eiríkr, sigrreynir, hefr sjalfr sénar fleiri bláar í miklu gjalfri fyr unnar hesti[4] austr.

1. *feima*, kona, *oddfeima*, valkyrja, orrusta. — 2. *hvítar* er tilg., orðið vantar í handr. — 3. *hárr*, gráhærðr. — 4. *unnar hestr*, skip.

Bardagamenn, þér segið (mér) frá þessum jarli. Hann hefir séð hinar hvítfyrsandi bárur. Hann er orðinn gráhærðr. Eiríkr, sigrvinnandi, hefir og oftar séð ölduganginn í Eystrasalti.

9 (Gunnlaugr). Rœkik lítt, þót austanvindr leiki þéttan at andness öndri[1] þessa viku. Nú es létt veðr. Sjámk hitt orð meir, at verðak eigi taliðr jafnrøskr Hrafni, enn hoddstríðandi[2] bíðit[3] hæru.

1. *andnes* er hér líklega samansett af önd, fugl og nes, og þá = sjór; *öndurr*, skíð; *andness öndurr*, skip. — 2. *hoddstríðandi*, eyðir fjár, mannkenning. — 3. *bíðit* = bíði eigi.

Eg hirði ekki, þó að austanvindr leiki sterklega við skipið þessa viku. Nú er greiðr byr. Eg hugsa meir um það ef menn telja mig eigi jafnoka Hrafns, enn að eg kvíði elli (bana).

**10** (Gunnlaugr). Háðvörum[1] Þundar hríðmundaði[2] munat[3] hlýða at þýðask hørvi drifna hafnar jörð[4]; því at lékum, es várum yngri, á ýmsum andnesjum því lyngs lautsíkjar[5] alnargims[6] landi.

1. *háðvarr*, sá sem forðast háð, lastvar, góðr drengr. — 2. *Þundr*, Óðinn, Þundar *hríð*, bardagi; *hyrr*, eldr, *mundaðr* (af að munda), miðandi, beinandi; *Þundar hyrjar hríðmundaðr* er því mannkenning. — 3. = mun eigi. — 4. *höfn* = yfirhöfn; hafnar *jörð* = klæðagrund, kvenkenning; *hörvi drifin*, línklædd. — 5. *síkr*, laxtegund; *lyngs lautsíkjar* = *lyngsíkjar lautar*, ormar. — 6. *öln*, framhandleggr; *gim*, eldr; *alnar gim*, arms eldr, gull, gulls land, kvenkenning. Gullskenningarnar eru hér tvær, og er það óvanalegt.

Hrafni, sem þó er góðr drengr, mun eigi hlýða að leggja ást við hina línklæddu konu sína; því að eg lék mér oft í faðmi hennar í æsku.

**11** (**Hrafn**). Hugðumk høggvinn ýdøggvar ormi[1] á armi þér; beðr þinn, brúðr, væri roðinn í blóði mínu, ölstafns Njörun[2] knættit[3] endr[4] binda Hrafni of hrædreyrgar[5] undir. Þat getr líka lauka lind[6].

1. *ýr*, bogi; *ýdøgg*, boga dögg, blóð; *ýdøggvar ormr*, sverð. — 2. *ölstafn*, ölker; *Njörun*, Ásynja; *ölstafns Njörun*, kvenkenning. — 3. *knega*, mega, geta; *knættit*, gæti eigi. — 4. = framar. — 5. *hrædreyrgar*, tilg. f. *hagdreymis*, sem stendr í handr. — 6. *lauka lind*, kvennkenning.

Mér þótti sem eg væri lagðr sverði í faðmi þér, að beðr þinn væri roðinn í blóði mínu og að þú gætir eigi framar bundið sár mín. Þér líkar það víst.

**12** (Gunnlaugr). Engi allr dagr varð Ormstungu hœgr und fjalla sal[1], síz[2] Helga hin fagra réð nafni Hrafns kvánar. Hinn hvíti Höðr hjørþeys[3], faðir meyjar, sá lítt við tungu minni. Ung Eir[4] var gefin til aura.

1. *fjalla salr,* himinn. — 2. = síðan er. — 3. *Höðr* (tilg. f. *heiðir*), Áss; hjørþeyr, bardagi; *hjørþeys* Höðr, mannkenning. — 4. *Eir*, Ásynja; er hér sem hálfkenning. Dr. J. Þ. getr til, að orðið *ung* í síð vo. sé rangt, og gizkar á að í því sé fólginn sá hluti kenningarinnar sem vantar, og að það gæti hafa verið *ungs,* sem væri þá eignarf. af nafnorði *ung*, hvk., eða *ungr,* karlkyn, sem þýddi annaðhvort *perla* eða *laukr*; perla á latnesku *unio,* laukr á frönsku *oignon*, ensku *onion*, latn. *unio.*

Eg hefi engan glaðan dag til enda lifað í veröldinni síðan Helga hin fagra nefndist kona Hrafns. Hinn hvítleiti maðr, faðir meyjarinnar, sá ekki við kveðskap mínum. Hún var gefin til fjár.

13 (Gunnlaugr). Væn vín-Gefn[1], ák verst at launa föður þínum ok svá móður — fold flóðhyrs[2] nemr flaum[3] af skaldi —; þvít (þau) gørðu borða Bil[4] svá fagra bæði senn und klæðum. Herr[5] hafi hagvirki haulds[6] ok svarra[7].

1. *Gefn* = Freyja; *vín-Gefn*, kvenkenning. — 2. *hyrr*, eldr, *flóðhyrr*, sævar eldr, gull. — 3. *flaumr*, niðr, glaumr, gleði. — 4. *Bil*, Ásynja, *borða Bil*, kvenkenning. — 5. *herr* (tilg. f. *hér*, sem stendr í handr.), tröll eða forynjur. — 6. *hauldr* (höldr), óðalsbóndi (í Noregi). — 7. *svarri,* kona.

Væna kona, eg á verst að launa foreldrum þínum — þú nemr alla gleði frá mér — því að þau bæði saman gerðu þig svo fagra í rekkju sinni. Tröll hafi listasmíð þeirra.

14 (Hrafn). Ullr benloga eima[1], frægir folka Ságu[2], okkr samira at ganga í brigð of fangs Fullu[3]. Morðrunnr[4], mjök margar slíkar góðar konur eru fyr haf sunnan — sævar Sóta ýtir[5] es sannfróðr —.

1. *Ullr*, Áss, *benlogi,* sverð, *eimi* eldr; sverðselds Ullr,

mannkenning. — 2. *folk*, orrusta; *Sága*, Ásynja; *folka Saga*, valkyrja, orrusta. — 3. *Fulla*, Ásynja; *fang*, kyrtill; *fangs Fulla*, kvenkenning. — 4. *morðrunnr* (tilg. f. *mótrunnr)*, mannkenning. — 5. *Sóti*, hestsheiti, *sævar Sóti*, skip; skips *ýtir*, mannkenning.

Gunnlaugr, okkr samir eigi að deila. Mjög margar slíkar góðar konur eru fyrir sunnan haf (á Englandi). Það er þér fullkunnugt.

15 (Gunnlaugr). Hin litfagra armdags Eir[1] vas gefin Hrafni til aura — menn kveða þann minn jafnoka né minna — meðan allra nýztr Alráðr dvaldi stála Rögni[2] farar austan. Því es menrýri[3] minni málgráðr[4].

1. *Eir*, Ásynja; *armdagr* (tilg. Bugges f. *ormdags*) arms ljómi, gull. — 2. *Rögnir*, Óðinn; *stála Rögnir*, mannkenning. *Rögnir* er tilg. fyrir *í gný*, sem hdr. hefir. — 3. *menrýrir* (tilg. f. *menreyrir*) menja rýrir, mannkenning. — 4. *málgráðr*, málfýsi, gleði.

Konr. Gíslason heldr, að *menrýri* eigi að vera *menrýris*. Hann ætlar að *í gný stála* geti staðizt, enn þá ætti Gunnlaugr að hafa gengið í bardaga með Aðalráði konungi.

Hin fríða kona var gefin Hrafni til fjár, — menn telja hann jafnoka minn og eigi minni — meðan Alráðr (Aðalráðr, allvaldr?) dvaldi mig farar austan. Því er gleði mín minni.

16 (Gunnlaugr). Nú emk gørva[1] búinn ganga tognum[2] hjørvi út á allvangs eyri[3] — guð unni greppi happs —. Kljúfa skal í tvau lokka hnakk[4] Helgu ljúfsvelgs[5] — vink[6] haus loks lausan frá bol með ljósum mæki.

1. *gørva* (tilg. f. *gert með*), algerlega. — 2. *toginn* af sagno. t j ú g a), brugðinn. — 3. *allvangr*, allsherjar vangr = Þingvöllr. — 4. *hnakkr*, stóll baklaus (enn í daglegu

máli), *lokka* stóll, höfuð. — 5. *ljúfsvelgr*, ástsvelgr, ákafr unnandi. — 6. *vink* = eg vinn.

Nú er eg albúinn að ganga með brugðið sverð út á eyrina (hólmann) á Þingvelli — guð gefi að mér verði það að happi. — Eg skal kljúfa Hrafn í herðar niðr og höggva loks haus frá bol með hinu bjarta sverði.

17 (Hrafn). Greppr veitat hvárr greppa hlýtr fagna gagnsæli[1]. Hérs brugðit bensigðum[2], egg es búin í leggi. Ung, mær[3] þorna spöng[4], ein ok ekkja man fregna þat hugrekki þegns af þingi, þót vit særimst.

1. *gagn*, sigr; *gagnsæli*, sigrsæld. — 2. *bensigðr*, sverð. — 3. *mær*, ágæt. — 4. *þorn*, þorn í hringju o. s. frv. *spöng*, slagbrandr, spöng, *þornaspöng*, kvenkenning.

Eg veit ekki hvort skáldið muni eiga sigri að fagna. Hér er sverðum brugðin, egg er búin til að höggva leggi. Hin unga, ágæta kona mun frétta af þingi, er hún er orðin einstæðingr og ekkja, að eg hafi barizt hraustlega.

18 (Gunnlaugr). Rýgr[1] vas alin fira barnum[2] at rógi[3]. Gunnar runnr[4] olli því. Vask óðgjarn at eiga auðs lág[5]. Nú síðan es svartaugum[6] ver[7] lítil þörf at títa[8] til svanmærrar[9] bauga lanns lýsi-Gunnar[10].

1. = kona. — 2. *firar*, menn, fira *börn*, mannasynir, menn. — 3. *róg*, ósamlyndi. — 4. *gunnr*, orrusta; orrustu *runnr*, mannkenning. — 5. kvenkenning. — 6. *svartaugr* (tilg. f. *svört augu*) = svarteygr. — 7. *verr* (tilg. f. *mér*), maðr. — 8. *títa* (tilg. f. *líta*), horfa. — 9. *svanmær*, svanfríð? — 10. *bauga land*, hönd; baugalands *lýsi* (tilg. f. *læsi*), gull, *baugalands lýsi-Gunnr*, kvenkenning.

Síðari hluti vísunnar er aflagaðr, einkum 5. og 6. vísuorð. Orðið *síðan* hlýtr að vera rangt og *svanmærrar* er

tortryggilegt. Líklegri er tilg. dr. J. Þ. að þessi tvö vo. gæti verið

nú er svanmœrar særi
svartaugum fúrs bauga

þá verða hendingar í 5. vo. og *svanmœrar* er líklegra að sé eignarfall af *svanmœrr* (svanland, sjór), heldr enn að það sé = *svanhvítrar*.

Helga var fædd til að gera ósamlyndi manna á milli. Hrafn olli því. Eg var ákaflega fús að ganga að eiga hana. Nú er mér, hinum svarteyga manni, gagnslaust að horfa til hinnar fögru konu.

19 (Gunnlaugr). Þessi vísa er einnig í Kormáks sögu, og eignuð þar Kormáki, enda er líklegra, að hún sé orkt af honum enn af Gunnlaugi. Sbr. vísnaskýringar aftan við Kormáks sögu.

20 (**Þórðr Kolbeinsson**). Gunnlaugr hlóð[1] Göndlar hlyms hugreifum[2] Óleifi ok Grími þunnum hjørvi áðr (hann) næði Hrafni. Hann, hugmóðr[3], drifinn blóði, varð bani þriggja hvatra manna. Unnviggs Ullr[4] réð ýta falli.

1. *hlaða* (enn haft í daglegu máli t. d. um glímur), fella. — 2. *Göndul*, valkyrja; *hlyms* (tilg. f. *þeys*) eignarfall af *hlymr*, gnýr. *Göndlar hlymr*, bardagi; *hugreifr*, hugrakkr. — 3. *hugmóðr* heldr dr. J. Þ. að ef til vill eigi að vera *høggmóðr*, móðr af að höggva. — 4. *unnvigg*, skip; *unnviggs Ullr*, mannkenning.

Dr. Konráð Gíslason heldr (‚Udvalg', bls. 145—146) að öllu líklegra sé að rita: *Hlóð áðr Hrafni næði* | *hugreifum;* í stað *hlyms* bendir hann einnig á *þryms*, og í stað *hjørvi* getr hann til að vera mætti *reyri*. Vísuhelmingrinn verðr þá þannig: Hlóð áðr Hrafni næði | hugreifum, Óleifi | Göndlar þryms ok Grími | Gunnlaugr reyri þunnu. — *Göndlar þryms reyr* = sverð.

Gunnlaugr feldi Ólaf og Grím með sverði sínu áðr hann næði Hrafni. Hann var blóði drifinn og varð bani þriggja hvatra manna.

21 (Gunnlaugr). Hrafn, mœtr spjóta mótrunnr[1], gekk jafnan framlega á móti oss í styr[2], gervandi hjørva hríð. Hringþollr[3], hér varð í morgin mörg málmflaug hergerðanda[4] of Gunnlaugi á hörðu Dinganesi.

1. mannkenning. — 2. *styrr* (tilg. K. G. f. *dyn*), bardagi. — 3. mannkenning. — 4. *málmflaug*, sveiflun sverða; *gerða*, gera garð, *hergerðandi*, sá sem myndar hergarð.

Hinn vaski bardagamaðr Hrafn gekk hraustlega fram í bardaganum mót oss. Hér létu menn í morgun mörg högg dynja yfir Gunnlaug á hörðu Dinganesi.

22 (Draumvísa). Vissak Hrafn höggva mik hjaltugguðum brynju hrynfiski[1] — enn hvöss egg kom Hrafni í leggi — þá es hræskærr[2] ari[3] hlaut nunna í fen hlýra benja[4]. Grannsproti Gunnar[5] klauf höfuð Gunnlaugs.

1. *hjaltuggaðr*, sá sem hefir hjölt í stað ugga; *hrynfiskr*, fiskr sem hrynr; *hjaltuggaðr hrynfiskr*, sverð. — 2. *hræskærr* (tilg. f. *hræskæri*), sá er sker eða rífr hræ. — 3. *ari* = örn. — 4. *nunna*, lúta. — 5. *grannsproti* (tilg. f. *gunnsproti*) grannr teinn; *Gunnr*, valkyrja; valkyrju teinn, sverð.

Hrafn hjó mig sverði — enn hvasseggjað sverð kom á fót honum, — þá er hinn gráðugi örn laut niðr að drekka blóðið. Sverð klauf höfuð Gunnlaugs.

23 (Draumvísa). Sverð var roðit, enn sverð-Rögnir[1] gerði sverða[2] mik. Randgalkn[3] váru reynd í randum fyr handan ver[4]. Hykk blóðug bengögl[5] stóðu í blóði of skör[6]. Sárfíkinn sárgammr[7] hlaut þramma of[8] sára á.

1. *Rögnir*, Óðinn; *sverð-Rögnir*, mannkenning. — 2. að *sverða*, höggva með sverði. — 3. *rönd*, skjöldr, *randgalkn*,

skjaldarspell, sverð. — 4. = fyrir handan haf. — 5. *gagl*, villigæs, *blóðgagl*, hræfugl. — 6. *skör*, höfuð. — 7. *sárgammr* = blóðgagl. — 8. *of* tilg. f. *en*, sem stendr í hdr.

Sverð var roðið, enn maðrinn hjó mig með sverði. Sverð vóru reynd í skjöldum fyrir handan haf. Eg hygg, að blóðugir hrafnar stæði í blóði á höfðum manna. Blóðgráðugr hræfugl óð yfir blóðlækina.

24 **(Þorkell Hallkelsson).** Lagðak mína góða arms orms tróðu[1] andaða mér at armi. Guð brá lífi líns Lofnar[2]. *[Þraut þorna spangar[3] var þung, enn humra brautar]* bliks beiði[4] es þó miklu þungara at bíða.

1. *arms ormr*, armhringr; *tróða*, stöng; *arms orms tróða*, kvenkenning. — 2. *Lofn* (tilg. f. *leyðrar*), Ásynja; *líns Lofn*, kvenkenning. — 3. *þorna spöng*, kvenkenning. — 4. *humarr* fisktegund; *humra braut*, sjór, sjávar *blik*, sjávarljós, gull; gulls *beiðir* (tilg. f. *beiðendum*) mannkenning.

Eg lagði mína góðu konu andaða mér í faðm. Guð svifti hana lífi. Þung var hrygð hennar, enn þó er mér miklu þyngra að bíða.



# Nöfn.

